Fimtíu

# Píslar-Hugvekjur

útaf

## Pínu og Dauda

## Drottins vors Jesú Krists

samdar af

Síra **Vigfúsi** sál. **Jónssyni**
Presti ad Stød í Stødvarfirdi.





**Kaupmannahöfn 1833.**
Prentadar í S. L. Møllers prentsmidju.

# 1. Hugvekja.

## Um Krists útgaungu í Grasgardinn.

## Inngángurinn.

Vakna þú upp, mín dýrd! Vakna þú upp, Psaltari og Harpa! eg vil árla uppvakna. (Ps. 59.)

Já, vakna upp, mín sála, hugur og málfæri! til ad minnast á pínu Drottins vors Jesú, sem ætti ad vera hid mikilvægasta hugleidíngar-efni Guds barna, eins og Postulinn býdur, þegar hann segir: Vér skulum kunngjøra dauda Drottins, þángad til hann kémur. Jesús leid ecki einúngis fyrir oss pínuna viljugur, heldur med eptirlaungun; mig hefir — sagdi hann vid Lærisveinana — af hjarta eptirlángad, ad eta þetta sídasta Páskalamb med ydur, ádurenn eg líd. Skyldi eg þá, aumur syndari! fyri hvern Jesús er dáinn, ecki hafa lyst og eptirlæti af ad minnast, sem optast, á þetta mikla elskuverk, og þacka Gudi mínum þarfyrir? En — æ! mitt mikla ræktarleysi! hversu má eg ángrast og blygdast þar af, ad Guds Sonur er píndur fyri mig? en mér er yndælla ad minnast á hvern hégóma, heldur enn á þann, sem mótmælin þoldi af syndurunum gégn sjálfum sér, og þá sjaldan eg gjøri þad, er þad allt of daufligt.

Kennuum því, sála mín! umsíðir, augum vors hugskots til þeirrar dýrmætu fórnar, sem ockur forlíkaði við Guð, þegar vér vorum undir hans reiði og fordæmingunni, en offrandi sig Guði til sætligs ylms, og það fyrir eylífann Anda, svo hans blóð hreinsaði samvitskur vorar af dauðum verkum til að þjóna Guði lifanda. O! hvørsu fagnaðarsamligt er þar til að hugsa! Hvað fær framar friðstillt ángraða samvitsku, heldur enn Jesú Krists pína? Syndarinn lifir þó, sé hann yðrandi, í trúnni á Guðs Son, sem hefir elskað hann og sjálfann sig útgéfið fyrir hann. Hvað kann framar að halda augum vorum aptur frá hégómanum og hneixlanligu athæfi, heldur enn að horfa uppá blóðuga ímynd Guðs Sonar, sem oss er í orðinu fyrir augum afmálaður, og ámeðal vor krossfestur? Naumast fæ eg trúað nockur Guðs neisti sé í þeim manni, sem fyrir sér vyrðir, hvørsu ljómi Guðs dýrðar gjørðist líkari maðki enn manni, til að taka frá sér afskræmisliga ómynd ens vonda, en gjøra sig aptur hluttakara guðligrar náttúru, en hleypur þó strax að vørmu spori með þjófnum, saurlífis-manninum eða baktalaranum til þeirra verka, sem Guðs vilja eru gagnstæðust og hans náttúru viðurstyggiligust. Hvar hefir ljósara ljómað sá brennandi kærleiki Guðs til syndugra manna enn í Krists pínu? Hann þyrmdi ecki sínum eginn syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla; því vissuliga auðsýndi hann elsku sína í því, að þegar vér vorum syndugir, er Kristur dáinn vor vegna. O! vor Herra Jesús Kristur! géf þíns Anda náð, að eg mætti svo þenkja og tala um þetta háleita verk, að þú verðir þarmeð heiðraður, en vér uppbyggðir. Amen!

# Textinn.

Og sem þeir høfdu lofsaunginn súngid, géck Jesús út, sem hann var vanur, yfirum lækinn Kedron til fjallsins Olíveti, og hans lærisveinar fylgdu hønum eptir. Þá sagdi Jesús til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneixlast á mér, því skrifad er: hyrdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu sundurtvístrast; en eptir þad eg er upprisinn, mun eg gánga fyrir ydur í Galíleu. Pétur svaradi: þótt allir hneixli sig á þér, skal eg þó aldrei hneixlast. Jesús svaradi hønum: sannliga segi eg þér: ad í dag, ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar. Pétur taladi þá enn framar og sagdi: þó eg ætti ad deya med þér, þá skyldi eg þó samt ecki afneita þér. Slíkt hid sama søgdu allir lærisveinarnir.

---

Fyrst lærum vér héraf: ad vera þacklátir Gudi fyrir hans velgjørnínga. Jesús var Guds Sonur, og allt vald var hønum géfid á himni og á jørdu, þó þádi hann braud sitt med þacklæti, medan hann umgéckst hér á jørdunni. Þegar hann skipti braudunum á eydimørkinni, gjørdi hann þackir; sama gjørdi hann hér, þegar hann hafdi matar neytt. Þetta gjørdi nú Herrann, hvørjum øll skógar-dýrin á mørkinni tilheyra; en vid erum, sála mín! þurftugar skepnur, og verdum ad þyggja hvørn braud-

mola af hans hendi, frá hvørjum kémur øll góð og fullkominn gjøf. Eigum vid þá ecki ad medtaka hans blessun med þacklæti, og vidurkénna vid ockar máltíd, ad hann er gódur, og hans miskunsemi varir eylífliga? Þad er blygdunarlaus þræll, sem frammi fyrir herranum stærir sig af hans gáfum; er þad þá ecki mikil skømm og blygdunarleysi, ad hroka sér í augliti Drottins af því, sem hann sjálfur géfid hefir? hann færir fórnir sínu eigin neti, einsog hann ætti allt sjálfum sér og sínum atburdum ad þacka. En, hvad fylgir þá á eptir? Eg vil taka mitt korn og vín aptur á sínum tíma, segir Drottinn. Jesús hefir ecki einúngis kénnt oss bordsidina, heldur líka gudrækiligt hússkick; hann fór ecki út af húsinu, fyrri enn ad súngnum lofsaungnum. Høfum líka ætíd bænina og Guds lof í munni, hvørt vér førum ad heiman, elligar vér uppbyrjum nockud, einsog Abraham gjørdi, þá er hann sendi Eleazar af stad; og hvad sem vér gjørum med ord og verk, þá gjørum þad allt í nafni Jesú Krists, og þøckum Gudi og Fødur fyrir hann, þá munum vér reyna, ad Gud er nálægur øllum þeim, sem hann í sannleika ákalla, því hans nálægd dugir meir enn allt vort ervidi.

Hér næst er merkjandi: ad Jesús gengur yfirum lækinn Kedron; sá lækur — segja lærdir menn — tekid hafi nafn af dymmu; máské þessvegna, ad hann rann í djúpu dalverpi millum borgarinnar og Olíufjallsins, og í hann runnu saurindi stadarins; þángad høfdu og þeir gódu kon-

úngar Ezechías og Jósías kastad afguda-ølskunni í fyrndinni. En hvad um þetta er, þá var þetta sorgargángur fyrir Lausnarann, svo sem fordum fyrir Davíd; hvad oss ætti ad minna á, ad telja ecki eptir oss sorgarsporin í eptirbreytíngu Jesú, ef vér viljum annars inngánga í hans dýrd. Lærisveinarnir gengu nú med hønum til Olíufjallsins, hvar þeir sáu þad, sem þá hryggdi og skélfdi; en þar eptir fóru þeir þadan fagnandi, þá er hann var til himna farinn. Eins veit eg, ad mér byrjar fyrir margar hørmúngar inn ad gánga í himnaríki; en í þessari minni krossgaungu skal eg ætíd hafa mér fyrir augum þitt blessada hógværdardæmi, minn Jesú! Eda, hvad kom til þess, minn Herra! ad þú beidst ecki eptir óvinunum í húsinu, þar sem Júdas skildi vid þig? Margt kann þad ad sønnu ad vera; en þó hugsa eg til þess, ad þú gafst þig hér í afvikinn stad, svo ad þú sjálfur gjørdir vid því, sem fjandmenn þínir settu fyrir sig, þá þeir søgdu: ecki um hátídina, svo ecki verdi upphlaup med fólkinu, vid hvørju víst hefdi hættara verid, hefdu þeir þusast ad þér innan borgar. Því skal eg nú læra af þér: ad líða heldur órétt og skada, enn vera úti um óróa og flockadrátt; láta fara sem fara vill um mitt eigid gagn, en meta meir þad, sem mørgum kann ad gagna, og minnast svo þinna orda, þar þú segir: ef nockurr slær þig á þína hægri kinn, þá bjód hønum hina einnig, og vilji nockurr þreyta løg vid þig, og taka kyrtil þinn, þá lát hann halda møttlinum. Því skyldi

eg ecki fús vera ad hlýda bædi þessu og öllu ödru þínu bodi, þegar eg hugsa til þess, ad þú hefir nú, Drottinn minn! sárliga hryggur gengid þessa slód, til ad bæta fyrir allt mitt syndsamligt eptirlæti og ofmikid dálæti, sem eg hefi á sjálfum mér! Þú hefir einnig gjört minn sídasta gáng út af heiminum mér gledilígann, sem Símeóni. Þú ert genginn útí eitt gérdis-tún til píunnar. Eg geng dagliga, svo ad segja, útí kyrkjugardinn til grafarinnar; því skal eg varast ad stadnæmast á vegum syndugra, og sneida hjá enum breida vegi, sem leidir til glötunar, heldur láta mín ydrunartár, af sundurknusudum anda, drjúpa í hvört sporid, sem eg skil vid, þá muntú, Jesús! lokksins sundurslíta minn hrygdarseck, þegar þú lofar mér í þínu slódi og forþénustu skjóli ad þreyngjast gégnum frá daudanum til líffins.

Hugleidum líka, sála mín! hvad Jesús taladi vid sína lærisveina á veginum; hann segir: ad þeir munu allir hneixlast á sér, þó muni hann láta þá sjá sig í Galíleu eptir hans upprisu; hvad oss géfur þá huggun: ad einsog vor Lausnari fyrirsér stund og stad, orsök og tækifæri, hvörnig vér kunnum ad falla, svo veit hann líka medal til ad reisa oss upp aptur af fallinu, svo óvinurinn þarf ecki ad stæra sig og segja: þegar hann er fallinn, skal hann aldrei uppstanda. Sannarliga er minn gódi Gud máttugur nóg og viljagódur til ad reisa mig vid, því hann skydur þá, sem vid falli er búid, og reisir þá, sem nidurslegnir eru. Þetta skal nú verka

með mér auðmykt og andvara, en ecki sjálfhælni og gáleysi; eða hvörnig fór fyrir Pétri? hann bar Jesú orð tilbaka, sagðist ecki fortaka, að hinir lærisveinarnir kynnu að hneixlast, en sig skyldi það aldrei henda; en hvörnig það tókst, er øllum ljóst. O! hvørsu blind er mannsképnan, sem hyggst að standa af sínum eigin krøptum, og segir í rósemi sinni: eg skal aldrei falla, allteins og uppbyrjan eða fullkomnan þess góða verksins kæmi af sjálfum hønum og ecki af Guði, þvertámóti Postulans kénníngu (Phil. 1.). Hugleið þessvegna, þú, sem stendur eða standa sýnist, að náttúrligur kraptur þinn er óstøðugur og engu nýtur; viljir þú styðja þig við hann, þá er hann einsog reyrsprotinn, sem stíngst í hønd þess, er á hann hallast. Vertú því varfærinn og gæt að þú fallir ecki; hafi Guð verkað í þér góðan vilja og kærleikann til sín, einsog Pétri, þá verka ecki að síður sáluhjálp þína með ugg og ótta; því til hefir borið, að þeir hafa mist Heilagann Anda, sem hann hafa áður haft. O, minn Jesú! þú, sem veitst eg ber minn féssjóð í leirkéri, géf mér það að athuga og dagliga þenkja: að krapturinn kémur ecki af mér, heldur þér, svo eg ætíð varist það, er þu hefir mig viðvarað; en kunni af því að bera, þá gack ecki í strángann rétt við vanmátt minn, og yfirgéf mig ecki, þegar eg veiklast. Amen!

## 2. Hugvekja.

### Um Krists Grasgardsːkvøl.

Þá kom Jesús med þeim í þad akurgérdi, sem hét Getzemane; þar var grasgardur, og Jesús géck þar inn med lærisveinunum; en Júdas, sá er sveik hann, vissi og þenna stad, því Jesús safnadist opt þángad med lærisveinum sínum. Þegar Jesús kom þángad, sagdi hann til þeirra: setjid ydur hér, ámedan eg fer burt og bidst fyrir. Hann tók med sér Pétur, Jakob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedeusar, tók til ad hryggjast, skjálfa og harmþrúnginn verda. Þá sagdi hann vid þá: mín sála er hrygg allt til dauda, verid hér og vakid med mér, en biddjid, svo þér fallid ecki í freistni. Hann veik sér burt frá þeim, nær einu steinsnari, kraup á kné, féll fram á ásjónu sína til jardar, og bad, ef þad møguligt væri, ad sú stund hjálidi, og sagdi: Abba, Fadir minn! allt er þér møguligt! tak burt þenna kaleik frá mér, þó ecki hvad eg vil, heldur sem þú vilt.

---

Þetta akurgerdi Getzemane, er sagt hafi sitt nafn af vidsmjørs-pressu. Jesús er þad vidsmjørstré, í hvørs rót og feiti vér, heidíngja børnin, erum hluttakandi vordnir. Hann hefir svo pressast hér í Guds reidi undir þúnga vorra synda, ad hann af sér gaf þann vøkva, sem á vid mein þau, er

ecki voru med vidsmjøri mýkt; þad er hans blód, sem hreinsar oss af øllum vorum syndum. Í þessu gérdistúni var aldingardur, þar hófst Jesú pína, einsog syndafallid hafdi ádur byrjast í aldingardinum Eden; því Jesús borgadi þad, hann ecki rænti, og gjørdist hér líkur madki, af því Adam vildi vera líkur Gudi. Skilníngs-tré góds og ílls stód í Paradís einsog prófsteinn, hvørt vor fyrstu fedgin vildu standa í hlýdni vid Skapara sinn, eda sem kyrkja þeirra Gudsþjónustu; en — þau gjørdust óhlýdug bodi Drottins og forsmádu hans dýrkun, þá er þau glæptust á þessa trés áverti, og innleiddu þar med syndina og daudann. Hér vegsamadi Jesús sinn Gud og Fødur med hlýdni sinni, og hefir svo lísid og ódaudligleikann í ljós leidt. Eptir fallid voru þau Adam og Eva útilokud frá lífstrénu, sem stód í aldingardinum, svo ecki skyldu þau neyta af þess áverti, og lifa svo út í aldirnar. Hér stendur í Getzemane þad sanna lífsins tré, Jesús, hvørs laufblød þéna til lækníngar heidíngjanna, og býdur øllum, sem ervida og þúnga eru þjádir, ad koma til sín, svo þeir af hans fyllíngu ødlist nád fyrir nád, og hann uppvekji þá til eylífs lífs. Um þenna aldingard segir enn framar pínslarsagan, ad Júdas hafi vitad grant af hønum, því Jesús hafi opt farid þángad med lærisveinum sínum. Þar hefir Júdas auga á, hvar Jesús er vanur ad stadnæmast í afviknum stad, þar meinti hann hægast væri ad vega ad hønum, svo minust bæri á; allteins vakir Sathan yfir, med hvørju móti,

í hvada stad, háttalagi eda athøfn, hann megi oss helst fella í synd og ólucku, því hann gengur umkríng, sem grenjandi ljón, leitandi ad þeim, er hann fái uppsvelgda. Júdas sat um Jesum í hans bænastad; en Sathan forsómar sig síst þar, sem vér eigum helst Gudi ad þjóna; hann skammadist sín ecki ad koma fram med Gudsbørnum á Jobs døgum, ecki fælist hann heldur bænahúsid eda kyrkjuna nú, heldur leitast vid ad gjøra hana ad sinni samkundu, og hrífsa burt ordid úr mannanna hjørtum, svo þeir ecki trúi og verdi hjálpligir. Honum eru líkir allir flárádir veraldar synir, sem liggja í leyni, einsog ljón í bæli sínu, og lúra uppá ad grípa hinn fáráda. Verkfæri þeirra, er þeir fremja handverk sitt med, eru lýgin og svikin, skilgétin børn hans, sem var manndrápari ad upphafi og stód ecki í sannleikanum; hann breytir sér stundum í ljóssins engil; allteins breyta hinir til, ad þeir sýnast dyggvir. Þar nú óvinur vor er svo slægur og dregur eptir sér þetta íllþýdi, ættum vér ad kappkosta, dagliga uppá oss ad taka Guds alvepni og vakta oss líka fyrir mønnum, verandi forsjálir eins og høggormar og einfaldir sem dúfur, en umfram allt, varast sjálfir ad gánga í hóp enna blódgírugu og flárádu, sem ecki munu fá hálfnad lífdaga sína. Vardveit mig, ó Jesú! frá hreckjum ens Vonda og lima hans, þá vil eg kunngjøra lof þitt æfinliga og prísa þitt nafn midt í søfnudinum! Gæt enn framar ad, kristinn madur! ad eins og Sathans og hans barna framferdi er þér

til varhygdar, svo er Lausnara þíns dæmi þér til eptirbreytíngar þénandi. Jesús safnadist opt í þenna stad med sínum lærisveinum; þá hefir hann án efa hugsad til sinnar pínu, og bedid sinn himneska Födur um adstod til ad þola hana. Æstid máttu ad sonnu vakna til ad hugsa um dauda þinn, þó ecki sízt, þegar þú átt leid þar um, sem Guds barna líkhamir hvílast í voninni; þau pláts má eg nefna sádgard Guds, því hann mun lokfins láta sinn anda blása á þá daudu, svo þeir lifi, á því fagra blómgunar vori, þegar hann gjørir alla hluti nýa, og þad, sem sád hefir verid í vansemd, breiskleika og forgengiligleika, rís upp í vegsemd, krapti og óforgengiligleika. Þegar þú þessvegna gengur hér um, þá hugsa hvert leid þín liggur, nefniliga: þángad, sem þú mátt kalla madkana mædur og systur þínar; hugsadu einnig, ad eptir ad þeir hafa hørund þitt ígégnumstúngid, munir þú í þínu holdi sjá Gud, ef þú annars vardveitir trúna til æfiloka. Byrdir þú nú þetta fyrir þér, þyki mér líkligt þig ránki til ad bidja Gud af alvøru, ad hann haldi svo í hønd med þér, ad þú vardveitir hans þolinmædis ord, svo þú fáir allt vel framkvæmt og odlast sigurinn. Þetta er nú þarfara, enn ad halda samkomur í kyrkjugørdum á helgum tídum, stundum til ad deila, til ad þvætta, bakmæla og tala illa um adra, leika og fremja ýmisligt gjálísi, þar mønnum bæri miklu heldur ad minnast Síraks reglu, er segir: þenk á þitt hid sídasta, og muntú aldrei illa gjøra. (Sir. 7.)

Þegar nú Jesús í seinasta sinni er inngenginn í þetta pláts, skiptir hann, blessadur! svo lidi sínu, ad hann tekur Pétur, Jakob og Jóhannes fram lengra med sér, hina lærisveinana lætur hann bída í tilteknum stad. Hér má nockud læra bædi af þeim og Kristi sjálfum: 1) Af lærisveinunum: ad hvørr sé trúr køllun sinni og høgum. Kristilig kyrkja er hans kornland og bygging; þángad inn hefir Jesús sett þjóna sína, og fengid hvørjum þeirra sitt verk og úthlutad pund; sértu nú hans lærisveinn, þá haldtu þar vid med þolinmædi, hollustu og hlýdni, því hlýdni er betri enn offur; eins, þó hann kalli þig undir krossinn, þá skaltu þegjandi og viljugur framgánga rétt eins og hann kalli þig til medlætis haganna. Strídsmadurinn á ad standa þar í fylkíngunni, sem hershøfdínginn býdur, en ecki þar, er hann sjálfur vill; viljir þú þócknast þeim, er þig hefir til ströds kjørid, sem er Jesús Kristur, þá gack eptir hans nidurrødun, en ecki eptir þínum vilja; setji hann þig þar í fylkínguna, sem ervidast veitir, mun hann og géfa þér kraptana þar eptir, því einkis freistar hann yfir megn fram. 2) Af Lausnarans dæmi lærum vér: ad fordast einveru í freistíngum vorum. Ecki var Jesú hætt vid ad sigrast, og vel vissi hann, ad ecki mundu lærisveinarnir standa straum af sér, þó vildi hann ecki einn vera, heldur bædi hafa sjónarvotta pínslar sinnar, og líka þá, er hann kynni ad tala v.d. Hvílíkt sérsinni er þad þá ecki fyrir breiska og hugsjúka mannskepnu, ad fara einførum? af því

hefir opt orsakast ólucka, og margir hafa, med skada sínum, komist ad raun um þad, er Salómon segir: vei þeim! sem einsamall er, því þegar hann fellur, þá er enginn sem reisir hann, og gyldir þessi regla um góda, gudhrædda og rádsvinna menn, sem vita ad hugga adra med þeirri huggun, sem þeir eru af Gudi med huggadir, en ecki heimska gárúnga eda gudleysíngja.

Strax eptir þessa niđurrødun, byrjadist nú grasgards-kvølin vors Lausnara, og má þad ráda af ordum Gudspjallamannanna, ad hann blessadann hafi inntekid skyndilig og yfirnáttúrlig hrygd, med ofbodsligri hrædslu og kvída, hvaraf hans helgasti líkami skalf og titradi, og í þeirri ofraun stundi hann upp þessum ordum: Mín sála er allavega hrygg allt til dauda, hvarmed hann sleit sig frá sínum lærisveinum, féll fram á sína signudu ásjónu, og tók til ad bidja. O, minn Jesú! hvørsvegna er vatnid svo gengid inn ad sálu þinni? vertú nádugur mínum yfirtrodslum, því syndir mínar hafa kvalid þig; eg hefi þér mædu aukid med misgjørdum mínum, og látid þig ervida í syndum mínum. Vissuliga má mín synd vera himni og jørdu þýngri, og þarf ecki ad furda, þótt hún sé mér óbærilig byrdi, þar Jesús, sem ber alla hluti med ordi síns kraptar, verdur ad falla flatur, þegar Gud hlód á hann mínum syndum. En, hvad um þad? eg sé þó hér — lofadur sé Gud! — ad mitt lausnargjald er himni og jørdu mikilvægara, því ecki lét þad úti einfaldur madur, heldur Gud og Madur,

Jesús Kristur, af fedrunum eptir holdinu, Gud yfir øllum hlutum blessadur ad eylífu, Amen! Sá skjálfti, kvídi og ofbod, sem hann leid, vegur meira í metaskálum Guds réttlætis enn allar mínar yfirtrodslur, og hefir útvegad mér mikla fyrirgéfníngu og eylífa endurlausn, hvarfyrir hønum séu ódaudligar þakkir. Loksins er merkjandi: ad þegar Jesús er framfallinn í þessu ofbodi, þá snýr hann sér strax til bænarinnar. „Abba Fadir!" — segir hann — „allt er þér møguligt! tak frá mér þenna kaleik, þó ecki minn heldur verdi þinn vilji." Eckert er betra rád í øllum vandrædum enn trúud bæn af audmjúkum anda; sundurknosadur andi er Guds offur; hann hefir skipad ad ákalla sig í neydinni, lofad bænheyrslu, en skilid sér lofgjørdina; en þess er þá líka ad gæta, ad bænin sé rétt løgud ad Jesú dæmi; ecki heyrist møglunar-ord af hønum, heldur kallar hann Gud sinn Fodur midt í straffinu, hvarmed hann og leggur sinn manndómliga vilja undir sinn og hans guddómliga vilja. Viljum vér ødlast fyrirheitin, þá er oss þørf á þolinmædinni. Margur møglar og gjørist naudunarsamur, þegar á móti blæs, en ávinnur þarmed þýngra straff, rétt einsog Ísraelítarnir, sem aldrei voru ánægdir med sín kjør, møgludu, voru óþolinmódir, gjørdu jafnvel uppreist, þá er þeir ecki fengu allt, sem þeir vildu; en hvørnig fór? Líkhamir þeirra hrundu nidur í eydimørkinni, svo þeir komust ecki til Drottins hvíldar, og á stundum skédu miklar plágur í einu á medal þessa fólks, hvad Postulinn Páll vill ad

vér tøkum oss til eptirþánka, þegar hann segir: Møglid ecki einsog nockrir af þeim møglubu, og fyrifórust af eydileggjaranum. Verum einnig audmjúkir fyrir Gudi vorum, hvørjum vér gétum ecki svarad einu ordi til þúsund, og gætum ad hans miklu hátign, en vorri eymd, hans heilagleika, en vorum saurugleika, hans réttlæti, og vorum syndum. Sá heilagi Guds Sonur audmýkir sig og fellur fram fyrir sínum himneska Fødur; hvad þá vér syndugir! þad mætti vera mikil skømm og blygdunarleysi ad koma einsog Phariséarinn. Þessi lotníng skal líka minna oss á, ad vér heimtum ecki frekliga af Drottni vorum nockud líkamligt, heldur segjum sem Lausnarinn: Ecki minn, heldur verdi þinn vilji! því vor himneski Fadir veit hvørs vér vidþurfum, ádur enn vér bidjum hann; en — vér vitum ecki hvørs vér bidjum, svo, ef allt gengi eptir brekun vorri, kynni hann ad géfa oss stein fyrir braud. Látum einnig audmýkt vora sjást í hegdun líkamans; því þó Drottinn áliti hjartad, þá byrjar þó engu ad sídur voru moldar-hreysi ad feila sér fyrir hans skelfiligu hátign, þegar vér framkomum, ad þyggia nockud af hans ørlætis hendi; þad kénnir oss Davíd, þegar hann segir: Látum oss framfalla og tilbidja fyrir Drottni; þad sýnir oss dæmi Abrahams, hann hneigdi sig til jardar fyrir sínum Gudi; hann sagdi líka: Eg hefi tekid mér fyrir ad tala vid Drottinn, þó eg sé mold og aska; en þó ættum vér fyrst og seinast oss fyrir augum ad hafa dæmi vors Jesú, einkum þar vér vitum og trúum, ad hann

nú í þetta sinn, med sinni sálar-ángist, ávann sálum vorum eylífa gledi, hvarfyrir meir enn skyldugt er, vér breytum eptir hönum, og svo þar med lofi vor sála og allt hvad í oss er, hans heilaga nafn. Lof seg þú önd mín Drottni, Amen!

## 3. Hugvekja.

### Um Krists Dauda-stríd.

Og hann kom til sinna lærisveina og fann þá sofandi; hann sagdi til Péturs: Símon! sefur þú? formáttir þú ecki eina stund ad vaka med mér? Vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni; andinn er reidubúinn, en holdid er veikt. Í annad sinn géck hann burt aptur, badst fyrir, taladi hin sömu ord og sagdi: minn Fadir! sé þad ecki mögu-ligt ad þessi kaleikur lídi hjá mér, utan eg drecki hann, þá verdi þinn vilji! Hann kom og fann þá aptur sofandi, því augu þeirra voru þrúngin af svefni og vissu ecki hvörju þeir svörudu hönum; hann lét þá kyrra, géck á burt aptur og badst fyrir í þridja sinn, taladi sömu ord og sagdi: Fadir! ef þú vilt sov, þá tak þenna kaleik frá mér; þó verdi ecki minn, heldur þinn vilji! En hönum birtist Engill af himni, sem styrkti hann. Og þar kom, ad hann stríddi vid daudann og

tók ákafligar ad bidja; en sveiti hans vard sem blód-dropar, þeir ed féllu á jørdina.

---

Komum vid nú, sála mín! og vyrdum fyrir ockur aptur dauda-strídid og innvortis kvøl vors Lausnara, og er hér fyrst merkjandi þad skélfiliga ofbod, sem á hønum lá, hvad sjá má af hans háttalagi. Hann stód þrisvar upp, lagdi sig þrisvar nidur, reykadi þrisvar til og frá lærisveinunum; hønum var hvørgi rótt, því í hvørja átt, sem hann veik sér, blossadi Guds reidi-eldur, sem brennur til helvítis, inn ad hans sálu, og læsti sig útí hvørn legg og lid; liti hann til himinsins, þá var nótt; vikji hann sér ad lærisveinunum, þá sváfu þeir; kastadi hann sér nidur á jørdina, þá hratt hún hønum (svo ad segja) frá sér, svo hann héldst hvørgi vid. Hér á væri nú óskandi þeir vildu spegla sig, sem vanir eru ad géfa sig lítid ad, þó þeir heyri nefnda Guds reidi, og setja ecki stórum á sig, hvørsu hrædiligt sé, ad falla í Drottins hefndar-hendur, heldur láta einsog þesskonar rædur komi ecki vid sig; hafi nú Sonur Guds átt vid svo óbæriliga kosti ad búa, þegar hann leid straff vorra synda, hvørsu mun þeim þá vegna, sem hlada synd á synd ofan, en láta sig þó ecki svo mikid sem dreyma, ad segja nockurntíma af alvøru: Drottinn! straffa mig ecki í þinni reidi? En þad skaltu vita, syndari! ad fyrir þeim, sem Drottinn hegnir í reidi sinni, dregur af gamanid, því hér má sjá og læra, ad þeim verdur eckért til huggunar, heldur finna þeir sífelda kvøl,

amasemi, órða og örvæntingu, í hvörja átt, sem þeir snúa sér. Hvað kann þar að hugga, sem frá er vikinn Guð allrar huggunar? hvað kann þar að gledja, sem vantar það rétta viðsmjör fagnaðarins? Ístaðinn fyrir anda kjærleiksins, er kominn þrælsdóms andi; hvört fær maður flúið frá augliti Guðs, eða farið frá hans anda? eða mun sá ógudligi géta nockuð skolið sér undan, þá hann hefir spannað sinn boga? O! hvörsu mikils er það verdt, að vardveita leyndan dóm trúarinnar í góðri samvitsku, því einsog andans vitnisburður er forsmeckur eylífs lífs, svo er órólig samvitska með þörfnun andans forsmeckur helvítis pínsla, hvörra beiskleiki líka nockurnveg sjást kann af þessu Jesú háttalagi, því einsog hann, sem vissuliga kénndi hér á helvítis pínslum fordæmdra, reykaði með ofraun híngað og þángað, og hvað var ödru amasamara fyrir hönum, svo finna fordæmdir enga hægð í þeim kvalastað, hvar ecki fæst vatnsdropi að kjæla túngu sína. Allt þetta verkar nú syndin, hvörrar verdlaun er dauðinn; hvörsvegna, ef nockrum þæckti ofboðsligt hér til að hugsa, hönum ætti eins að ofbjóða skaðlig ysirráð syndarinnar í sínum dauðliga líkama, svo hann leiti dagliga lags við að skilja sig við hana, fyrir sanna yðrun og umbót lifnaðarins; og er þá líka öllu óhætt, því til þess fann Jesús hér, bæði til Guðs reiði og helvítis ángistar, að hans öbluga kall og tárasöll, sem hann hér offraði til hans, er hann af dauðanum frelsa kunni, útslöcktu og niðurdempuðu það hvörttveggja fyrir þér, þú, yðrandi

sála! Fest þér vandliga þann lærdóm í hjarta: hönum eru allir hlutir til óhægdar og amasemdar ordnir, svo þú allavega huggan hefdir í þinni sídustu neyd, og þurfir enga ólucku ad hræbast, þótt þú gángir í myrkum dal og daudans skugga; hans hrygdarspor eru þér gledilig utleidsla af heiminum inn í eylífa dyrd; hann kvaldist í myrkrunum, svo þú ødladist ljós nádarinnar þessa heims, og dýrdarinnar í ødrum heimi, því í hans ljósi sjáum vér ljósid; hann fécк hvørki hjálp né huggun af neinum, svo þér bregdist aldrei vinfengi hans og Fødursins, því sjálfur hefir hann lofad, ad þeir, sem haldi sín bod, skuli vera í ástsemd hjá sér.

Í ødru lagi segir oss Gudspjalls-sagan: ad þar hafi komid ad, ad hann hafi barist vid daudann; þar kémur líka loksins ad þeim tíma, ad bædi eg og þú eigum ad berjast vid daudann; en eg þacka Gudi fyrir Jesum Krist, sem bardist vid hann ádur, og í hans daudastrídi blessadist mér bædi helsóttin og andlátid; því Jesús vann, en daudinn tapadi, eptir því, sem skrifad stendur: Daudi! eg vil vera þinn daudi! helvíti! eg vil vera þín drepsótt! En — þenna fagra sigur vann hann oss til handa, og gaf oss hann, eptir því óraskanliga skjali, sem hann útgéfid hefir, er svo hljódar: Frá helvítis valdi vil eg þá frelsa og frá daudanum vil eg þá endurleysa; því þarf enginn trúadur madur ad kvída sínu daudastrídi, heldur hælast um vid daudann, einsog sigradann og yfirunninn óvin, segjandi: Daudi! hvar er þinn broddur? helvíti! hvar er þinn sigur? þackir

séu Gudi, sem gaf sigur fyrir vorn Drottinn Jesúm Krist!

Í þridja máta er athugandi, hværsu hardt daudans afl hafi gengid ad Lausnara vorum: hans sveiti vard einsog blóddropar, er féllu á jørdina. Þegar Adam hafdi syndgad, bølvadi Drottinn jørdunni, því sú synd var mikil blódskuld, þar hún leiddi eptir sig dauda svo ótal margra þúsunda. Aptur, þegar Abels blód var úthellt, hrópadi þad eptir hefnd, svo jørdin vard bølvud ad nýu; en hér er Jesú blód, sem betur hrópar enn Abels blód, á jørdina ofanfallid, til ad lina þessa bølvun, og leida blessun yfir oss og handaverk vor. Løgmálid segir ad sønnu: ad þeirra lands-ávøxtur, lífs-ávøxtur og fénadar-ávøxtur, sem þad yfirtroda, skuli bølvadur vera; en med því ad Jesús er løgmálsins uppfylling, til réttlætis øllum þeim, sem trúa á hann, þá er fyri þeim sømu þessi bølvan umbreytt í blessun; þessvegna þackar þér, ó Jesú! fólkid; þér þackar allt fólk, jørdinn gefur sinn ávøxt; blessi oss Gud, vor Gud! blessi oss Gud! og allar endimerkur jardar óttist hann! En — þótt þessu sé nú svo varid, þá er þó einkum huggunarsamligt, ad minnast á blódsveitann Jesú, þegar adslæst skélfíng daudans og ángursemi ervidishaganna. Þegar sá þánki tekur mig, vil eg hugsa til þess, ad minn Lausnari sveittist blódinu og segja í audmjúkri eptirleit trúarinnar: ó minn Jesú! þegar þeim kalda daudasveita slær út um alla limi mína, þá láttu þinn sárheita blódsveita gjøra hann vægann og bæri-

liganu, svo eg megi glaður frágánga, einsog þinn trúarøruggi pínslarvottur Stephán, og láttu aldrei sálu mína setta verða á þann fúla sveitabeck, hvar kvalareykur ógudligra uppgengur eylífliga; en eg skal ætíð, ámeðan eg lifi, minnast þackláttliga í trúnni á þenna þinn blóðsveita; já! strax á hvørjum morgni, þá eg stíg fæti mínum á jørðina, vil eg ydka sálu mína í þeirri hugleidíngu, að þinn sveiti varð einsog blóddropar, er féllu á jørðina, svo eg þacki þér af hjarta fyrir þessa elsku, og vænti mér svo fyri þá sømu allra heilla og blessunar í minni útlegð á jørðunni. Plági hjarta mitt ángist nockur, vil eg dreypa á það með þínum blessuðu blóðdropum, hvørja eg veit vera mitt lausnargjald; þeir sømu prédika fyrir mér, að eg, einsog sáttur og hreinsaður, eigi aðgáng til Guðs, og megi vænta mér alls góðs, því þú hafir þvegið oss af syndunum með þínu blóði, og gjørt oss að konúngum og kénnimønnum fyrir þínum himneska Føður. Hvørr vill nú klaga Guðs útvalda? eða hvað fær skilið mig við Guðs elsku? fyrir Jesum eru allir hlutir á himni og á jørðu forlíktir við Guð; Faðirinn er ánægður með lausnargjaldið; Sonurinn hefir borið reiðina; þrællinn er klár og kvittur, því Guð var í Christó og friðþægði heiminn við sjálfan sig. Þessvegna vil eg í allri neyð, lífi og dauða hugga mig við þetta dásemdar verk, og segja þackir Føðurnum, sem setti oss í ríki síns elskuliga Sonar, í hvørjum vér høfum endurlausnina fyrir hans blóð, sem er syndanna fyrirgéfníng.

Í fjórda máta er athugaverd sú adferd, er Jesús hafdi, þá er herdti á kvölinni: hann tók ákafliga ad bidja. Med þessu kéndi hann oss, ad vér skyldum bidja án afláts og þreytast ecki, jafnvel þó hjálpin dragist undan. Gætum ad dæmi Jakobs, sem ecki vildi sleppa Drottni fyrri enn hann hafdi ödlast blessunina, og minnumst, ad Jesús hefir kénnt oss lag til þess, ad himnaríki lídi ofurefli, þegar hann segir: Bidjid, og munud þér medtaka; leitid og munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda. Víst kann Drottinn, af vissum tilgángi, oss til góda, ad fela sig á tíma neydarinnar, en þarfyrir hefir hann ecki gleymt miskunsamur ad vera, heldur, einsog fadirinn er er börnunum líknsamur, svo er Drottinn miskunsamur þeim, sem hann óttast; ef hinn rángláti dómari sigradist af þrábeidni eckjunnar, mun þá Drottinn ecki miklu framar gjöra frelsun sinna útvaldra, sem til hans kalla nótt og dag, jafnvel þó hann hafi þolinmædi yfir þeim? Einsog Guds Sonur, sem ákafliga héldt á sinni bæn, fékk hægd og léttir, því hönum birtist Engill af himni, er styrkti hann, svo megum vér og vita, ad Gud hjálpar oss á einhvörn hátt, ef vér höldum fast vid bænina og trúar-traustid; því einsog Englarnir voru nálægir Jesú í hans bænagjörd, svo eru þeir himnesku andar oss ecki fjærlægir í vorum bænastad, einsog sýnir dæmi Kornelíusar, og þad þó helzt, þegar lídur ad enda lífdaganna, vill Drottinn, sem sendi hér Engilinn til styrktar sínum eingétna Syni

í hans dauda-strídi, láta sína Engla styrkja sín børn, þjóna þeim og bera ad lyktum sálina, einsog Lazarusar, í fadm Abrahams.

O Herra Jesú! þú, sem útstadid hefir hid bitra daudastríd oss til frelsis, fyrir þann mikla velgjørníng lofar þig og vegsamar þín kristilig kyrkja, bædi sú, sem strídir á jørdu þessari, og hin, sem hrósar sigri í himninum, segjandi med ædsta hjartans þakklæti: Lambid, sem er slátrad, er verdugt ad medtaka veldi og ríkdóm, styrkleik og heidur og prís og blessun ad eylífu, Amen!

## 4. Hugvekja.

### Samtal Krists og lærisveinanna.

Jesús stód upp frá bæninni, kom til lærisveina sinna og fann þá sofandi út af hrygd. Hann sagdi til þeirra: Æ! viljid þér nú sofa og hvílast? hvad! sofid þér? nóg er komid! standid upp og bidjid, svo ad þér fallid ecki í freistni. Sjáid! sú stund tekur ad nálgast og er þegar komin, ad Mannsins Sonur skal seljast í syndugra hendur. Standid upp! førum á burtu hédan, sjáid! sá er mig svíkur er nálægur; en bidjid, svo þér fallid ecki í freistni.

Kristur hafdi, sem ádur er sagt, tekid med sér þrjá sína lærisveina og áminnt þá ad vaka, en varla

var hann kominn steinsnar frá þeim, fyrri enn þeir urdu yfirfallnir af svefni, en Herrann stód einn ad því mikla verki pínunnar, einsog fyrispád stendur: Eg hefi aleinn trodid vínþrúguna; eg leit um kríng eptir hjálpara, en þar var enginn, en minn armur styrkti mig.*) En héradauki sjáum vér hér réttann spegil vorra haga: strax, sem Jesús var á burt farinn, sókti Postulana svefn. Víki hann burt eitt augnablik, þá erum vér fallnir, því án hans megnum vér ekkért; hann verdur bædi ad verka viljann og máttinn, bædi ad uppbyrja og fullkomna trúna; því vil eg ætíd segja med Davíd: Drottinn, minn styrkleikur! stattu ecki lángt frá mér; og med Abraham: Hafi eg fundid nád fyrir pínu augliti, þá gack ecki fram hjá þræli þínum. Eins er því líka varid í líkamligum efnum: vér megum ecki missa adstod og nærveru Jesú, ef øllu á ad vera óhætt; til þess skyldum vér hugsa, einkum þá vér leggjum oss til svefns, og fela oss þeim Israels vaktara, sem ecki syfjar, þá megum vér óhætt trúa fyrir oss næturmyrkrunum; Jesús vakti, þegar Postularnir sváfu, en þegar eg veit ad hann vakir yfir mér, þá er eg sef, vil eg óhræddur vera og segja: Í fridi vil eg leggja mig og sofa, því þú, Drottinn! munt láta mig ugglausann búa; lofadur sé Gud, sem opt hefir látid mig reyna þvílíka vardveizlu! En vid skulum nú, sála mín! framar þessu, bera ockur

*) Ad troda vínþrúguna, merkir ad sønnu ad sundurknosa óvinina, og heyrir til Krists upphafníngu, en med því þetta skédi fyrir hans pínu og dauda, látum vér blífa vid þá almenniligu útleggíngu.

nockud saman vid Postula Herrans, og gæta ad, hvørt vér höfum ecki sama til brunns ad bera: Jesús áminnti þá í þrjár reisur ad vaka, einkum Pétur, hvørn hann tók sérdeilis tali, en þeir sofnudu því fastara; hann hefir einnig leidt ockur inn í sinn aldingard, þad er: sína kristni, ecki til svefns og dofinskapar, heldur til ad vera glóandi í andanum, Drottni þjónandi, svo sem sáttmáli skírnarinnar ljósast fráségir; en ockur hefir ecki farid ólíkt og syninum, sem lofadi ad vinna í víngardinum, en fór þó hvørgi. Jesús hefir ecki undanfellt ad vekja ockur einkum í þrjár reisur, á úngdóms, þroska og fullordins árunum, en þad hefir þó — sem Gud nádi! — viljad blífa vid sama svefnmok; vid vorum varla komin í víngardinn, fyrr enn bernska og gáleysi úngdómsins dilladi ockur, því þánkar mannligs hjarta eru vondir frá úngdómi; þá setti Jesús oss foreldra og frædara til ad kénna ockur ótta Drottins og vekja ockur med aga og umvøndun; en þeirra verk þókti þá leidindaligt, en sjálfrædid yndisligt. Þegar leid fram af barndómsaldrinum til þroska-áranna, og vid tókum ad skynja háttu veraldarinnar, tók sú spillta náttúra dám af þeim, svo ad glaumur, gjálífi, vondur félskapur, heimskulig skémtan og, í stuttu máli, fýsn holdsins, fýsn augnanna og drambsamligt líferni smackadist þá betur, enn Guds orda áminníngar og gódir sidir; þá setti Jesús til kénnimennina ad blása í básúnu síns Herra, og vekja ockur af þessu rænuleysi; en þó vid kæmum til þeirra einsog fólkid, og sætum

fyrir þeim einsog Guds fólk, þá var þó svo inn-gróin gleymskan og gáleysid, ad þeir voru í þánka ockar stundum einsog orda-smidir, stundum einsog þeir, er sturludu Ísrael, stundum einsog vísa, sem føgur er ad heyra, lengra komst þad allopt ecki; þetta verkadi heims-elskan, sem á þeim bestu blóma-árunum spratt upp med til ad kæfa ordid, hvaraf bædi kólnadi og líka ástundum ølduúngis varæktist bæna-haldid, einsog ecki kunni annars ad vera, því þar sem er elska heimsins, er ecki kjærleiki Fødursins, en þar, sem ecki er kjærleiki Fødursins, þar deyfist bæna-haldid, og sú djørfúng, sem vér høfum til hans, ad ef vér bidjum nockurs eptir hans vilja, þá heyr-ir hann oss. Þegar nú Jesús sá, ad í hæpid var komid med þessu andvaraleysi, tók hann til ad vekja med innvortis hræríngu síns Heilaga Anda, hvern himneskann náðar-geisla Gud, sem úr myrkrinu baud ljósinu fram ad skína, lét leyptra inn í hjartad; en, þó vid lifnudum þar vid um stund, hafdi samt vondskan og hyrduleysid svo djúpar rætur, ad vid ecki ætíd sætt-um hræríngum þessum einsog bar, heldur útslockt-um andann aptur. Svo háskaliga høfum vid, sála mín! heimsk verid og heimskuliga blind! komum því fram fyrir ockar Gud og Lausnara, játandi þessa ockar synd, þá mun hann fyrirgéfa þá vond-sku yfirtrodslunnar. O, þú mikli fyrirgéfari! til-reikna mer ecki tómlæti mitt og undandrátt, hvar-med eg hefi orsakad þér mædu, en mér straff; eg er einsog saudur sá, sem villtist, leitadu, Drottinn! ad þræli þínum! lát þér aldrei leidast ad benda

mér og vekja mig af mínum synda svefni! vægi þín miskun mér um straff það, sem þú hótar þeim óhlýðnu: að þú gefir þá ofur í þeirra eigið sinni, til að aðhafast ósæmiliga hluti! Eg kýs heldur, minn Herra! að þú leggir á mig þitt føðurligt straff, þegar þú að eins ecki tekur frá mér þína føðurligu náð; en þótt eg viti, að eg hafi heldur hitt verðskuldað, og það séu maklig laun villu minnar, þá sjá þó, að eg er nú aptur snúin, og þú sjálfur hefir snúið mér, og géfið mér það hugarfar, að eg nú hjartanliga girnist að vaka og vera sparneytin, svo eg gángi þér verdugliga til allrar þócknunar! medtak því þann, á hvern þú hefir kallað, og fullkomna það verk, sem þú hefir uppbyrjað! og þared þú veitst hvernig varið er fyri mér, að þó andinn sé reiðubúinn, þá er þó holdið veikt, og løgmálið í mínum limum dregur mig herleiddann undir løgmál syndarinnar, þá lát þinn krapt vera í mér breiskum máttugann, og bið fyri mér, svo trú mín þrotni ecki! Einsog nú Jesús vorkénnti lærisveinunum, þegar þeir gátu ecki haldið sér uppi, géck frá þeim, lét þá kyrra um stund og veik aptur til bænarinnar, svo mun hann vissuliga heyra mína bæn og sjá ígégnum fíngur við mig, þó mér verði á stundum svefnsamara enn skyldi, því hann er sjálfur forlíkan fyrir mínar syndir; hann vakti einn, þegar hinir sváfu; hann vakir enn til að biðja fyrir oss, hann hefir ecki ógnað né kallað, hann er þolinmóður við oss og vill ecki að nockur einn tapist, heldur betri sig og lifi; en skulum vér þarfyrir í

syndinni blífa, svo nádin yfirgnæfi? Fjærri sé því! Freistum ecki Krists og hugsum ecki, ad Gud sjái ecki þad, sem íllt er, þótt hann þegi, heldur høldum hans seinlæti til reidinnar vort sálulhjálpar medal. Þegar svikarinn var svo sem kominn, sagdi Jesús seinast: Æ! viljid þér nú sofa og hvílast? hvad! sofid þér? Tak, mín sála! í Guds nafni til þín áminníngu þessa, og vak og bid, svo þú fallir ecki í freistni; þenk ecki, ad þetta snerti ad eins Postulana, því Jesus segir: Hvad eg segi einum, þad segi eg øllum, vakid þér! sá, sem þig svíkur, hann er í nánd, og ecki veitstu hvar, hvenær eda hvernig hann kann ad koma ad. Þó aldrei ættir þú von á slægdarligum áhlaupum Djøfulsins, sem þú þó átt, þá kann daudinn ad svíkja þig nidur af fótunum fyrr enn þig varir; hann hefir møргum brugdid hælkrók, sem sízt hefir vid hønum búist í þad sinn; eda, hvernig fór fyrir heim ríka kornbónda? Daudanum fylgir dómurinn, og í því háttalagi, sem daudinn hittir þig, dæmist þú, hvar eptir þér mun gánga um alla eylífd, án nockrar umbreytíngar vonar. Vertu því aldrei svo fífldjarfur ad eiga þad á hættu, ad allt þetta komi ad þér andvaralausum! vak heldur í Guds nafni og bid, því þú veitst ecki á hverjum tíma þinn Herra kémur! tak uppá þig Guds herskrúda, svo þú fáir mótstødu veitt á þeim vonda degi! vakna þú upp til réttlætisins og lát af ad syndga, medan þar segist enn þá í dag! en þared kraptar þínir eru vanmáttugir, og mátt því ætíd búast vid freistíngum, svo verdur þú og í þessari

þinni andvöku og ydugligri varhygd, ad bidja án aflâts, því þegar þinir kraptar vanmegnast, þá lýkur bœnin upp miskunar ydrum Guds, og kémur til þín aptur med krapt af hædum, einsog handa upplypting Mósis ávann Ísraels fólki sigur; þess gétur Jakob segjandi: Vanti nockurn vísdóm, þá bidji hann af Gudi, sem øllum géfur einfaldliga og telur ecki eptir. Pad er mesti háski ad vera bœnarlaus í heiminum, þad er einsog ad gánga vopnlaus í bardaga; sálin án bœnarinnar er einsog líkami án sálar, køld, dofin, blind, tilfinníngarlaus, já, øldungis daud í syndum og yfirtrodslum. Athuga þetta, kristinn madur! sem annt er um þína eylífu velferd, og heyr ad lyktum þessi Jesú ord: Svo verid nú ætid vakandi og bidjid, ad þér kunnid ad verda verdugir ad umflýa alla þá hluti, sem tilkomandi eru, og standa fyrir Mannsins Syni. O, minn Jesú! sem sagt hefir: Verid mér áfastir, svo ad eg sé med ydur; vak þú í mér, svo eg einnig vaki í þér! lát mína sálu vaka til þín, þó líkami minn sofi, svo eg segja kunni med brúdinni: eg svaf, en hjarta mitt vakti! lát hana svo óhætta búa undir þinni verndun, og vek mig lokksins upp til eylífs lífs, amen!

## 5. Hugvekja.

### Um Gydínganna komu í Grasgardinn.

Jafnsnart, sem Jesús var nú enn ad tala um þetta, sjá þú! ad Júdas, einn af þeim

tólf, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna, einnig þjónustumenn biskupanna, Pharisæanna, øldúnganna og enna skriftlærdu, géck hann undan mannflockinum og kom þángad, med logbrøndum, lømpum, sverdum og staungum. En svikarinn hafdi géfid þeim þad teikn og sagt: hvern eg kyssi, sá er þad, grípid þann sama og leidid varliga. Sem Jesús vissi nú allt, hvad yfir hann átti ad koma, géck hann fram og sagdi til þeirra: ad hverjum leitid þér? Þeir svørudu: ad Jesú frá Nazareth. Jesús svaradi: eg er hann. En Júdas, sá er sveik hann, stód einnig hjá hønum. En er Jesús sagdi til þeirra: eg er hann, hørfudu þeir á bak aptur og duttu til jardar.

---

Midt í því Jesus var ad áminna Postulana til ad vaka, og þeir sízt ad sér hugdu, sjá! þá kémur Júdas og med hønum strídsskarinn, kénnimannahøfdíngja þjónar, høfudprestar, øldúngar og høfudsmenn musterisíns, med sverdum, blisum, skridbyttum og lensum, til ad veida og handtaka þá saklausu hyndina Jesúm. Hér høfum vér þann lærdóm: ad eins og hér skédi fyrir Postulunum, svo kann optar vid ad bera. Jesús sagdi: þeim væri best ad vaka, því fjandmennirnir væru ad eins ókomnir; en þótt þeir heyrdu þad, sofnudu þeir engu ad sídur, því máské þeir hafi hugsad, ad annadhvørt kynni þetta ad merkja eitthvad annad, eda lengra væri ad bída

óvinanna; því hefðu þeir með vissu vitað herförina svo nálæga, mundu þeir aldrei hafa verið svo svefnmóka, en rétt í sama bili kémur stríðsskarinn fyrr enn þá varði. Í sama máta heyra menn opt þær áminníngar: að tími sé upp að rísa af svefninum; dagur Drottins muni koma, sem þjófur á nóttu, og fleira þessháttar; þessu þykjast menn að sönnu trúa, en þánkarnir eru þó reyndar sömu, sem þeirra, er sögðu á Ezechielis dögum: Dagarnir munu lengjast og allir spádómar gánga til grunna; og þarf þetta ekki að undra á þessum tímum, þar bæði Kristur og Postularnir hafa svo margfaldliga fyrirspáð, um andvaraleysi þessarar síðustu aldar. Héraf kémur það, að mörg lífs og sálar ólucka hittir margann, þegar hann minnst varir; eða, hvað er það Páll skrifar (1 Tess. 5)? Þegar þeir segja: friður og uggleysi, mun fordjörfun snögg yfir þá koma, einsog jóðsótt yfir ólétta konu, og þeir munu ekki umflúið géta; fiskurinn varast ecki krókinn, né fuglinn snöruna, fyrr enn báðir eru fastir, svo verða mannanna börn ánetjuð á einum vondum degi, líka sem hann hastarliga yfir þá fellur; sé þessvegna nockurr vitur, hann er óttasleginn í öllum hlutum, og vaktar sig fyrir yfirsjón á þeim tímum, sem hann kann enn þá á, að syndga; en sá fávísi gætir ecki að sínum tíma, heldur ætlar öllu sé óhætt, veit þó ecki hvað morgundagurinn muni fæða; hann sefur án andvara, enn veit ecki hvað ské kann nóttina út, heldur enn Balthazar eða maurabóndinn. Hugsa um þetta, sála mín! og brúka varhygðarsamliga

tímann, verkandi sáluhjálp þína með ugg og ótta; haf ætíð Jesum í fylgi, neyð hann með heitri bæn hjá þér að vera, einsog ferðamennirnir til Emaus, þá er øllu óhætt, komi það að, sem koma vill, því þar, sem Jesús er nálægur, gyldir það, sem Davíð segir: Þótt eg ráfi í myrkum dal og dauðans skugga, hræðist eg enga ólukku, því þú, Drottinn! ert hjá mér.

Tøkum oss nú í øðru lagi til greina þau orð, sem fyrst fóru fram milli Jesú og hans óvina í þessari aðfør. Svikarinn hafði áður undirlagt við þá, að sá, sem hann kyssti, væri Jesús, hvarmeð hann lýsti undirferli sínu, þeim øllum til varhygðar, sem þetta dæmi heyra, að ekki gángi þeir í þessi og þvílík spor undirhyggjunnar; því þó þú, sem undirførull ert, blindir augu annara, þá villir þú ekki sjónir fyrir þeim, sem augað skapaði; hann sér og dæmir opinberliga það, sem hulið er í myrkrunum, svo þó Davíð klókliga og í leyni dræpi Urías og tæki konu hans, verður þess þó hefnt í augsýn alls Ísraels og sólarinnar. Þareð nú Jesús vissi af øllu vélræði Júdasar, samt øllu því, er yfir hann átti að koma, svo gékk hann viljugur, og hlýðinn sínum himneska Føður, móti hernum, og spyr: að hvørjum þeir leiti? Þeir segjast leita að Jesú af Nazareth. Jesús sagði strax til sín, að hann væri sá sami. Þetta heyrði nú líka Júdas, sem búinn var að géfa sig úr lærisveina-røðinni, og var orðinn hersforíngi, en fékk ásamt lagsmønnum sínum sterka bendíngu; því þegar Jesús miðt í sinni niðurlægíngu, talaði þessi hógværðarorð: Eg er hann,

fylgdi því svoddan guddómligur kraptur, ad þeir gátu ecki stadid á jørdunni, heldur duttu apturábak, og er þetta einn sá merkiligasti adburdur, sem framkémur í Píslarsøgunni. O, hvørsu vegsamligur mun hann í dýrd sinni, og óvinum sínum skélfiligur, er svo var krøptugur í sinni forsmán! O Drottinn! vor Drottnari! hvørsu dásamligt er þitt nafn í øllum løndum! þó þú lítillæckadir þig og gjørdist hlýdinn allt til krossins dauda, varstu samt Jehova, sá sem er, var, og koma mun. Þú vitnadir hér fyrir þínum óvinum, ad þitt nafn er hrædiligt og heilagt, en þú gjørir ecki vid oss eptir vorri vondri breytni, heldur sakir þíns nafns, því þú ert sannliga Jehóva vort réttlæti; þarfyrir reisir þad mig, sem þá felldi; þegar þú sagdir: Eg er hann, duttu þeir; þegar þú segir vid mig: Eg er hann, vidhressist eg aptur og fæ nýa krapta, því þú ert sannliga minn Jesús og Frelsari, og gjørir því vart vid þig, hvad sem mér áliggur. Þegar Djøfullinn áklagar mig, samvitskan plágar, syndin fordæmir, svo þar er engin heilbrygdi í mínu holdi fyrir syndum mínum, og enginn fridur í mínum beinum fyrir Guds reidi, þá vill Jesús segja: Eg er hann, sem afmái þínar misgjørdir sem ský, þínar yfirtrodslur sem þoku, snú þú aptur til mín, eg hefi endurleyst þig, eg vil kasta syndum þínum í hafsins djúp, svo aldrei beri framar á þeim, trú þú á mig, svo ertu klár og kvittur; eg er lífsins braud, hvørr til mín kémur, hann skal ecki húngra, og hvørr á mig trúir, hann skal ecki þyrsta ad eylífu. Þegar eg rata fall og hrøsun,

svo reidi Drottins er uppegnd yfir mér og syndum mínum, svo eg á endiliga ad straffast, og Gud vill segja: Eg vil vitja hans syndar yfir hønum, þá er minn tími kemur; þá gengur minn Jesús ámilli og vill segja: Eg er hann, sem afplanad hefi þessa syndara yfirtrodslur fyrir sjálfann mig, og vil ecki minnast á hans syndir; mín pína, mín hlýdni, mitt blód og daudi hefir hann endurleyst; fyrirgéf hønum, Fadir! og fardu nú ecki áfram, svo þín reidi gremjist ecki yfir hønum. Þetta forsvar og syribón dugir mér nóg til assøkunar, þar Jesús verdur ætíd bænheyrdur, þar hann, sem hinn ædsti Biskup, fyrir sitt eigid blód, í þad allrahelgasta inngenginn, hefir fundid eylífa endurlausn, og hann er sá eini Medalgángari milli Guds og manna, sem sjálfan sig gaf til endurlausnar fyrir alla. Þegar eg fell í sótt eda sjúkdóm, þá brúkar Jesús sømu ord: Eg er hann, Drottinn, þinn læknari, sem fyrirgéf þér allar þínar syndir og grædi allar þínar meinsemdir; eg vil, vertu hreinn! þó þinn ytri madur eydileggist, þá skal þó, med þad sama dag frá degi, sá innri endurnýast, og þó þitt jardneska tjaldbúdar hreysi nidurbrjótist, hefir þú bygging af Gudi, hús án handa gjørt, eylíft á himnum; láttu þér á medan nægjast mína nád, minn kraptur fullkomnast í breisk-leikanum. Rati eg í armód og fátækt, þá segir minn Jesús: Eg er hann, sem fátækur er ordinn, svo þú skyldir audugur verda; óttastu ecki, eg er þinn skjøldur og mikil laun; hafir þú mig ad eins, þá þarftu hvørki ad skeyta um himin né jørd, vertu

ad eins andliga voladur, og ertu þá nógu ríkur, því þitt er himnaríki. Þó heimurinn hati mig, hreki og hrjái, og jafnvel eg verdi óþeckjanligur fyrir brædrum mínum og kunníngjum, skal þad vera mín huggan, ad eg veit minn Jesus vill þá segja: Í heiminum hefir þú ángist, en óttast ecki, eg er hann, sem hefi heiminn sigrad; fagna þú og vert gladur, því þitt verdkaup er nógligt á himnum, og þó þú hafir nú hrygd, skal eg sjá þig aptur og þitt hjarta skal fagna, og þinn føgnud skal enginn af þér taka. Þegar lokfins kémur þar ad fyrir mér, ad eg skal gánga veg allrar veraldar, og Drottinn vill allra seinast kalla mig fyrir sinn dómstól, þar ad standa reikníng af øllum mínum hugrenníngum, ordum og verkum, þá veit eg þú, minn Jesú! munt allra síst bregdast mér; þú munt vera sá þú munt vera, þú, sem ert sá sami í gjær og í dag og um eylífar aldir; þad er mín stærsta huggan, ad eg trúi þú munir þá segja vid mig þetta þitt sama ord: Eg er hann, sem vil taka þig til mín sjálfs, svo þú sért þar, sem eg er; eg er hann, sem vil géfa mínum saudum eylíft líf; þad er vilji Fødursins, sem sendi mig, ad eg tapi engu af øllu því, sem hann gaf mér, heldur ad eg uppveki þad á efsta degi. Já, minn Herra Jesú! þú hefir mér þessu lofad: þar sem eg er, þar skal og þjón minn vera; því vil eg gladur afleggja klædin, einsog Aaron, vera framandi frá líkamanum og fara vistferlum heim til Drottins; megi eg ad eins vardveita trúna, þad er mér nóg, þá vil eg segja einsog Símeon: Lát þú nú, Drottinn! þjón

þinn í friði fara, eptir orði þínu; en ámeðan þetta undandregst, skal eg leggja sífelda áſtundun á, að eg með hreinu hjarta kunni ætíð þessi orð í munni að hafa: Herra! þú veitst alla hluti, þú veitst að eg elska þig! ó! að þú viljir þá aptur andsvara mér í þínu orði, fyrir innvortis vitjun þíns anda og segja: þú, sem mig elskar, skalt elskast af mínum Föður, og eg vil elska þig, og eg vil opinbera mig sjálfan fyrir þér. Géf náð, Drottinn minn! að þetta ockar samtal og innbyrðis ávarp mætti svo uppbyrjast ockar ámilli hér á jörðunni, að það eylífliga framhaldist á himnum, Amen!

## 6. Hugvekja.

### Um Júdasar koss og Krists fángelsi.

Jesús spurði þá enn einusinni: að hvörjum leitið þér? Þeir svöruðu: að Jesú af Nazareth. Jesús svaraði: Eg sagði yður það, að eg er hann, og ef þið leitið að mér, þá látið þessa á burtu fara; svo uppfylltist það orð, hvað hann hafði sagt: að engum glataði eg af þeim, sem þú gafst mér. En Júdas veik sér að Jesú til að kyssa hann, og jafnsnart veik hann að hönum og sagði: sæll vertu Rabbí! og kyssti hann. En Jesús sagði til hans: Vinur! hvar til komstu híngað? O þú, Júdas! svíkur þu Mannsins Son með kossi?

Þá gengu þeir þángad, lögdu hendur á Jesús og gripu hann.

---

Fyrst má af þessu sjá, hvörsu viljugur Jesús gaf sig undir pínuna. Hans öbluga ord hafdi niðurslegið herskarann, þó slýdi hann ecki medan þeir láu, heldur beid þángad til þeir stódu upp. Hönum var ecki bágara, ad láta þá aldrei uppstanda, heldur enn ad fella þá; en hann kalladi ecki eld af himni einsog Elías; hann lét ecki jördina svelgja þá, sem Kóre og hans félaga, heldur lofar þeim á fætur, og innir til vid þá í annad sinn, ad hvörjum þeir leiti? og þegar þeir aptur nefndu Jesum af Nazareth, sagdi hann til sín á ný, en baud þeim þó þarhjá, ad láta lærisveinana kyrra í þad sinn, einsog hann hafdi ádur heitid: Engum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér. Hér má nú sjá, ad ecki stód þad í valdi óvinanna ad binda Jesúm, þá er þeir ætludu sér; hann lagdi sjálfur sína sálu frá sér, hafdi vald til ad afleggja hana og aptur ad taka. Eins er því og háttad um hans börn; þeirra hatursmenn komast ecki lengra enn hann vill og leyfir; öll ydur höfudhár eru talin, segir hann, óttist ecki, þér erud mörgum titlíngum betri. En fyrst þad var nú í Jesú valdi, ad pínast og géfast í hendur óvina sinna, þá er þad audvitad, ad hann gjördi þad af einskjærri hlýdni og elsku vid sinn himneska Födur, einsog skrifad er: Þú girntist ecki brennioffur eda syndafórnir; þá sagdi eg: sjá! eg kém, í bókinni er skrifad af mér: þinn vilja, minn Gud! gjöri eg gjarna, og þitt lögmál er

í mínu hjarta. Hérmed hefir, mín sál! þinn Lausnari borgad fyrir óhlýdni ockar; eg hafdi med óhlýdninni framid galdraglæp og afgudadyrkun, en Jesús galdt hlýdni fyrir mína óhlýdni, og lét þó engu ad sídur straff minnar óhlýdni lenda á sér; því skal eg ecki ad eins hugga mig hér vid, heldur ástunda hann og elska, er mig svo heitt elskadi, og hlýdnast hønum af øllu hjarta, sem fyrir mig svo hlýdinn gjørdist, ad eg haldi hans bod og sé stødugur í hans ástsemi, einsog hann héldt sín Føđurs bod og var í hans ástsemi, einkum þar eg á mig nú ecki sjálfur, heldur er eg verdi keyptur, á því ecki ad lifa mér, heldur hønum, sem fyrir mig er dáinn, Jesú Kristi, sem aptur er upprisinn.

Í ødru lagi kémur hér fram svikarinn Júdas med sinn falskoss; hann víkur sér ad Jesú, heilsar hønum vinsamliga og virdugliga og kyssir hann blídliga, svo ecki skyldi bera á ødru, enn ad hann fagnadi hønum ad venju. Jesús, sem þeckir hjørtun, svarar þessu hógværdarfulla áminníngar-ordi: Vinur! því komstu híngad? Júdas! svíkur þú Mannsins Son med kossi? og um leid bendir hønum til spádómsins, sem stendur í Psálm. 41: Minn vinur, hvørjum eg treysti, sá er át mitt braud, hann lypti sínum hæli upp ámóti mér. En allt fyrir þetta og adrar áminníngar, er þó Gudssonur hér svikinn med falskossi, af svika-þræli og Djøfulsins barni. Eva módir vor, lagdi munninn ad eplinu, sem høggormurinn ginnti hana á; hér leggja varirnar, á hvørjar nádin er úthellt, sig ad vørum þeim, sem undir

var høggorma eitur, til ad borga fyrir synd Evu, og burttaka þá ólucku, sem hún og nidjar hennar vard svikin í fyrir eplis-átid; høggormurinn taladi nógu blídliga vid Evu, þegar hann sveik hana; þinn svikari taladi líka blídliga vid þig, minn Lausnari! því bid eg þig, ad þú látir mig ecki tælast, þá Andskotinn vill gylla og fegra fyrir mér syndina og minni spilltu náttúru. Þér hefir verid gyldra í leyni løgd af þínum svikara, frelsa mig því af netinu, sem þeir hafa lagt fyrir mig, því þú ert minn styrkleiki, og lát ecki hrecki og hroka veraldarinnar koma mér af fótum. Framar bid eg þig, sem rannsakar hjørtun og nýrun, og þessvegna þeckir øll svik og undirhyggju, ad þú takir burt úr hjarta mínu øll þesshátar óheilindi, svo ad eg kunni ad eptirfylgja þér med hreinu hjarta, í hvørs munni engin svik eru fundin, vera svo og nefnast þinn réttur vinur og lærisveinn, hafandi ætíd þann vitnisburd: þar er sannur Ísraelíti, í hvørjum ecki eru svik. Tak þér nú enn framar, sála mín! þá huggan: Andskotinn, sem gengur í kríng, einsog grenjandi ljón, hann er bædi stángar-ormur og hlyckjóttur-ormur, villandi alla veraldar kringluna; æ! hvørsu opt hefir hann nú framkomid med sínum svikum? en sjá! Mannsins Sonur er svikinn, þó svo, ad hann syndgadi ecki þarmed, svo eg megi vænta mér fyrirgéfníngar, þó eg kunni ad svíkjast svo, ad eg syndgi, já adstodar, ad sjá vid svikrædi Djøfulsins, holdsins og heimsins, svo eg leidist ecki í freistni af þeim mínum óvinum, heldur fái mig vidrétt, og hafi svo

orsøk ad sýngja hans nafni lof, segjandi: Lofadur sé Drottinn, sem ecki gaf oss ad herfángi fyrir þeirra tennur; vor sála er sloppin, einsog fugl af veidimannsins snøru, snaran er brostin, og vér erum sloppnir; vor hjálp er í Drottins nafni, sem gjørt hefir himin og jørd. Athugum framvegis, ad enginn falskliga kyssi Jesúm, sem Júdas; med allskyns hræsni gétur þad ad sønnu skéd, en þó ecki síst, þá menn ydrunar- og eptirþánkalaust medtaka þad heilaga kvøldmáltídar Sakramenti, hvar inni hann kyssir hann med kossi síns munns, sem hans sála elskar, og sameinar sig nákvæmliga sínum trúudum. En munu þeir nockud njóta þeirrar samtengíngar, sem slasa til Guds bords einsog til almenniligrar máltídar? Þeir kyssa ad sønnu Jesúm, þá þeir medtaka hans hold og blód í Sakramentinu nálægt eins- og ádur, en þeir verda sekir þarvid, og eta og drecka sjálfum sér dóm, einsog Júdas, sem snerti Jesú varir med sínum ógudligu vørum, en mátti þó heyra: Vinur! til hvørs komstu híngad? Júdas! svíkur þú Mannsins Son med kossi? Þú í sama máta, hinn ógudligi og óumbreytti! heyr hvad Drottinn segir: Hvad kémur þér þad vid, ad taka ord míns sáttmála þér í munn, og hvørsu minni rétt hefir þú þá til ad taka í þinn gudlausa munn blód sáttmálans, sem sjálfur þú heldur almenniligt? Vara þig þessvegna, sála mín! í Guds nafni vara þig vid kvøldmáltídarbord þíns Herra! géf hønum þar engan slærdarkoss, heldur koss ydrunar, því heilir hafa ecki læknarans þørf, heldur þeir, sem eru sjúkir. Bjód høn-

um koss trúarinnar, hvørt svo innvefji sig í hans sárum og forþénustu, að trúin undir eins sé krøptug fyrir kjærleikann til umbótar lífernisins! Þegar þú svo þvær hans fætur með ydraninni, kyssir með trúnni og umfaðmar með elskunni, mun hann kyssa þig aptur ámót, og láta sinn anda vitna í hjarta þínu, að þér séu þínar syndir fyrirgéfnar.

Í þriðja máta kémur hér fram það hryggiliga fángelsi Lausnarans, því þegar Júdas var búinn að fullgjøra svikin, gánga hinir að og leggja hendur á Jesúm til að gripa hann. Sjá hér, mín sála! hvørsu þeir ógudligu þúsast hér að þínum Lausnara og keyra það saklausa og þolinmóða Guðs Lamb í fjøtur og varðhald einsog íllvirkja, hvarmeð hann bæði fullnægði fyrir ránglætíngar vorar, og forþénaði mikla náð og blessun. Einsog Adam vanbrúkaði sinn sjálfræðis vilja Guði til stygðar, svo hefi eg líka, hans syndugur niðji, gjørt og opt framið syndina sjálfráður, laus og liðugur; því er Jesús fánginn, svo hann borgaði þarfyrir; syndin hefir svo herteкið mig, að eg opt aðhefst það, er eg ecki vil; en eg þacka Guði fyrir Jesúm Krist, sem fánginn er, svo að eg í hans frelsi standandi og af hans krapti studdur, fæ syndinni svo af mér hrundið, að hún þarf ecki að drottna í mínum dauðliga líkama; því vil eg segja með Davíð: Drottinn! eg er þinn þjón, sonur þinnar ambáttar, þú hefir leyst mín bønd; þar var fallinn andligur dofi á hjarta mitt, svo eg fann ecki gløggt þó eg æfði syndina, heldur enn dauður maður; því eptir náttúrligu ástandi

voru, erum vèr allir daudir í syndum og yfirtrodsl-
um, en Jesús tekur þann dofa í burtu, þegar hann
lætur sinn anda straffa í mèr syndina, svo mèr
finnst einsog bein mín vanmegnist, þángad til eg
hefi játad hønum mínar syndir og fengid þeirra kvitt-
un, hvarmed og hans kjærleiki þvíngar mig. Svo
veri nú Gud lofadur! fyrst Sonurinn hefir frelsad
mig, þá er eg rèttiliga frelsadur, og ekki lengur þræll
syndarinnar; hann er gripinn og fángadur, en eg er
laus af syndarinnar, daudans og Djøfulsins fáng-
elsi, og krossfestur med Kristi, en eg lifi, þó ekki eg
framar, heldur lifir Kristur í mèr, en þad eg lifi í
holdinu, þad lifi eg í trúnni Guds Sonar, sem mig
elskadi, og sjálfan sig gaf út fyri mig. O minn
Jesú! lát þín fjøtur hepta allar mínar tilhneigíngar,
lidi og limi frá allri þjónustu syndarinnar, og ver-
aldarinnar ógudligu háttalagi, ad eg svo heiminum
krossfestur og med þèr greftradur og dáinn, upprísi
einnig med þèr til endurnýúngar lífdaganna, og
minn andi, ad deyddum holdsins girndum, þjóni
þèr hindrunarlaust í heilagleika og rèttlæti fyrir
sjálfum þèr, alla mína lífdaga. Bænheyr þad,
Drottinn minn! fyrir þitt harda fángelsi og alla for-
þènustu, Amen!

## 7. Hugvekja.

Um vørn Péturs og Malkúsar eyra=sár.

En sem þeir, er með Jesú voru, sáu hvað verða vildi, sögðu þeir til hans: Herra! skulum vér ecki slá með sverði? Símon Pétur hafði sverð, dró það út, sló til Prestahöfðíngjans þénara og hjó af hönum hans hægra eyra, sá þénari hét Malkus. Jesús svaraði: leyfið þeim að gjöra hið frekasta, en sagði til Péturs: stíng þú sverði þínu í slíðrið, því hverr, sem sverðið tekur, skal fyrir sverði farast; eða, meinar þú, að eg kunni ecki að biðja Föður minn, það hann sendi mér meir enn tólf legíónir Engla? skal eg ecki drecka þann kaleik, hvørn minn faðir hefir mér gefið? og hvörnig skyldu þá ritníngarnar verða uppfylldar? svona hlýtur að ské. Og hann áhrærði Malkúsar eyra og læknaði hann.

---

Það fyrsta, sem héraf má læra, er: að gánga ecki fram af ofdirfsku og rasandi ráði. Þegar flockurinn kom að lærisveinunum, spyrja þeir Herrann: hvørt þeir egi að taka til vopna? Svo byrjar að leita góðra ráða og flasa ecki á sig fram: í háskann af einræði og sérsinni, því vegur ens heimska er réttur fyrir hans augum, en sá er vís, sem ráðunum hlýðir, segir Salómon; það reynist líka optliga, að af einræðinu og sjálfsþóttanum brýtur margur hálsinn, og fær ecki viðgjört, þegar það er orðið.

En þó þesſu sé nú svo varid, þá er best ad ætla hófsliga uppá mennina, því tilber á stundum, ad þá vantar vitsmunina, stundum dygdina, stundum gétur Gud gjørt ráð þeirra ad heimsku, þegar hann vill svo; því er sá kosturinn bestur, ad leita ráda til Guds orda, þau skéra best úr øllum vandamálum og sýna oss hvad gjøra skal og ógjørt láta, hvad sómi edur ecki sómi, hvad leyft sé eda bannad; því er sá sæll, sem kann ad segja med Davíd: Þínir vitnisburdir eru mitt rádaneyti, þitt ord er lampi fóta minna og ljós á vegum mínum. En, því er midur! þess gæta ecki allir, heldur hlaupa til þess, sem gédi þeirra er næst, og í því má finna þeim góda Pétri hafi hér á ordid; hann beid ecki eptir andsvari Jesú, heldur ryckir sverdi í brádrædi sínu, slær því hvatvísliga fram í flockinn, hittir þarfyrir einn biskups-þjóninn, hvørs eyra hann affnídur, og átti sannarliga ad þacka Jesú adgjætslu, ad ecki vard meira af høgginu, því annars mundi hann hafa illa komist af í þad sinni. Jesús skipar, ad láta fjandmennina hafa sinn vilja, ávítar Pétur fyrir sína framgirni, og segir hønum, ad hvørr sverdid taki, muni fyrir sverdi farast; hann kynni ad sønnu bidja Fødur sinn ad senda sér meir enn 12 legiónir, þad er: mikinn herskara Engla*), en þad væri ecki sitt, ad skora sig undan þeim kaleik, sem hann hefdi áskeinkt fyrir sig, því Guds ráð yrdi stødugt ad

*) Legiónir voru misjafnar, þó var engin minni enn 4000, gjøra þá 12 Legiónir ad minnsta kosti 48000 Englá.

standa og Ritníngin ad uppfyllast, hvar eptir hann bætti handaverk Péturs, og læknadi eyra þjónsins.

Hyggjum nú í annann stad ad þessari rædu Lausnarans; hann nefnir hér tvø sverd: hvørr sverdid tekur, skal fyrir sverdi farast; þad eina er sverd valdstjórnarinnar, hvørt ad er Guds sverd til hegníngar og reidi yfir íllvirkjana; annad er sverd sjálfshefndarinnar, sem øllum er fyribodid, og hvørr, sem þad leyfislaust í hønd tekur, skal falla fyrir Guds eda dómarans sverdi, eptir því gamla løgmáli: Hvørr, sem úthellir mannsins blódi, hans blód skal fyrir manninn úthellast. Gætid nú fyrst ad þessu þér, valdsmennirnir! þér berid Guds sverd til forsvars þeim gódu, þeim voludu og undirþryktu; høggvid ecki þar, sem hlífa skyldi, og skadid ecki med vopninu, sem þér farid med, þá, sem þér egid ad forsvara, hvad ecki skédur ad eins med opinberri undirþryckíngu þeirra frómu og forsvarslausu, heldur med løgleysu, þegar ránid er ecki tekid af hendi ofríkismannsins, heldur leyfist rifbaldanum allt vid hinn fátæka, føðurlausa og eckjuna; þér berid Guds vandlætíngar sverd; hætt er vid þér kunnid ad meida ydur á því, því þegar þér sparid þá, sem Drottinn skipar ad straffa, þá fellur sverdid á sjálfa ydur, einsog Achabs dæmi sýnir, þegar hann sleppti Benhadad; hafid þad þessvegna í heidri, og bannid því ecki blódshefndina, þegar Drottinn svo skipar: því bølvadur veri sá, sem verk Drottins gjørir svikfamliga og hindrar sverdid frá blódinu; takid trúliga hid vonda burt úr Israel, svo ecki falli reidi

yfir Guds fólk fyrir ydar hyrduleysi, og hyggid ad dæmi Mósis, hvørr, þótt hann væri hinn þolinmódasti madur, vandlætti hann svo um gullkálfinn, ad hann lét Leví børn drepa á einum degi nær 3000 manna. Gætid í annann stad hér ad þér, sem berid ydar haturs og hefndar sverd! þér megid þad øldúngis ecki útdraga, þad bannar Jesús hér; stíng þú — segir hann — þínu sverdi í slídrid; sé hann þinn Herra, sé hann þinn meistari, þá gjør, sem hann segir þér, og líd þolinmódliga óréttinn, annars ertu ecki hans lærisveinn; Gudi heyrir hefndin til, einsog Postulinn segir, mín er hefndin, eg vil endurgjalda, segir Drottinn; Gud hefir fengid valdstjórninni sverdid, en ecki þér; fallir þú nú inn í Guds og hennar embætti, meinar þú þá ecki, ad hann krefji síns réttar, sem engum ødrum gefur sína dýrd; en þú ættir þó ad vita, ad hrædiligt er í hans hendur ad falla, og hefir þú víst verra af því, enn þeim órétti sem þú leitadist vid ad fá hefnd yfir fram fyrir hendur á Drottni; eda hvørnig getur þú bedid Gud, ad hlutast til þíns málefnis, þegar þú ert sjálfur búinn ad slá uppá þín rád, þvert ámóti hans bodi?

Athugum nú í þridja lagi, hvad vard af høggi Péturs; hann sneid eyrad af einum kennimannahøfdíngja þjóni, sem Malkús hét. Malkús, med sitt afhøggna eyra, má merkja alla Guds ords foraktara; þeir eru hindradir á hægra eyranu, þá læra skal Guds ord og lifa eptir því, en hid vinstra er opid fyrir spéglósum, rógi, fréttaburdi, íllum umlestri

og ødru íllu, sem menn vilja þarí bera; en gott að gjøra láta þeir sér ecki undirvísa, hafandi brennimark á sínum samvitskum, hvört og lætur sjá sig í háttalaginu. Þjófar og illræðis-menn plaga að merkjast stundum á andlitið; eg kann heldur ecki annað að segja, enn Malkús fengi markið, þá hann misti eyrað; svo hafa allir óvinir krossins Krists, hvørra Guð maginn er, þeckjanligt mark á sér, það situr á eyranu, og heitir foraktan Guðs orða; vel lýsir Jeremías þeim undir þessu marki: fyrir hvørjum — segir hann — skal eg tala og vitna að nockur vildi heyra, en eyru þeirra eru óumskorin, þeir géta ecki heyrt það, þeir halda orð Drottins fyrir spéskap og vilja það ecki. O Jesú! lát þetta einkénni aldrei á mér sjást, heldur leið mig á veg þinna boðorða, því eg hefi lyst þartil.

Hugleiðum nú í fjórða máta, að lyktum, Jesú blessað eptirdæmi, sem sýnir hans trú, þolinmæði, hlýðni og hógværð: meinar þú — segir hann við Pétur — að eg kunni ecki nú að biðja Føður minn, að hann sendi mér meir enn 12 fylkíngar Engla? A Jesú láu þær hørmugligustu eymdir bæði innvortis og útvortis, og Guð sló hann í reiði sinni vegna annarligra synda, sem hønum voru tilreiknaðar; þó setur hann miðt í þessu sitt traust til síns himneska Føðurs, hvørjum hann vill af hjarta hlýðnast, og þolinmódliga drecka þann kaleik, sem hann gaf hønum, svo hans orð støðug standi og hans vilji framgángi. Gjør sama, Guðs barn! í øllum þínum krossi; seg til sálar þinnar: vona þú á

Drottinn, því eg mun hønum ennþá þackir gjøra; sú von verdur ecki til skammar, því blessadur sé sá madur, sem á Drottinn vonar, Drottinn mun vera hans hæli. Jesús kallar hér sína kvøl þann kaleik, sem Fadir sinn hafi sér géfid; mótlæti þitt er einnig kaleikur af Drottins hendi ad þér réttum, einsog vída má sjá í Guds ordi, og medal annars, þegar Davíd segir: Þú létst fólk þitt kénna á hørdu, þú gafst oss vín, svo vér tumbudum; af þeim mótlætis kaleik hefir þinn Lausnari druckid þér til, þá hann leid þér til eptirdæmis; því er þad hans kaleikur, sem hann býdur þér, og þad med þeim ummælum: minn kaleik skalt þú ad sønnu drecka! medtak þacklátliga þá deild þaraf, sem þér er ætlud, hvør víst er skømtud eptir máta, því Jesús þeckir allan þinn vanmátt, sem sjálfur er freistadur, svo ad hann kénni í brjósti um þann, sem freistadur er, því má ætla uppá þad, ad hann er trúr og freistar einkis yfir megn fram. Sjálfur drack hann allt þad bølvada og banvæna, en eptir er sá parturinn handa þér, sem kryddadur er med nád og huggun heilags Anda; því segir hann: Mitt ok er sætt og mín byrdi létt; og hvad er þad, sem vér høfum ad bera ámóti því, sem Jesús leid? Leifar einar eru þad, en høfuddeild engin, tøkum því vid því med þacklæti, þøgn og þolinmædi. Svo hefir nú Jesús, med þessari sinni prédikun, ként oss þolinmædina í því, ad lída yfirgáng mannanna, trúnadartraustid til Guds, þá nockud adamar, og audsveipnina í því, ad taka því vel, sem ad høndum kémur; en þad hann kéndi med

ordunum, sýndi hann með verkinu, hann áhrærði eyra þjónsins og læknaði hann. O, minn Herra Jesús! aldrei hefir þú betur kènt mèr hógværðina, heldur enn þegar þú borgaðir fyrir mína fólsku og hefndargirni; því skal eg læra af þèr að elska óvini mína og gjøra þeim gott, sem mig ofsækja. Þú hefir með øllum rètti sagt, ó þú blessaða hógværðar dæmi! Lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur. En þú, sem hèr læknaðir eyra þíns fjandmanns, umskèr þú mitt hjarta og eyru, svo eg hlýðugliga heyri þessi og ønnur þín orð, því frá þèr, ó Drottinn! kémur heyrandi eyra og sjáandi auga; hjálpa mèr einnig minn kross þolinmóðliga að bera, og þegar eg tek að veiklast, þá styrk þú sjálfur þær veiku hendur og skjálfandi kné, svo að eptir afdruckinn kaleik þinnar hørmúngar, megi eg eta og drecka yfir þínu borði í þínu ríki eylífliga, Amen!

---

## 8. Hugvekja.

### Prèdikun Krists fyrir Gyðíngum.

Að þeim tíma sagði Jesús til prestahøfðíngjanna, høfuðsmanna musterisins og øldúnganna, sem til hans voru komnir: Þèr eruð, einsog til einhvørs morðíngja, útgengnir með sverðum og staungum að grípa mig; dagliga hefi eg þó hjá yður verið, setið og kènt í musterinu, en þèr hafið engar hendur á mig

lagt til ad grípa mig. En þetta er ydar tími og myrkranna makt, svo ad ritníngin uppfyllist.

---

Gack þú til þeirra herleiddu þíns fólks, og seg þú til þeirra: Svo sagdi Drottinn, Drottinn, hvørt heldur þeir heyra þad, edur ecki — sagdi Gud vid Ezechíel. Drottinn vill láta sitt ord prédikast, ecki ad eins þeim, sem hann veit þad muni medtaka og ávøxt af þeim færa, heldur og þeim, sem hann veit þad muni forsmá, svo hann auglýsi þarmed, ad ecki sé skuldin hjá sér, þótt menn tapist, heldur sé hann sá Gud, sem ecki vill syndugs manns dauda, og útbreidi því hendurnar allan daginn til óhlýdugs fólks. Þad sýndi vor Jesús best á Gydíngum, hvørjum hann vildi ætíd samansafna, einsog hænan úngum sínum undir vængi sér, en þeir vildu ecki; og nú seinast, þá þeir voru útgengnir ad grípa hann, hóf hann fyrir þeim ydrunar-prédikun, af hvørri vér lærum: ad einginn hefir mætt meira óþacklæti enn Jesús, og sannadist þad þó helst í pínunni, þegar allar syndir søfnudust ad hønum, allteins óþacklætid, sem annad. Þér erud — segir hann — einsog til íllvirkja, útgengnir med sverdum og staungum ad grípa mig; dagliga hefi eg þó hjá ydur verid, setid og ként í musterinu. Hér eru óføfn skipti; Jesús sat og kéndi í musterinu; en hvad þá? hvørnin þeir gætu sloppid frá bølvun løgmálsins, sem lesid var hvørn Sabbatsdag, en ødlast fyrirgéfníngu og nád, einsog réttir fyrirheitisins erfíngjar, hvarmed

hann og sýndi þeim margt gott verk af sínum Föd-
ur; en hvad fèck hann aptur til launa hjá þeim?
hatur, smán, lastyrdi, offóknir, kvøl og dauda. Skal
þig þá undra, kristinn madur! þó heimurinn launi
þér ecki nema illu einu, þína lítilfjørligu gódvild?
eda ertu nockud meiri enn Jesús? segir hann ecki
svo sjálfur: Lærisveinninn er ecki yfir meistara sínum
og þjóninn ecki yfir herra sínum? hafi þeir kallad
húsføðurinn Beelzebub, skyldu þeir ecki miklu framar
gjøra þad vid hans heimamenn? Þar sem velgjørn-
íngarnir eru stærstir, þar hefir stærsta óþacklæti stad,
því þess betur, sem einn gjørir vid mig, þess verr
fer mér, ef eg launa hønum illu; nú hafa engir
velgjørníngar nockurn samjøfnud vid Jesú velgjørn-
ínga, og því er eckért óþacklæti svo mikid, sem þad,
sem framkom vid hann. Hugsa þú med þér, þegar
heimurinn þér illu gott launar: lítil er mín velgjørd
hjá Guds míns og Jesú velgjørníngum dagligum,
því er lítid þad vanþacklæti, sem eg þykist lída, hjá
því, sem Jesús leid og Gud verdur dagliga fyrir
bædi hjá mér og ødrum; þessir þánkar skulu ecki
einúngis áminna þig til þolinmædinnar, þegar svo
vid ber, heldur til eptirbreytíngar þíns himneska
Fødurs, sem gódur er vid óþackláta og vonda. En,
einsog þad er kristins manns skylda, ad lída van-
þacklæti, svo á hann líka ad varast þad, því þad
er undanfari straffsins, sem Salómon segir: Hvørr,
sem géldur illt fyrir gott, frá hans húsi mun ecki
víkja hid illa. En þó nú aldrei væri annad, þá
ættum vér ad minnast, þad Jesús hér í sinni pínu

kvartar um vanþakklæti, en þær syndir, sem helzt létu sig í ljósi til að kvelja hann í pínunni, ættum vér helzt að hata.

Það annað, sem vér skulum héraf læra: að einsog allt kom fram við Jesúm eptir Guðs forsjón og fyrirhyggju, svo skédur það og við oss. Þessi er ydar tími og makt myrkranna, segir Jesús. Ekki var það af dygð eða deyfð, að Júdar gripu ekki Jesúm, þá hann sat og kéndi í musterinu; þeir báru sig stundum að því, sendu líka út menn, sem það skyldu gjöra, en það hafði ekki að segja, fyrri enn sá tími var kominn, á hvörjum ásett var, að makt myrkranna skyldi gánga yfir hann; allt þángað til mátti það svo heita: enginn lagði hendur á hann, því hans stund var ekki kominn. En einsog Jesú pína hafði sinn vissa tíma, svo er allt vort mótlæti, bæði að upphafi og niðurlagi, ákvarðað og fyriséð í Guðs náðarríkri fyrirhyggju. Hvað, sem nú að höndum ber, vil eg hvíla huga minn á þessari Guðs forsjón; eg skal ekki leitast við að flýa fyrir tímann úr kross-ins skóla, heldur láta mér það lynda, að mínir tímar eru í þinni hendi, himneski Faðir! ekkért kémur fram við mig af hendíngu, því þín augu sáu mig, þegar eg ennþá var ótilreiddur, og þessir hlutir voru gjörðir, já, þegar þar var ekki einn af þeim.

Tökum oss nú í þriðja lagi, af þessum Jesú orðum: Þetta er ydar tími, orsök til að hugsa um vorn vitjunartíma. Jesús meinti að sönnu Gyð-ínganna tíma, á hvörjum þeir máttu koma fram við hann sínum óguðligum ásetníngi, en samt skulu

mér ætíð þessi orð í eyrum loða: Þessi er ydar tími. Nú, meðan þar segist ennþá í dag, og Drottinn útbreiðir hendurnar, svo mér boðast í Jesú nafni ydran og syndanna fyrirgéfníng, er minn tími, tími náðarinnar, tími ydrunarinnar, tími til að tapa eður ávinna sáluhjálpina. Eptir kémur tími reikníngs-skaparins, tími dómsins, tími reiðinnar, þegar brúð-arhúsið verður lokað fyrir øllum þeim, sem ekki hafa gjørt yfirbót, hvørjum hræðiliga mun þá bregða við þessi orð: Þú þecktir ekki þinn vitjunar-tíma. Gæt-um þessa, í Drottins nafni! nú bíður hans láng-lundargéð eptir yfirbót vorri, svo vorar syndir kvittar verði. En eigum vér þá að bíða með syndina, þáng-að til Drottinn burttekur náðina, og vill ekki lengur bíða með reiðina? Ekki er það að efa, að því leng-ur, sem forsmáð hefir verið Guðs lánglundargéð, þess þýngra verður straffið, hvar uppá svo møꝛg dæmi eru; Veitstu ekki, segir Páll postuli, að Guðs þolinmæði líður þig til yfirbótar, en þú, eptir þínu forstockudu sinni, safnar þér reiði á dag Guðs reiði og réttlætis dóms. Hvørr er nú óþarfari samdrátt-ur, enn sá, að safna sem øðrum féssjóð Guðs reiði handa sjálfum sér allt til dómadags; en það gjøra þó allir ydrunarlausir; gjørum þessvegna ydrun, því himnaríki er nálægt, og forherðum ekki hjørtu vor í dag, þá vér heyrum hans røðd; vørum oss í Guðs nafni, við þeim háskasamliga undandrætti, sem marga svíkur og svikið hefir, og byrjum nú strax á þessum degi, sem yfirstendur, að taka fyrir oss sinna skipti, reka burt syndina, en snúa aptur til Drottins, því hvørr

kann ad vita, nema nú í nótt verdi sálin af ofs krafin, og vér svo kalladir fyrir dóminn. Eitt er víst, ad vor Herra hefir nógsamliga gjört rád fyrir, ad hann muni koma á þeim tíma, sem þá ódyggu þjóna minnst varir.

Í fjórda máta lærum vér af Jesú ordum, ad þeckja og varast makt myrkranna. Myrkur merkir í ritníngunni blindleika, syndir og ógudligt athæfi, því er nú myrkranna makt yfirhønd ránglætisins, sem er ríki Andskotans, hvøred drottnar í myrkrum þessarar veraldar. Nú, þó hann upprétti myrkranna ríki í hvørjum einum vantrúudum, því hann er krøptugur í børnum vantrúarinnar, þá taka þó myrkrin helzt abl, yfirhønd og myndugleika, þegar ógudligir menn eru í heidri og hafa yfirrád yfir ødrum, svo høfdíngjarnir eru gudlausir, serplægnir, ómiskunsamir, dramblátir, og ecki einúngis hafa sjálfir í frammi þessi og ønnur þvílík ófrjóssöm myrkra verk, heldur samsinna þeim, sem þau gjøra. Þarfyrir, þegar Kristur nefnir hér makt myrkranna, sýnist mér hann bendi høfdíngjunum til ad gæta þess, ad Satan haldi ecki á maktinni med þeim, svo hún verdi ecki myrkra makt; eckért samkvæmi hefir ljósid vid myrkrid, því ljósid rekur myrkrid í burtu, en myrkur á vid myrkur; kann þá nockud sá høfdíngi ad vera ljós eda ljóssins barn, sem lætur skugga sinn hylja pretti og skálkapør órádvandra manna, og sína makt af þeim bera? hann er svo lángt frá ljósinu, einsog þad er ómøguligt ad ljósid hafi skugga. Gæt því ad, þú aumur madur! ad þú látir þér ecki allt leyf-

ast, þó þú hafir framgáng um stund og séri í myndugleika; komi daudans myrkur, þá verdur ecki maktinni vidkomid. Muntu nockud segja vid banamann þinn: Eg er sterkur Gud? sagdi Drottinn um höfdíngjana í Tyró. Hvørnig fór fyrir Pharaóni, Balthazar, Senacherib, Heródesi, þeim ríka manni og fleirum ødrum? eda, mun nockud bera á myndugleikanum í ytstu myrkrum kvalanna? Hugsa hér um, ádur enn þú átt ad gánga veg allrar veraldar; myrkrid er létt og hverfullt, eins er allt mikilhæfi heimsins; og um alla þá, sem uppá þad treysta ofmikid, heitir þad ad lyktum: Þeir hafa þig á vog vegid og fundid léttvægann. Jesús mun loksins koma í sinni dýrd, og allir heilagir med hønum, þá mun hann dæma hvørn einn, án manngreinar álits, eptir hans verkum, bædi ríka og fátæka, smáa og stóra. En fyrst nú ecki er ødruvísi varid um syndsamliga hoffrakt veraldarinnar, þá skyldu allir vara sig ad ætla of-frekt uppá høfdíngjana, eda gjøra þad þeim til vilja, sem Gudi er til stygdar, því víst mun hvørr Gudi reikníng standa fyrir sjálfan sig, og hvørr sína byrdi bera. O Jesú! þú sanna heimsins ljós! ljóma þú svo fyrir vorum yfirvøldum, ad þau gángi aldrei í myrkrunum! Upplýs oss alla, ad vér lifum gudrækiligu og róligu líferni í allri gudrækni og sidsemi! Þar hefir komid fyrir þér sá tími, á hvørjum þú skyldir kveljast fyrir vorar syndir, lát oss því ecki eylífliga tortýnast! Yfir þig hefir geysad makt myrkranna, lát oss því ecki rata í hin ytstu myrkur, heldur leid oss inn í ljós og samfélag þinna barna

á himnum, þegar úti er fyrir oss tími lífsins, og lidinn tími þessarar veraldar! Amen!

## 9. Hugvekja.

### Um flótta Lærisveinanna.

Þá yfirgáfu Jesúm allir lærisveinarnir og flýdu, og úngur madur var þar, sem hönum fylgdi, med líni klæddur yfir bert hörund; og hin önnur úngmenni gripu hann, en hann snaradi línklædinu og flýdi nakinn á burtu frá þeim.

---

Einsog ádur var spád um Jesúm, ad hann mundi einn vínþrúguna troda, svo kom þad og fram; því þegar makt óvinanna fékk yfirhönd, sjá! þá flýa frá hönum allir hans fylgdarmenn, einsog hann hafdi ádur fyrisagt: Þér munud tvístrast hvörr til sinna og mig einann eptirláta, en eg em þó ekki einn, því Fadirinn er med mér. Héraf má nú fyrst læra: ad án Drottins tilhlutunar dugir engin mannlig hjálp. Jesús þurfti ekki styrks af mönnum, hann ætladist og ekki þartil, þó var hönum margt fólk áhángandi; hann hafdi 70 lærisveina fyrir utan þá 12 postula, sem hönum voru handgengnir, af þessum var einn fallinn frá og einúngis 11 eptir; þessir flýa nú líka þegar gylda skal. Þetta hefir komid fram á Lausnara vorum oss til eptirdæmis, sem annad fleira; því er oss ekki stórt ad ætla uppá mennina, þeir

duga opt minnst þegar mest ríður á, sem von er, því Davíð segir þeir bregðist; þeir vega minna enn ekkért, þegar þeir leggjast í metaskálina, svo margir, sem þeir eru; eins er því líka varið, þó vinir séu eða náúngar, hvørr vill ætíð vera sjálfum sér nærstur þegar á reynir, og ekki þarf ætíð að reiða sig á trúfesti þeirra, þótt vandabundnir séu, því Spámaðurinn segir: Sérhvørr vari sig við vini sínum og trúi heldur ekki bróður sínum. En jafnframt þessu kynni einhvørr að segja: hefði eg verið með Jesú, skyldi eg hafa fylgt hønum allt í dauðann og ekki flúið. Svo sagði líka Pétur og hinir lærisveinarnir; en hvørnig fór? mun oss þá betur farnast? Nei, lángt er frá því, nema miður sé? Lærisveinarnir høfðu farasleysi í það sinn; þeir slitust nauðugir frá sínum Herra, þeir elskuðu hann og vildu jafnvel gánga í dauðann með hønum; eða hvað er það, sem Tómas sagði, þá Jesús fór seinast upp í Júdæa? látum oss fara með, að vér kunnum að deya með hønum. En vér, vér flýum frá hønum í óleysi sjálfviljugir og ræktarlausir, viljandi ekkért fyrir Jesúm líða eða hans vegna missa, hvað svo opt skéður, nær vér metum meira vorar girndir og eptirlæti, enn Jesúm og hans orð; það heitir að yfirgéfa Drottinn, þann lifandi brunninn, en grafa sjálfum sér brunna, sem ekki kunni vatni að halda. Æ minn Jesú! hvørsu opt hefir mig nú hendt þetta? hve mikla orsøk hefir þú til að taka til vitnis yfir mér himin og jørð, það þú hafir lagt við mig ástfóstur, en eg sé þó vikinn frá þér? hefi eg orsøk til kløgumáls, þótt þú

hédanaf vildir halda mig fyrir bygdalausan flótta-þræl, kasta mér í burtu frá þér, forsmá mig og hlæa ad mér í minni ólucku, já, burtskúfa mér ad síduslu í eylífar pínslir? En æ! hve mikil er þín gædska! hve mikil þín þolinmædi! hve ósegjanligur þinn kjærleiki! þú, sem ecki lætur af ad leita ad mér þegar eg villist, kalla á mig þráfamliga og segja: Kom þú aptur til mín. O! hvørsu hefir þú, Drottinn minn! fullkomnad á mér, þad um þig spád stendur: Eg vil sækja mína saudi og leita eptir þeim, einsog hyrdirinn eptir hjørd sinni. En svo eg kunni mig þess heldur þarvid ad hugga, ad þú munir hédanaf ecki yfirgéfa mig né sleppa þér úr hendi, þá hefir þú, minn trúlyndi Hyrdir! einn verid eptirskilinn í óvina høndum; þú munt því vissuliga hjá mér standa í freistíngunum og vid mig segja: Ottast þú ecki! eg er med þér; hika þú ecki! eg er þinn Gud, eg styrki þig og hjálpa þér einnig, og held þér vid fyrir þá hægri høndina míns réttlætis; og þar eg nú trúi, ad þú sért því yfirgéfinn af øllum, ad þú aldrei yfirgéfir mig, þá skal eg þess heldur í trausti þinnar miskunar, óaflátanliga bidja og segja: ó minn Gud! stattu ecki lángt frá mér! Drottinn! mitt hjálpræði! flýttu þér, ad hjálpa mér! Gætum líka, sála mín! ad þeim lærisveini, sem Jesú eptirfylgdi, klæddur líni yfir bert hørund, hvørr nakinn flúdi frá þeim óhlutvøndu únglíngum, er hann vildu grípa. Hér hafa víst verid drengir med í ferdinni, sem vildu leika sama barnaleik vid þenna pilt, sem þeir sáu húsbændur sína leika vid Herrann; enda

skédur það optar, að hvar yfirboðararnir eru samvitskulausir, uppalast gjarnan háðgjarnir spéfuglar, sem lærðir eru til að gjöra íllt, og hafa þá að skimpi, sem Jesú eptirfylgja og gánga fram í Guðsótta og góðum siðum; en þér er betra, barnið gott! að flýa nakinn og fara á mis við ábata-von og eptirlæti, en að gefa þig í félag vondra manna, því heldur vill Davíð vera dyravørður í Drottins húsi, enn lengi búa í tjaldbúðum ógudligra; þarfyrir, sonur minn! þegar syndararnir locka þig, þá kom þú ecki, og vit, að betra er að auðmýkjast með hógværum, enn útskipta herfángi með dramblátum. Rennum einnig vorum hugskotsaugum seinast eptir Lausnaranum, og álítum hans hrygdar-gaungu frá Gethzemane inní borgina Jerúsalem. Hér draga hann ógudligir menn frá sínum elskudu lærisveinum í svartnættinu, fjøtradann, gégnum þau brøttu og steinløgdu Jerúsalems stræti, um lángann og ørdugann veg, undir kvalaranna hendur og ransak, og segir sig sjálft, hvaða medferð þá hafi verið høfð á hønum blessudum, meðal svo hardhnackadra skálka, sem innteknir voru af hatri við hans allraheiløgustu persónu, og uppæstir af fallinu, sem þá nýliga hendt hafði. Eg var sá þrællinn, sem svo látandi dómur var allareiðu yfirfeldur: Bindið hans hendur og fætur og kastið hønum útí hin ytstu myrkur, hvar eð vera mun óp og tannagnýstrán, svo eg átti fordæmdur, að dragast til kvalanna, undirlagdur hræðiligum áløgum Guðs óbæriligu reiði; en það flecklausa Lambið, Guðs-Sonur Jesús, hefir tekið við øllu

þessu í minn stad, einsog skrifad stendur: Hann er burttekinn af landi þeirra lifendu, og hafdi plágu fyrir yfirtrodslur míns fólks; þessvegna er hann, einsog óbótamadur í myrkrunum dreginn undir kvalirnar, og hefir svo undireins verdskuldad øllum þeim á hann trúa, greidann veg útaf heiminum til eylífs lífs, líka sem sjálfur hann er vegur, sannleikur og líf. Þegar eg í trúnni hugsa hér um, þá kvídi eg ecki stórt mínu andláti og fjørbrotum, heldur burttekur þessi minníng þann kvída, sem inn hjá mér kann ad lædast, fyri minni seinustu reisu. Í kríngum Jesú var allt dymmt og amasamt pínu-nóttina; þess mun eg þá njóta og fá ad formerkja ljóma himneskrar huggunar leyptra inn í hjarta mitt, mér til hressíngar og hughægdar, svo eg þreyngi mér í voninni inn fyrir fortjaldid, þángad, sem minn fyrirennari, Jesús, er undan mér genginn. Jesú vór ætíd kvølin, og vid hvørt fótsporid nálgadist hann meiri pínu; mér mun þá ætíd vaxa rósemin, og vid hvørt andvarpid fæ eg ad nálgast meiri unadsemd. Jesús var nú hrakinn af þeim, sem sínar ógudligar hendur lédu til þess ad binda hann og framdraga; eg er leidtogadur af heiløgum. Englum á minni mædu-reisu, og þá munu þeir seinast bera sálu mína í fadm Abrahams. Jesú voru myrkrin til mædu og þjáníngar hans seinustu nótt; mér mun verda Guds dýrdar-ljómi til yndis, þegar eg kém í þann stad, sem ecki þarf túngls-birtu og ljóma, heldur mun Guds dýrd uppljóma hann og Lambid vera hans ljós; þar mun eg segja einsog Pétur; þá Je-

sús forklárađist, og þeir Móses og Elías opinberuđust í birtunni: Herra! hér er ośs gott ađ vera! O Herra Jesú Kristi! sem af ógudligum mønnum varst einsog spillvirki til pínslarinnar dreginn! útsend þitt ljós og sannleika, sem mig leidi uppá þitt heilaga fjall og til þinnar tjaldbúdar! Þú hefir látid þína óvini fara med þig eptir vilja sínum, einsog lamb til slátrunar leidt; láttu því ecki Djøfulinn géta fángad mig eptir vilja sínum í snøru sinni, svo hann dragi mig frá einni synd til annarar í forherdíngu og deyfd míns hugskots! Þú ert tekinn frá vinum þínum, og afhendtur kvølurunum; taktu því vid mér, sem minn besti vinur, þegar eg ad lyktum skil vid alla mína vini! Lát mig þá vera þar, sem þú ert, svo eg eilífliga sjái þína dýrd, Amen!

## 10. Hugvekja.

Um fyrsta ransak fyrir Kaíphasi.

En flockurinn og hinn ædsti høfudsmadur og þjónar Gydínganna gripu Jesúm og bundu hann, leiddu hann sídan burt, fyrst til Hannasar, sem var fadir konu Kaíphasar, hvørr ed þá var þess árs ædsti prestur, og Gydíngum hafdi géfid þad ráđ: ad betur færi, ad einn madur dœi fyrir fólkid. Þeir leiddu Jesúm þá inn fyrir ædsta prestinn Kaíphas, hvar allir kénnimannahøfdíngjar, skriftlærdir

og øldúngar voru safnadir. Kénnimanna-høfdínginn spurdi Jesúm þá ad hans læri-sveinum og kénníngu, en Jesús svaradi hønum: Eg hefi opinberliga talad í heiminum, med jafnadi ként í samkunduhúsum og í musterinu, hvar allir Gydíngar koma til samans, en eckért hef eg í afkymum talad. Því spyr þú mig ad þessu? spyr heldur þá þarad, sem heyrt hafa, hvad eg talad hefi til þeirra, því þeir enu sømu vita hvad eg hefi sagt. En er hann taladi þetta, þá gaf einn þjónanna, er stód þarhjá, hønum knefa-høgg og sagdi: skaltu svo svara biskupinum? Jesús ansadi: Hafi eg illa talad, þá sanna þú þad ad þad sé órétt, en hafi eg talad satt, því slær þú mig þá?

---

Einsog allar fornir gamla Testamentisins áttu ad færast til kennimannanna, svo er líka sú eina fórn nýa Testamentisins, Kristur, í sínu lýtaleysi og heilagleika, fyrst leiddur fyrir kénnimennina, ad hann skyldi slátrast fyrir vorar syndir til sætleiks ylms Gudi; einsog vér strax heyrdum, ad þeir, sem høfdu gripid Jesum, leiddu hann fyrir rád kénnimannanna og færa hann fyrst Hannasí, gømlum øldúngi, eda þó réttara úlfi, sem hafdi mikinn myndugleika, og bar titil og nafn af ædsta presti, þó teingdasonur hans Kaíphas stædi fyrir embættinu, hvørr og med ødrum ædstu prestum þíngadi um Herrann. Skodum nú fyrst, sála mín! þann mikla

hrakníng vors Frelsara: þeir draga hann bundinn fyrir Hannas; þegar þessi hafdi hlackad yfir brádinni, og án efa hreytt ad Drottni nockrum haturs- og gudløstunarordum, hrekur hann Jesúm um nóttina til Kaíphasar, hvar eptir hønum beid Øldúngarádid — því fljótt hefir ordid vid ad hafa, svo þessu Lambi slátrad yrdi fyrir Páskana — en eins- og þessi hrakníngur Krists hófst strax med pínunni, svo fèck hann aldrei hvíldarstund í kvølinni, uns þeir hengdu hann uppá trèd. Hèr koma nú enn fram vid Jesúm vor synda-gjøld; vor fyrstu fedgin voru eptir fallid útrekin úr Paradís; vèr, sem gengid høfum í spor þeirra óhlýdni, áttum ecki inn ad koma til hvíldar Drottins, þvi er Jesús hrakinn, svo hann borgadi oss út og afrekadi oss hvíldina, því segir Andinn nú: ad þeir, sem sofnadir eru í Drottni, hvílist af ervidi sínu. En vèr skulum láta þacklátliga ásannast, ad Jesús, med sínum hrakníngi, hefir útvegad oss hvíld og vistarveru hjá Gudi, og vísa hønum ecki á burt, einsog Hannas, heldur bjóda hønum inn til vor og segja einsog Laban sagdi fordum vid Eleazar: Gack inn, þú blessadi Drottinns! því stendur þú hèr fyrir utan? eg hefi tilreidt húsid; en inní hvada hús skulum vèr bjóda Jesú? þad skal vera ydrandi hjarta, hreinsad fyrir trúna; þad mun hann ecki forsmá, sem sagt hefir: Eg bý í hædunum og helgidóminum og hjá sundurknosudum í anda. Opnum líka fyrir hønum hreysi vor, og berum oss ad halda hønum þar inni, sem alla hluti uppfyllir; en þad skal skè med bæninni, einsog sýnir dæmi

Emaus reisenda; med gestrisninni, sem sýnir dæmi Loths, og med ydkun Guds orda og kristiligs framferdis, einsog Abraham gjørdi; en þessu øllu á ad fylgja kjærleiksfull þolinmædi. Þar, sem Jesús kémur, þar kémur krossinn med hønum, hann má enginn burtu reka, sem vill herbergja Jesúm, og þó hann sýnist holdi og blódi í fyrstu ógédsligur, þá verkar hann þó ad lokum fridsamligann ávørt réttlætisins; því vil eg heldur heimili mitt sé kross-bær og Jesú borg, en praktug Babýlon og Satans samkunda. O minn Jesú! sem hrakinn varst frá einum ómildum til annars, kom þú blessadur í mitt hjarta, og stadnæmstu líka á mínum bæ med þína blessun, bædi í mótlæti og medlæti.

Nú er þessu nærst ad athuga, hvad framkom vid Jesúm fyrir rádi ens ædsta prests. Jóhannes segir: ad þad hafi verid sá Kaíphas, sem Gydíngum gaf þad rád: ad betur færi, þad einn madur dæi fyrir fólkid; hvar af sjá má, hvad þessi Kaíphas og øldúngarnir hafa þegar verid búnir ad álykta. Þegar hann kvad upp þetta rád, voru þeir enn þá einusinni ad þínga um Krist, eptir þad hann hafdi uppvakid Lazarus, og komu upp med þad, ad ef fólkid slyktist ad hønum og trydi hønum, þá mætti ecki vita, nema Rómverjar álitu þad fyrir fráfall, og spiptu svo Gydínga þeim litlu fríheitum þeir høfdu; því vildi Kaíphas segja: ad hvørnig sem á Jesú stædi, þá væri þó betra ad ráda hann af døgum, heldur enn eiga þad á hættu, ad margir kynnu ad gjalda. En þó hans blódgírug og hat=

ursfull meiníng væri á þenna hátt, þá segir þó Guðspjallamaðurinn, að honum, einsog þeim æðsta kénnimanni, hafi ratast fyrir ráð fram sá spádomur: að Kristur skyldi deya fyrir lýðinn, og það bæði Gydínga og heidíngja; og má þetta dæmi heimfæra til allra þeirra, er tala rétt um Guðs vilja og dásemdir, en trúa því þó ekki sjálfir, né umbreytast þaraf, heldur hafa uppblásna þeckíngu án kjærleika, einsog Bíleam, sem sá sjónir ens hæsta og spáði um Krist, en gaf þó ecki sannleikanum rúm í sínu eigin hjarta, heldur vildi gjarnan bølva Guðs fólki, svo hann ecki misti launanna, sem hønum heitin voru, en kastaði seinast hneixlunum fyrir augu þeirra, svo þeir brytu mót Guði með hórunum og heiðnum síð, og yrðu þarfyrir straffaðir; því kann margur að vera miklum gáfum gæddur, og tala rétt um Guð og guðliga hluti, þó sjálfur sé hann rángsnúinn og verði rækur að lokum, einsog Kristur klárliga kénnir. O minn Jesú! kasta mér ecki á burt frá þínu augliti og tak ecki frá mér þinn anda! kénn þú mér að gjøra þinn vilja, því þú ert minn Guð, þinn góður andi leiði mig á réttum vegi! géf svo mitt hjarta yrki um þig ágætt kvæði, og túnga mín verði góðs skrifara penni. Þegar nú vor Frelsari er kominn fyrir ráðið, má spekin réttlætast af sínum børnum, og hann heilagur standa hið fyrsta ransak fyrir þessum hræsnara Kaíphasi og hans meðbræðrum, hvørr nú með miklum myndugleika, í nafni alls ráðsíns, fer að spyrja hann um hans lærisveina og kénníngu; hvørr hafi hønum leyft að stipta skóla í Gyð-

íngalandi, draga eptir sér marga lærisveina, og jafn-vel leida fólk ut á eydimørk og øræfi þúsundum saman? hvad hann hafi prédikad þar fyrir því? hvørt þad hafi verid samhljóda Mósi og Spámønn-unum, eda þeim vidteknu setníngum Gydínga? og s. frv. Jesús svarar uppá þessar spurníngar med einu andsvari, þegar hann vísadi til sinna tilheyr-enda um kénníngu sína, sem ecki hefdi verid í hylm-íng tølud. Lærum nú stuttliga hér af þetta eptir-fylgjandi: 1) Einsog af Jesú var heimtadur reikn-íngur pínukvøldid, svo skalt þú, kristinn madur! á hvørju kvøldi halda reikníng vid sjálfan þig, hvørnig þú hafir þann dag breytt í køllun þinni, eptir Guds ordi, og muntu þá finna ærid skulda-registur eptir hvørn dag, svo þú hefir nóga orsøk til ad audmýkja þig fyrir Gudi, og segja med Davíd: Drottinn! gack ecki í dóm vid þræl þinn, því fyrir þér er enginn manna réttlátur; temjir þú þér þad framferdi, ad reyna dagliga hvørt þú sért í trúnni, þá mun þér tamara ydrunar-verkid, og sídur hætt vid í andvara-leysi ad falla, og þadan í stórsyndir og løstuámóti samvitskunni. 2) Allir þeir, sem ødrum eiga ad kénna, ættu einnig ad gæta hér ad; því einsog Jesús var nú spurdur um sína lærisveina og kénníngu, svo vill hann líka grenslast eptir því sama vid oss á sídasta degi. Hvad, vill hann segja, hefir þú prédikad, hvørt sjálfan þig eda mig? hvørt Guds ord, eda þína eigin drauma? vogadir þú ecki ad segja: Drottinn taladi, þó hann aldrei taladi? hvørn-ig hefir þú kénnt? hefir þú klofid ordid réttiliga í

sundur? hefir þú géfid Guds hjúum í réttann tíma, þad þeim byrjadi? hvad er ordid af lærisveinunum? sjá! þenna edur hinn, sem þú áttir ad vakta, hvørr útaf er daudur í sínn ydrunarleysi, í fávitsku, í vantrú, í hræsni og falskri ímyndun um nádina; varadir þú hann nockurntíma vid? áminntir þú hann? leidréttir þú hann? straffadir þú hann, svo þú yrdir opinber í hans samvitsku? O Herra Gud! hvar vill allt þetta lenda? eda hvørju vill Jesú svara trygdalaus leigulidi, sem meira þenkti um penínga enn prédikanir, ær enn áminníngar, kýr enn kristnina, frambúdir enn Kristum, og leitadi ecki saudanna, heldur ullarinnar, slátrar þeim og heldur þad enga synd. Hvar vill þad lenda? segi eg, Drottinn er búinn ad segja upp dóminn, svo látandi: ef vaktarinn blés ecki í básúnuna, og sverdid kom og tók nockurn burt, hann var burttekinn fyrir sínn misgjørníng, en hans blód vil eg krefja af vaktarans hendi; en med hvørju skal hinn hyrdulausi paktari borga, nema med sínu eigin blódi, hvad verda vill óbæriligt? O! ad vér gætum þessa í tíma, og látum, sem Jesús, er reikníngsinn mun af oss heimta á sínum tíma, hvísla ad oss dagliga því, er Páll segir vid Tímótheus: Haldtu fast vid lesnínguna, áminnínguna, lærdóminn, þángad til eg kém. Hugsum um hvørnig hann vill vor kénníng sé løgud: hún á ad vera hrein, eptir formi þeirra heilsómu orda, sem eru gagnhreinsud, en ecki blønduð med ónytsamligum og vanhelgum kérlínga strøksøgum; hún á ad vera máttug, til strøffunar þeim, er ámóti mæla, og áminníngar í heilsu-

samligum lærdómi, hvørr kraptur ecki kémur af snilldarligum ordum mannligrar speki, heldur sjálfum Gudi, sem kraptinn géfur sínni røddu, hvørs ord lifandi er og krøptugt, og hvørju tvíeggjudu sverdi skarpara; høldum á þessu vopni, og mun lenda þarvid, sem Páll segir: Vort-Evangelíum er ecki einúngis med ordum, heldur í heiløgum anda, med krapti og mikilli fullvissu. Kénníngin á lokksíns ad vera greinilig og augljós, svo hvørr einn fái klárliga ad vita skyldu sína bædi í trú og líferni; ljósid á ad heita ljós og myrkrid myrkur; syndirnar eiga ad nefnast med sínu rétta nafni, syndararnir ad áminnast, straffid ad avísast. Þú ert madurinn, sagdi Nathan vid Davíd, Urías Hethíta hefir þú drepid med sverdi, og tekid konu hans þér til eiginkvinnu, því skal ecki sverdid víkja af þínu húsi æsínliga. Þessvegna samlíkir Heilagur Andi kénníngunni vid básúnu, ad hún á ad vera skilmerkilig; því ef básúna gefir ógreiniligt hljód, hvørr fær þá búid sig til stríðsins; allt smjadur og hræsni dugir ecki til annars, enn tradka Guds ord, en sauma kodda undir olnbogana, til ad fánga sálirnar, hvareptir fylgir dómur Drottins med þeim ordum auglýstur: Hvørr, sem skammast sín fyrir mér eda mín ord, medal þessara hórunarsømu og syndugu kynslódar, þess mun Mannsins Sonur skammast sín, þegar hann kémur í dýrd síns Føðurs med heiløgum Englum. O, minn Jesú! eg medkénni med ángri og blygdun mína margvísligu forsómun og athugaleysi; en þú, sem fullkomnadir þad verk, sem þinn Fadir féck þér ad gjøra,

hefir bætt fyrir mína hyskni og tómlæti, því bið eg þig að vægja mér og fyrirgéfa mér minn brest; en veit mér framvegis og öllum þjónustumönnum þinn guðdómliga krapt til þess verks, sem þú hefir oss á hendur falið! Loksins má héraf læra, að einsog Jesús vísaði til tilheyrendanna um sína kénníngu, svo heimtar hann af öllum þeim, sem orðið heyra, að standa skil af því, sem þeim hefir verið ként, ecki einúngis, að þeir muni það og géti svarað til þess, þegar skjals er krafið, heldur heimfæri það til sinnar samvitsku, og innþrycki það í hjartað, að það verði lesið í framferðinu af öðrum útífrá; og þeirrar meiníngar er það, sem Páll postuli skrifar í hans síðara bréfi til Korinthuborgar-manna, 3 kap.: Pér eruð Krists bréf, tilreiddir fyrir prédikunar embættið, og af oss skrifaðir, ecki með bleki, heldur anda Guðs lifanda, ecki á steinspjöldum, heldur á holdligum spjöldum hjartans. Hvörr þetta nú athugar og trúir með hjartanu til réttlætis, og viðurkénnir með munninum til hjálpræðis, hann tekur rétt eptir þessu orði Jesú: Spyr þú þá þar að, sem heyrt hafa, þeir vita hvað eg hefi talað; hvað þegar hann sagði, var hann sleginn af hrokafullum þræli, sem þókti hann hafa svarað Kaíphasi útaf, hvörjum það þolinmóða Lamb nærsta hógværliga andsvaraði, géfandi oss eptirdæmi, að séum vér ofurliði bornir, megum vér sannfæra þá vondu menn um sakleysi vort, þó fyrir utan ónytsamliga eiða, ofsa og illyrði; en besta forsvar er, að vera sjálfum sér einkis ills meðvitandi, og vanda bæði orð sín og verk fyrir augum allra

manna; sá, er svo gjörir, gétur ætíd sagt: Hafi eg talad rétt, því slær þú mig þá? því vegur Drottins er djørfúng réttláts manns, en illgjørda-menn eru hræddir, segir Salómon. En auk þessa eptirdæmis, géfur oss þetta høggid Jesú fagra huggun: sá, sem sleginn er í andlitid, hann rodnar; sá, sem sem skammast sín, hann rodnar líka. Adam skammadist sín eptir fallid, ad heyra Drottins rødd, því samvitskan sló hann, einsog af syndinni kémur skømm og blygdan; en nú tekur Jesús vid kinnhestinum, svo þeim synduga Adam og hans nidjum verdi hægra fyrir hjartanu, og þurfi ecki ad blygdast eylífliga. Þetta var ecki seinasta høggid, sem hann blessadur féck í pínunni, því hefir hann ríkugliga borgad fyrir mig, og hans hlýdni frelsar mig af mørgum yfirtrodslum. Lofadur sértu, minn Lausnari! fyrir þetta og allt annad, sem þú hefir fyrir mig lidid! géf þú mér fyrir þín høgg, frid og rósemi samvitskunnar, svo eg megi hafa djørfúng og verdi ecki til skammar fyrir þér í þinni tilkomu! Heyr þad, Drottinn minn! fyrir þína blessada forþénustu, Amen!

## 11. Hugvekja.

### Um Péturs afneitun.

Símon Pétur fylgdi Jesú eptir álengdar — þá er hann fángadur var — og einn annar lærisveinn, allt inn í forstofu kénnimannahøfdíngjans, hvørjum þessi lærisveinn

var kunnugur, og gèck med Jesú í biskups herbergid, en Pétur stód fyrir dyrum úti. Þá gèck ut lærisveinninn, sem biskupinum var kunnugur, taladi vid þernuna, sem dyrnar geymdi og leiddi Pétur inn. Þjónarnir sátu þar, sem høfdu gjørt kolaeld í midri forstofunni, og vermdu sig, því kuldi var. Pétur setti sig þar hjá þeim og vermdi sig, svo hann sæi, hvørr endir þar vildi á verda. En er ambáttin, sem dyrnar geymdi, sá Pétur sitja vid eldinn og verma sig, gèck hún til hans, stardi á hann, og sagdi: Þú varst einn med Jesú frá Nazareth; ertu ecki einn af lærisveinum hans? En Pétur neitadi því opinberliga og svaradi: kona! ecki er eg það, eg þecki hann ecki, veit heldur ecki hvað þú segir. Þjónarnir stódu og vermdu sig og Pétur ásamt þeim. Litlu sídar, eptir hina fyrstu afneitun, gèck Pétur út í fordyrin og þá gól haninn. Ein ønnur ambátt leit þá Pétur, er sagdi til þeirra er hjá stódu: þessi var einn med Jesú frá Nazareth. Þeir søgdu þá til hans: ertú ecki einn hans lærisveinn? og einn annar sagdi: vissuliga ertu einn af þeim! Pétur neitadi því enn þá, sór sig og sagdi: þú, madur! ecki er eg það, og ecki þecki eg þenna mann, er þid talid um. Stundu sídar styrkti einnhvørr annar það og sagdi: sannliga ertu einn af þeim, því þú ert Galilæari og túngumál þitt opinberar þig. Þá kom fram einn af biskups-

þjónunum, frændi þess, sem Pétur hjó eyrad af og sagdi: sá eg þig ecki i grasgardinum med hønum? Þá tók Pétur til ad formæla sér og sverja, ad ecki þeckti hann þenna mann, sem þeir tøludu um. En jafnsnart, er hann svo taladi, gól haninn í annad sinn.

---

Einsog ádur skédi, þegar Pétur postuli baudst til ad gánga á sjónum med Kristi, svo skédi og nú; hann létst vilja gánga med Jesú í daudann, hann fylgdi eptir í hámóti, þegar þeir fóru med hann úr grasgardinum; hann kom sér inn í biskups-salinn, fyrir medalgaungu hins annars lærisveins, sem verid mun hafa borgari í Jerúsalem, kunnugur Kaíphasi, en ecki Jóhannis eda nockurr annar af postulunum; en einsog Pétur tók ad søckva fordum, þá hann kom útá sjóinn og sá megnan vind, svo yfirbugast hann af freistíngunni, þegar hann sá hvad ágéck í Kaíphasar høllu, og hefdi jafnvel tapast, hefdi ecki Jesús, sem ádur rétti hønum hønd, litid nú á hann. Nú erum vér ecki betur á oss komnir, því þó vér viljum rekja blódferil Lausnara vors, og hlaupa med þolinmædi í þá orustu, sem oss er fyrisett, þá er vanmáttur vor svo mikill, ad vér verdum opt lángt á eptir, og gétum ecki komist áfram af vorum eigin krøptum, hvørsvegna vér dagliga verdum ad bidja Jesúm ad sjá ígégnum fíngur vid oss og vorn veikleika, og rétta oss sína mildu hjálparhønd, þegar vér tøkum ad vanmegnast; en vér verdum líka, svo mikid, sem í voru valdi er, ad hafa athuga á oss,

og því er þetta dœmi oss til lærdóms uppskrifad, svo vér vørumst þad, sem Pétri vard ad falli; og er þá fyrst ad athuga: ad vér tøkum oss ekkért fyrir af ofmiklu trausti á sjálfum oss, án Guds orda. Davíd segir: ad æskumadurinn kunni því ad eins ad gánga sinn veg réttiliga, ad hann haldi sér vid Guds ord, en þess gætti nú ecki Pétur; Jesús hafdi sagt: ad hann kynni ecki í þad sinni ad fylgja sér, en af því hann var framgjarn og ætladi uppá sjálfan sig, sló hann því í vind, og gaf sig ókunnugan inn í kénnimannahøfdíngjans hús, og þad í opinberann háska. Einsog þad er dygd, ad gánga úti háskann þegar madur hefir fyrir sér sitt regluligt køllunarbréf, í Guds ordi stadfest og grundvallad, svo er þad mesta fásinna ad voga sér án þess í nockra hættu, því þad heitir ad freista Drottins; og því skyldi madur treysta uppá sjálfan sig, sem er einúngis gufa hverful og óstødug, hafandi ætíd holdid veikt, þó andinn kunni ad vera reidubúinn? Þad er vegur til ad standa, ad vera ætíd óttasleginn og hugsa sér sé fallid búid, einsog Postulinn kénnir: Hvørr hann stendur, gaumgæfi sá, ad hann falli ecki. Pétur var nógu djarfur í aldingardinum, þegar hann brá sverdinu, en nú hafdi kals audvirdiligrar ambáttar dregid allan dug úr hønum, svo hann þordi ecki ad játa sannleikann, afsór sinn herra og formælti sjálfum sér; svona kann sá lítilfjørligasti hlutur ad buga þann, sem ætlar sjálfum sér mikid, svo hann hrædist þjótandi laufblad, einsog dœmin hafa géfist. Látum því Guds ord sitja í fyrirúmi, sé þad ljós á

vegum vorum og lampi fóta vorra, og vogum eckért án þess, því hvørr háskasemdina elskar, sá tapast í henni. En annad er líka athugandi, skuli madur ecki falla, sem er: ad géfa sig ecki í vondan selskap, þó hann sýnist yndæll. Það var ein orsök til falls Pétri, ad hann sló sér í þræla-hópinn og vermdi sig hjá þeim vid eldinn; eldur mega kallast vondar girndir, sem uppteudra manninn til holdsins verka. Þeir logudu í sínum girndum hvørr til annars, segir Páll; en einsog vindurinn uppæsir eldinn, svo uppblossa girndirnar enn meir af umgengni og stallbrædralagi vondra manna, sem sjálfir eru vatnslaus ský af vindi feykt, uppæsandi bál girndanna bædi í sjálfum sér og ödrum, því ord þeirra og umgengni eta kríngum sig, sem átumein, einkum þegar þeir eru í eptirlæti og áliti, svo allt gengur eptir þeirra vilja; vid þann eldinn þykir mörgum vænt ad verma sig — því midur — en það skyldi þó hvørr einn varast, sem ecki vill leidast í freistni; því til þess ad verda hluttakari gudligrar náttúru og ödlast fyrirheitin, heyrir það ad flýa forgengiligar girndir veraldar. Lát þér því ecki þykja ofvænt um glis og hoffrakt veraldarinnar, því þegar hjartad tekur ad kvikna af elska hégómligra hluta, kólnar það í kjærleikanum til Jesú, og er þá fallid búid; því ef nockurr elskar heiminn, í hönum er ecki kjærleiki Födursins, segir Jóhannes, og Jakob talar hér nógu skorinordt um med þessum ordum: Vitid þér ecki, þér hórkarlar og hórkónur! ad veraldar vinskapur er Guds fjandskapur, og hvørr, sem vill vera heimsins vinur verdur

Guds óvinur. Eg vil nú ecki leida þar mørg dæmi til, hvørsu þeir, sem ádur hafa gengid á réttum vegi, hafa ratad í óluckn og leidst afvega af glislegri umgengni og dæmum annara, þar sjálf reynslan kénnir, ad hvørr, sem á tjørunni tekur, hún tollir vid hann, og íllt samtal spillir gódum sidum; en hins er ad géta: ad eins og margur kann ad lockast útí samfélag rángsnúinna, sakir sinna eigin fýsnar, eptirlætis og ávinníngs, svo kann hann líka ad verda fánginn med hugleysi og hrædslu fyrir spotti og óvild annara, og falla frá sannleikanum, svo hann megi vera í fridi; því skulum vér nú enn framar læra þad af dæmi Péturs: ad verda ecki ofhræddir, þó ambáttin ýgli sig; því vard Pétri, þegar ambáttin sprogsetti hann og kaldsadi til hans, spyrjandi: hvørt hann hefdi verid med Jesú? þá vard hann hræddur, og vildi ecki láta ala á þessu vid sig, neitar því strax, ad hann þeckti Jesúm. Þessi ógudliga verøld er ecki ad eins sú skækja, sem med føgrum ordum lockar til sín þá, sem á réttum vegi gánga, heldur er hún eins lynd og kona Pótiphars, géti hún ecki komid einum til ad saurgast med sér, hatar hún hann og ofsækir; vid því mega allir Jesú þjónar búast, hún starir á þá, og andar ad þeim einhvørju køldu, einsog ambáttin gjørdi hér vid Pétur, þar er ecki vid ad dyljast, Jesús hefir þad svo mørgumsinnum fyrisagt. Því liggur Guds manni mikid á, ad hann sé útbúinn móti þessu med hugprýdi í andanum, svo hann kunni ad segja med Páli: Eg skeyti þar ecki um, eg held og ecki mitt líf dýrmætt, mér er heimurinn krossfestur og eg heiminum;

séum vér gengnir Kristi til handa, verdum vér ad búa oss fyrir ad líða vondt med Evangelió, því enginn kórónast nema hann strídi réttiliga. Sá er mikid búinn ad setja sig í stand móti falsinu, sem búinn er ad temja sér það hugarfar, ad forsmá heiminn, svo hann lockist hvørki af hans eptirlæti á eina síðu, né heldur skélfist af hans hatri á hina; en med því það sinnislag tekur enginn af sjálfum sér, skulum vér óaflátanliga bidja Jesúm ad styrkja oss ámóti verøldinni, med sínum guddóms krapti, svo vér allt megnum fyrir hann, sem oss máttuga gjørir; en gæta samt þess, ad vér ecki af hnýsni eda hlutsemi sláum oss ofvídt út, þar hvørr einn hefir nóg ad gjøra med það, sem hønum er tiltrúad. Pad er forgéfins ad leggja netid fyrir augu fuglanna, segir Salómon, það er þeirra, sem gæta ad sér og sínum høgum, og gánga svo varliga fram; en athugalaus madur fleckar sig snarliga í ógæfunni og fær ecki sídan adgjørt. Pétur vildi fara út, eptir þá fyrstu afneitun, en það var ecki audveldt, einsog hann hugdi; þræla-lidid gjørdi adsúg ad hønum meir og meir, þángad til hann vard øldúngis frá sér numinn og sinnulaus, lagdi lýgi á lýgi ofan, meinsæri á meinsæri, afneitun á afneitun, svo þessi herragardur vard hønum svo þraungur útgaungu, sem hann var rúmur inngaungu; og eins kann mørgum ad verda, sem mjøg eru hnýsnir og framfúsir, ad hlutsemi þeirra og forvitni innvikli þá sjálfa í þeim hlutum, sem þeir ad þarfleysu slóu sér framm í, og fái þeir svo af þeim þann skada, sem þeir géta

ecki sídar vidrádid. Pétur vildi sjá hvørr endi á yrdi um Jesúm, hvad hann mátti þó ádur vita af ordum hans, en hann sá nú og heyrdi svo margt í Kaíphasar høllu, ad sjálfur hafdi hann verst af því, og hefdi víst viljad óska, ad hann hefdi þar aldrei komid. Tøkum oss þetta til varhygdar og gaungum forsjáliga, ecki einsog fávísir, heldur sem vísir, og kaupum til vor tídina, þá dagarnir erú vondir; høldum þad vorn ávinníng, sem vér kunnum ad nýta oss til sidbóta og varhygdar, en førum ecki vídar; vøktum líka einkanliga ordalagid, því opt kémur manninum hans egin túnga til falls. Túngumálid kom upp um Pétur, þá gaf helzt á fyrir hønum, þegar þeir søgdu hann væri Galíleari, því mál hans hljódadi svo og opinberadi hann; svo segir ordalagid til, hvørr madurinn er, því gódur madur af gódum sjód síns hjarta framber gott, en vondur madur af vondum sjód síns hjarta framber íllt; sé því ræda vor ljúflig og med salti kryddud, svo vér vitum hvørnig vér eigum hvørjum einum ad andsvara. Pad er líka eitt athugandi, ad vér ecki metum ávirdíngar vorar eptir vorum eigin-þótta, eda gjørum lítid úr þeim. Kannské Pétur hafi hugsad í fyrstunni, þad skadadi ecki svo mikid, þó hann segdi ambáttinni ósatt; hann væri ecki skyldugur ad játa sig fyrir henni, Kristi ridi þad og á engu, hvørt hann segdist vera hans lærisveinn eda ecki; en hvar vid lendti? vóx þar ecki synd á synd ofan? svo þessi Guds madur féll hraparliga, og var búinn ad tapa sinni sáluhjálp, hefdi svobúid stadid; hann afneitadi Kristi,

átti því afneitadur ad verda; hann afneitadi sínu postulligu embætti, sem var ad vitna um Krist, og þetta, þegar tíd var ad játa, og Jesús var spurdur um hans lærisveina og kénníngu, átti því ecki ad álítast hæfiligur til Guds ríkis. En hafi nú þvílíkan Guds kappa hendt þetta, æ! hvørsu er ockur þá veikum hætt vid falli! hvørsu varliga ber oss ad fara? O minn Jesú! eg er framandi í Mesech og bý í tjaldbúdum Kedar; eg hreksi í øllum solli heimsins, sjálfur hneigdur til alls ens illa, svo eg sæ eckt varid mig falli af mínum eigin krøptum; géf mér því þitt ljós ad lýsa mér, svo eg verdi vitur af skipunum þínum, en hati alla vonda vegu! géf mér þinn máttaranda til ad styrkja mig, svo eg gángi á þínum vegum og þjóni þér án hindrunar alla mína lífdaga, Amen!

## 12. Hugvekja.

### Um Péturs ydrun.

Drottinn snéri sér vid og leit til Péturs. Þá minntist hann á ordin Jesú, er hann hafdi sagt til hans: ádur enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar. Og Pétur géck út og grét beisliga.

Hér heyrum vér nú alls einusinni í Pínslarsøgunni, ad Gudspjallamennirnir kalla vorn blód-brúdguma Drottinn. Hann sýndi þad og hér, ad hann væri almáttugur og miskunsamur Gud og Drottinn, kom-

inn í þenna heim til að taka sjálfur sína hjörð að sér og leita að henni, því hann einúngis með bendíngu sinni endurvitkaði nú úr Satans snøru og aptursókti sinn týnda sauð, Pétur postula, sem inni hjá þrælunum var búinn að heyra nú tvisvar hanann gala, og þrisvar afneita sínum Herra; og megum vér nú héraf læra: að yðranin stendur ekki í náttúrligum krøptum mannsins, heldur kémur af Guðs anda fyrir orð Evangelií; svo og líka hitt, að vér verðum hlýðugliga að taka ámóti þeirri náð, sem Guð géfur oss til að yðrast, ef vér viljum hjálpast. Pétur heyrði tvisvar hanagalið, hvað hann að sønnu mátti minna á sitt fall, en það dugði ekki fyrri enn Jesús leit á hann. Hanagalið heyrir syndarinn að sønnu, en það er þó ekki nóg, nema þar fylgi meira með, sem áklagar og sannar. Það fyrra hanagal skéður í samvitskunni, sem áklagar, sannar og plágar þann, sem syndina drýgt hefir, hvað líka kann að henda heiðíngjann, því þó hvørki þekki hann Guð né hans vilja réttiliga, þá ber hann þó með sér samvitskunnar dóm, einsog Páll kénnir, og sjálf skrif og bækur heiðinna manna eru til vitnis um. Nú þó samvitskan vakni hjá óendurfæddum manni og syndin bíti, sem høggormur, þá er hann þó ekki skilinn við hana að heldur, því meir hann þenkir þarum, því meir plágast hann, hann fær ekki unnið verk apturtekið, heldur er hann fastur í hvørja átt, sem hann snýr sér, einsog fugl í snøru, eða Absalon í eikinni; að reisa sig við af fallinu, er hann ekki megnugur um af sínum eigin krøptum, og hvað meira er, að,

þó sá madur, sem yfirgéfinn er í fráleitt sinni, finni áreitíngu og ángur samvitskunnar, útaf undanförnum illverkum, þá er svo lángt frá því, ad hann sé af náttúrunni hæfur til nockurs réttiligs apturhvarfs, ad hann fer opt fram til ens verra, og ætli hann ad greida sig úr einum møskvanum, færir sú skémda sjálfrædis náttúra hann í annann þrengri, einsog sýnir dæmi Sauls, Achabs, Heródesar og fleiri; í stuttu máli: einsog daudur madur fær ecki gésid sér hid náttúrliga líf, svo kann ecki heldur sá, sem daudur er í syndunum, ad géfa sér hid andliga. Annad hanagal kémur fram í løgmálinu, þad eykur mjøg dóm samvitskunnar og géfur abl og krapt syndinni, hvessandi svo brodd daudans; þad sýnir hid vonda, sem bannad er, og þad góda, sem bodid er, og þegar þad hefir sannfært samvitskuna, ad madur hafi forsómad þetta, en framid hitt, rídur þad á eptir med bølvunina, hvarfyrir þad slær og plágar enn meir þad synduga hjarta, því þad sýnir yfirtrodsluna, og lýsir straffinu til ad skélfa þann, sem sekur er ordinn, en sjálft géfur þad enga krapta til ad útrétta þad, sem þad býdur, og því er þad deydandi bókstafur, og af þeirri verkun kann enginn fyrir Gudi ad réttlætast. Løgmálid er ad sønnu í sjálfu sér heilagt, réttlátt og gott, en svo er megn spillíng náttúrunnar, ad þad spillta hold hatar løgmálid og þrjótskast upp vid þad, þegar þad heyrir sér þar inni bodna þá hluti, sem því eru gagnstædir, því hvad holdid skynjar, er fjandskapur í gegn Gudi, og þannig talar Páll aptur, þegar hann segir: Syndin tók tilefni af

løgmálinu, og ól upp í mér allshátttadar girndir. Svo kann nú ecki vitnisburdur samvitskunnar né einsamalt løgmálid ad verka sanna ydrun; þad þénar ad sønnu þartil, því syndin verdur ad þeckjast og hjartad ad sundurmerjast, og þetta verkar løgmálid; þó er þad ecki nóg, ad syndin sé þeckt og samvitskan vakin, einsog allareidu sagt er; Kaíns og Júdasar ydran er þad. Vid hanagalid verdur ad samtengjast Jesú tillit, hvad eg kalla Guds anda, gésinn í Evangelió; hann setur svo í lag þad sundurmarda hjarta, ad hann hreinsar þad fyrir trúna, sem med eptirlaungunarsømu þeli álítur, ad sér ladar og umfadmar þad dýrmæta lausnargjald Guds Sonar, leggjandi sig sídan án naudúngar med lyst og vilja eptir því, sem Gudi er þægiligt; þarmed kémur fridur samvitskunnar, en þræls-óttinn flýr, og í hans stad kémur sonarligur ótti og andi, med frjálsum og lidugum adgángi til Guds nádar í Kristi Jesú, samt hatri og vidbjód á øllu því, sem Gudi misþóknast, og fullkomnast þannig þad Drottinn hefir lofad: Eg vil géfa nýtt hjarta og nýann anda í ydur, og taka þad steinhjartad úr ydar holdi og géfa ydur kjøtligt hjarta, og eg vil gøfa minn anda í ydur, og gjøra þad þér skulud gánga í mínum setníngum og halda mín réttindi. Þessi gódi andi brúkar fyrst løgmálid til ad koma syndaranum til ad skammast sín fyrir Guds heilagleika og skélfast fyrir hans hátign, en lífgar sídan þad sundurknosada hjarta med nádar fyrirheitum Evangelíí, og lockar þad fram fyrir nádarstólinn Jesú Krists med hans eigin tilbodi, sem

segir: Komid til mín allir þér, sem ervidid og þúnga erud þjádir; og nú eru því Jesú ord, sem eru andi og líf, eiginliga verkfæri andans, til ad hræra hjørtun med, einsog hér skédi, ad Pétur vaknadi til ad minnast Jesú orda, og fékk annad sinnislag undireins og Drottinn leit á hann, og verkadi svo hvørt med ødru hans ydrun, Jesú ord og tillit, eins verkar hans ord og andi umvendun vora; þetta tvennt skilur ecki hvørt vid annad, því andinn vitnar, ad andinn sé sannleikur. Þannig er nú vor Jesús med sínu ordi og anda, uppbyrjari og fullkomnari trúarinnar, sá Drottinn, sem stydur þá, er falla, og reisir þá vid, sem nidurslegnir eru, sá hyrdirinn, sem uppleitar hid glatada, leidir þad villta á réttann veg, grædir þad lemstrada og gætir ad því vansæra, sendur ad boda herteknum lausn og faungudum frelsi; því þarf enginn ad meina, ad ydranin standi svo í mannsins frívilja, ad hann af sínum náttúrligum krøptum kunni ad búa sig undir nádina, því hún verdur ætíd ad gánga á undan og koma í veg fyrir oss; eda, er nockud Heilagur Andi í voru valdi? en sé þad ecki, þá fylgir hitt á eptir, ad ecki høfum vér ród á verkunum Andans; eigna því sjálfum þér þína hrøsun, en vidréttíngu þína Gudi, hvørs nádar ríkdómur þad er, ad sá sem ádur var daudur í syndunum, verdur aptur lifandi med Kristi. Verdir þú nú var vid hræríngu ens andliga lífsins, þá þacka Gudi, af hvørs nád þú ert þad þú ert; en vara þig ad æfa syndina í þeim dul, ad þú gétir ydrast og látid af þegar þú ætlar þér; eda hvørnig fer, ef

Gud tekur í burtu nádina og yfirgéfur þig í píns hjarta fráleitt sinni, svo þú farir að þínum rádum, hvørju hann hótad hefir þeim, sem ecki vilja hans rádum hlýda? Vanræktu þessvegna ecki, ad líta aptur ámóti Jesú, þá hann lítur á þig, það er: sæta því tækifæri, sem hann géfur þér fyrir Andann í ordinu til ad ydrast. Þeir þverbrotnu snúa bakinu vid Drottni, þegar hann útbreidir hendur sínar, en þú, sem elskar þína eylífu velferd, skalt taka fegins hendi móti þeim fyrstu hræringum Andans, og mótstanda þeim ecki, einsog Gydingar, til þess ad þú, fyrir krapt þess sama Anda smámsaman þróast kunnir í þeim innra manni, uns þú verdur ad fullkomnum manni, eptir Krists fullkominni alders mælíngu. Þú skalt af hjarta gráta syndir þínar, einsog Pétur, Davíd, hin bersynduga og adrir fleiri, og þótt þú komir ecki tárunum út, þá álítur Gud það hrelda hjarta, sem hrædt er fyrir hans ordum. Hlýd ecki Andskotanum og spilltri náttúru þinni, sem opt vill gjøra lítid úr syndinni og prédika svo fyrir þér: eg hefi syndgad fyrri, og hefir engin ólucka ramnad mig, því Drottinn er þolinmódur; hlýd þú heldur Drottni, sem rædur þér ad sundurrífa þitt hjarta og ecki klædi þín, það er: láta ecki svo útvortis, einsog þú sért ydrandi, nema þú ydrist af hjarta. En midt í ángri hugarins og óróleika samvitskunnar, skaltu þó treysta Gudi, ad hann vilji af géfins veittri nád sinni fyrirgéfa þér þínar syndir fyrir Jesúm Krist; tileinka þér Guds nád í hønum, gángandi þar fram ad med sannarligu hjarta í trúarinnar fullvissu;

haldtu þér fast vid trúfesti Guds og hans dýru fyrirheit, sem aldrei kunna ad rjúfast, og gjørdu hann ecki ad lygara med þér, ad trúa ecki þeim vitnisburdi, sem hann hefir vitnad um sinn Son, ad hann hafi géfid oss eylíft líf, hvørt líf er í hans Syni. Ástunda líka ad elska þinn Jesúm þess heitara, sem þér er meira fyrirgéfid; svo gjørdi Pétur: Drottinn! sagdi hann, þú veitst alla hluti, þú veitst ad eg elska þig; þad er líka svo ad merkja af samtali því, er Jesús átti vid hann í þad skipti, sem hann hafi heimt af hønum frekari elsku enn hinum lærisveinunum. Vertu reidubúinn ad þjóna þínum góda Lausnara, dýrka hann med heilagri þolinmædi í øllum mótgángi, vidurkénna hans heilaga nafn og hugga adra med þeirri huggun, sem þú ert af Gudi med huggadur, hvad allt læra má af Pétri, vid hvørn Drottinn sagdi medal annars: Þegar þú verdur umsnúinn, þá styrk þú brædur þína. Haf þú líka í fersku minni, ad þú af øllu hjarta og alvøru snúir aptur til Drottins, svo ydranin sé ecki einúngis látalæti; Drottinn hefir ad sønnu fyrirgéfníngunni lofad, en þó med því skilyrdi, ad syndarinn taki sína illsku-breytni frá hans augliti, láti af íllu, en gjøri þad góda; legg þarfyrir allt kapp á, ad strída mót syndinni og flý allt þad tækifæri, sem þig hefir ádur til hennar leidt og lockad. Eptir þad Pétur féck þennann ydrunaranda, géck hann út úr salnum, sem hann hafdi syndgad í, og frá selskapnum, sem hønum hafdi syndina orsakad; gjør slíkt hid sama, fordastu alla þá hluti, sem ádur hafa ordid þér til falls, hvørsu lítid sem þér

vyrdist í þá varið vera, því varfærnara verður með kérið að fara, sem það er veikara; en þú ber fésjóð þinn í brothættu leirkéri, og hafi það einusinni brotnað, en sé nú aptur heilt orðið, þá varastu atvik það, af hvørju það brotnaði, að ecki brotni það á ný og spjøllin verði verri. O, minn Jesú! sem leitst til Péturs í hans falli, lít á mig þeim sømu náðaraugum! lát ljós þíns andlitis ljóma, svo verð eg hólpinn! Mín augu líta jafnan til þín, Drottinn minn! því þú munt mínar fætur útleiða af netinu; snú þér líka til mín og vertu mér miskunsamur, því eg er einmana og fáráður, Amen!

---

## 13. Hugvekja.

### Um Kaiphasar dóm.

Þeir æðstu prestar og øldúngar leituðu ljúgvitna gégn Jesú, svo að þeir fengju hønum í hel komið, en fundu engin, þótt að margir ljúgvottar kæmu fram, bar engum þeirra saman. Að síðustu komu tveir falsvottar fram, er báru ljúgvitni hønum ámóti, og søgðu: við høfum heyrt hann segja: Eg kann og vil niðurbrjóta þetta musteri Guðs, sem er mannaverk, en á þremur døgum uppbyggja annað, sem ecki er gjørt af mannahøndum; en vitnisburðir þessara urðu heldur ecki samhljóða. Æðsti presturinn stóð þá upp, spurði Jesúm að og sagði: svarar þú engu til þess, sem

þessir vitna ámóti þér? Jesús svaradi engu. Ædsti presturinn spurdi hann aptur og sagdi: ertu Kristur, Sonur ens blessada? eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir, ef þú ert Kristur Sonur Guds? Jesús svaradi: þú segir þad, eg er hann; þó segi eg ydur: ad hédan í frá munud þér sjá Mannsins Son sitja til kraptarins hægri handar og komanda í skýum himins. Þá reif kénnimannahøfdínginn klædi sín og sagdi: hann gudlastar, vér þurfum nú engra vitna vid, þér heyrdud sjálfir gudløstun hans; hvad vyrdist ydur? Þeir fordæmdu hann allir og søgdu: hann er dauda sekur.

---

Hvar, sem syndin drottnar á hærstu trøppu, þar leitar hún helzt eptir yfirskyni ad fela sig med, því fá eru þau dæmi, ad nockurr sé svo vondur, ad hann vilji auka heidur sinn med því, ad vera álitinn vondur. Fyrir rádinu í Jerúsalem géck á mesta gudleysi og forherdíng þegar Kristur píndist: þar sat í dómi foraktan Guds orda, hatur, lýgi, hræsni, vanbrúkan Guds nafns, blindleiki og samvitskulaust ránglæti, er safnadist í eitt til ad kvelja Lausnara vorn, þá er hann var ad borga syndir þessar, en gaf oss undir eins áminníngu ad fordast þær því heldur; þó átti þad svo ad heita fyri dómi þessara hræsnara, ad allt framfæri med réttvísi, vitnaleidslu og løgligu ransaki, einsog optar vidborid hefir á þíngum, hvar rétturinn hefir verid borinn ofurlida. En vér viljum

nú af Pínslarsøgunni í þetta sinn, taka oss þetta eptirfylgjandi til umþenkíngar: Fyrst: ad Jesús hefir ordid fyrir ljúgvottunum, bædi oss til eptir-dæmis og huggunar; ad sønnu til eptirdæmis í þann máta, ad einsog hann leid þetta þegjandi, svo eigum vér ad vera þolinmódir, þegar vér mætum lygum og álasi, og halda svo gédsmunum vorum í taumi, ad ecki séum vér uppi med offa og íllyrdum, er sumum er hætt vid, en úttrétta þó allopt ecki annad, enn spilla málefni sínu, og er þad opt merki enna grann-vitru, því vitur madur talar á réttum tíma, en høstugur narri gætir hans ecki, segir Sírak. Opt hefir sá þolinmódi meira áunnid enn hinn, er hleypti sér upp; þad hefir Salómon séd á sínum døgum, því segir hann: Mjúkt andsvar heptir reidi, en hardt ord uppvekur grimd; eg vil því heldur lída og bída í þolinmædi, med Lausnara mínum, en ljósta fram reidi minni, erta framar upp þann illgjarna og gjøra sjálfum mer órósemi og þúnga samvitsku. Vor huggan mót ljúgvottunum er sú: ad ecki einúngis var af þeim auglýst Jesú sakleysi, heldur hefir hann þad áunnid, ad þau sønnu vitni gylda oss ecki til fordæmíngar fyrir Guds dómi, svo þó hér komi fram løgmálid, samvitskan, sképnurnar, Djøfullinn og allt, mér til hneckirs og vitnisburdar um syndir mínar, þá trúi eg samt ad minn Jesús, sem ecki straffar eptir því, sem eyru hans heyra, muni láta mig njóta þess, ad hann vard fyrir ljúgvottunum, og leid margt fleira mér til miskunar, og þessvegna láta enga áløgun gylda mér á móti; segi adrir hvad

þeir vilja, segi hann að eins: Eg fordæmi þig ecki; það er mér nóg, það má mér meira enn þúsund mótvitni. Athugum þessu nærst: hvílík ólucka sé, að fara með raung mál; það er mikið orð, sem hér stendur í textanum: þeir ædstu prestar, øldungar og allt ráðið leituðu ljúgvitna gégn Jesú. Ecki fæ eg ímindað mér, að Mattheus kalli hér ljúgvotta, einúngis þessvegna, að þeir frambáru lýgi, heldur vil eg halda við þau orð: að ráðið leitaði ljúgvotta, það er: þeir føluðu, eða keyptu menn til að koma fram með eitthvað, er saknæmt væri mót Jesú, til að fá hann til heljar, hvørt heldur það væri satt eða lýgi; þetta høfðu þeir lært af Jessabel, eða þó heldur af Djøflinum, føður sínum; þetta handverk brúkuðu þeir við varðmennina; søm var aðferðin, þá er þeir grýttu Stephán. O! skal eg nú halda það alltsaman óbrygðula trúarinnar og lífernisins reglu, sem safnaður einn af andligum mønnum álítur rétt og gott? hvað var ráðið í Jerúsalem? hafði það ecki guðliga stiptun enda frá Mósis døgum? sat það ecki á Mósis stóli? var því ecki trúað til Guðs orða? þó heyra eg nú, að þetta andliga ráð leitar ljúgvotta gégn Jesú, sem sjálfur er sannleikurinn. Hvað hvatti yður til þessarar óhæfu, ó, þér, høfuðprestar og øldungar! er sjálfir þecktuð løgmálið og straff ljúgvottsins? ó! eckért, alls eckért, nema forblinduð samvitska, full af hatri og hefndargirni til að framfylgja raungu málefni; hefðuð þér vitað málið rétt, þá var nauðsynjalaust að gjøra lýgina að yðar athvarfi og fala þar til ljúgvotta.

En svona fer fyrir øllum þeim, en fara vísvitandi med raung málefni, hvørt heldur þeir verja eda sækja, þeir eiga bágt med ad fara á mis vid ad ljúga; en — hvar lendir þá? Munnur sá, er opt lýgur, deydir sálina, segir Salómon. Meinid þér þá, þér, svo nefndu løgvitríngar! ad þad sé øldúngis syndlaust ad flækja mál hins fávísa, svo hinn saklausi verdur fyrir hallanum og lídur óréttinn; því er midur, ad mørg eru dæmi til þessa; en gætid þess, ad enginn løgvitríngur mun trubla þann sídasta hæsta-rétt, og rángláttir munu verda útilokadir frá þeirri himnesku Jerúsalem; en hvad tekur þá vid? sá helvítski eldur, hvar ad er óp og tannagnýstran, og hvar þeir eta túngur sínar útaf ofraun kvalanna, er þeir ádur hafa brúkad móti sannleikanum til ad réttlæta þann ógudliga, en sakfella hinn réttláta. Þetta eru hin réttvísu laun lýginnar og rángra málefna. Af dæmi Jesú lærum vér í þridja lagi: ad vidurkénna ætíd Gudsnafn. Þegar Kaíphas sá, ad ljúgvottarnir gyldtu eckert, spyr hann Jesúm: hvert hann sé Guds Sonur, því hann grunadi hann mundi játa því, en var búinn fyrifram ad álykta, ad þad skyldi heita gudløstun, og svo ad ecki skuli tilsleppa, þá brúkar hann Guds hrædiliga nafn til yfirhylmíngar hræsni sinni. Þótt nú Jesús þegdi vid ljúgvottunum, þá þegir hann ecki vid þessari spurníngu, sem snerti Guds-dýrd, heldur gjørir strax sína játníngu fyrir enu andliga rádi, bædi þeim til vitnisburdar og oss til eptirdæmis, ad þó vér látum, sem vér ecki heyrum róg og þvætting heimsins, eda fánýta manna

dóma, þá séum vér þó ætíð til reidu med vort svar, þegar gylda skal Guds-dýrd, hvør oss á kjærari ad vera, enn vor eigin hródur. Verum til Drottins dýrdina hans nafns; gjørum einsog vor Lausnari, og verum ætíð reidubúnir andsvar ad géfa, hvørjum, sem af oss skjals krefst, um þá von, sem í oss er. Víst vissi Jesús, ad þessir ógudligu menn mundu dæma þad gudlast, ad hann játadi sig Guds Son, einsog þeir høfdu ádur gjørt, en hann skeytir ecki þarum, hann vill sínum himneska Fødur fyrir engann mun afneita; þess finnis var hans postuli Páll og adrir helgir menn og pínslarvottar: Vér tølum ecki — segir hann — einsog vér vildum mønnum þóknast, heldur Gudi, sem vor hjørtu reynir. Breyt eptir þeim Guds hetjum og haldt fast á þinni játníngu, einnig þótt þad kosta ætti líf, æru og góts! Hrædstu ecki þá sem líkamann kunna ad aflífa, en sálunni géta ecki tortýnt, heldur, þó svo hardt ræki á eptir, ad þú mættir setja lífid til, sakir vidurkénníngar þíns Guds, þá minnstu, ad Jesús hefir skipad, ad þú skulir vardveita þad til eylífs lífs, hvar þú munt ad raun um komast, hvørsu lítilsverd sé mótlætíng þessara tíma, hjá þeirri dýrd, sem búin er Guds børnum, hvør haldid hafa vid Jesú nafn og ecki afneitad hans trú. Dómsmenn Kaiphasar skulu framar minna oss á, ad vera engir jábrædur høfdingjanna, mót sannleikanum og samvitskunni. Þegar Jesús sagdist vera Guds Sonur og vitnadi um sína dýrd og tilkomu til dómsins, reif hnæsnarinn Kaiphas klædi sín í sundur, einsog Gydíngar pløgudu, þegar

þeim bar ad höndum einhvörr óvenjuligur harmur, hvad þó var þeim ædsta kénnimanni bannad; lét, einsog sér gengi þad mjøg til hjarta, ad Jesús hefdi talad hrædiligt gudløstunar ókvædi; spyr nú hina: hvad þeim lítist? en hjá þeim verdur engin fyristada, þeim líst øllum einsog biskupinum, ad Jesús hafi gudlastad og sé því dauda sekur. Finnast munu þeir á þessum døgum, sem eru vidlíka lyndir, og ecki vilja hósta, því sídur meira, á móti vilja og meiníngu høfdíngjans; kalla þad hæversku og framsýni, þar hitt sé heimskuligt brádrædi, ad setja sig móti vilja þeirra, sem vøldin hafa og brjóta af sér hylli þeirra; af þessu orsakast opt rángdæmi og óréttur, þegar yfirvaldid, sem kannské hefdi mátt til góds leida, verdur svikid, en sé þad prettvíst, tekur vondska þess sér myndugleika af þessari hræsni, og má svo sá saklausi lída, og jafnvel heilum løndum og héradum illa gánga; þar kémur fram þad, er Micheas segir: Hvad høfdínginn vill, þad segir dómarinn, svo hann gjøri hønum þénustu aptur; já! eg ætla þau hafi dæmin gésist, ad menn hafi dæmt blindt eptir því, sem yfirherranum hefir þócknast, og væri óskandi ad ecki ryki enn úr þeim kolunum í landi voru. Jafnvel þó þetta sé ecki ad eins skammarlig ladurmennska í sjálfu sér, heldur ásamt nockurskonar afneitan Guds, sannleikans og samvitskunnar, hvad allir gudhræddir og frómir menn skyldu fordast, en hlýda heldur þessum rádum Síraks: Þjóna ecki heimskum manni í hans søk, og lít ecki á hans makt, forsvara heldur sannleikann allt til dauda, og mun Gud Drottinn

fyrir þig stríða. Loksins skulum vér draga inn til vors hjarta þá huggun, sem Lausnarinn hafði, að hann mundi að aflíðinni pínunni setjast að dýrð síns Föðurs, hvar um hann var fullviss, einsog skrifað stendur: Alla tíma hefi og Drottinn mér fyrir augum, því hann er mér til hægri handar, og eg mun ecki skeika, því gleður sig mitt hjarta og mín dýrð fagnar og mitt hold mun ugglaust liggja, því þú munt ecki sálu mína eptirskilja í helvíti, og ecki leyfa, að þinn heilagi sjái rotnun; kunnann gjørðir þú mér lífsins veg; hjá þér er gnógt fagnaðar og glediligt líf til þinnar hægri handar. Þessa somu huggun eigum vér líka vísa með vorum Jesú, því einsog vér eigum hlutdeild með hønum í pínslunum, svo eigum vér líka í hugguninni; því vil eg allann minn kross þolinmódliga bera, og þarhjá hlacka til fullkomnunar þess fyrirheitis, sem þú, minn Jesú! gafst mér, þegar þú sagðir: Þeim, sem yfirvinnur, vil eg géfa sæti á stóli mínum; en svo eg þess heldur viti, að mér bregðist það ecki, þá heyri eg hér, að þú ert rángliga skuldaður fyrir guðløstun og rángliga til dauða dæmdur, því trúi eg mig sloppinn frá dauða-dóminum, sem eg hefi verdskuldað, en vona eg verdi úrskurdaður til lífsins á síðan, fyrir því mikla ráði, þegar þú kémur, með þínum heiløgum, dóm að halda; fyrir hvørja frelsis-gjøf þér, minn Lausnari og Borgunar-maður! sé lof og dýrð, nú og eylífliga, Amen!

# 14. Hugvekja.

## Um þjónanna spott við Krist.

Þá tóku nockrir að spýta á Jesúm; en þeir menn, sem héldu hønum, spottuðu hann, hræktu í andlit hans og slóu hann með knefum, en sumir byrgðu hann, slóu hann í andlitið, einkum þjónarnir, og søgðu: spáðu oss nú, Kristur! hvørr var sá, er sló þig? og margar aðrar háðúngar tøluðu þeir við hann.

Hér taka nú alvarliga að byrjast þær kvalafullu háðúngar Guðs Sonar, sem hann útstóð af óguðligum mønnum, þá er hann bar vora vanvirðu, gjørðist spott mannanna og fyrilitníng fólksins, og smánir þeirra, sem Drottinn smána, féllu yfir hann, hvar um Heilagur Andi hafði áður margvísliga vitnað, því nú heyrum vér, hvernig hann, að uppsøgðum dauðadóminum fyrir ráði hinna andligu, er eptirlátinn í høndum óguðligra þræla, sem um nóttina høfðu sér það til skémtunar, að hæða hann, berja hann, hrækja á hann og hafa í frammi við hann allar þær háðúngar, sem Satan blés þeim í brjóst. O, mín sála! komum og sjáum það Guðs Lamb, sem ber heimsins syndir, svo við gætum að, hvað við kunnum að nýta ockur til lærdóms af þessum hans kvølum. Það vitum vér, að Jesús, með sínum Føður og heiløgum Anda, skapaði daginn til erviðis, en nóttina til hvíldar, svo menn og sképnur mættu sig endurnæra, því hann miskunar sig yfir menn og

fénad; þó féck hann ecki í sinni kvøl svo mikla vægd, sem óbótamadurinn plagar ad hafa almenniliga, og mátti ecki í fridi vænta kvalanna og lífs-straffsins, er ské skyldi daginn eptir. O, hvørsu marga hvíldar nótt hefir nú þessi pínu-nótt míns Lausnara mér áunnid! hann var nú hrjádur og hæddur medal þrælanna; en hvørsu opt hafa Englarnir fylkt sér í kríngum mína hvílu, svo mig hefir eckért ónádad, og hefi mátt segja ad morgni med Davíd: Eg svaf og vaknadi aptur, því Drottinn vidheldur mér! En hér fyrir utan hefi eg føgur nót af hans nætur-kvølum; komi því uppá myrkur mótlætínganna, freist-ínganna og sóttanna, svo jafnvel þad náttúrliga ljósid verdur mér svo leidindafullt, ad eg taki ad segja med Jób í minni amasemi: Því gésur Gud ljósid hinum mót-lætta? þá trúi eg minn Jesús láti mig njóta þessarar sinnar hörmúngar og gjøri mitt myrkur ad ljósi; já! komi þar loksins myrkur daudans, skal eg þó ecki kvída, heldur segja med Davíd: Þó eg ráfi í myrk-um dal og daudans skugga, hrædist eg þó samt enga ólucku, því þú, Drottinn! ert hjá mér. Jesús var nú barinn af þrælunum, því mun hann ecki láta mína samvitsku þá ofmjøg skélfa mig, eda Satan slá mig med knefa; hønum ógnudu nú allir, þó mun hann géfa mér anda kjærleikans og kraptarins, svo mér standi ecki ofmikil ógn af daudanum né þeim sídasta dómi, heldur fái eg mig innvafid med rósemi og andligri trúarinnar djørfúng í hans ben-jum og fari svo í fridi, reiknandi hann ad vera mitt líf og daudann minn ábata. O, minn Jesú! géf mér

þessu að trúa og það síðan að staðreyna þá mér áliggur. — Hvað nú viðvíkur þrælunum, sem í þetta sinn hæddu Guðs Son, þá er ecki margt að tala um þeirra óguðligu atferð, allir fordæma hana, sem verðugt er; en eg kalla það hlutsemi að álasa þessu illþýði, en forsóma að taka hið vonda frá sjálfum sér, því vér eigum að gjöra Guði reikníng fyrir oss, en ecki fyrir þjóna høfuðprestanna í Jerúsalem. Þeir heimtuðu uppá spott spádómana af Kristi; en ber mikið milli þessara og hinna, sem nú gjöra sér orðshætti úr Guðsorði, ecki einsog Davíð, heldur til að láta hlæa að sér og koma fyrir kríngilyrðum sínum, en um áminníngar og ástæður orðsíns skeyta þeir ecki, heldur hafa jafnvel í skimpi og kalla presta fyrrur það, sem þeim er ráðlagt af Guðs álfu til umbótar síns syndugа lífernis, einsog þeir á døgum Ezechíelis, sem komu til hans og sátu fyrir hønum, en gjørðu þó ecki eptir hans orðum, heldur gjørðu háð þaraf, og lifðu svo áfram eptir sinni ágirni. Hér eiga og heima allir þeir, sem andvaralaust lifa í syndunum mót samvitskunni, þeir gjöra ecki annað enn spott af Jesú pínu, einsog væri hann kvalinn til þess, að menn mættu lifa í øllu guðleysi, þar þó Jesú dauði á að vera krøptugur í oss til deydíngar syndarinnar og krossfestíngar holdsíns; hvaraf það fylgir, að allir þeir, sem æsa sínar girndir í trausti hans pínu, gánga einsog hans kross óvinir. Hvað viljum vér segja um særíngamennina, sem þeckja Guðs réttlæti, að þeir, sem þetta gjöra, eru verðugir dauða, játa Guðs Son píndann og dáinn til

lausnar syndugu mannkyni, og opinberadann til ad nidurbrjóta Djøfulsins verk, en gjøra þó engu ad sídur sáttmála vid Djøfulinn, brúka ordin Jesú, minníngu hans pínsla, teikn hans heilaga kross, stundum líka þau teikn kannské, sem hann hefir í sínni heiløgu kvøldmáltíd samtengt vid sinn allraheilagasta líkama og blód, hvarmed syndarinn er úr helvíti leystur, til ad bidja, signa og særa þann vonda; hvad er ad troda Guds Son undir fótum, halda sáttmálans blód saurugt og svívirda nádarinnar anda, ef ecki er þetta? Hvørsu skélfiligur dómur mun falla yfir þvílíka Guds foraktara, hvørjir verri eru Kaíphasar þrælum? Pad er líkligt, ad þeir þeckt hafi Guds Son, hvørju og Pétur samsinnir, en þessir látast þeckja hann, og kalla sig kristnu nafni eptir hønum, og verdskulda þessvegna því þýngra straff. Þessum spotturum eru og allir þeir líkir, sem hylja vilja prettvísi sína undir skyni réttlætisins og frómleikans, vilja láta eitt og annad heita gjørt af gudhrædslu sinni og rádvendni, sem þó ecki reyndar lítur til annars enn ad uppfylla þeirra eigin girndir, þad er ad hafa skyn gudhrædslunnar, en afneita hennar krapti, þad er ad byrgja Jesú andlit, og slá hann svo. En hyggid þó ad, þér gickir! hvenær viljid þér skynsamir verda? sá, sem augad skapadi, skyldi hann ecki sjá? og sá, sem eyrad plantadi, skyldi hann ecki heyra? sá, sem typtar heidíngjana, skyldi hann ecki dæma? Þú mátt byrgja fyrir augun á þér og ødrum svo lengi sem þú vilt, þú getur þó aldrei blindad augu á Jerúsalems vaktara, trú mér, hann sér

þó hann þegi; þetta gjörir þú, sagdi hann, og eg þagdi, og þú ætladir eg mundi vera einsog þú, en sú ætlan mun slá þig á hálsinn ad lokunum, því eckért er svo hulid, ad ecki verdi opinbert. Allir háds-gjarnir spéfuglar gánga einnig í þeim þrælahópi. Þar er andlig sameiníng milli Jesú og trúadra, því reiknar hann sér þad gjört, sem þeim er gjört, hvørja hann skammast sín ecki brædur ad kalla, og eru limir hans líkama, af hans holdi og af hans beinum, takandi uppá sig krossinn í hans eptirbreytíngu; hvørr, sem nú hædir og vanvirdir einn af þessum hans minnstu brædrum, einn gudhræddann vesalíng, hann hædir og vanvirdir sjálfan hann. Elligar, hvad gjørir sá annad, sem kýmir ad einum fyrir þá hluti, sem sjálfur hann fær ecki vidgjört, enn ad hæda Gud, sem hefir gjørt hann svo? hvørr hefir gjørt hinn málhalta og daufa, eda hinn sjáanda og blinda? hvørr hefir gjørt hinn ríka og fátæka? hefir ecki Drottinn gjørt þetta alltsaman? hvørr, sem því hædir hinn fátæka, hann hædir þann, sem gjørdi hann. Gætid ad þessu, þér hádgjørnu! þad, sem hvørr nidursáir, mun hann uppskéra; en hvar mun þá lenda fyrir þeim, sem nidursá spotti, hádúngum og gudløstunum, nema þeir uppskéra eylífa hadúng, píndir í augsýn Guds og allra útvaldra? þá mun fara af brukid, þegar þér sjáid vesalíngana, sem þér hæddud ad sitja til bords med Abraham, Isaak og Jakob, en ydur útrekna; þá eru burtu kýmilyrdin og komid annad hljód, svo látandi: þessi er sá, sem vér ádur dárudum og høfdum ad athlátri; vér, gickir! héldum

hans lifnad vitleysu og hans afgáng smánarligann; hvørnig er hann nú reiknadur medal Gudsbarna, og hans arfskipti medal heilagra? Ecki þarf þarvid ad dyljast, ad Gud gætir ad, hvad gjørt er sínum børnum; enginn ærligur fadir leidir þad hjá sér, ad barn sitt sé hædt og spottad, fái hann ad því gjørt; því skal eg ecki ætla hønum þad, sem sídur gétur gleymt sínum, enn módirin sínu nýfæddu barni; spotta því alldrei ókéndann mann, þó þér sýnist hann audvirdiligur. Gydíngar vissu ecki, eda ad vísu gættu ecki í þetta sinn, vid hvørn þeir áttu; sama kann þig ad henda, ad sá, sem þú hædir, sé Gudi þeckari og betur ad sér um alla hluti enn sjálfur þú, og Davíd ecki svo fávís, sem Achis ætlar hann. Finni nú nockurr sig flæktann í þeim eda þvílíkum syndum, hvarmed Guds Sonur verdur á ný krossfestur, ydrist hann af hjarta, gráti synd sína fyrir Gudi med audmykt og segi: O Drottinn minn Gud! eg skammast mín fyrir þínu heilaga augliti, vegna minnar hrædiligu vondsku; eg hefi sád nidur því ílla og uppskorid vonda gjørnínga; hvar vill þad lenda fyrir mér á þeim mikla kornskérutíma, þegar þú munt útsenda þína Engla, til ad safna úr þínu ríki øllum hneixlurum og þeim, sem rángindi gjøra, og kasta þeim í eldsofninn; hvørt skal eg þá flýa? til þín, minn Jesú! sem borid hefir syndir mínar, vil eg nú strax snúa mér, medan tíminn er; þú hefir sád nidur sakleysinu, þaraf má eg uppskéra ávøxtinn mér til afbøtunar og sáluhjálpar; þú hefir nidursád þínum blessudu blóddropum, þad dýrmæta sædi géfur

af sér forlíkunina og náðina, hvørja minn Guð hefir mér géfið, svo eg hefi nú endurlausnina fyrir þitt blóð, sem er syndanna fyrirgéfníng; þú hefir tekið við høggunum og géfið mér lækníngana við háðúngunum og géfið mér heiðurinn; eg mun aldrei til spotts verða þeim illgjørnu eða vondu Öndum, heldur muntu, minn Drottinn! snarliga troða Andskotann undir mínar fætur, hvarámót eg vil ætíð kappkosta að prísa þitt heilaga nafn, með dagligri deyðíngu míns óstýriláta holds, og ýdugligri endurnýun í verki sannrar ydrunar. Hjálpa mér þartil, ó, minn Jesú! með þínum guddómligum krapti! Amen!

## 15. Hugvekja.

### Um ráðstefnu prestanna.

Strax að morgni, søfnuðust allir kénnimannahøfðíngjar, skriftlærðir og øldúngar lýðsins og allt ráðið, og héldu ráðstefnu yfir Jesú, svo þeir fengju hann líflátið. Þeir leiddu hann inn fyrir ráðið og spurðu: ert þú Kristur? seg oss það! Jesús svaraði: Þó eg segi yður það, þá trúið þér mér ecki, en ef eg spyr yður, þá svarið þér mér ecki og látið mig ecki heldur lausann; en uppfrá þessu mun Mannsins Sonur sitja til kraptar Guðs hægri handar. Þá spurðu þeir allir: ert þú þá Guðs Sonur? Jesús svaraði: þér segið það, eg er hann. Þá søgðu þeir:

hvad þurfum vér nú framar vitna vid, því vér sjálfir høfum heyrt þad af hans munni. Allur sá þeirra søfnudur stód upp, bundu Jesúm, leiddu hann frá Kaíphasi til þíng-húsins og ofurseldu hann landsdómaranum, þeim pontverska Pílatusi, en þad var snemma morguns.

---

Vor Lausnari má med réttu kallast sú hind, sem árla var veidd, einsog stendur í fyrisøgn þess 22 Davíds sálms, sem nærri því eins ljóst og Guds-spjallamennirnir talar um Krists pínu. Eptir hønum sóktu ad sønnu ógudligir menn þegar frá barn-dómi, en seinast, þegar makt myrkranna geysadi yfir hann, þá skaradi fram úr, því þá urdu þeir svo ólmir, ad þeir høfdu ecki ró, fyrr enn þeir voru búnir ad koma hønum í helju; hvørju eitt til eptir-dæmis þad er, sem vér strax heyrdum, ad høfud-prestarnir og øldúngarnir, sem setid høfdu med hann fram á nótt, voru strax uppi med hann í døg-un aptur, svo hann kynni ad aflífast sama daginn, leida hann aptur fyrir sitt rád, heyra ad nýu hans játníngu, stadfesta daudadóminn, binda hann enn vandligar enn ádur, og fara svo med hann í þíng-húsid. Þetta rád hefir allt átt ad vera viktugra enn um nóttina, því hér hafa þeir sett sig veruliga nidur til dóms, en þá voru þeir í biskupshøllinni ad bera sig saman og ransaka málid. Hér má nú fyrst sjá, hvørsu ákafir þeir vondu eru í ad framkvæma illskuverk sín. Mjøg er líkligt, ad sumir þessir øld-

úngar hafi aldrei farid heim til sín, eda tekid á sig nádir um nóttina, því strax, sem dagadi, voru þeir setstir ad rádstefnu í einu húsi. En svo eru þeir prettvísu, þeim er harla órótt, þegar þeir hafa íllt í sinni, þeir hafa engann frid, þeir setja nidur sitt rádabrugg med miklum andvara og heilabrotum, þá þeirra augu athuga hinn fátæka, og umsitja hann í leyni, sem ljón í bæli sínu; þegar vér nú sjáum þessa atorku, ættum vér ad minnast orda Lausnarans: Þessa heims børn eru kænari sonum ljóssins í þeirra kynslód. Vér eigum ad heita réttlætisins þjónar og heimamenn Guds, sem gjøra eiga vilja Fødursins á himnum, svo framt vér fordast viljum eylífa gløtun; er oss þad þá ecki skømm, ad vera svo tómlátir í verki Drottins, þar Satans þjónar draga hans plóg med seglum og árum? Vér erum kalladir med heilagri køllun, og eigum ad gánga þar inni verdugliga Gudi til allrar þócknunar, vera sparneytnir og vakandi, og verka svo vora sáluhjálp med ugg og ótta; en hvad skédur? sofna ecki margir útaf vid syndsamligt gjálífi veraldar, og þad svo bátt, ad mig uggir Páll — mætti hann horfa upp úr grøf sinni — mundi hjá oss, einsog hjá heidíngjum fordum, þykjast finna nockra tilfinníngarlausa, sem slá sér úti lausúng, til ad fremja allshátta dann óhreinleika og ágirni; tali menn um, hvad á eptir muni koma, þá eru sømu þánkarnir sem á Ezechíelis døgum: þessi spá er af þeim tímanum, sem mjøg er fjarlægur. Margir standa snemma upp til ad leita eptir óvissu ríkidæmi; þeir eta sitt braud med sorgum, géta ílla

sofið einsog Achab, megrast upp og fortæra holdi sínu, einsog Ammon; en í öllu þessu er sá innri maður til alls þess, sem áhrærir Guðs dýrð og velferð sálarinnar, kaldur, dofinn, stirður og tilfinníngarlaus, já, steindauður einsog Nabals hjarta. O hve stór fávitska er þó þetta! sannliga gjöra menn sér mikinn óróa forgéfins, þeir safna og vita ekki hvörr hljóta skal. En látum þessa fara, sála mín! og þenkjum um, að vér erum allir kallaðir árla í víngarð Drottins, þegar í frá blautu barnsbeini, og þurfum því að hugsa um, að nockuð verði ágengt um allann dag æfinnar, á hvörjum enginn veit hve framorðið muni vera. Sofum því ecki einsog aðrir, heldur verum sparneytnir og vakandi. En þó þetta snerti alla, þá ríður þó hvað mest á þeim, sem settir eru til verkstjóra í kristiligri kyrkju, einsog Jesús sagði við Pétur: Óvinir Drottins eru vakandi, fjandmaðurinn passar uppá sitt tækifæri að spilla hans akri þegar fólkið sefur; viljum vér finnast trúir, þá þurfum vér með miklum andvara að standa hönum ámóti; stöndum því, einsog andligir vökumenn á Jerúsalems múrum, umgirdtir lendum vorum sannleikanum, útbrynjaðir á allar síður, auðsýnandi oss einsog Guðs þénara í sannleiksins orði, í Guðs krapti fyrir herklæði réttlætisins til hægri og vinstri handar; verum í þessari yðju vaknir og sofnir, svo vér segja kunnum með Davíð: Árla kém eg og kalla, á þitt orð, Drottinn! vona eg; snemmindis vakna eg upp, svo eg tali um þitt orð; þá mun og nockuð áskotnast, og vér munum formerkja, að sá er máttugur,

sem í oss er, og það miklu framar enn sá, sem í heiminum býr. Gætum nú þessu-nærst að, hvörsu Jesús kvartar yfir þvermóðsku Gydínga, að þeir hvörki trydu orðum hans, né létu sig leiðrétta af hans áminníngum, heldur færi fram til ens verra; þó eg segi ydur það, segir hann, þá trúið þér mér þó ecki. O Guð náði! hvörsu marga sína líka Gydíngar hafa átt og eiga í þessu; það eru fleiri enn þeir, um hvörja Drottinn vill segja: Þeir eru það fólk, hvörra hjörtu ætíð fara villt, og vilja ecki læra mína vegu. Guð lætur ydugliga vitna í sínu orði, hvörsu þeim ógudligu muni verða endurgoldið; en hvörr trúir vorri predikun? teljandi eru þeir, sem segja einsog Davíð, þegar syndir þeirra eru ávítaðar: misgjört hefi eg ámóti Drottni; hitt er þeckjanligra, sem Jeremías segir: því er sá enginn, að hönum mislíki sín íllska og segi: hvað er það eg gjöri? allir hlaupa þeir hlaup sitt einsog grimmir vígheslar í bardaga; leggi eg þér ráð, þá hlýðir þú mér ecki, og segi eg þér nockuð, þá líflætur þú mig, sagði sá Guðsmaður við Zedechías konúng, mótlíka og Jesús hér við Gydínga; og undir þá vísu ætla eg fleiri Guðs þjónar hafi mátt og megi taka. Stendur ecki allt við sama fyrir allar áminníngar? já, líka vel fyrir allar refsíngar Drottins? hefir hann ecki, blessaður! orsök að segja nú, einsog á Esajasar dögum: Hvað skal eg lemja ydur, fyrst þér gángið þess meir afvega? og hvað vil eg segja, að allt standi við sama? mér sýnist ecki betur, enn heimurinn fari dagversnandi. Eg veit ecki hvört

nockurntíma í kristninni hefir yfirhøfud drottnad svo mikil hræsni, ó́skick, andvaraleysi, kaldsinni, sjálfrædi, forakt og annad þessu líkt, sem nú, þegar Evangelíum ljómar sem klárast; brydda tekur á Nóas tímum, og því má vænta ad egsin sé ecki lángt frá rótinni enna vondu trjánna; því mun hollast ad sjá ad sér, og sem optast hugsa til ens sídasta dags og dóms; þá munu lítid stoda andsvør, spurníngar, yfirhylmíngar eda afbatanir; svo er hann heilagur, alvitur og réttvís, sem dóminn heldur, ad enginn sekur fær svarad hønum einu ordi til þúsund. O! ad vér hugsa vildum til þess nú, ámedan tíminn er og vér megum tala vid hann, og hann vill svara oss! Hann talar nú í nád og segir: Snúid ydur frá ydar vondu breytni, og því viljid þér dvelja af húsi Israels? hann bidur nú med mikilli þolinmædi og vill ecki ad nockurr tapast. Sætum gaumgæfiliga þessu tækifæri, og høfum opin eyrun fyrir røddu þessa vors góda hyrdirs med hjartanligri bæn til hans, ad hann vilji þau opna og umskéra, því þar kémur víst ad, ad hann verdur øllum þverbrotnum og ydrunarlausum hrædiligur dómari, rekandi þá, med skélfiligri røddu, burt í þann eylífa eld, sem búinn er Fjandanum og árum hans. O, þú mikli hyrdir saudanna, Jesú Kristi! sem nú býdur øllum ad ydrast, en koma munt á tilsettum degi, ad dæma lifendur og dauda; þú veitst sjálfur hvørnig mín trú er aumliga á sig komin, og hve seinn og óstødugur eg er í mínu ydrunar-verki, fyrirgéf mér þad, fyrir þitt heilaga nafn! eg vil þó feginn hlýda þínum

blessudu áminníngum; hjálpa mér þá til, og snú mér, svo mér verdi snúid! og þegar þú lokssins fram-brunar í þinni dýrd á sídasta degi, þá lát mér ad forsvari verda þann daudadóm, sem yfir þér var stadfestur um morguninn fyrir rádinu í Jerúsalem, svo eg þá ecki fordæmist, heldur hafi eylíft líf. — Lokssins skulum vid læra af dæmi Lausnarans, ad hegda oss rétt, þegar óréttur inn geysar svo hátt, ad ecki verdur á neinn hátt komist fram med sannleik-ann, þá eru þau úrrædin best, sem hann valdi, ad þola og lída, vænta þess í stødugu trausti, ad Gud muni sjá sinn rétt, þó enginn sjái, en vakta sjálfan sig fyrir offa og óþolinmædi, einsog Davíd kennir: Fel þú, segir hann, Drottni þinn veg og vona á hann, hann mun því øllu vel til vegar koma, og hann mun þitt réttlæti hér framleida, einsog ljós, og þinn rétt einsog middegid; haldtu kyrru fyrir Drottni og haf vaktan á hønum; verdtu ecki reidur vid þá, hvørra íllska ad hefir framgáng. Þessvegna skal nú þetta þitt dæmi, minn hógværi Lausnari! vera mér ætíd fyrir augum, þegar ránglætid hefir svo yfirhønd, ad eckért forsvar gyldir; þad sama skal minna mig á, ad láta mig þess heldur lánga eptir Drottni, og bída hans frá einni nætur-vøku til annarar. Já, minn Jesú! þú ert minn Gud! árla vakna eg til þín, mína sálu þyrstir eptir þér, mitt hold lángar eptir þér í þurru og hrjóstugu landi, hvar eckért vatn er. Þetta skal vera mín fyrsta umsorgan á hvørjum morgni, þá er eg vakna af mínum náttúrliga svefni. En þú, minn Drottinn! minnstu mín til ens besta! en þegar

þú seinast, ad morgni þess mikla Sabbatsdags, kémur til ad halda dóm, þá láttú mig njóta þess, ad þú hefir árdegis fordæmdur verid, og afhendtur heidnu valdi til ad pínast, Amen!

## 16. Hugvekja.

### Um Júdasar ydrun.

Þegar Júdas, sem Jesúm hafdi svikid, sá þad, ad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann og færdi aptur þeim ædstu prestum og øldúngum lýdsins þá þrjátíu silfur-penínga og sagdi: illa hefi eg gjørt, því eg sveik saklaust blód. Þeir svørudu: hvad kémur þad oss vid? sjá þú fyrir því! Hann snaradi þessum silfurpeníngum í musterid, géck á burt og hengdi sjálfan sig.

Af því þeir høtudu kénnínguna og ótta Drottins, vildu þeir ecki mín rád hafa og lýttu allar mínar straffanir, þá skulu þeir neyta af ávøxtum sinna vega, og af rádum sínum saddir verda, segir sú eylífa speki um þá ógudligu, hvørra vegir munu fyrifarast. Vilji menn ecki trúa því, þá komi þeir hér og gæti ad, hvørnig fór fyrir Júdasi, hvørs skammarligu afdrif heilagur Andi hefir viljad láta uppteikna, bædi vegna spádómanna og líka søkum vitnisburdar um Jesú sakleysi; því eg veit ecki, hvørt Júdas er sá óvíssasti vottur um þad, ad þad var

logid, sem Gydíngar gáfu Herranum ad sök; því, hefdi hann verid sá falsari, er þeir sögdu, þá gat Júdas varla farid á mis vid, ad komast ad því, sem svo lengi var í umgengni med Jesú, og mundi hann þá fyrr hafa valid, ad hrósa sér af því, ad hann hefdi komid svo skadligum manni undir straff, enn ad hlaupa í snöruna, til ad hengja sig; og í þridja máta er þetta óttaliga dæmi skrifad os til vidvörunar, ad allir varist þá hluti, sem Satan fléttadi snöruna af til handa Júdasi, en þad eru: fyrst: Svik og undirferli. Hvörsu vondur hlutur sé fals og undirferli, kénna best afleidíngar svikanna, en hvörjar þær séu, sýnir Júdasar dæmi, á hvörjum rættust Davíds ord: Þeir blódgírugu og svikafullu munu ecki hálfna lífdaga sína. Géck Símri vel, sem forréd herra sinn? sagdi fordum Jessabel vid Jehú; en géck Júdasi vel, sem sveik Herra sinn? hann skundadi í snöruna og hengdi sig. Allteins fór fyrir Achitóphel, rádgjafa Davíds konúngs, hann sló sér saman vid þann ógudliga Absalon til ad ræna konúnginn lífi og ríki, en þá er hann sá sig til skammar ordinn med öll sín rád, greip hann til snörunnar, einsog Júdas, sem sló sér saman vid höfudprestana til ad svíkja Jesúm, en flýtti sér í gálgann, med þessum líksaung af þeirra álfu: hvad kémur þad oss vid? sjá þú fyrir því! hvör huggunar-grein þeim skyldi lengi í eyrum loda, sem lengi hafa félag vid ógudliga og ótrúa, til ad framkvæma med þeim og fyrir þá, þeirra skammarlig verk og ásetníng. Þennann enda hafa nú svikin, sem von

er, því Andskotinn leiddi med svikum syndina inn í heiminn, hann er fadir lýginnar, en øll svik eru lýgi, því leika allir falskir med hønum og hann undir eins á þá, fléttandi svo snøruna fyrir þeirra háls, ad þeir lendi med þeim í fordœmíngunni, og hefir því enginn verr af svikunum, enn sjálfur hinn svikafulli. Ótrygdin slær ætíd sinn eiginn mann um hálsinn, því hvørr, sem grøfina grefur, hann fellur í hana, og hvør steininum veltir, á þann fellur hann, segir Salómon. Eg tala nú ecki um þad, hvørsu þessi skammarligi løstur er vidbjódsligur øllum ærligum mønnum, en hitt er víst, ad hjarta þess, sem umgengst med vondum prettum, er Guds andstygd, en þeir hreinhjørtudu munu hann sjá, og sá, sem flecklaust framgengur, gjørir rétt og talar sannleikann út af hjarta, mun í hans tjaldbúd byggja. Þad annad bragd, sem Satan feldi Júdas á, var ágirndin. Øllum er kunnugt, ad hann seldi høfudprestunum Jesúm fyrir þrjátíu silfurpenínga og undireins sjálfan sig og æru sína; en ádur enn Andskotinn lagdi á hann þetta seinasta smidshøgg, var hann smámsaman búinn ad smegja inn hjá hønum, med kjænsku sinni, þeim bølvada ágirndar neista, þar Jóhannes segir hann hafi verid þjófur og borid féþýngjuna; því eirdi hønum og illa, þegar konan úthellti smyrslunum á Jesú líkama, og er nockurra meiníng hann hafi viljad vinna þad upp, med því ad selja Jesúm, sem hann hefdi gétad plockad af verdi smyrslanna, hefdu þau seld verid handa fátækum; en, hvad verdur nú seinast úr?

hann fleygdi frá sér fépýngjunni, þegar örvæntíngin, daudinn og helvíti kalladi, og deydi svo vesæll og huggunarlaus. Alleins og ágirndin lék Júdas út, svo fer hún og med fleiri; hún er, einsog Postulinn segir, undirrót alls ens illa, því dæmi þar til finnast fleiri enn eitt, ad sá, sem mjøg er ágjarn, svífst einkis, til þess hann ábatist; hjá hønum gyldir enginn Guds ótti, samvitska, sidsemi né ærligheit; því segir og Postulinn enn aptur: ad þeir, sem ríkir vilji verda, falli í freistni og snørur margvísligar, sem steypi manninum í fordæmíngu, sem ecki kann annars ad vera, því ágirndin er afgudadýrkan; Mammons þénarar géta ómøguliga Gudi þjónad, en ef þeir þjóna ecki Gudi, hvørjum þjóna þeir þá? Andskotanum, sem sýnir þeim fáfengiligann aud veraldar og hennar vegsemd, sem plagar ad fylgja audnum, uppá þad þeir afneiti Gudi, en lúti sér og missi svo andliga og eylífa blessun, og er þá nóg tilunnid; því hvad stodar þad manninn, þótt hann ávinni allan heiminn, en lídi tjón á sálu sinni. Til hvørs ertu þá ad mæda þig, fávís madur! annadhvørt máttu yfirgéfa audinn, sem marga hefir hendt, elligar hann yfirgéfur þig, þegar sála þín verdur af þér krafin, hvørs verdur þad þá, sem þú hefir tilreidt? eda, hvad gott hefir þú af því gótsi, sem þú svo í þig svelgdir, ad þú varst aldrei mettur af? eylífann nábít, sem alinn verdur med eldi og brennisteini í helvíti, og þá sannast þad, sem stendur í Jóbs b. 20. kap.: Þad góts, sem hinn ágjarni hefir í sig gleypt, mun hann uppspýa aptur, Gud mun

steyta það af hans kvidi. Fordast þessvegna, kristin sála! allt undirferli og mátalausann sambrátt, svo ecki verdi það þér til hneckirs, þegar þú átt að gánga veg allrar veraldar! met ecki mikið ágæti heims þessa, en lát ord Drottins vera þér kærra enn gullið, og vertu ánægdur með þinn deildann verd! hvorr, sem svo er sinnadur, hann er fullríkur, því gudhrædslan er mikill ávinníngur, med því hugarfari, sem lætur sér nægja luckú sína. Hinn þridji þáttur í Júdasar snøru, var foraktan Guds orða. Hvørsu margar áminníngar hafdi hann heyrt af Jesú, bædi mót falsinu og ágirndinni og ødrum løstum? vissi ecki þessi falsari sjálfan sig, þegar Jesús taladi um sinn svikara í kvøldmáltídar salnum? en hann géck þá ecki út að gráta einsog Pétur, heldur fullur af Djøflinum, til að framkvæma sinn ógudligann ásetníng. Einsog hann nú gaf sig eckért að Jesú ordum, heldur héldt áfram í sinni hreckvísi, svo féck hann heldur ecki neina huggun, þegar hønum lá mest á og hann átti að deya. Gætum að oss, í Guds nafni, að ecki hendi oss það sama! høtum ecki umvøndunina, né fleygjum bodordum Drottins á bak oss aptur, svo hann burtskúfi oss ecki einusinni, og þar sé enginn frelsari lengur! Sá, sem enga samvitsku gjørir sér af Guds ordi til betrunar, hann má búast vid nagandi samvitsku til ørvæntíngar; en hvørsu aumur hagur er það! Júdas flýtti sér í snøruna; ó, þau sorgligu úrrædi, að leita sér hægdar med hengíngunni! hvørsu órótt mun það hjarta vera, sem svo er á sig komið? vøktum oss! vøktum oss

vegna Guds og vorrar eylífu velferdar! ad af forøktun Guds orda alíst ecki syndin til forherdíngar, og forherdíngin fædi svo af sér nagandi samvitsku til ørvæntíngar. Örvæntíngin var sá seinasti hnútur, sem Andskotinn hnýtti ad Júdasar hálsi, svo hønum reid af. Þad tók yfir alla háns ólucku, ad hann snéri sér ecki til Drottins, né leitadi hans miskunar, heldur tók af sjálfum sér lífid, í fullkominni vantrú og þverúd síns hjarta útaf sofnadur og eylífliga fordæmdur ordinn, eptir ádur uppsøgdum dómi Drottins, hvad einnig snertir alla þá, sem í ydrunarleysi, án sannrar trúar, enda sínar æfistundir, yfir hvørjum Guds reidi blífur. Nú, Júdas er farinn til síns stadar, en vér, sem hvørki viljum hafa samfélag med hønum lifandi né daudum, skulum vakta sjálfa oss. Viltu, kristinn madur! deya Drottni? eg veit þú vilt, því sælir eru þeir, sem í Drottni eru burtsofnadir; en lif þú þá í Drottni, medan þú lifir, svo hvørt þú lifir eda deyr, þá sértu Drottins. Lát ecki yfirstíga þig hid vonda, heldur yfirvinn hid vonda med gódu! kasta frá þér augunum, sem þig hneixla; lát ecki locka þig til ránglætisins, og haf þú eckért samkvæmi vid ófrjóssøm myrkra verk; elska Gudsord framyfir alla hluti, lif eptir því, deydu uppá þad; hvørr þannig lifir, skal ecki ad eylífu daudann sjá; en kunni þig, sem ætíd er vid ad búast, af breiskleika þíns holds, ad henda nockur hrasan, þá ligg ecki lengi í henni, heldur snú aptur í tíma, og til þess, þú hægir þínu ydrunar-verki réttiliga, þá lát þig af hjarta ángra þínar drýgdar syndir, játa þær med blygdun

og auðmýkt fyrir þínum Guði, einsog Davíð; bið hann af hjarta fyrirgéfníngar og fest þér einkum í huga þá dýrmætu huggan, að Jesús hefir uppoffrað sjálfs þíns syndum á sínum líkama uppá tréð, og er réttlátur dáinn fyrir þig ránglátann, svo þú miskunar njótandi yrðir; héra skaltu reiða þig, og vit, að hans orð bregðast ecki, sem sagt hefir: Hvørn þann, sem til mín kémur, skal eg ecki frá mér reka; og þegar þú jafnframt ástundar heilagt líferni, fer að Guðs ráðum og gjørir verðuga ávøxtu yðruninni, máttu víst vita, að blóðið Jesú Krists, Guðs Sonar, hreinsar þig af øllum þínum syndum. O Drottinn, míns hjálpræðis Guð! lát enga þvermóðsku drottna yfir þræli þínum! uppvek mitt hjarta til réttrar yðrunar, og lát mig ecki halda áfram í syndunum, þótt þær um stund huldar og óstraffaðar séu; en seinast, þá eg skal fara burt héðan og vera hér ecki lengur, géf mér þá hreina trú, svo eg kunni án ørvæntíngar í støðugu trausti, að fela þér mína sálu á hendur. Lát þitt orð vera mína huggun í minni síðustu neyð, og þinn Anda vitna í mínu hjarta, að eg sé þitt barn! Utsend þú þitt ljós og sannleika, sem mig leiði uppá þitt heilaga fjall og til þinnar tjaldbúðar, svo eg megi lífa og ríkja með þér eylífliga, Amen!

## 17. Hugvekja.

### Um leirpotta-smiðs akurinn.

Kénnimannahøfðíngjarnir tóku þá þrjátíu

silfurpenínga og sögdu: þad hæfir ecki, ad vér látum þá í Guds kistuna, því þad er blóds-verd; en þeir héldu rád og keyptu fyrir þá akur leirpottasmids nockurs, vegfarendum til greftrunar; þessvegna er sá akur kalladur blóds-akur allt til þessa dags. Þá uppfyllt-ist þad, sem sagt er fyrir Jeremías spámann: Þeir tóku þá þrjátíu silfurpenínga, er hinn seldi var borgadur med, hvørn þeir keyptu af Ísraels børnum, og hafa géfid þá fyrir leir-pottasmids akur, eptir því, sem Drottinn hafdi mér bodid.

---

Þad hlaut allt ad fullkomnast, sem af mér var skrifad í Mósis løgmáli, spámanna bókum og sálm-um, sagdi Jesús vid sína lærisveina; eitt af því var þad, sem Zacharías skrifar í 11. kap.: Þeir vógu svo mikid, sem gyldti þrjátíu silfurpenínga, og Drottinn sagdi til mín: Varpa þeim burt, svo þeir géfist pottmakaranum. O, ein markverd súmma! hvørnin eg var verdur haldinn af þeim! og eg tók þá þrjátíu silfurpenínga og kastadi þeim í hús Drott-ins, svo þeir skyldu géfast pottmakaranum. Þetta fullkomnadist nú, þar bædi var Lausnarinn seldur Gydíngum fyrir smánarligt þrælsverd, þrjátíu silfur-penínga, og þartil, þá Júdas var búinn ad hengja sig, þá vildu þeir hyrda peníngana, þó Júdas mætti fara sem hann vildi, og seldu þá leirkérasmid, en keyptu aptur akur vegfarendum fyrir legstad, hvad einnig var tilteiknad af Jeremíasi spámanni, hvørn

Matthæus nefnir, þegar hann keypti med verdi akurinn Anatoth, og lagdi kaupbréfid í leirkér, til merkis, ad Ísraels børn mundu aptur koma úr þeirri babýlóniſku herleidíngu og ná sínu frelsi aptur, einsog innlend í Gydíngalandi. Einsog Gud hafdi nú hønd í því med, sem framkom vid Jesúm í pínunni, svo var þad ecki af hendíngu, heldur hans rádstøfun, ad blódsverdid Jesú var látid aptur fyrir leirpottarans akur, útlendíngum til greftrunar. Gættu því ad, sála mín! hvad þetta hefir ad merkja; einsog Gud ſkapadi manninn af jardar leiri, og hefir vald yfir sínum handaverkum, ad gjøra eitt kérid til heidurs, en annad til vansa, svo kallast hann opt í ritníngunni leirkérasmidur, og medal annars hjá Esajasi í 64. kap., þar svo stendur: Drottinn! þú ert vor Fadir, vér erum leirinn; þú ert vor leirkérasmidur, og vér allir erum verk þinna handa. Hans akur er heimurinn, í hvørn hann fyrst sádi gódu sædi, en med því Andskotinn sádi þar sídan í illgresi til fordjørfunar, þá hefir Gud safnad sér af heiminum søfnudi, sem er hans kyrkja, hvar hann innsáir því góda sædi sínna orda; hún er hans akur, hans bygging og kornland; hana keypti hann med blódi síns Sonar, svo hún er Hakeldama eda blódsakur, því Gud hefir med sínu blódi afrekad søfnudinn; en med því oss veitast í ſkírninni þau miklu gædi, sem Jesús med sínni kvøl afrekadi, þá eiga hér heima allir þeir velgjørníngar, sem vér, útlendir af náttúrunni til, þar inni medtókum, einkum rósemi sálarinnar, syndanna fyrirgéfníngu og eylíft líf; þar

fyrir látum vér nú akur Drottins þetta sinn heita hans miklu miskunsemi, því hann er þolinmódur, líknarfullur og mikillar gædsku, hvør hans miskunsemi hresîir og rósamar gjørir sálir allra þeirra, sem ervida og þúnga eru þjádir, engu sídur enn braudid af økrunum hjarta mannsins til líkamligrar endurnæríngar. Þennann akur hefir Drottinn falan og býdur hann upp, þegar hann segir: Sá ógudligi snúi sér til Drottins, þá mun hann miskuna hønum; en hann vard ádur ad kaupast, svo réttlætinu yrdi fullnægja gjørd; þad hid sama gat enginn af øllum þeim, sem hans þurftu, þad kostadi allt ofmikid, ad endurleysa sálirnar og vard vid ad blífa ad eylífu; því hefir Jesús gengid í borgun fyrir alla, og keypt akur Guds miskunar handa oss, og þad med sínu blódi, fyrir hvørt hann hefir fundid eylífa endurlausn, svo hann er borgunar-madurinn, en blódid hans verd. Þeir framandi, handa hvørjum akurinn er keyptur, erum vér, aumir menn! getnir af syndsamligu sædi; vér erum fyrst útlendíngar í þann máta, ad vor syndsamspillt náttúra, sem vér fengum í Adams falli, útilokar oss frá Guds bædi nádar- og dýrdar-ríki, hvad ljóst er af því, ad enginn kann ad sjá Guds ríki, nema hann endurfædist, hvørju og til merkis, vor fyrstu fedgini voru útrekin úr Paradís. Gud gjørdi ad vísu sáttmála vid Abraham og hans afkomendur, og stiptadi medal þeirra kyrkju sína, mørgum øldum eptir syndafallid, þegar hann ádur hafdi almenniliga øllu mannkyni útgéfid fyrirheit vidréttíngarinnar í því blessada kvinnunnar sædi; en ecki

var sá sáttmáli ódruvísi enn af náðinni, og grund-valladur á því fyrsta fyrirheiti, einsog sjá má í sendi-bréfinu til Rómverja 9. kap. En ef Abraham og hans nidjar áttu af náttúrunni eda verkunum eckért tilkall til akurs Guds miskunar, þá miklu sídur vér, hvörra fedur voru fyrir utan Ísraels borgar-rétt og án Guds í heiminum. Í annann stad megum vér útlendir heita ad því leiti, ad sálin býr einsog gést-ur í hreysi líkamans, og svo lengi þad varir, erum vér framandi frá Drottni; en ecki er þarmed búid, ad sálin býr, einsog útlendíngur, vid mikla mædu í þessu tjaldbúdar-hreysi, heldur veit aldrei nær enn því verdur svipt og nidurbrotid þá og þá, hún út-dregin, en því kastad nidur fyrir fúann og madkana. Um þetta hefir Davíd þenkt, segjandi: Eg er píla-grímur og einsog húsmadur fyrir þér, allteins og fedur mínir; en strax eptir segir hann: Géf upp vid mig, svo eg endurlifni, ádur eg fer burt hédan og er hér ecki lengur; því hann hefir virdt þad fyrir sér, hvörsu aumt þad væri, ad vita eckért hæli sálu sinni, þegar hún skildi vid líkamann, og vissuliga er þad svo; því sagdi heidínginn fordum: mín blída sála! sem vída hvarflad hefir, gist í líkamanum og farid med hönum, í hvada stadi fer þú nú, vidbjóds-lig, köld og nakin, og skémtir ecki einsog ádur? Mér virdist, sem madurinn hafi rétt mælt; því ef sálin er álitin hjálpar- og huggunarlaus, þegar madurinn deyr, er hana ecki ödruvísi ad meta, enn útkastad hræ, vidlíka og Jessabel undir múrnum í Jesreel; því segir Drottinn: Þeir munu útgánga og sjá hræ

þess fólks, sem misgjørt hefir vid mig, því þeirra madkar munu aldrei deya og eldur þeirra ecki slokna, øllu holdi munu þeir andstygd verda. Þessa vora sameiginligu neyd aumkadi nú Guds Sonur, og baudst til ad kaupa sálum vorum hvíldarstad, svo ecki þyrftu þær eylífliga ad hrekjast, hvad og var falt af álfu þess himneska Fødurs, þó med því móti, ad Sonurinn útlegdi þad gjald, sem réttlæti Guds væri fullnægt med fyrir allar syndir og ránglætíngar. Uppá þessa skilmála var kaupid samid: Fadirinn af einskjærri elsku vildi géfa út Soninn, og Sonurinn var reidubúinn ad gjøra Fødursins vilja, og géfa sig út til lausnargjalds fyrir alla, hvarmed hann, ad uppátekinni mannligri náttúru, tók sér fyrir ad láta gjaldid af hendi og undirlagdi sig mannligum eymdum, fátækur, freistadur, ofsóktur, forsmádur, allt þángad til hann borgadi hinn sídasta peníng á krossinum, þegar hann hafdi ádur lýst, ad allt væri fullkomnad. Þad blessada blód, sem hann þá úthellti, var fullkominn skileyrir og sannkallad lausnargjald, því allt verdur hid nærsta eptir løgmálinu hreinsad med blódi, og án blóds skédur engin fyrirgéfníng; þad var hid dýrmætasta og fullkomnasta lausnargjald, því ef uxans og hafranna blód og askan kvígunnar ádreifd, helgar hina saurugu til holdsins hreinsunar, hvørsu miklu framar mun þá blódid Krists, sem sjálfan sig hefir án flekkunar, fyrir eylífan Anda, Gudi offrad, hreinsa samvitskur vorar af daudum verkum til ad þjóna Gudi lifanda. Svo veri nú Gud lofadur! keyptur er akurinn, útvegud

er náð og miskun Drottins til að taka við sálunum, einsog róligur hvíldarstaður, þegar líkaminn niðarsáist í vansemd, og verður moldu ausinn; það er sá Abrahams faðmur, það mjúka móður-skaut, sú Drottins hönd, hvar réttlátra sálir snertir engin pína; til þessa má hvörr trúaður hlakka, eptir trúligt dags erviði. Þó er þess að gæta, að einsog þeir einir pílagrímar fengu legstað í leirpottarans akri, sem gengu til Jerúsalem, svo verður sá, sem njóta vill þessarar náðar, að halda sig við þá andligu Jerúsalem, sem er kristilig kyrkja, því þar inni veitist þessi gáfa, sem áður er sagt; en hennar limir eru þeir, sem svo hafa íklæðst Kristi fyrir skírnina, að hann, fyrir trúna, byggi í þeirra hjörtum, af hvörri íbúð þeir, einsog frjóssamir kvistir í hönum innrættir, bera mikinn ávöxt; þeir enu sömu eru ekki lengur géstir og framandi, heldur Guðs heimamenn og meðborgarar heilagra; þeir þurfa og engu að kvíða, því hverki dauði né líf fær skilið þá frá Guðs kjærleika í Kristi; svo hvörnig sem fer um líkamann, má sérhvört Guðs barn huggast þarvið, að Guðs miskunsemi hjúkrar að sálunni, þar hún í friðarins tjaldbúðum og hættulausum stað, eptirfylgir Lambinu og lofar Guð án afláts, og mun á sínum tíma samtengjast líkamanum óforgengiligum og meðtækiligum fyrir sömu dýrð, svo þetta geymsluké er öldúngis óhætt að eiga hjá Guði. Lofaður sértu, minn einka borgunarmaður, Jesú Kristi! að þú með blóði þínu hefir útvegað hvíldarstað sálu minni, komið mér úr útlegðinni og innsett mig í ríki þitt, í hvörju eg hefi

endurlausnina fyrir þitt blód; og einsog þú, med miklu verdi, keyptir mér þenna stórkostliga borgar-rétt, og géfid mér ávøxtinn af øllu þínu ervidi í mínum syndum, svo géf eg þér aptur sjálfan mig, med øllu því eg er og orka til lífs og sálar, því eg veit eg á mig ecki lengur, heldur er eg verdi keyptur! Þú hefir mig ad fyrra bragdi elskad; eg útvaldi þig ecki, heldur þú mig, því tilheyrir þér hjarta mitt; þú einn skalt vera mín elska, mín íhugan, mitt eptirlæti og eptirlángan; þú átt líka allt hvad mér kann ad áskotnast med mínu lítilfjørligu ervidi, í þínu akurlendi, kristninni, þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin! Eg vil, medan lífid endist, leitast vid af øllu megni, ad audsýna mig þinn réttskickadann verkmann, en þú ert sá, sem ávøxtinn géfur; en þegar eg hefi nú útþjónad og skal afleggja þetta mitt hreysi, vil eg feginn af þér þyggja, minn Herra! ad þú unnir mínum moldarauka ærliga útfør, med ødrum þínum børnum, svo eg ecki verdi grafinn, sem asni; en umfram alla hluti, lát þér þócknast ad vardveita øll mín bein, og þeckja svo minn líkama fyrir þitt eigid frækorn, þá hann rís upp af jørdunni, ad eg þá eins- og hreint hveitikorn innsafnadur í þína kornhlødu, og umvafinn á bindini lifendra, megi med þeim eylífliga lofa þig og vegsama, Amen!

# 18. Hugvekja.

## Gydíngar løgsækja Jesús fyrir rétti Pílatusar.

Gydíngarnir gengu ecki inn í þínghúsid, svo ad þeir ecki saurgudust, heldur mættu Páskalambsins neyta. Pílatús géck þá út til þeirra og sagdi: hvørja ákjæru færid þér ígégn þessum manni? Þeir svørudu: ef hann ecki væri íllrædis-madur, þá hefdum vér ecki seldt hann í hendur þínar. Pílatús sagdi: takid þeir hann þá og dæmid eptir løgum ydar. Þeir svørudu: vér høfum ecki leyfi til ad dæma nockurn til dauda; svo þad ord Jesú uppfylltist, er hann sagdi um dauda sinn. Kénnimannahøfdíngjarnir og øldúngarnir tóku til ad áklaga hann hardliga og søgdu: þenna finnum vér ad frásnúa fólkinu og fyribjóda ad gjalda keisaranum skatt, en segir sig ad vera konúnginn Krist.

---

Híngadtil høfum vér heyrt hvørnig framfór Krists pína, bædi í grasgardinum, eda einsog fyrir Guds dómi, og líka svo fyrir enu andliga rádi í Jerúsalem. En nú kémur sá þridji atburdurinn, hvørnig fór fyrir þeim veraldliga dómstóli ens heidna landstjórnara, og lætur sig hér í ljósi, ecki sídur enn ádur, mikid próf uppá Jesú sárgrætiligu kvøl, hans sakleysi og hógværdar eptirdæmi; þartil í annann stad, rángferdugt grimdar-ædi ógudligra manna, sem fengu

nú lokfins ad sjá vild sína á hønum fyrir þeim midur réttvísa dómara, einsog Jesús sjálfur hafdi fyrisagt. Gydíngar áttu nú ad því leiti bágara ad sønnu, enn ádur, ad þeir ecki høfdu dóms vald, heldur hlutu ad mæta fyrir Pílatusi einsog sakſóknarar; þeir vanræktu því ecki ad láta í ljósi fyrir alvøru sitt óttaliga heiptargéd og samvitskulausa forherdíngu, hvar á adra sídu sat — einsog vant er — hræsnin; hvørt þeirra hræsnis-dæmi oss kémur nú fyrst til hugleidíngar: Høfudprestarnir og øldúngarnir gengu ecki sjálfir inn í þínghúsid, svo þeir saurgudust ecki, heldur mættu neyta Páskalambsins. Alkunnugt er þad, ad Gydíngar álitu sig saurgada, ef umgengni hefdu med heidíngjum, sem álitu þá med forakti, og meining sú var svo inngróin, ad jafnvel þeir trúudu af umskurninni løgdu Pétri postula þad til lýta, ad hann hefdi umgengni med heidíngjum og bordadi med þeim; enda þóttust nú høfudprestarnir ecki géta jetid Páskalambid med gódri samvitsku, ef þeir gengju inn í heidins manns hús; þó finnst þad ecki í løgmálinu, ad þad ályktadi nockurn óhreinann, þó hann kæmi til heidins manns, heldur hefir þetta verid eitt af vidteftum Gydínga, uppá hvørjar þeir héldu meir enn Guds ord; en þeir sýndu hér ad vanda mýflugana, en svelgdu úlfaldann; þeir létust gjøra sér þánka af því, er í sjálfu sér ecki saurgadi, en sættu ecki því, sem gjørdi þeirra útvortis Gudsþjónustu ógylda og andstyggiliga, sem var miskunarleysi og úthellíng saklauss blóds; eda lásu þeir ecki sjálfir þad, er Drottinn segir: A miskun hefi eg þócknun og

ecki á offri? eda og hitt, sem Esajas segir: Þó þér bidjid mørgum ordum, vil eg ecki heyra, því hendur ydar eru fullar af blódi? En því er midur, ad vidlík hræsni og Gydíngar frømdu, er ennþá ecki útdaud, þar fótsporum þeirra fylgja: fyrst allir þeir, sem þykjast gódir og forsmá adra hjá sjálfum sér, hvørjir ad segja: komid ecki nærri oss, því vér erum heilagir! Þarnærst allir þeir, sem halda meira uppá útvortis breytni og sidvenjur, enn sanna Guds dýrkun í anda og sannleika, vidlíka og Gydíngar, sem søgdu: hvørr, sem sver vid musterid, þad er eckért, en hvørr, sem sver vid gull musterisins, sá er sekur; hvørsu rekja má á þessum døgum vidlík hræsnis fótspor, vil eg ecki margt um tala; Gud sér og dæmir þad vel. En hér eiga, í þridja máta, skyldt allir þeir, sem af tærilæti og stórmennsku halda fyrir miskun ad hafa umgengni med þeim lítilmótligu, eda hreinsa hendi ad þeim þó áliggi, en þykir engin lítilmennska, heldur máské høfdíngligt ástundum, ad forsmá hreinar og einfaldar Guds orda kénníngar, leggja sig út fyrir ágirni og fédrátt, státsa og dramba, stundum í klædum ens fátæka, sem þó áttu apturskilud ad vera fyrir sólsetur, og í þessu og þvílíku hræsna hvørr fyrir ødrum, sem svo eru lyndir. Heyrid þó, þér páfuglar! ord Drottins: Hefir ecki Drottinn útvalid þá fátæku hér í heimi, sem eru ríkir í trúnni og ríkisins erfíngjar, sem hann hefir lofad þeim, sem hann elska, en þér hafid forsmád þann fátæka! mun nockud ydar útvortis sidlætis skyn, ydar smásmuglig rádvendni, sem þér látist sýna í einni og annari um-

gengni, ydar miklu høfdíngs stycki í fordyldarligum skenkíngum, optast af annara, kunna ad réttlæta ydur, eda gjøra álitliga fyrir Gudi, þegar hjarta ydar er fullt af hofmód og hardýdgi, og þér ysirgéfid dóminn, miskunsemina og trúna? Látid ydur þad sagt vera, hvad Drottinn af ydur krefur, sem er: ad halda kjærleikann, fremja miskun, halda Guds ord og audmýkja ydur fyrir Gudi; þetta má nú sagt vera af hræsnis dæmi Gydínga. En þegar Pílatús, sem vel þeckti þá, sér ad þeir koma ecki inn til sín, gengur hann út til þeirra og spyr eptir søkum fángans, hvar ámóti þeir eru uppi med stóryrdum og segja: væri þessi ecki illrædis-madur, þá hefdum vér ecki fært hann til þín; þad er: þú mátt vel láta þér nægja, ad vér høfudprestar og øldúngar erum búnir ad ransaka málid, og høfum fundid þenna fyrir illrædis-mann, þad er nóg røksemd, þú hefir eckért ad gjøra, nema ad stadfesta vorn dóm. Þó Pílatús væri vondur, mega þó allir gudhræddir dómarar nockud gott af hønum læra, því eptir því á madur ad taka, í hvørju ad er dygd nockur eda nockurt lof; en breyti nockurr eptir Pílatusi í ránglætinu, eda láti sér fara enn þá verr, þann gét eg varla kristinn kallad; en hvad gjørdi Pílatús þá eptirbreytíngarverdt? hann lætur sér ecki nægja myndugleika eda laus ord Gydínga, heldur vill vita, um hvad hann eigi ad dæma; svo eiga dómendurnir ecki ad láta gylda fyrir løg framburd og álit stórbockanna, því hjá Gudi er eckért manngreinar álit. Pílatús þóktist ecki ofgódur til ad gánga út og spyrja sig fyrir

um málid, þó hann hefdi mátt virdast affakadur ad skipta sér um fángann, ámedan Gydíngar ecki frambáru sakargiftirnar; skømm gjørir hann dómendum þeim, er hvørki vilja víkja hendi né fæti til ad leita Guds og konúngsins réttar, finni þeir, til handa sjálfum sér, engann ábata í adra hønd, þykjast afsakadir, sé almúginn svo fávís, dofinn eda yfirhylmíngasamur, ad hann kémur ecki fyrir løg órádvøndu og hneixlanligu athæfi, og þó einhvørr vilji kvarta yfir illu framferdi, slá þeir hann af laginu med stórmennsku, elligar smjadurvrdum og lagaflækjum, er sá einfaldi trúir. Ódruvísi breytti Jób: þad málefni, segir hann, sem eg ecki vissi, útspurdi eg; jaxla ens rángláta sundurbraut eg, og sleit ránid af hans tønnum. Pílatús hafdi tilbúid snidugt svar mót stórmennsku Gydínga og sagdi: fyrst þér viljid ecki gjøra mér adra skýrslu á málinu, enn ad þér hafid fundid þenna ad vera illrædismann, þá takid þér hann og dæmid samkvæmt ydar løgum. Hér rak þá í stans og mundu nú til, ad ens mikla ráds dæmandi myndugleiki væri afmádur, og þeir hefdu ecki leyfi til ad dæma nockurn til dauda; því liggur dómendum á ad vera undir eins vísir og réttlátir, og sá þá, er raungu málefni framfylgja, á réttann veg, sem best gétur skéd, ef þeir fyrst bidja Gud um vísdóms anda, einsog Salómon, og þar næst láta ecki løgmáls-bókina gánga sér af hendi, og í þridja lagi, setja sér í sinni, ætíd ad fylgja sannleikanum, sem í sjálfum sér er krøptugur ad nidurþagga mótmælendurna. Þegar Gydíngar nú sjá, ad þeir muni þurfa

meira enn einúngis makt sína, koma þeir fram með sínar lognu ákærur: þennann, segja þeir, finnum vér, að hann ráfsnýr fólkinu, bannar að gefa keisaranum skatt og segir sig að vera konúnginn Krist. Jafnvel þó sýnast megi, að allt þetta lúti að einu, sem er uppreist ámóti því rómverska valdi, hvað þeir vissu helzt mundi gylda hjá keisarans lénsmanni, einsog þeir vildu segja: þessi snýr fólkinu frá hlýðni við keisarann og bannar að gjalda hønum skatt, en gefur sig sjálfan út fyrir Gyðínganna konúng, og á því að álítast fjandmaður keisarans; margir hafa og álitið kløgun þessa þannig: að þeir fyrst hafa skuldað Jesúm fyrir villu-lærdóm, að hann kendi ámóti løgmálinu; þarnæst fyrir óróa, að hann talaði ámóti skattinum, og í þriðja lagi fyrir landráð, að hann gjørði sjálfan sig að konúngi. Hér kom nú fram á Lausnara vorum, einsog áður í høllu Kaiphasar, það, sem spáð stendur í sálmi Davíðs 35: Þar gengu fram illviljaðir vottar, og vitnuðu það á mig, sem eg var ecki valdur af; því allar þessar sakir voru lognar uppá hann, en áttu með réttu heima á oss, hvar fyrir hann borgaði hér það, sem hann ecki rænti. Hann var skuldaður fyrir að hann fráfsnéri fólkinu; øll vor náttúra er fráfsnúin Guði, og þánkar mannligs hjarta vondir frá barndómi, en einsog náttúran er spillt, svo er og allt framferðið, því vondt tré getur ecki fært góðan ávøxt, svo þar er enginn, sem gott gjørir og ecki einn; héraf spretta margar hneixlanir, hvørs vegna Lausnarinn hrópar vei yfir heiminum; en hjá Jesú var eckért þvílíkt að

finna, heldur var hann lýtalaus og án synda, géck um kríng, gjørdi gott og græddi alla þá, sem af Djøflinum voru undirþrycktir, snúandi bædi med sínu blessada dæmi øllum lýd til Guds, og líka svo, med sínum hjálpsamligu kénníngum, því hann hafdi ord eylífs lífs; þó mátti þad hér heita um hann, ad hann fráſnéri fólkinu. Hann var ákjærdur um, ad hann bannadi ad géfa keisaranum skatt; en ecki hafdi hann til þess unnid; miklu heldur baud hann ad géfa þad keisaranum, sem hønum bæri, og til þess, hann væri engum til hneixlunar, galdt hann sjálfur skattinn í Kapernaum fyrir sig og Pétur. En vér høfum rænt Drottinn, med því, ad halda inni hans réttlátu skuldum, sem er skattur hlýdninnar, hvørja hann skilur sér, þegar hann segir: Þú skalt hlýda røddunni Drottins Guds þíns og gjøra eptir hans bodum og setníngum; skattur lofgjørdarinnar, hvørn hann heimtar med þessum ordum: Offra þú Drottni lofgjørdinni! en þetta heyrum vér ecki, og erum hardla tómlátir í því, ad rækja hans bodord og setnínga; ecki minna kaldsinna erum vér í því, ad hrósa hans velgjørníngum, og því mátti Jesús heyra, ad hann, med uppreistarsømum kénníngum, bannadi ad géfa keisaranum skatt og rédi fólkinu frá hlýdni vid hann. Hann segir sig ad vera konúnginn Krist, segja þeir seinast. Hér kom nú fram vid Jesúm allur ockar hofmódur og hrokafullt sinnislag, bædi í líkamligum efnum og einkum í andligum, þegar menn meta ofhátt sjálfa sig og gódverk sín; en svo var lángt frá því, ad hann vildi falla inní valdstéttarinnar embætti,

ad hann sagdi vid þann, sem bad hann ad hlutast til arfaskiptanna: Madur! hvørr setti mig arfskiptismann eda dómara millum yckar; og þegar fólkid í Galíleu vildi gjøra hann ad konúngi, flýdi hann frá þeim. En þótt hans ríki væri ecki af heimi þessum, þá stjórnar hann þó í sinni miklu vegsemd á himnum, hvør á sídasta degi mun opinber verda. O, minn Jesú! sem mætt hefir minni ákjæru, lát þína ákløgun verda mér til forsvars, þegar eg á sídan stend frammi fyrir þínum dómi, einsog þú stódst nú frammi fyrir landstjórnarans rétti minna vegna, taktu þá sjálfur vid mínu forsvari og lát syndir mínar afmádar verda, fyrir þitt heilaga nafn, Ámen!

## 19. Hugvekja.

### Krists játníng fyrir Pílatusi.

Pílatus géck í þínghúsid, kalladi Jesúm þángad og spurdi hann: Ertu Gydínga konúngurinn? Jesús ansadi: Talar þú þetta af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad? Pílatus svaradi: er eg Gydíngur? þín þjód og kénnimannahøfdíngjar hafa fengid mér þig, hvad íllt hefir þú adhafst? Jesús svaradi: Mitt ríki er ecki af þessum heimi, því væri þad af hønum, þá mundu þjónar mínir strída ámóti því, ad eg seldist ecki Gydíngum á hendur, en ríki mitt er ecki þadan. Pílatus sagdi: þú ert samt konúngur? Jesús ansadi:

Þú segir það, eg er konúngur, og til þess er eg fæddur og kominn í heim þenna, að eg skuli vitna um sannleikann; því hvørr, sem elskar sannleikann, hann heyrir røddu mína. Pílatus sagði: hvað er sannleikurinn?

---

Rabbí! þú ert Guðs Sonur, þú er konúngur Ísraels, sagði forðum Nathanael við Krist; þessa játníngu hans staðfesti Drottinn vor í pínu sinni, því þessa játníngu gjørði hann fyrir ráðinu, að hann Guðs Sonur væri, og nú fyrir Pílatúsi, að hann væri Israels konúngur, hvørrar játníngar postulinn Páll minnist, 1 Tim. 6. og kallar hana þá góðu játníngu; en til hennar gaf Pílatus þó orsøk, því þegar hann hafði heyrt ákjæru Gydínga, fer hann að spyrja þann áklagaða, og er ekki ólíkligt hann hafi verið viðlíka sinnaður einsog sumir høfðíngjar, að þeir láta sem sér sé óviðkomandi það, sem Guðs dýrð og eflíng kristiligrar kyrkju áhrærir, skeyta enda lítið um, þó sauðirnir eti það, sem þeir hafa gruggað, og hinn fátæki kveini, ef þeir sjálfir fá nockuð í píngjuna: því sleppir hann því, sem hinir søgðu, að Kristur frásnéri fólkinu, því það komi sér ecki við og hann hafi heldur ecki skeytt um það, hefir og þókt ótrúligt um skattinn, þar aldrei hefði á því stórum borið, mætti og mótlíka gylda hvað Gyðíngar nøldruðu um hann sín ámilli, fyrst enginn vogaði annað enn láta hann af hendi. Søkin um kóngs nafnið var øllu markverðari, af því Pílatus hafði ecki tekið alla ákjæruna øðruvísi enn svo, að

hún grundadi sig þará, hafdi og líkliga heyrt ad Gydíngar þá og þá væntu eptir Messíasi, sem mundi frelsa þá frá annarligri yfirdrottnun og uppréttа mikid ríki í Gydíngalandi, hefir því hugsad ecki mætti vita, nema eitthvad væri farid ad brydda á þessu, og væri því víst athugandi. Því gengur hann í þínghúsid, tekur Jesum med sér og spyr: hvørt hann sé Gydínganna konúngur? Jesús spyr hann aptur: Hvørt hann tali þetta af sjálfum sér, elligar adrir hafi sagt hønum þad um sig? med ødrum ordum: hvørt hann hafi sjálfur ordid var vid nockur merki til þess, ad hann hefdi gjørt sig ad konúngi, elligar hvørt hann trydi ad eins marklítilli søgusøgn Gydínga þarum, eda og, hvørt hann meinti jardneskann og veraldligann konúng? Pílatus verdur nockud øfugur vid svarid og segir: er eg Gydíngur? hefi eg ecki annad ad stunda, enn ad skipta mér af draumórum Gydínga og þeirra Messíass? elligar munu þeir nockud rádslaga vid mig, þó þeir hafi einhvørjar nýúngar í sinni? en þín þjód og høfudprestar fengu mér þig, einsog þann, sem rángliga vildi taka sér þenna heidur; eda hvad hefir þú adhafst, til þess, ad þeir ecki vilja leyfa þér ad vera medal þeirra? Þú mátt víst hafa módgad þá á einhvørn hátt? Þad virdist, sem Pílatus med þessu móti hafi viljad locka Jesúm til, ad fá vitneskju um, hvørt hann hefdi hugsad uppá konúngs-tignina. Nú kémur Jesús fram med sína hreinskilna játníngu: neitar ad sønnu ecki ad hann sé konúngur, en þó ecki sá konúngur, sem brúkadi veraldligt veldi, einsog Pílatus

meinti, hvartil hann færir þau rök, ad ecki sé hann uppi med vopn og verjur, einsog veraldligir konúngar, heldur sé hann hógvær og fátækur, og allir megi gjøra vid sig hvad þeir vilji, hvad Pílatus megi nú merkja þaraf, ad hann hafi nú verid tekinn í Jerúsalem og fángadur einsog lamb í kyrrþey. Pílatus tekur eptir því, ad hann eignar sér ríki, og spyr: hvørt hann kalli sig þá konúng? Jesús leggur hønum þá greiniliga út síns ríkis ásigkomulag: kvedst ad sønnu vera konúngur, en þó þvílíkur konúngur, sem sé sannleikans vottur, en ecki til ad brúka veraldligt herradæmi, og þad sé eiginligleiki þegna sinna ad trúa sannleikanum. Þetta hefir Pílatus líkliga ecki skilid, spyr því: hvad er sannleikurinn? og gengur sídan út. En vér, sem betur eigum ad vera uppfræddir enn Pílatus, skulum athuga þetta betur. Hér má fyrst heyra, ad Jesús er konúngur, einsog skrifad stendur: Eg hefi sett minn konúng yfir mitt heilaga fjall Zíon, þó er hans konúngsríki ecki med sama slag, sem veraldlig konúngaríki, heldur er þad af lángtum annari art, og hátt yfir þau upphafid; hér eru ecki gáfurnar óstadfastar og ófullkomnar, heldur sannarligar og ósleppi-fengar; hér eru ecki vopnin líkamlig til ad deyda líkamina, heldur andlig og krøptug ad umbreyta sálunum; hér eru ecki þeir fátæku undirokadir, heldur hofum vér þann Gud og þann konúng, sem frelsar hinn fátæka, þá hann bidur; hér er ecki útvortis státs og skarkali, heldur er øll prýdin innvortis; já, sjálfur konúngurinn er fátækur, svo hann audgadi oss med sinni fá-

tækt, og gæfi þeim aumu þess heldur djørfúng ad leita sín, því hann rekur ecki þann frá sér, sem til hans kémur. En þó hans ríki væri nú þannig ecki af þessum heimi, þá hefir hann samt eitt eylíft og ódaudligt tignar-nafn, lángt yfir alla heimsins stjórnendur, og heitir konúngur konúnganna og Drottinn Drottnanna; þeir verda allir ad þyggja af hønum bædi vísdóminn og kraptinn til ad stjórna ríkjunum, eins líka tignina, umdæmin og audlegdina; allt er þad hans gáfa, sem hefir vald yfir konúnga-ríkjunum og géfur þau hvørjum hann vill, fyrir hvørn konúngarnir stjórna og rádherrarnir tilsetja réttindin. Veraldligir konúngar strída ad sønnu og þvínga adra undir sig med makt, þó med því móti ad hann taki ecki á burt kraptinn sverds þeirra; en Satan og hans makt fær enginn høfdíngi sígrad; þeim verdur bágt ad draga þann Levíathan med aungli, eda inngánga í hús ens sterka og taka frá hønum herfáng hans; enginn er heldur svo sterkur eda voldugur, ad hanni fái daudanum af sér hrundid, því þó þeir heiti Gudir, verda þeir þó allir ad deya sem menn. En, þegar vor máttugi konúngur dró út ad berjast fyrir sinn lýd, úthellti hann ecki annarligu blódi, heldur gaf sig einn ámóti óvinunum, einsog Davíd móti Golíath; hans þegnar studdu hann ecki, því hann tród aleinn vínþrúgana; en hvørsu krøptugliga vardist hann? hvørsu máttugur var hans armleggur? hvørsu voldugliga afklæddi hann høfdíngjadæmin? hvørsu sterkliga útrykti hann þeim herleiddu af gryfju þeirri, er vatnslaus var? hvørsu

heijuliga tók hann, fyrir daudann, maktina frá þeim, sem daudans makt hafdi, nefnil. Djøflinum, og frelsadi svo marga, sem af daudans ótta voru þrælbundnir alla sína lífdaga? hvørsu dásamlig var hans stríðsadferd, ad hann med sínum vanmætti er óvinunum yfirmáttugri ordinn? Já, minn Herra! fyrir þér mátti tapt gèfa, Djøfull, synd, daudi og helvíti, allir þeir, sem oss høtudu, hvørsvegna allir þínir trúadir og útvaldir eylífliga lofa þig, segjandi: verdugt er Lambid, sem slátrad er, ad medtaka krapt, ríkdóm, vitsku, styrkleika, æru, prís og lof! Þar nú vor konúngur Jesús hefir yfirunnid og ødlast sigurinn, þá er ríki hans eylíft, sem aldrei mun eydileggjast né koma til annara; þad er andligt ríki, í hvørju hann, í hædina uppfarinn ad herleiddri herleidíngunni, útbýtir oss sínum andligum þegnum, andligum gáfum: heiløgum Anda, syndanna fyrirgéfníngu og rósemi samvitskunnar, uppfyllandi alla hluti og voldugliga stjórnandi til Guds hægri handar, þartil hann afhendir á sídasta degi Fødurnum ríkid, og stjórnar ecki lengur fyrir ordid og sakramentin, heldur verdur Gud allt í øllu. En nú stjórnar hann ecki med jardneskri adferd, heldur med ordi sannleikans, hvørt ad er bædi sannleikur í sjálfu sér og verkar sannarligar verkanir, frelsandi frá Djøfulsins lýgifullu adferd. Þetta er sá himneski sannleikurinn, sem þú, Drottinn minn og Gud minn! segist vera kominn í heiminn til ad vitna um, í hvørjum þú og bidur þinn himneska Fødur ad helga þína trúada; þetta er þinn veldissproti, hvørn þú

réttir að mér, aumum syndara! þegar eg hræðist fram fyrir Guð að koma: þinn veldissproti, með hvörjum þú typtar heiðnar þjóðir, sem leiðbeinir þeim villtu, viðréttir þá niðurslegnu, ógnar þeim þverbrotnu, burtrekur alla makt óvinanna, um hvörn skrifað stendur: Stjórnar-vøndur þíns ríkis er réttlætis vøndur; þinn vøndur og stafur hugsvalar mér. Þaunig er nú ríki vors Lausnara dýrðligt, andligt og eylíft ríki, og hans veldisstóll upphafinn yfir allt það nefnast kann, bæði í þessum heimi og øðrum; en með því það var andligt og øðruvísi enn heimsins ríki, svo Jesús ekki kallaði né þráttaði, ekki heldur brúkaði hofmóð eða yfirlæti, þá sinnti heimurinn því ekki, heldur forsmáði og hataði hann fyrir alla hans velgjørnínga; því er ekki að undra þó svo falli fyrir hans børnum, og á þeim rætist spásaga hans þessi: Fyrir því hatar heimurinn yður, að eg útvaldi yður af heiminum. Séum vér þessvegna þegnar þessa kóngs, hvørs ríki ekki er af þessum heimi, þá lærum að forsmá heiminn, en hafa himneskt sinni og hjartalag, einkum þar vér høfum hér ekki blífanligann samastað, heldur leitum ens ókomna; en viljum vér þess svo leita, að vissir séum að ríkja með vorum konúngi eylífliga, þá megum vér kapp á leggja að vera af sannleikanum og heyra hans røðd, sem er sannleikans konúngur og oss ræður til ydrunar og umbótar, en ekki lýgifulla røðd Djøfulsins, holdsins og heimsins, sem vilja dilla oss í andvaraleysinu. En það er ekki nóg, að vér heyrum konúng vorn tala í sínu orði, það heyrðu líka Hannas,

Kaíphas, Júdas, Pílatus og adrir, heldur verdum vér ad hlýda því, sem hans rødd kénnir, svo vér af henni umbreyttir í hjartanu, frelsadir verdum frá lýginni og myrkranna syndsamliga ríki, því hann segir: Ef þér haldid vid mína rædu, erud þér mínir lærisveinar, og þá þeckid þér sannleikann og sannleikurinn frelsar ydur. Pílatus spurdi Jesúm hér: hvad hefir þú gjørt? en hann mun á sídasta degi gánga eptir, ecki svo því, hvørsu margt eda mikid hvørr hefir heyrt, heldur hvad hann hafi gjørt eptir því. Þessvegna er þad ecki nóg fyrir þig, kristinn madur! ad þú heyrir rødd sannleiks-konúngsins af munni hans þjóna, sem tala í hans umbodi, heldur áttu ad hlýda henni, svo trúin finnist hræsnislaus, ósleckud og ávaxtarsøm í gódum verkum, en ecki vera glaumur eintómur, sem hrópar: Herra! Herra! en gjørir þó ecki vilja Fødursins, hvad reyndar engin trú er. Ransaka því dagliga sjálfan þig, hvørt þú sért í trúnni, spyrjandi samvitsku þína á hvørju kvøldi, hvørnig þú hafir þann daginn hegdad þér, eptir rødd þíns hyrdirs, og þar þú munt finna eptir hvørn dag ærid áfátt, ef þú vel lýsir med Guds orda ljósi ad framferdi þínu, þá drag ecki undan ad snúa þér til Drottins, og lagfæra þad, sem ábótavant finnst, og þegar þarmed fylgir ydrandi og audmjúk bæn um syndanna fyrirgéfníngu og leidsøgn Andans í Jesú nafni, verdur þér ydranin tamari, og þú búnari bædi vid daudanum og dóminum. Ó minn Jesú! allt gjørdi eg illa, eg hrædist øll mín verk, en þú gjørdir allt vel, þarfyrir muntu láta mig lausann og

géfa mér upp alla skuldina. Sjá! eg vil elska þig af øllu hjarta, allri sálu og øllum krøptum, og þjóna þér í heilagleika og réttlæti alla mína lífdaga; hjálpa mér þartil, Drottinn minn! svo megna eg allt fyrir þig, sem mig máttugann gjørir, Amen!

## 20. Hugvekja.

### Önnur áklagan Gydínga fyrir Pílatusi.

Pílatus géck út aptur til Gydínga og sagdi til þeirra: eg finn enga søk hjá Jesú. En þá er Gydíngarnir tóku ad áklaga Jesúm hardliga, ansadi hann engu. Pílatus spurdi hann þá: svarar þú engu? heyrir þú ecki hvørsu hardt þeir áklaga þig? En Jesús svaradi engu ordi, svo landsstjórnarinn undradist þad mjøg. Gydíngar voru því ákafari og søgdu: hann hefir uppæst fólkid, med því hann hefir kénnt á øllu Gydíngalandi, og tiltekid í Galíleu allt híngad. En þegar Pílatus heyrdi Galíleu nefnda, spurdi hann: hvørt hann væri frá Galíleu? En er hann var þess vís ordinn, ad Jesús væri undir Heródesar stjórnarveldi, sendi hann Jesúm á burt til hans, því hann var þá líka staddur í Jerúsalem.

---

Pílatus var nú búinn ad ransaka sakargiftirnar, sem Gydíngar høfdu borid fram uppá Jesúm, einkum þá um koníngs nafnid, og hefir virdst, ad hér

væri ecki um svo mikid ad gjøra, þar konúngur þessi hefdi ecki meiri myndugleika enn svo, ad hann væri einúngis sannleiks vottur, og ad Rómverjar hefdu ecki mikid ad óttast af hønum. Hann lèst ad sønnu halda uppá veraldligann sannleika, en um þann himnesska sannleika var hann nærsta fáfródur, mun og hafa optar annad stundad, enn ad ransaka sannleika trúarbragdanna, og þessvegna þókt þad kátligt, ad vilja kalla sig konúng í þesshättar málefnum, einsog þessi vesælíngs madur vildi vera lás fyrir øllu viti, og hvørr mundi ecki hafa sinn átrúnad og halda sinni meiníngu, hvad, sem hann segdi. Óskandi væri, ad oss færi nú betur í þessu, enn Pílatusi; sannleikann á ad sønnu ad elska og rækja, því sá, er talar sannleikann af hjarta, hann mun byggja í Drottins tjaldbúd; en eg er hræddur um, ad nockrir þeir, sem brjóta heilann um, ad ransaka hvad sannast sé í veraldar vísdómi, vilji og sannordir heita og rèttdæmir, muni ecki gjøra sèr mikla þánka um þad, ad prófa andana, hvørt þeir sèu af Gudi, eda skygnast smásmugliga inní þann himneska sannleika, sem Davíd talar um, þegár hann segir: Drottins rèttur er sannur, allur rèttferdugur, hvartil eg vænti einhvør spor megi rekja nú á þessum døgum. Vegna áudursagdrar orsakar, gengur Pílatus út aptur til Gydínga, og lýsir því, ad hann finni enga søk med Jesú; en þeir urdu þess ákafari, hvarvid Herrann þagdi ølduúngis, jafnvel þótt sjálfur landsstjórnarinn æskti svars af hønum. En þegar þeir komu seinast upp med þad, ad hann hefdi kènnt í Galíleu, hugs-

adi Pílatus ad koma málinu frá sér undir Heródes, sem þar hafdi umdæmi, og sætti því tækifæri, ad Heródes var þá staddur í Jerúsalem, hvørsvegna hann sendir Jesúm til hans. Lærum hér nú: fyrst, ad hugga oss vid sakleysi Jesú; Pílatus lýsti því opinberliga, ad hann findi enga søk med hønum; þó var hann einsog sakamadur af hønum til dauda dæmdur; því þó þeir findi enga søk med hønum, var hann einsog sakamadur aflífadur, segir Postulinn. Fyrst hann píndist nú saklaus, þá fylgdi þad á eptir, ad hann dró annad til dauda, enn eiginligur tilverknadur, en þad voru syndir vorar, vegna hvørs hann er særdur, lemstradur og líflátinn. Já, minn Jesú! eg mætti søk bera fyrir þér og þínum himnesska Fødur alla mína lífdaga, en hún lendti á sjálfum þér, því þú ert fyrir mig ad synd gjørdur; eg er í syndinni gétinn, af henni er allt høfudid sjúkt og hjartad veikt; hún hefir gjørt adskilnad milli mín og míns Guds, en med þér fannst engin søk og og engin flærd í þínum munni. Þetta þitt sakleysi gafstu mér, því þú ert af Gudi gjørdur réttlæti, vísdómur, helgun og endurlausn; eg átti þér skuldina ad gjalda, en þú géckst í borgun fyrir mig sjálfur; eg átti ad svara þér þínum rétti fyrir þínum dómi, en þú tókst málstad minn ad þér og uppá þig og svaradir allri sektinni, svo þó þad heilaga løgmál komi hér fram og leggi á mig úrskurdinn, med þessum røksemdum: Bølvadur sé sá, sem ecki heldur allt hvad skrifad stendur í Løgmáls-bókinni! þessi hefir þad ecki haldid, því er hann bølvadur; þá viltu,

minn Jesús! gánga fram og segja: eg finn euga søk með hønum; hefi eg ecki uppfyllt løgmálið? er eg ecki þess uppfyllíng til réttlætis þeim, sem trúir? Þar eg nú, løgmálsins Herra, hefi gjørst þess þjón, og gengið sjálfviljugur bæði undir þess hlýðni og bølvan, má eg þá ecki gjøra af mínu hvað eg vil? eða má eg ecki géfa syndara þessum, er trúir á mig, réttlæti mitt og sakleysi? hvørr fær klagað yfir því? brestur nockuð á mína verðskuldun og fullnustugjørð? hvørr vill klaga þá útvøldu Guðs? er Guð ecki sá, er þá réttlætir? hvørr vill þá fordæma? Mun eg, sem forlíkunarmaður, og dáinn, sem illvirki ámóti løgmálinu, en þó kominn að uppfylla það, fordæma þá? Lángt er frá því! því dæmi eg syndara þennann saklausann fyrir sakleysi mitt, er eg hefi hønum géfið; með verði hefi eg keypt hann, og því er hann þjón minn, sem varðveitir orð minnar þolinmæði; eg skal líka varðveita hann á freistíngar-tímanum, þá er þeir óguðligu verða heimsóktir, og standa þá fyrir øllum hans ákjærum. Þarnæst er merkjandi þøgn Frelsara vors; við øllum ákjærum gjørðist hann einsog mállaus eða daufur, sá er eckért forsvar í munni hefir; ecki lauk hann upp munni sínum heldur enn sauður fyrir þeim, er klippir hann, með hvørju hann auðsýndi, að vorar syndir beygðu hann, en gaf oss undireins bæði djørfúng og fullt forsvar fyrir Guði, en einkum borgaði fyrir vor mørgu ónytju-orð og óþarfa mælgi. O! hvørsu má oss ofbjóða, þá er vér til þess hugsum, að reikníngur skal gjørast á síðan af hvørju ónytju orði. Hvør eru þau ónytju-orð? allt

hvad gengur fram yfir já og nei; allt, hvad vorri køllun ecki vidvíkur; allt, hvad ecki er naudsýnligt til naudþurftarinnar uppbyggíngar, og géfur nád þeim, er þará heyra; af øllu þessu skal reikníngur gjørast. O, Herra Gud! hvar vill þá lenda? því hefir nú vor Jesús, sem einn gat med øllum rétti forsvarad sig, þagad og látid sig saklausann dæma, til þess, ad vér, á hinum stránga degi hefdum þad forsvar, ad allt væri lagt á hann, er vér hefdum misbrotid. En einsog hann leid þegjandi, þá er hann galdt vorra synda, þá er skylda vor í hans eptirbreytíngu, ad lída med þøgn og þolinmædi allt vort mótlæti, jafnvel órétt og áreitir vondra manna, og segja med Davíd: Eg vil þegja og ecki uppljúka munni mínum, því þú, Drottinn! gjørdir þad. Jeremías segir: Þad er manninum gott, ad bera okid í sínum úngdómi, svo sá sé þolinmódur, sem yfirgéfinn er, þegar nockud yfir hann fellur, og þad hann stíngi sínum munni í moldar-dupt og vænti uppá vonina. Þessvegna vil eg nú gjarnan breyta eptir þér, minn Jesú! sem hefir lidid og mér dæmi géfid, ad eg fylgi fótsporum þínum, þú, sem ecki hallmæltir, þegar þér var hallmælt, og ecki ógnadir, þá er þú leidst, heldur fólst þad hønum á hendur, sem dæmir rétt; hjálpa mér þartil, þú þolinmóda Guds Lamb! fyrir þitt heilaga nafn. Í þridja máta má hér sjá slægvitsku Pílatusar; hann vill koma med lempni øllum vandanum af sér uppá Heródes. Þad er gømul venja veraldarinnar, ad smeygja sér útúr og koma ødrum í netid; þó þad beri vid mønnum luckist þad

ecki betur á stundum, enn Pílatusi í þetta sinn, því vidlíkt er ecki vitska í sjálfu sér, þó hún sé kollud svo, einsog Sírak segir: Prettvísi er enginn vísdómur, og ógudligra manna hreckir eru engin hygginði; en samt sem ádur verda menn ad sjá sig vel um, og hafa höggormsaugu í dúfu hjarta, því eckert er tídara í þessari veröldu enn prettirnir, og sá gálausliga framgengur, kann audveldliga af þeim ad slisast; en eckért er betra rád hér vid, enn samtengja vid varhygdina alvarliga bæn til Guds; þeir, sem ad hans rádum fara og vona á hann, hafa aldrei til skammar ordid; eg — segir hann — er ydar hugsvalan; hvörr ertú ad þú hræðist mennina, sem deya, elligar fyrir börnum þeirra, sem tærast einsog hey? Loksins skulum vid nú renna augum vorum eptir Lausnaranum og skoda þá hrakníngsfullu mædugaungu, er hann þola mátti frá þeim eina ránglátа til annars. Ur Grasgardinum var hann hrakinn bundinn fyrir ædsta biskupinn Hannas, frá hönum til Kaíphasar, frá þessum til Pílatusar, frá hönum til Heródesar, og þá aptur á ný til Pílatusar, loksíns dæmist hann til dauda, og allt þetta er framkvæmt fyrir hádegi. Audséd er, ad allt þetta ómak og hrakníngur er hönum aukid med syndum vorum; þær lögdu veginn, sem hann hlaut ad leidast um, einsog óbótamadur. Vér fórum allir villt einsog saudir, og hvörr horfdi á sinn veg; á vegum vorum var ecki annad enn hjartasorg og ógæfa, en fridarins vegur var oss ókunnur, heldur fetudum vér þann veginn, sem ecki er gódur; þjófurinn, hór=

karlinn, manndráparinn, okurkarlinn, fépúkinn og þessum líkir, er syndin og spillíngin hefir gróðursett í heiminum, telja ekki ómak sitt, til ad fá ásetníngi sínum framkomid. Allt þetta mætti Jesú á hans hrakníngs leid, er ad vísu var hønum yfrid ørdug, þar líkligt er, ad þrælar þeir, er fluttu hann, hafi ecki þyrmt hønum, og hefir hann þá undir eins leidt fætur sínna trúudu af þeim breida vegi, á fridarins veg. Vér erum á sífeldri hrakníngs-ferd, svo lengi vér búum í heimi þessum, hvørt spor liggur til grafarinnar, og í hvørju einu sinnum vér ecki annad enn andstreymi og ervidi bædi ytra og innra, því madurinn er í sífeldu strídi á jørdunni, og hans dagar einsog daglaunarans; en Jesús hefir med sínni pínslar-gaungu áunnid ofs rósama hvíld í himnaríki, ad afloknu voru ervidi á jørdunni, vid hvad allir trúadir mega hugga sig; því vér sem trúum, segir Páll, inngaungum í hvíldina. En svo framt vér ødlast viljum þessa hvíld, megum vér ecki telja eptir ofs, þó vér nockud þreytumst í vorri køllun, því enginn kémst vel af sínni þjónustu, nema hann hafi ervidi fyrir henni. Ágæt er lífssaga Davíds, um hvørn Guds Andi svo talar: Þegar Davíd hafdi á sínum tíma þjonad Guds vilja, sofnadi hann á burt, og er lagdur til fedra sínna; en þessi kostur er øllum vifs, sem gánga í Davíds gudhrædslu og þolinmædis fótspor; þetta vil eg og ætíd hugsa, þá er mér verdur ørdugt í minni stétt, og til þacklætis og lofgjørdar vid þig, minn Lausnari! lída þá mædu, ecki ad eins med þolinmædi, heldur med eptirlæti. Eg vil segja

med postulanum: Vei mér, ef eg prédika ecki Evangelíum; gjøri eg þad viljugur, fæ eg laun, en gjøri eg þad naudugur, þá er þó þad embætti mér á hendur falid. Géf mér, minn Jesú! ad finnast trúr allt til daudans, svo eg ødlist lífsins kórónu, og endi svo mínar æfistundir í þinni þjónustu, ad eg fari loksins í fridi, og haldi svo einn hvíldardag eptir annann í þínu ríki, Amen!

## 21. Hugvekja.

### Um forvitni Heródesar og hvíta klædid.

Þegar Heródes sá Jesúm, vard hann gladur mjøg, því fyrir laungu hafdi hann girnst ad sjá hann, af því hann hafdi heyrt margt um hann, og vænti, ad hann mundi sjá eitthvørt teikn af hønum gjørt, spurdi hann því um marga hluti; en Jesús ansadi hønum engu ordi. Kénnimannahøfdíngjarnir og enir skriftlærdu stódu og ákløgudu hann hardliga; en Heródes og hof-fólk hans forsmádu Jesúm og spottudu, færdu hann í hvítt klædi og sendu hann aptur til Pilatusar. Á enum sama degi urdu þeir Pilatus og Heródes vinir, því ádur var óvinátta mikil ámillum þeirra.

Hvørsvegna æda høfdíngjarnir, og því hugsar fólkid svo fáfengiliga hluti? konúngar landsins taka sig upp, og høfdíngjarnir halda samkomur ámóti Drottni

og móti hans Smurða? segir Davíð; þenna spádóm heimfærðu postularnir í hinni fyrstu kristni, uppá Krists pínu: allir komu þeir tilsamans mót Þínu heilaga barni Jesú, hvört þú smurt hafðir, Heródes og hinn pontverski Pílatus, með heiðíngjum og Ísraels fólki, til að framkvæma það, sem hönd Þín og ráð þitt áður fyrirhugaði að ské skyldi. Þetta heyrum vér nú framkoma hér, því fyrir utan það, sem aðrir, er hér eru taldir, gjörðu til að pína Herrann, þá kom hann líka fyrir þann guðlausa ref Heródes, sem ecki lét sitt eptirliggja í hæðni og forsmán og skapraunum. Af þessu séſt, einsog Davíð segir: að sá hærsti muni hæða að óvinum Krists, og ríki hans verði að standa þrátt fyrir þeirra þöck, þá segir oss líka Pínslarsagan, að Jesús hafi ecki virðt Heródes viðtals, þótt hann spyrði hann um ýmsa hluti; þetta gjörði hann þó ecki, blessaður! að jöfnuði; en því þagði hann nú? af því hann hafði annað verk á hendi, enn að leika fyrir Heródesi og hof-fólki hans, sem ecki leituðu uppfræðíngar til að ödlast Guðs ríki, heldur sér til gamans og dægra-styttíngar, og segja öðrum frá, til skémtunar. Mundu nú ecki finnast þeir í heimi þessum, sem fara með Guðs orð einúngis sér til skémtunar, þánkaog íhugunarlaust, hafa það fyrir ölvísur einsog kvæði eða rímur, skrafa og skéggræða undir Guðs orða heyrn og lestri? er þetta kristinndómur, eða kristnum verðugt? er það lángt frá því að sverja við Guð og Mólóch? eða, hvörr er sá, er ecki sjái, að með þessum hætti verður Guðs heilaga nafn fáfengiliga

brúkad, sem ecki mun verda óstraffad? Nockrir vilja heyra Guds ord, einsog nýúngu nockra, einsog Athenuborgar-menn, er fleirstir voru enu sømu, en adrir gjørdu gis ad lærdóminum, einsog optar skédur. Þessum eru þeir skyldir, sem fara med lofsaungva kristninnar til ad skémta sér med hljódunum og láta adra heyra þau, en sýngja þó hvørki med andanum eda hugskotinu. Fara nú ecki þessir óréttiliga med Guds ord? hafa þeir nockur not af því? Óskandi væri, ad þeir, sem eiga ad leidbeina ødrum á réttann veg, væru fríir frá þessu; en — því er midur! — hnýsast menn ecki á stundum býsna djúpt inní Guds leyndardóma, og dæma um þá eptir skammsýni sinni, elligar réttara, blindleika sínum og holdligri skynsemi, rétt einsog þeir granþecktu Guds heimugligu rádstafanir elligar sinni hans? munu þeir verda vitrari vid þetta? Nei! þeir læra ad sønnu, en komast ecki til vidurkénníngar sannleikans. Móses féck ecki séd andlit Guds, því mun ødrum best ad reyna ecki til þess, annars er hætt vid þeim fari einsog þeim, sem horfir í sólina, hann sér ecki þad, er hann sá ádur, heldur fær verk í augun, er ecki þoldu þessa miklu birtu, eins hefir Gud gjørt vitsku þessarar veraldar ad heimsku, og þeir, sem héldu sig vísa, eru ordnir ad heimskíngjum. Eg vil nú ecki tala um þad, hvørnig menn eru búnir ad innfæra í hreinann og einfaldann Guds orda lærdóm ýmislig tvíræd ord ennar mannligu speki, er hin fyrsta kristni vissi eckért af ødrum ad segja, enn því skæra Guds orda ljósi; hitt er víst, ad einsog Heródes

spurdi Jesúm á marga vegu, svo eru framkomnar márgar ónaudsýnligar spurníngar, sem fordyldarligar grillur mannligrar skynsemi hafa uppfundid, um hvad menn munnhøggvast, og þykist sá fræknastur, er gétur rekid annann í vørduna, álíta þvílíkt ecki einúngis einsog saklausa skémtun, heldur lofligar ydkanir. O, hvørsu margfalda vanvirdu má Guds heilaga nafn lída, þegar svo vidber! eda munu þessir allir tala varligar um Gud enn Jóbs vinir, hvørjum hánn þó reiddist, og hvørr veit hve margar villur héraf eru komnar í heiminn? Lángtum ødruvísi adferd høfdu postularnir: Mitt ord og mín prédikun var ecki í knýandi ordum mannligrar speki, heldur í andans og kraptarins hreinum sannfæríngum, ad trú ydar sé ecki í mannligum vísdómi, heldur í Guds krapti, segir Páll í bréfinu til Korinthuborgarmanna, 1 Cor. 2. og Tímótheusi býdur hann á þennann hátt: Vitna fyrir Drottni, ad þeir ecki þrátti um ord til engrar nytsemi, ad frásnúa þeim er tilheyra. Lát nú þessvegna þessa vitrínga fara, þú gudhrædda kristna manneskja! og met þá miklu nád, ad Gud vill skiljanliga og greiniliga tala vid þig í sínu heilaga ordi, og seg med spámanninum: hvørsu fagrir eru á fjøllunum fætur þeirra, sem fridinn boda; þenk med sjálfum þér: ad Gudi er full alvara, þá hann lætur boda ydrun og syndakvittun í Jesú nafni, hótar þeim þverbrotnu reidi sinni, en lofar miskun þeim, er hlýdnast hønum í trúnni; því hann er ecki madur sá, er lýgur eda mannsins barn, ad hann ydrist nockurs. Því ber þér líka med allri al-

vørugéfni, audmjúku og eptirtektasømu hjarta, ad hugsa og tala hérum, og hugga adra med þeirri huggun, sem þú ert af Gudi med huggadur, einsog postulinn býdur: Guds ord búi ríkugliga med ydur í øllum vísdómi, frædid og áminnid sjálfa ydur med sálmum, lofsaungum og andligum vísum, og sýngid med yndi Drottni lof í ydar hjørtum; en þá gjørir þú þad, þegar sálin dansar svo ámóti Jesú og øllum hans stórmerkjum, ad þú segir í þeli hjarta þíns: þegar eg heyri talad um þig, minn Herra Jesú! í ordi þínu, sem er kraptur Guds til sáluhjálpar þeim, er trúa, þá finnst mér, sem eg allur hressist og endurnærist; þínir vitnisburdir eru minn arfur eylífliga, því þeir eru mín hjartans gledi; þú ert ad sønnu í ordinu afmáladur fyrir augum trúar minnar, en þó sýnist mér hvad helzt, sem þú standir píndur fyrir sálu minni í því heilaga kvøldmáltídar Sakramenti, og bjódir mér fram alla þá blessunar ávexti, sem fljóta af pínu þinni og verdskuldun. O, hvørsu lífgar og endurnærir þessi andliga sjón hjarta mitt! mér finnst, sem eg uppljómist af einni dýrd til annarar og smacki krapt eptirkomandi aldar; þad eina brestur, ad eg ecki svo fullkomliga, sem eg vil, þykist géta notid þeirrar sælu, er Andinn segir mér, ad sé til þinnar hægri handar, einsog eg vildi, og því lángar mig ad sjá þig auglíti til auglitis, ecki einsog Heródes, er þig vildi sjá af nýúngagirni, heldur af sannri elsku og eptirlaungun trúar og vonar, sem ecki gétur sjálfri sér fullnóg ordid, fyrenn eg fæ ad sjá þig, einsog þú ert í dýrd þinni. O, hvørsu mína sálu lángar eptir þeim sæla

samfundi! nær mun eg þángað komast, að eg fái að sjá Guðs auglit? Leið mig þángað, Lausnari minn! að lokunum, þótt eg megi um stund bíða þar eptir í voninni. Finni Jesús hjá þér þetta hugarfar, kristin sála! mun hann sinna þér betur enn Heródesi, því hann elskar sinn elskára, og opinberar sig fyrir hönum, en við Heródesi þagði hann, því hann vill ekki láta géfa hundum helgidóminn, né kasta perlum fyri svín; Heródes var hrokafullur og vanvirdti Jesúm; en Jesús sýndi það aptur, að Guð vanvirdir þann, sem hann vanvirdir, hann stendur ámóti dramblátum og setur volduga af stóli, hvað og kom fram á Heródesi, sem endaði lastafullt líf sitt í útlegð og eymdarskap. En hvað gjörir nú Heródes, þá er hann fær ekki svalað forvitni sinni? hann vanvirdir Jesúm og spottar, færir hann í hvítt klæði og sendir hann aptur til Pílatusar, og nú verða þeir vinir, sem áður voru hatursmenn, vegna metorðagirni og drambsemi, því líkligt er, að óvildin hafi aukist milli þeirra, bæði af því, að Pílatus lét drepa í Jerúsalem nockra undirsáta Heródesar, og líka sat hann í ríki Archelausar bróður hans, svo hinn komst þar ecki inn, hvað heita átti erfðaríki þeirra bræðra, eptir Heródes barna-mordíngja föður þeirra. O, hvörsu skammarliga hafa þeir farið með Jesúm! Heródes, þessi sæl-lífis kroppur, vanvirdti hann, og gaf hönum hvítt klæði, líkliga til háðungar, líkliga til spotts við konúngsnafnið, er hönum var eignað; því þeir, sem vildu hefjast til hárra embætta hjá Rómverjum, áttu að gánga í hvítum klæðum; en af þessu höfum

vér, sem trúum, þá huggun, ad líka sem hann var optar klæddur spottligum búníngi, svo hefir hann gefid oss fagurt brúdarskart, sitt eigid réttlæti, hvørju trúin íklædir sig og upphefur fagnandi sína lofsøgu á þenna hátt: Eg gled mig í Drottni, og sála mín er gladvær í Gudi mínum, því hann hefir klædt mig hjálpræðisins klædi og møttli réttlætisins klæddi hann mig, einsog brúdguma skrýddann kénnimannaligum skrúda og brúdina í skarti sínum. Hid hvíta klædi Jesú var sakleysis merki, og þótt enginn vildi vid þad kannast í þad sinn, hefir þad víst skartad í augum þess himneska Fødurs, einsog þad var vottur um hlýdni hans. En einsog eg er viss um þad, ad þad, sem gudlausir menn vildu láta heita hádúngar merki á Jesú, hefir litid út í Guds augliti fyrir hlýdnis og sakleysis merki, svo hugga eg mig þarvid mót øllum gétu-søkum mannanna, ad Gud prófar hjarta mitt, og veit hvørt eg meina þad réttiliga; hann gétur og umbreytt rádum rángferdugra, og látid mig ødlast heidurinn, þegar adrir vildu vansa minn. Eg finn líka, ad minníng þessa hvíta klædis er haldid uppi á himnum til heidurs Guds Syni, því birtust Englarnir í þesshattar búníngi eptir Krists upprisu, og Jóhannes sá þá útvøldu á himnum eptirfylgja hønum í hvítum klædum; en svo framt vér viljum sídar á himnum hafa þá hrósun, ad vér høfum í Lambsins blódi hvítfágad vorn klædnad, verdum vér ad taka hvítann búnad á oss hér á jørdunni, þad er: ískrýdast svo réttlæti vors Lausnara fyrir trúna, ad í øllu framferdinu ljómum vér einsog himneskt

ljós í heiminum, hreinsandi oss af allri flekkun holdsins og andans og fullendandi heilagleika í Guðs ótta. O, Herra Jesú! géf mér náð til, að eg þjóni þér hreinferdugliga í trú, kjærleika, von og þolinmæði, einsog þú hefir tilbúið mig fyrir flekklausa brúdur handa sjálfum þér! íklæð mig ljómandi skarti þíns réttlætis, svo eg í því megi bæði deya og dæmast! Géf mér dags dagliga að afklæðast þeim gamla manni, en íklæðast þeim nýa, sem eptir Guði er skapaður í réttlæti og heilagleika; og einsog eg veit, að þú hér með þinni millifør varst forlíkunarmeðal millum tveggja fjandmanna, svo trúi eg miklu fremur, að þú hafir sætt og útvegað mér frið hjá þínum himneska Føður með þinni pínu og meðalgaungu, fyrir hvørja allir hlutir friðstilltir eru, hvørsvegna eg einnig vil biðja þig, þú, mikla safnaðarins Høfuð! að þú virðist að stipta frið hér á jørðunni, meðal þinna andligra lima, og burttaka allann kala og óvináttu frá þínu kristnu fólki, svo vér allir, sem nefndir erum eptir þínu nafni, mættum ástunda réttlætið, trúna, kjærleikann og friðinn, og vera þínir sannir lærisveinar og rétt børn þíns himneska Føðurs, og búum svo hjá þér og hønum í friðarins tjaldbúðum eylífliga, Amen!

## 22. Hugvekja.

Um Gyðínganna krossfestíngar hróp yfir Kristi.

Pílatus kallaði saman prestahøfðíngjana,

höfudsmennina og almúgann og sagdi: Þér hafid framselt mér þenna mann, sem þann, er leiddi fólkid afvega, og sjáid! eg hefi yfirheyrt hann í ydar áheyrn, en enga sök hjá hönum fundid, er þér klagid hann fyrir, ecki heldur kóngurinn Heródes, því eg sendi ydur sjálfa med hann til hans, og sjáid! eckért hefir þad uppá hann sannast, þad dauda sé verdugt, því vil eg géfa hönum rádníngu og láta hann svo lausann. En á hátídardeginum átti landsstjórnarinn, eptir venju, ad géfa fólkinu einhvörn bandíngja lausann, hvörn helzt þad vildi og um hvörs lausn þad beiddi. Nú hafdi Pílatus bandíngja nockurn, ófrægann mjög, sem bædi var spillvirki og manndrápari, er Barabbas hét, er med upphlaupsmönnum var í myrkvastofu settur, hvörr í upphlaupinu hafdi víg unnid. Fólkid beiddi: ad landsstjórnarinn vildi gjöra, sem hann væri vanur. Þegar þeir voru nú til samans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: Þad er sidvenja ydar, ad eg géfi ydur einhvörn bandíngja lausann á Páskum; hvörn vilji þér nú ad eg géfi ydur lausann, mordíngjann Barabbas eda Jesúm, Gydínga kónunginn, sem nefnist Kristur? því vel vissi Pílatus, ad kénnimannahöfdíngjarnir höfdu af hatri ofurseldt hann. En þá er hann sat á dómstólnum, sendi húsfrú hans þau bod til hans: haf þú eckért ad gjöra med þann hinn réttláta,

því margt hefi eg í draumi liðið hans vegna. Höfuðprestarnir og øldúngarnir réðu fólkinu og eggjuðu það á, að það skyldi biðja um Barabbas, en lífláta Jesúm. Þá spurði landsstjórnarinn: hvørn af þessum tveimur viljið þér að eg géfi ydur lausann? Þá kallaði upp allur lýðurinn og sagði: tak þenna burt og géf oss Barabbas lausann! Pílatus kallaði aptur til þeirra og sagði, og vildi Jesúm lausann láta: hvað skal eg þá gjøra við Jesús, sem kallast Kristur? Fólkið kallaði þá aptur upp og sagði: krossfestu! krossfestu hann! Pílatus spurði þá í þriðja sinni: hvað hefir hann þá illt gjørt? enga dauðasøk finn eg með hønum, því vil eg géfa hønum ráðníngu og láta hann svo lausann. En Gyðíngar hrópuðu því ákafar: krossfestu hann! og þeir fylgdu sér því fastara þar með offa-hljóðum, óskandi að hann krossfestur yrði, og þeirra hljóð og einkum høfuðprestanna tóku yfir.

---

Hundar hafa umkríngt mig, og hópur þeirra ómildu hefir settst um mig, segir Messías; hann samlíkir og í sama stað óvinum sínum við ljón og einhyrníng, hvørju það er samhljóða, sem stendur hjá Jer. 12: mín arfleifð er orðin mér, sem ljón í skógi og grenjar ámóti mér; enginn víghundur er svo ákafur í kríngum meinlaust dýr, bæði að geya og bíta; ekkért húngrað ljón øskrar eins feigðarliga eptir bráðinni, að ákéfð høfuðprestanna og Gyðínga-lýðs

til ad koma Jesú í hel væri ecki feigdarligri, einsog vér strax heyrdum, ad hvørnig sem Pílatus leitadist vid ad hann mætti laus látast, urdu þeir því ólmari og óskudu ad hann krossfestur yrdi. Vér viljum af þessari grein Pínslar-søgunnar, einkum taka eptir því, sem fylgir: fyrst, hvørsu Drottinn bædi elskar og líka þeckir og virdir sakleysid. Pílatus kallar hér opinberliga saman allar stéttir Gydínga, høfudprestana, høfdíngjana og alþýduna, og lýsir því hátt fyrir øllum: ad hvørki hann né heldur Heródes konúngur finni nockra søk hjá Jesú; svo géfur Gud og sannferdugu máli álit, líka fyrir vondum mønnum; konúnganna hjørtu eru í hans hendi, því verda þau ad lempa sig einsog hann vill, þegar hann brúkar valdid, svo líka hvørs eins ord, einsog sýnir dæmi Balaams. Vakti því hvørr sig, ad hann framgángi í sínu sakleysi med gódri samvitsku, sem er einsog járnmúr mót árásum vondra manna; hvørr þad sinnislag hefir, hann má ætíd hlacka gott til þess, ad þó óréttur og rángdæmi hafi um stundarsakir yfirhønd, uppvekur Gud ætíd einhvørn, sem rétt dæmir um hans málefni. Margur hefir mátt liggja undir órétti alla æfi, sem þar á eptir hefir ordid hinn frægasti af því, sem hann leid, og er þá gott nafn betra enn salve; margur hefir og ordid var vid þad, er Salómon segir: þegar einhvørs manns vegir líka Drottni, þá gjørir hann líka hans óvini til frids vid hann. En auk þessa verd eg ad minnast hins, ad hér má sjá huggunarríkt skipti milli syndarans og Jesú; Jesús er hér á sama degi, fyrir sama dóm-

ara í sömu sök, eins prófadri eptir og ádur, útbrópadur fyrst saklaus, og sídan dæmdur til dauda; syndarinn verdur í sama sinni, fyrir sama dómara Gudi, í sömu sök, sem hann er í fallinn, fyrst fundinn dauda sekur, og sídan strax úrskurdadur saklaus og réttlátur, fyrir þá endurlausn, er skéd er í Jesú Kristi. Svo er nú Jesús, af sjálfum sér saklaus, fyrir vora sök til dauda dæmdur; vér, af sjálfum oss sekir, fyrir hans réttlæti, dæmdir til lífsins. Þad bídur ecki lengi, Gud hafdi varla fellt dóminn yfir Davíd af sjálfs hans munni, ad hann væri daudans madur, fyrr enn hönum var sagt aptur: Drottinn hefir í burt tekid þína synd, þú skalt ecki deya! fyrir hvörja nád vorum Jesú séu eylífar þackir! Þad annad, sem héraf skal læra, er: ad halda ecki ofmikid uppá vana og vidtektir. Gydíngar höfdu leidt þad í venju, ad bidja um frelsi einhvörs fánga fyrir Páskana, kannské í þá minníngu, ad Gud hafdi um þann tíma frelsad þá frá þrældóminum í Egyptalandi, en þó hafdi Gud aldrei bodid þad, miklu heldur bannad ad taka forlíkun fyrir manndrápara. Varist allir kristnir menn, ad halda meira uppá vanann enn Guds ord, hvörsu lengi, sem hann hefir stadid, eda hvörsu réttur hann virdist. Þú kannt ad segja: ad Gudi misþócknist ecki þad, sem gjört sé í gódri meiníngu; en þad er med því móti, ad hún sé grundvöllud á Guds ordi, annars ecki; því sé madurinn sjálfrádur í sínu náttúrliga ástandi, kann hann ecki framar ad dæma um, hvad rétt eda rángt sé fyrir Gudi, enn blindur um liti; enginn er gódur,

nema Gud einn, og þad eitt má heita gott, sem hann er høfundur ad. Gydíngar álitu setnínga sína góda, en Jesús fann skorinordt ad því vid þá, ad þeir ónýttu Guds bod fyrir vidtektir sínar; svo eru Guds dómar ødruvísi enn manna dómar; vondur vani er vidtekin villa; þess lengur, sem hún stendur, og því vídar hún dreifist út, þess skadligri er hún. Dæm því ecki hvad rétt sé eda rángt, eptir þínum eda annara hugmindum, heldur eptir ordinu og vitnisburdinum; svo ætla eg frekast kæmi inn afgudadýrkanin í Ísrael, ad þeir, sem hana æfdu, meintu sig dýrka Gud þarmed og gjøra rétt; eda hvad er þad, sem Jesús segir um þá, er ofsóktu postulana, ad þeir meintu sig þarmed ad gjøra Gudi þócknanligt verk? Sjáum! hvørsu megn ólucka orsakadist af þessari Gydínganna venju bædi fyrir þá og Pílatus: þeir fengu ecki einúngis skálkinn lausann, til ad ala upp illþýdi í landinu, þeim sjálfum til hefndar, einsog raun gaf vitni sídar undir landstjórnendunum Albínó og Gessíó Flóró, heldur þar á ofan afsøgdu sjálfan Guds Son og bádu um mordíngjann, hvørju Pétur kastadi þeim í nasir seinna meir. Pílatus, sem búinn var ad koma þeim vana á, ad géfa almúganum eptir, ætladi nú ad nýta sér fylgi hans til ad koma sínu fram, ad ecki þyrfti hann ad flecka sig á saklausu blódi, en hann vard þess seinna var, ad asnanum hæfdi svipan og hestinum beitslid, því nú mátti hann láta vera einsog almúginn óskadi, sem gjørdi adsúg ad hønum og þvíngadi hann, mót hans ásetníngi; má því af þessu sjá, medal annars,

ad einkis manns klókindi duga ámóti Drottni; þad hefir Pílatusi virdst audrádid, ad heldur mundu þeir kjósa Jesúm saklausann og af hatri ofurseldann, enn mordíngjann Barabbas; en þad féll ødruvísi, því svo var ályktad, ad Kristur skyldi upprætast. Svo er nú mannlig slægvitska skammsýn og svikul og megnar eckért mót tilhlutun Drottins, því margar rádagjørdir eru í mannsins hjarta, en Drottins rád stendur støduqt. Í þridja lagi kémur fyrir ad athuga, hvørsu alþýda Gydínga, tilknúd af høfudprestunum, óskadi ad Barabbas fengi frelsi, en Jesús deydast. O, hvørsu illa launadi þetta blindada fólk þeim gódgjørdasama Jesú! engann hafdi hann frá sér rekid, er til hans kom, og opt miskunad óbedinn, en nú hrópar allur lýdur eckért minna, enn krossfestu! og burt med hann! Hvad olli nú þessu gudlausa grimdarædi? mest vond rádleggíng høfudprestanna og øldúnganna, og þetta dæmi ber oss ad taka til varhygdar. Varastu því, minn kristni bródir! ad hegda þér eptir heimi þessum; hald þad ecki allt gullvægt, sem þú sér til vildarmannanna, þó hinn fávísi og hræsnarinn hrósi því; leidi sá blindi hinn blinda, er hætt vid þeir falli bádir í grøfina; varastu rádaneyti þeirra, sem hvetja þig til ens illa, því sæll er sá, er ecki stadnæmist á ógudligra vegi, og ecki situr á stóli hádúngar-manna; seldu aldrei vinfengi þíns Guds, fyrir vináttu manna, og vit, ad framar ber Gudi hlýda enn mønnum; því sá, er þig afvega leiddi, mun hvørki létta undir straff þitt, né heldur frida samvitsku þína, þá er hún er saurgud, heldur mun

hvørr sína byrdi bera. Ad þessu ættu þeir einnig ad gæta, sem yfir ødrum eiga ad ráda; þeirra dómur verdur því þýngri, sem þeir hafa gjørt fleiri óluckuliga, þessvegna verda þeir vel ad gæta sín, ad enginn hafi illt af, vanda ord og gjørdir, svo enginn leidist í freistni; breytum því ecki eptir Gydínganna høfudprestum, sem lockudu almúgann ad kalla og kølludu sjálfir krossfestíngu og dauda yfir Lausnara vorum; næm eru dæmin, einkum høfdíngjanna; þad þykir fátækum mønnum frægd, ad apa eptir ordum þeirra og verkum, einkum séu þau vond, og alþýdan af Gommóra vill gjarnan vera, sem høfdingjarnir af Sódóma; og hvad er hér margt um ad tala? raunin er ólýgnust, hvørsu eptir konúngsins síd breytir allt hans lid, og þad lætur sig vída í ljósi, er Salómon segir: Þegar høfdínginn hefir lyst á lýginnar ordum, verda allir hans þjónar ógudligir. Gætid ad þessu í Guds nafni! þér, sem adra hneixlid! Jesús segir: ad manni þeim væri þarfara, ad mylnu-kvarnar-steinn væri festur vid háls hans, og hønum svo søckt í sjáfardjúp; þar nú mylnusteinninn er fullþúngur til ad halda þeim vid botninn, vid hvørs háls hann festur er, svo hafa líka hin vondu dæmi þá náttúru, ad þau géta haldid þeim, er ydka þau, føstum í óluckunni, og máské leidt adra med sér afvega, einsog Jóhannes segir: Bædi dýrid og hinn falski spámadur, sem teiknin gjørdi fyrir því, var kastad í eldsdýkid, sem vellur af eldi og brennusteini. Festu því aldrei þenna stein vid háls þér, heldur kasta frá þér, í Guds ótta, þeim limunum, sem þig hneixla og

þú kannt adra ad hneixla med, en ástunda heldur, ad þú med gódum dæmum gjørir nockra hjálpliga og ryckir þeim úr bálinu; svo gjørdi húsfrú Pilatusar, hún sendi til bónda síns og varadi hann vid ad forgrípa sig á þeim réttláta, géfandi þar med dæmi, ecki einúngis øllum almenniliga, ad vara þann vid, sem villt fer, heldur einkum konunum, ad þær séu gudhræddar, rádhollar og sínum eigin mønnum undirgéfnar, einsog Abígael, sem afvendti því illa og ødladist heidur og blessun, en ecki einsog Jessabel, sem villti bónda sinn Achab og kom mørgu illu af stad, en vard ad lokum uppetin af hundum, og lét eptir minníngu skamma sínna svo lengi heimur stendur. Látum oss lokſins, renna huga vorum til Lausnarans, hvørr nú allt í kríngum sig, heyrdi grimdarligt hárevsti þeirra, sem hann útheimtu undir kvalir og krossfestíngu. Sjálfur þagdi hann, sem meinlaust Lamb, sem er einhvør hin ædsta gleda fyrir mig og alla ydrandi syndara. Daudann hafdi eg verdskuldad, syndin áklagadi mig, løgmálid ógnadi mér og himinhrópandi syndir, af því þær útheimta bráda hefnd, einsog úthelling saklaus blóds, nidurdrep voladra, syndir móti náttúrunni og innihald sannra launa, allt þetta hrópadi og lokſins sjálf samvitskan, þegar hjartad fordæmir hinn ógudliga; en, frá øllu þessu hefir kvalahrópid yfir Jesú frelsad oss, sem trúum á hann. Nú þarf eg ecki ad kvída ad um mig verdi úthrópad med høfud-engilsins básúnu: ad eg skuli fara bølvadur í hinn eylífa eld; nú skal eg ecki setja þad fyri mig, ad eg þurfi ad heyra óp

og ýlfrun í enum ytstu myrkrum, þar minn Jesús mátti heyra kvala-hrópid, þá er hann borgadi mig út frá óskøpum þessum, heldur lýsir nú sjálfur himininn fridi og fyrirgéfníngu; þad byrjadist snemma, þá er minn Lausnari fæddist, og Englarnir súngu dýrd Gudi í upphædum, frid á jørdu og mønnum gódur vilji; þetta sama ítreka þeir útvøldu á himnum, hvar súngid er hønum til heidurs: nú er heilsa og kraptur, ríki og máttur vors Guds vordinn hans Krists, því sá er útsnaradur, sem vora brædur áklagadi dag og nótt fyrir Gudi. Þessi fridur og fyrigéfníng úthrópast yfir mér á jørdunni, þegar mér í Jesú nafni bodast ydran og synda fyrirgéfníng, svo eg er nú í hans nafni blessadur, bædi í mínum inn- og útgángi; eg trúi einnig, ad Drottins nádar-eyru standi opin fyrir hrópi bæna minna, þar minn brúdgumi segir: Mín dúfa í steinholunum, lát mig heyra raust þína! O, minn Herra Jesú Kristi! sem med offa hrópi varst heimtur undir kvalir og dauda! þína dýrdligu hátign vegsama Englarnir, og þín sígrihrósandi kristni med ævarandi lofgjørdar hrópi, segjandi: heilsa sé þeim, sem á stólnum situr, vorum Gudi og Lambinu! hvar undir sú stridandi á jørdunni tekur og segir: tilkomi þitt ríki! hósíanna Syni Davíds! blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! hvar til og mín sála, af ædsta hjartans føgnudi, leggur sitt Amen! Lofi Drottinn øll hans verk í øllum áttum hans herradæmis! lofseg þú ønd mín Drottni! Amen!

## 23. Hugvekja.

### Um Krists húdstrýkingu.

### Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann.

Vor blessadi Endurlausnari hafdi ad sönnu átt híngadtil mædusamann og forsmánarligann adbúnad í húsi Pílatusar, en nú hófst fyrir alvöru hans sárgrætiliga kvöl, þar Pílatus, yfirbugadur af grimdaræði Gydínga, fer med húdstrýkíngunni einsog ad búa hann undir krossfestínguna, ad Rómverja sid, hvar hann, sem er ljómi Födursins dýrdar og ímind hans veru, mátti smánarliga afklædast, nakinn reirast vid kagann einsog óbótamadur, og þad allrahelgasta musteri hans líkama, í hvörju bjó öll fyllíng Guddómsins, sundurmerjast af þeim stáldregnu rómversku svipum, med hvörjum þeir miskunarlausu strídsbödlar fyrir utan allann máta og medaumkun sundurslitu þad blessada hörundid, sem nú mátti finna til óbæriligs svida, blána og þrútna og úthella sínu saklausa blódi. Kom nú, mín sála! og skoda stærd synda þinna, skoda þitt lausnargjald, skoda skyldu þína! Ó, mig aumann mann! eg var fjötradur og bundinn snörum Djöfulsins, mig umspenntu bönd daudans og Belíals beckir skelfdu mig; sálin kveinadi og barmadi sér; samvitskan klagadi; sár mín voru fúin og luktudu illa; eg mátti gánga bjúgur og boginn, sakir minnar heimsku; mín synd hafdi gjört alla mína sálu og allann minn líkama vanheilann og þrengt sér ígégnum hvörja æd líkamans og

hvørja tilhnegíngu sálarinnar, svo þar var engin heilbrygði á mínu holdi, og eckért heilt frá hvirfli og allt til ilja; hér á eptir reið løgmálið með sína bølvun og hótun fordæmíngarinnar, einsog þúng svipa; hún snerti nockuð birturt þann, sem ecki vissi sig um eitt augnablik hafa syndlaust lifað, og løgmálið væri andligt, en hann holdligur undir syndina seldur; þó varð við það að blífa; Drottinn, sem hafði løgmálið géfið, gat ecki umbreytst, það ecki heldur. Løgmálið sagði mér, að eg væri fallinn í sekt, sektin, að búast mætti við straffinu; svo sló og lamdi løgmálið, en óttinn fyrir straffinu lemstraði og marði í sundur það, sem løgmálið allareiðu slegið hafði, svo sár mín voru ecki að eins viðkvæm, heldur og banvæn, ecki að eins banvæn, heldur ólæknandi, og mér géck einsog Drottinn segir um Júða: Þín lemstur eru ørvæntanlig illska og þín sár ólæknandi. En þegar eg lá nú þannig útsnaraður í blóði mínu og enginn aumkaðist yfir mig, þá komstu að mér, minn Jesú! og sagðir: Þú skalt lifa, og prýddir mig síðan aðskiljanligum náðargáfum, svo eg mætti verða máttugur að kallast þín brúður; það kostaði þó ecki minna, enn að þú sjálfur ert bundinn og fjøtraður, og hefir gengið undir þá kvøl, sem eg átti að líða, svo eg yrði ecki að eins frí frá straffinu, heldur ásjáligur í augum þínum og þíns himneska Føðurs. Sannarliga hefir þú mitt kránkdæmi borið og mínum pínum á þig hlaðið; þú ert særður fyrir minna synda sakir, og lemstraður fyrir mínar misgjørðir; hegníngin hefir á þér legið, svo

eg hefdi fridinn, og fyrir þínar benjar er eg heilbrygdur vordinn; því ert þú ordinn hinn forsmánarligasti medal allra manna, madkur en ekki madur, spott manna og fyrilitníng fólksins, ad þín forsmán yrdi minn heidur, þín harmkvæli minn fridur, og þínar benjar mín lækníng; þú hefir ekki litad kyrtil þinn í vínberja blódi, heldur látid þinn helgasta líkama yfirdreifast þínu eigin blódi, og því víni hefir þú hellt í mín sár, þar, sem eg hrasadi ámedal ræníngja; þad var sú eina bót, er átti vid þau meinin, sem ekki voru umbundin né med vidsmjøri mýkt, og engin ønnur, og einsog ekkért var heilt á mér, svo ertu allur af sárum og benjum sundurflakandi; þú ert sá raudi og hvíti vinur, hetjan í raudlitudum klædum og blódugur brúdgumi ordinn. Þegar eg hugsa um þetta og minnist á þína kvalafullu húdstroku, þá brádnar hjarta mitt af skammfeilni; æ! hvørsu ójafnt høfum vid skipt saman, minn blídasti brúdgumi! þú hefir elskad og umfadmad mig óvirdtann og svívirduligann; eg hefi aptur bundid þig og húdstrýkt, svo tignadann og dýrdligann, því blygdast hjarta mitt, þegar eg í anda horfi á þig reirdann vid stólpann. Hvad hafdir þú til høgganna unnid? þú, trúi Drottins þjón! þú, hlýdni Sonur! ekkért, alls ekkért annad enn þad, ad eg var bædi fargur og óhlýdinn og ódyggur; því voru þín sløg svo mørg, ad hinn ógudligi hefir margar plágur; því hafa plógmenn plægt á þínum hrygg og dregid djúpt plógfør sín, ad eg hafdi plægt ógudligleikann; því ertu svo vesælligur, ørmæddur og afmindadur,

að eg var lífaður kálfur einsog Ephraim; því máttir þú standa með óvirðíngu og verða viðbjóðsligur, jafnvel vinum þínum og kunníngjum, að eg hafði hrósað mér af synd minni einsog Sódóma; þess-vegna vil eg nú, með blygðun og kinnroða, skríða að fótum þínum og væta þær með tárum mínum, það er það eina, sem eg gét boðið þér fyrir blóð-dropana, sem þú úthelltir mín vegna; tár augnanna fyrir forsmánina og blygðun míns andlitis; fyrir harm-kvælin, sundurknosaðann anda; fyrir kjærleikann, elsk-andi hjarta, reiðubúið að gjøra þinn vilja, og fyrir kveinstafina, kvak minna bæna með sífeldri lofgjørð. Lát mig nú, minn Lausnari! njóta nafns þíns og ómæliliga kjærleika! að sønnu hefi eg húðstrýkt þig með syndum mínum, en álíttu þó framar til hvørs það skéði, en hvørsu ílla sá gjørði, er það orsakaði; feginn vil eg elska þig því heitara, sem þú hefir meiru til mín kostað, og heiðra þig nú og eylífliga, og það þess ræki ligar, sem þú hefir meiri forsmán fyrir mig liðið. En því ertu órólig, sála mín? því hrellir þú mig? vertu með glødu géði, því blóð Jesú Krists, Guðs Sonar, hreinsar þig af øllum þín-um syndum; hann hefir þvegið oss af syndunum með sínu blóði, og gjørt oss að konúngum og kénni-mønnum fyrir sínum himneska Føður. Reiði Drott-ins er snúin frá þrælnum, því Sonurinn tók við høggunum, sem hann átti að líða, og hefir svo í staðinn fyrir reiðina innleidt náðina. Skuldin er lokin, sem við áttum að gjalda Guði; Jesús skilaði því, er vér rændum; hann hefir því ekki einúngis

fengid oss til handa uppgjöfina, heldur einnig barna-réttinn; ecki ad eins frelsad af útlegdinni, heldur géfid oss ríkid, svo vér erum ordnir Guds børn af reidinnar børnum, af synda-þrælum Guds og réttlætisins þjónar; af vanheilögum og líkþráum, heilbrygdir, hreinir og álitligir; af öreigum og einskisvirdtum, fullríkir og vegsamligir; af óvinum til nádar teknir; af framandi og fjærlægum, nálægir fyrir Krists blód, og af faungum Djöfulsins, himnaríkis erfíngjar, því Jesús, Guds Sonur, tók vid reidinni, hann var straffadur fyrir syndina; hann var sleginn med kránkdæmi; hann gjördist fátækur og forsmádur; hann vard af Gudi yfirgéfinn, og yfir hann geysadi Satans og myrkranna makt, og þetta allt í vorn stad. Hugsa nú svo hér um, sála mín! ad þú undir eins athugir, ad þú átt þig ecki sjálf, heldur ertu verdi keypt; en hvílíku verdi? ecki forgengiligu verdi gulls og silfurs, heldur dýrmætu blódi Krists, þess saklausa Lambsins, þarfyrir áttu ad lifa hönum, sem fyrir þig er dáinn. Þú ert nú heil ordin, syndga nú ecki framar, svo ecki hendi þig eitthvad verra. Jesús hefir látid allann sinn líkama særa þinna vegna, géf og þinn líkama til þess offurs, sem lifandi er og heilagt, og þína limu til réttlætis verkfæra Guds; hann hefir þjónad þér, þjóna hönum aptur í réttlæti og heilagleika; hann hefir fundid til svida og verkja fyri þig, lát því ecki eptir holdinu þess girndir ad rækja. Stattu nú upp einsog ný sképna af þinni sóttarsæng, til ad þjóna trúliga herra þínum, einsog hann hefir þig kallad, svo þú afneitir ógudligu at-

hæfi og veraldligum girndum, en lifir réttferdugliga og gudliga í heiminum. Minnstu einnig á blódbenjar Lausnara þíns, ad þú sért reidubúin ad bera hans benjamerki, einsog Jób og Lazarus, ef hann vill svo vera láta; þad er mikill óréttur, ad Guds Sonur saklaus skuli vera straffadur, en sá, sem syndgad hefir, vilji eckért lída, bædi til þacklætismerkis vid hann og áminníngar um synd sína, svo hann ydrist hennar og sleppi svo frá eylífu straffi. Seg því, sála mín! þegar þú nockur harmkvæli lídur: eg vil bera reidi Drottins, því eg syndgadi móti hønum; hvílík reidi er þér ecki banvæn, heldur verkar hrygd eptir Gudi, hvørrar þú munt ecki ydrast. Drottins sløg eru þér ecki óvildar-teikn, heldur frambýdur Gud sig þér einsog fadir barni sínu; hann sló Soninn í reidi, svo hann slái þig í náđ, en þau sløg eru þér viss pantur, ad þú sért samarfi Guds Sonar, því þad er sønn reidi, ad ef ad vér medlídum, þá munum vér medríkja. Vird líka svo fyri þér hrygd og harmkvæli þíns Lausnara, ad þú haldir þér frá hégómligri offa-kjæti, því betra er þér ad gánga í sorgarhúsid med Jesú þínum, enn dryckjuhúsid med heimsins børnum; skømm er því, ad þrællinn hlær og leikur sér, en Herrann andvarpar og kveinar; en hvad segir hann? vei ydur, sem nú hlæid! þér munud æpa og gráta, en sælir eru þeir, sem harma, því þeir skulu huggadir verda. O, minn Jesú! sem hryggur og afmindadur ert ordinn, vegna minnar vanvirdu! géf mér ad reikna þetta fyrir minn mesta heidur, og þjóna þér svo og eptirfylgja í sannri

hlýdni og heilagri þolinmædi allt til æfiloka, svo eptir það, eg hefi borid pína vanvirdu hér í heimi, mun eg med þér vegsamligur verda annars heims, Amen!

## 24. Hugvekja.

Um purpurann og þyrni-kórónuna.

Strídsmenn landstjórnarans leiddu Jesúm inn í þínghúsid, kølludu saman allann hópinn, afklæddu hann og færdu hann í purpuraklædi; þeir fléttudu kórónu af þyrnum og settu á høfud hans; létu reirvønd í hægri hønd hans, beygdu sig fyrir hønum, spottudu hann, heilsudu hønum og søgdu: heill sértu! Gydínga kóngur! slóu hann í andlitid og hræktu hønum um høfud hans, féllu svo á kné og lutu hønum.

Eg snéri baki mínu ad þeim, er mig slóu, og kinnvaungum mínum ad þeim, sem áreittu mig; andlit mitt byrgda eg ecki fyrir vanvirdu og hrákum, segir Esajas í 56 kap. undir persónu Messíasar. Opt kom þetta framm vid Krist í pínu hans, en þó einna mest í húdstrokunni; þá baud hann bakid framm þeim, er slóu hann, og líka undir eins vid hrákum, hár-reitíngum og hádúngum ógudligra strídsþræla, einsog vér strax heyrdum, ad þeir, sem áttu ad húdstrýkja hann, fóru med hann inn í þínghúsid, søfnudu saman allri þeirri rómversku herfylkíngu, af-

klæddu hann fötum sínum, og eptir húdstrýkínguna færdu hann, til adhláturs, í purpura kápu, setja þyrni-kórónu á höfud hans, fá hönum reirvönd í hönd í stad veldisspíru, og svo ad lotníngin sambydi skrúdanum, gjöra þeir sér látalæti ad heidra hann einsog konúng, en þess ámilli lemja hann med reirvendinum um hans blessada höfud, afminda svo hans helgustu ásjónu med höggum og blódi og hrákum. O, hvílík mannvonska! Af þessum margföldu hádúngum vors Lausnara, skulum vid nú, sála mín! athuga fáeina lærdóma. Sá fyrsti er: ad Jesús er í kvölinni afklæddur, svo hann útvegadi oss uppruna réttlætid. Adam var skapadur eptir Guds mind, hvörri hann og allir nidjar hans töpudu vid fall hans, en vid þad innleiddist í heiminn forsmán og nakleiki; hann blygdadist ecki, þó hann væri nakinn, medan hann bar Guds mind, en eptir fallid bar klædleysi náttúrunnar hönum vitni um vansa syndarinnar. Svo er því líka varid fyrir oss nidjum hans, því einsog vér fædumst naktir í heiminn, svo erum vér í andligann máta voladir, naktir og blindir; en þad er ecki þar med búid: vér erum aptur í stadinn fyrir heilagleikann, íklæddir ránglætinu, skémdir á öllum kröptum og tilhnegíngum, og öldúngis fráskildir því lífi, sem í Gudi er, hvaraf vafalaust fylgir skömm, blygdun og sneipulig burtskúfan úr Lambsins brúdkaupi; en til þess þad mætti bætast og vér aptur nædum klædi réttlætisins, er Jesús fyrst afklæddur, og sídan aptur klæddur annarligum fötum til hádúngar, einsog vér mistum fyrst Guds

mind, sem oss var eiginlig og medskøpud, en færdumst aptur í ena mestu ómind, sem oss er annarlig og ecki medskøpud. Jósua, hinn ædsti kénnimadur, stód fordum fyrir Drottni í óhreinum klædum og Satan hønum til hægri handar, en Drottinn baud ad fæ ra hann í helgidaga klædid, og allteins hefir Jesús vid oss gjørt. Klædin hylja lýtin; hans purpurakápa hylur misgjørdir mínar, því hún var eitt af því, sem hann leid mér til misskunar; breid þú nú skickju þína yfir þína þjónustu-kvinnu, sagdi fordum Rúth vid Bóas, því þú ert erfínginn; sama vil eg einnig segja: hyl mig, Jesú! undir vængjum þínum, og lát mitt athvarf vera undir þinna vængja skugga, því þú ert erfínginn, sem Fadirinn hefir géfid heidíngjana til arfleifdar. Klædid er til prýdis; Jesú réttlæti prýdir oss í Guds augliti, þar ecki ad eins eckért ber á syndum vorum, sem réttlættir erum fyrir trúna, heldur er daudi og upprisu kraptur Jesú mátlugur í þeim til ad framleida dygdir þær, sem skarta í augliti Guds, því hvørr, sem heldur vid Krist og hønum er íklæddur, sá ber mikinn ávøxt, og fær sagt med Jób: Réttvísin var minn klædnadur, hvørri eg klæddist einsog ødrum kyrtli, og dómur minn var veldishúfa mín. Jesús var, einsog strax var sagt, fyrst afklæddur sínum eigin føtum, og sídan íklæddur annarligum; í vorri endurnýun skulum vér, sem af trúnni réttlættir erum, fyrst afklædast annarligum føtum þess gamla manns, er skémmir sig í girndum villudómsins, og sídan íklædast eiginligum, edur þeim nýa manni, sem eptir Gudi er skap-

adur í heilagleika og réttlæti, og á þenna hátt eigum vér ad nýta oss þetta atvik hans pínu. Í ødru lagi, þá hefir Jesús í pínu sinni burttekid bølvun en útvegad blessun; þeir fléttudu kórónu af þyrnum og þreyngdu henni á Jesú høfud; audséd er, hvørsu mikid kvalrædi þad aukid hafi Lausnara vorum, þegar þeir þreyngdu á høfud hans þessum þyrnikransi med hans stíngandi broddum, sem æ dýpra innþreyngdust af høggunum; hvørsu munu þá þau blessudu augu, sem eru einsog eldslogi, og þad andlitid, sem yfirgengur allann frídleika og ljómadi einsog sól á fjallinu helga, hafa afmindast af blódinu, er sídan blandadist saman vid hrákana? Allt er þad skéd oss til huggunar. Þegar Drottinn bølvadi jørdunni eptir fallid, sagdi hann vid manninn: Þyrna og þistla skal hún bera þér, og þessi bølvunar ávøxtur vard nú pínslarfæri Jesú, til merkis þarum, ad einsog Adam med óhlýdni sinni leiddi bølvun yfir jørdina og hennar innbúa, svo hefir Jesú hlýdni leidt blessun yfir oss og vor handaverk, því einsog fyrir eins manns óhlýdni eru margir syndarar vordnir, svo verda og margir réttlátir fyrir þess eina hlýdni; en séum vér fyrir hans hlýdni réttlátir, verdum vér og hluttakendur blessunarinnar, og megum eigna oss þad fyrirheit, sem Drottinn géfur sínu fólki: Eg vil bænheyra jørdina, og jørdin skal bænheyra kornid, vínid og vidsmjørid, og þau skulu bænheyra Jesreel; þessvegna, þegar Drottinn blessar oss og jørdin ber sinn ávøxt, eigum vér ad taka oss orsøk þaraf, ad hugsa um Jesú pínu, og lofa svo Drottinn, hvørr

ad er gódur, og hvørs miskunsemi varir eylífliga. Kristur hefir einnig látid sig krýna med bølvunarinnar kransi, svo hann sannadi sig ad gánga undir bølvun løgmálsins, sem einnig opinberadist í krossfestíngunni, til þess í hønum framkæmi blessan Abrahams ámedal heidinna þjóda, og vér medtækjum svo fyrirheitinn anda fyrir trúna; því er sú trú mín: ad í stad þessarar þyrnikórónu Lausnara míns, muni Dróttinn króna mig med nád, einsog ødrum skildi, og hafi geymt mér í ødrum heimi óvisnanliga kórónu dýrdarinnar á himnum; því skal eg þess heldur sneida mig hjá þyrnum hræsninnar og ógudligs athæfis, med hvørju Lausnari minn verdur forsmádur. Í þridja lagi skulum vér athuga: ad einsog Jesú var fenginn reirvøndur og veitt konúnglig lotníng uppá spott, svo verdur hann af mørgum hæddur, sem optast skédur med hræsnisfullri og hálfvolgri Gudsþjónustu, hvad heita mátti saurugt braud á Drottins altari, um hvad Drottinn bríxlar Gydíngum; og eiga ena sømu sneid allir hræsnarar, sem látast falla fram til bæna, en hafa enga blygdun í hjartanu fyrir Guds hátign, eda eptirlaungun ad ødlast þá hluti, sem þeir bidja um, heldur þylja í gaupnir sér, annadhvørt eckért, eda þad, sem þeir sjálfir eckért eptirhugsa, og þykjast hafa øllu vel aflokid, ef þeir falla fram, einsog adrir, líkir Gydíngum, sem bádust fyrir á torgum og gatnamátum, svo þeir sæust af mønnum. Eg vil ecki tala margt um þá, sem látast falla fram fyri Gud í skriptastólnum til ad láta syndir sínar í áheyrn hans þénara, en finna þó

ecki meira til þeirra, enn daudur madur til sárs-auka, þeir eru allir hinir sømu, og þykjast hólpnir, fái þeir svikid út heilaga aflausn og Sakramentid þrisvar eda fjórumsinnum á ári hvørju, en gjøra sér litla eda enga þánka um ydrun og lífernis betrun. Varastu þetta, kristinn madur! og vit, ad Gud lætur ecki hæda ad sér; minnstu á reirvønd Jesú, og vertu ecki óstødugur í verki Guds, einsog reir af vindi skékinn. Vidurkénn þú ætíd og lát þér til rifja renna þinn eiginn vanmátt og óverdugleika, þegar þú kémur fram fyri Gud, og mun þá Jesús ecki sundurbrjóta marinn reir. Minnstu, ad þeir hræktu á Lausnara þinn; vertu því ecki hálfvolgur, ad ecki skirpi hann þér út af munni sínum. Hugsadu um hvørnig þeir hneigdu sig fyrir hønum; vakta því fót þinn, þá er þú gengur inn í Guds hús, og kom svo þú fáir heyrt, en framber ecki fávíss manns offur; og, þegar þú, í þínum bænastad, kastar líkamanum fram fyrir Guds hátign, þá gleymdu ecki ad beygja hjartans kné, fyrir Fødur vors Drottins Jesú Krists, og ákalla hann í anda og sannleika, án allrar hræsni, hafandi þá í fersku minni bædi þessar og adrar hádúngar hans, svo þú bidjir í trúnni og ødlist þad, er þú umbidur; þá gésst þér orsøk med upplyptum høndum og hjarta, ad fagna í Gudi heilsugjafara þínum.
Í fjórda máta, hefir Jesús med hádúngum þeim, er hann leid, frelsad oss frá þeirri eylífu hádúng og spotti. Vér høfdum til þess unnid, sem Jesús leid, og áttum bædi ad smánast og kveljast þar, sem reykur kvalanna uppstígur eylífliga, og lída þá hádúng,

sem er óbærilig; en Jesú kvøl og hádúng hefir oss frelsad hér frá; hann er hádúng klæddur, svo vér ecki íklæddumst bølvun; hann er þyrni krýndur, svo Guds reidi eldur, kveiktur í syndum vorum, brynni ecki til helvítis; þad er spýtt í ásjónu hans, svo hráki syndanna, sem Adam, fadir vor, hrækti oss í ásjónu, yrdi oss ecki til eylífrar blygdunar; því skal sála vor lofa hans heilaga nafn, ad hann frelsadi hana af myrkranna djúpi, og reikna nú í trúnni þessa og alla hans forsmán fyrir upphefd vora; hans hráka, vor augna-smyrsli til ad sjá syndir vorar, og Guds reidi gégn þeim, og þá dýru borgun, sem fyrir þær er komin; hans høgg og sløg, vora endurnæríngu. Í þessari trú vil eg nú, minn Jesú! forsmá heiminn en hrósa mér ætíd af þínum krossi, fyrir hvørn mér er heimurinn krossfestur og eg heiminum, því eg veit, ad þú ert med dýrd og heidri kórónadur í himneskri vegsemd, og ad minn borgaréttur er hjá þér á himnum; en þared þú virdist ad kalla mig bródur þinn og þínir heiløgu Englar samþjón sinn, þá vona eg, fyrir þitt úthellta dýrmæta blód, ad komast í søfnud framgétnínganna, sem uppteiknadir eru á himnum. En — hvad skal eg aptur endurgjalda þér? Drottinn minn! eg vil sýngja fyrir þér, Drottinn! svo lengi eg lifi, og leika fyrir þér, minn Gud! medan eg er til; en mitt líf náir ecki lángt til, því vil eg prísa þig ætíd og eylífliga. Pad, sem eg játa med munninum vil eg líka med verkunum audsýna; eg vil hlýda þínum bódum; taladu einúngis, og þjón þinn skal heyra þad; þínum fót-

sporum vil eg fylgja; drag þú mig eptir þér, þá vil eg hlaupa. Lof og dýrd sé þér ad eylífu, Amen!

## 25. Hugvekja.

### Um Krists útleidslu af pínghúsinu.

Pílatus géck út af þínghúsinu, og sagdi til Gydínganna: sjáid! eg leidi nú Jesús út híngad til ydar, svo ad þér vitid þad, ad eg finn enga sök med hønum. Jesús géck út, bar þyrni kórónuna og purpura klædid. Þá sagdi Pílatus: sjáid manninn! Þegar kénnimanna-høfdíngjarnir og þeirra áhángendur sáu hann, hrópudu þeir: krossfestú, krossfestú hann! Pílatus ansadi: takid þér hann og krossfestid, því eg finn enga sök med hønum. Gydíngar svørudu: vér høfum løgmálid, og eptir því á hann ad deya, því hann hefir sjálfur gjørt sig ad Syni Guds.

Hér út, hér út, þú blódhundur! þú órádvandi madur! sagdi fordum Símei vid Davíd, þá er hann géck sinn sorgar-gáng út af Jerúsalem. Furdanlig óskammfeilni mátti þad vera, ad heiptarfullur þræll skyldi voga ad kveda svo ad konúnginum, þó hann væri í þad sinn rekinn frá ríki, en ecki var sídur furdanlig bædi hørmúng Davíds, sem heyrdi þetta fram vid sig koma, þar hann géck berfættur med huldu høfdi, og líka hans þolinmædi ad lída þad

strafflaust, og lofa ecki Abísaí ad taka høfudid af illmenninu. En, meiri hørmúng mátti þó Davíds Sonur Jesús líða, og enn skjærara ljómadi hans þolinmædi, þegar hann med þyrni-kórónu á høfdi, óþeckjanligur af blódi og hrákum, sundurflakandi af benjum, med purpura-slík þar utan yfir, var leiddur út í augsýn Israels, og upplauk þó ecki munni sínum heldur enn Lamb, en høfudprestarnir og illþýdi þeirra øskrudu bølvandi yfir hønum og søgdu: hér út! hér út! med þennann illvirkja! lát hann krossfestast! lát hann krossfestast! Því þó Jesús væri svo hørmuliga útleikinn, ad jafnvel hjarta heidins manns kjæmist vid þar af, svo hann sagdi: sjáid mannin n! þá sefadist ecki offi þeirra vid þad, og þegar Pílatus taldi sig alvarliga undan ad krossfesta hann, søgdu þeir hann ætti þó vissuliga ad deya eptir løgmálinu, því hann hefdi gjørt sig ad Guds Syni; þannig rángfærdu þeir løgmálid, því hvørki skipadi þad ad krossfesta gudlastara, heldur ad grýta þá til heljar, og ecki heldur átti þetta heima á Jesú, hvørn Fadirinn helgadi og í heiminn sendi; hann tók ecki rángliga ad sér þann heidur, ad heita Guds Sonur, heldur var hann þad af náttúrunni til; hvørt Gydinganna dæmi allir ættu ad varast, ad þeir ecki af hefndargirni dragi løgin á eyrunum, til ad koma fram ránglætinu; því dómurinn tilheyrir Drottni, og hvørr, sem réttinn villir, má svara Gudi rétti sínum. Dómendum er líka vandt, þegar einhvørjir ákafa-menn standa ad málum manna, ad ecki láti þeir hrekja sig frá sannleikanum; því bad Salómon

um vitsku til ad dæma Israel; þetta skal nú þannig sagt vera um Gydínga. Um vorn Jesúm er hér tvennt ad athuga: hans kvøl og sakleysi hans; þad sídara er oss til huggunar, því þad sýnir, ad fullkomin bót er komin fyrir vorar syndir; því enginn gat saklaus verid af øllum Adams nidjum, nema Gud væri í hønum og alla þá innilykur Guds Andi undir óhlýdninni nema Jesúm einn, sem var bædi Gud og madur, og þessvegna eigum vid, sála mín! þess ræfiligar ad hugsa um pínu hans, og líta á hann í trúnni og andanum, þar hann er af Pílatusi útleiddur, hæddur, hudstrýktur, þyrnikrýndur og hádugliga búinn. Hvad hafid þér hér, ó Zíons dætur! ad sjá á ydur konúngi og brúdguma? þyrni-kórónu og purpura-klædi, til hádúngar yfir hann lagt, allann líkamann bláann og blódrisa; hér kom fram spádómur Esajasar: Vér sáum hann, en þar var eckért girniligt á hønum; gángid út og sjáid konúnginn Salómon med kórónu, sem módir hans kórónadi hann med á hans trúlofunardegi, á þeim gledinnardegi hans hjarta, stendur í Lofkv. 3 kap. En hér er meiri enn Salómon; Salómons herra, sú Davíds rót og þó Davíds Drottinn, Konúngur konúnganna, og Drottinn Drottnanna. Hvør er þá hans heidurs kóróna, þegar hann trúlofadi sér í nád og miskun, réttlæti og dómi, hana, sem var í óvinättunni? hvada høfudprýdi setur Israels samkunda, hvørrar limur hann var, uppá hann? Þyrni-kórónu, sem jørdin, vegna syndanna bølvud, lét til ad hæda og kvelja med sínn Skapara, sem þá lék sér á jardarhnettinum. Æ! hvørr er mad-

urinn þess, Drottinn! að þú svo minnist hans; ó, hvørsu minni erum vér øllum þínum miskunsemdum! Við áttum, sála mín! með blóðskuld og bølvan að rekast út frá Guði í hin ytstu myrkur og aldrei sjá hans blíða auglit; því er nú Guðs Sonur útleiddur með blóðugann líkama, búnínginn spottligann, høfuðið háðúng kórónað, þegar hann galdt fyrir allrar veraldar syndir. O, hvørsu viðurstyggiligur hlutur má þá syndin vera í Drottins augum, þar hans plágur, móti hvørjum syndgað var, eru svo margbreyttar orðnar, þegar á sjálfan hann hlóðust syndirnar. O, hvørsu blindur er eg! þegar eg læt girndina teygja mig og locka til að drýgja syndina, að eg géf mér þá ecki stundir til að hugsa um hennar viðurstygð, svo eg vita megi, að verdlaun hennar er dauðinn. O, minn Guð! miskuna þú mér eptir mikilli miskun þinni, og eptir stærð miskunsemda þinna afmá þú ránglæti mitt! En, lofa þú, sála mín! Drottinn; því einsog eg heyri nú, að Jesús er í sinni vanvirðu útleiddur í augsýn himins og jarðar, svo er fyrir þenna hans sorgar-gáng oss, sem á hann trúum, greiður vegur tilbúinn í Guðs náðar-ríki hér í heimi, og hans dýrðar-ríki annars heims; hann er vegurinn, sannleikurinn og lífið; hann er dyr sauðanna; ef nockurr gengur inn fyrir hann, sá mun frelsast, hann skal gánga út og inn og finna sitt fóður. Svo veri nú blessaður Drottinn Guð Ísraels! að hann vitjaði og gjørði frelsun fólki sínu, og hefir látið sinn Son kvelja, til að taka burt frá oss bæði blóðskuldina og bølvunina, en géfið oss í

hønum lidugann adgáng til sinnar nádar, bædi þeim, sem nálægir voru, og oss, sem vorum fjærlægir, bædi Gydíngum og Heidíngjum, svo hér er enginn frá-skilinn, sem nýta vill sér þetta blessada lausnargjald, heldur eru þeir allir konúngligur kénnimannsskapur, útvalid slekti, fólk eigindómsins, til ad kunngjøra dygdir hans, sem oss kalladi frá myrkrunum til síns dásamliga ljóss. En fyrst þessu er nú svo varid, vil eg ætíd hugga mig vid þessa hrygdar útleidslu Lausnara míns, og til hennar hugsa, þegar eg geng út og inn, ad gjøra verk minnar køllunar, treystandi því, ad Jesús muni mitt lítilfjørligt ervidi blessa; já, ætíd þegar eg geng út, og mæni augum mínum til himins, hugga eg mig þarvid, ad Drottins misk-unsemi er ný og fersk yfir mér; og loksins, þegar lík mitt verdur útborid af húsinu til grafarinnar, mun Jesús láta mig njóta þessarar sinnar útleidslu og allrar verdskuldunar, svo líkaminn hvíli med fridi í sínu svefnhúsi, en sálin berist af Englunum í Abra-hams fadm; þá mun Jesús minn, í stad þyrni-kórónunnar, sem hann bar, géfa mér réttlætisins kór-ónu, þángad til geymda mér; í stad purpura-káp-unnar, óforgengiligt dýrdar-skart, gjørandi minn lítil-fjørligann líkama líkann sínum dýrdliga líkama; þá fullkomnast á mér þad fyrirheit: Hvørr, sem yfir-vinnur, hann skal skrýdast med hvítum klædum. Þar-ed þrælar Pílatusar høfdu nú høndur á Jesú, þá mun eg medtakast af Englunum í þeirra samfélag, þegar kornskurdar-mønnunum verdur skipad ad safna hveitinu í kornhlødu húsfødursins. Nú sagdi Pí-

latus um hann: sjáið manninn! á þeim endurnæríngar-degi munu þeir heilögu Englar segja um mig: sjáið! þessi hefir gengið ígégnum margar hörmúngar og hvítfágað sinn síða búnað í Lambsins blóði; hann hefir nú yfirunnið fyrir Lambsins blóð. O, hvörsu mun eg þá fagna og segja: lofaður sé Guð, sem mér hefur sigurinn géfið fyrir Drottinn minn Jesúm Krist! Og nú til þess, eg kunni því heldur að styrkjast í trúnni hérum, þá hugga eg mig helzt við það, sem óvinir Jesú komu upp með hönum til fordæmíngar, að hann hefði gjört sig að Guðs Syni. Eg veit að Jesús er sannarliga Guðs Sonur; hann hefir fyrir mig, aumann syndara! úthellt sínu blóði, hvör úthellíng og friðþægíngar offur ekki er til ónytis; því fyrst Guð gaf mér Soninn, mun hann géfa mér alla góða hluti með hönum, og í þessum Guðs Syni eru öll hans fyrirheit já og amen. Já að vísu ertu, minn Jesú! Guðs Sonur; um þig hefir vitnað þinn himneski Faðir: Þessi er minn elskuligur Sonur, í hvörjum mér velþóknast; þú hinn sanni Guðs Son ert mannsins Son orðinn, svo þú sannur Guð og sannur maður frelsaðir þitt fólk af þess syndum, hvörsvegna þú heitir Jesús, já, minn Jesús og minn Endurlausnara, minn Drottinn og minn Guð! þará festir sig mín trú, að Guðs Sonur hefir elskað mig, og géfið sjálfan sig út fyrir mig; eg er fullviss um, að þú, eylífi Guðs Son, minn Lausnari! hefir géfið oss, sem á þig trúum, sonar-leyfðina, hvað þinn Andi, sem er pantur minnar arfleyfðar, vitnar í mínu hjarta; þú hefir

gèfid þeim, sem þig medtóku og á þig trúa, makt Guds børnum ad verda, svo vèr erum ecki lengur þjónar, heldur synir; en fyrst vèr erum synir, þá erum vèr Guds erfíngjar fyrir Krist; þeim enum sama Guds Syni sè heidur og eylíft veldi um allar aldir alda, Amen!

## 26. Hugvekja.

### Samtal Krists og Pílatusar.

Þá Pílatus heyrdi þau ord — ad Jesús væri Guds Sonur — óttadist hann enn meir, gèck inn aptur í þínghúsid og spurdi Jesúm: hvadan ertu? en Jesús þagdi. Þá spurdi Pílatus aptur: talar þú ecki vid mig? veitstu ecki, ad eg hefi vald til ad krossfesta þig og vald til ad gèfa þig lausann? Jesús ansadi: eckért vald hefdir þú yfir mèr, væri þèr ecki gèfid þad hèr ad ofan, því er þess synd meiri, er seldi mig þèr. Eptir þad leitadist Pílatus vid ad láta hann lausann; en Gydíngarnir hrópudu og søgdu: ef þú lætur þenna lausann, þá ertu ecki keysarans vinur; því hvørr, sem gjørir sig ad konúngi, hann er á móti keysaranum.

---

Í þessu samtali Pílatusar vid Frelsarann, er einkum þrennt athugaverdt, sem er, fyrst: Gudhrædsla Pílatusar; þá hann heyrdi nefndann Guds Son,

óttadist hann enn meir, segir Textinn. Hann hefir víst ádur verid óttablendinn og í efa, hvad hann skyldi gjøra vid Jesúm, einsog sjá má af mørgu því, sem framfór fyrir hans dómi; en nú gaf þó á fyrir hønum, þegar Gydíngar komu upp med þad, ad Jesús hefdi gjørt sig ad Guds Syni. Heidíngjar voru þeirrar meiníngar, ad Godin ættu børn, og kæmu á stundum saman vid mennina til barnsgétnadar, svo lángar ættartølu-þulur má finna um þeirra kynkvíslir. Nú hafdi Pilatus heyrt margt undarligt um Jesúm; konu hans hafdi og dreymt um daginn; því hnickti hønum vid, þegar þeir komu upp med þad, ad hann hefdi gjørt sig ad Guds Syni, einkum þar hann var nú búinn ad láta húdstrýkja hann og hæda; hugsar best ad vara sig á þessum ókénnda manni og undarliga; gengur því aptur inn í þíng-húsid, tekur Jesúm tali og spyr hvadan hann sé. Gætum nú ad þessu: heidíngjar þjónudu med miklum ótta, blygdun og lotníngu sínum afgudum, gjørandi sjálfum sér ónýta þánka; þad sýndi sig í Lystris, þegar þeir vildu offra þeim Páli og Barnabasi og søgdu: Gudirnir eru ofanstignir og ordnir mønnum líkir; eda þegar þeir hrópudu einsog ódir í Ephesusborg: mikil er Diana þeirra í Ephesó, hvad Cancellérinn þar í stadnum sagdi væri ómótmælanligt. Svo blindir voru nú mennirnir á medan Gud leid fávitskunnar tídir, ad þeir óttudust fyrir þeim hlutum, er sumpart voru daudir menn, sumpart dýr og skridkvikindi jardar, sumpart stockar og steinar, þeirra eigin handaverk, hvarum Davíd talar: Heid-

íngjanna afgudir eru silfur og gull, handaverk manna, hafa munn og mæla ecki, augu og sjá ecki, eyru og heyra ecki, og þar er ecki andi í þeirra munni. Ef nú heidíngjarnir voru svo ræsiligir í villu sinni, til ad þjóna því, sem eckért var, svo þeir líka uppreistu altarid þeim ókénnda Gudi, hvørsu miklu framar ættum vér, sem sannfærdir erum í vorum hjørtum, ad Drottinn vor Gud er einn einúngis Drottinn, ad óttast hans skélfiligu hátign, sem er fortærandi eldur, hvørr ad er Jehóva, og vill ecki sína dýrd ødrum géfa; eda munum vér ecki réttlæta heidíngjana, þad er: sýna þeir séu vøndunarsamari enn vér, þegar vér þjónum med meira kaldsinni þeim sanna Gudi, enn þeir sínum gjørdar-gudum, hvad Drottinn færir til íhugunar sínu fólki, þá er hann bríxlar þeim þarum, ad heidíngjarnir hafi ecki skipt um Gudi, en þeir hafi yfirgéfid sig? Þjónum þarfyrir Drottni med hrædslu og gledjum oss med ótta; minnumst vid Soninn, svo hann verdi oss ecki reidur og vér fyrifførumst á veginum; verum glóandi í andanum, Drottni þjónandi, og kostum frá oss allri hálfvelgju, hvørri Drottinn vill útskirpa, og høfum ætíd minnisfasta þá hollu rádleggíngu Péturs, er svo hljódar: Fyrst þér ákallid Fódurinn, sem dæmir án mann-greinar álits, þá hagid ydar umgengni med ótta, svo lengi þér erud hér til húsa. Í ødru lagi eru eptirtektaverd maktarlæti Pílatusar; veitst þú ecki, segir hann, eg hefi vald til ad krossfesta þig og vald til ad láta þig lausann? hvarmed hann lætur, ad sér múni leyfast ad taka til maktarinnar, ef hann vildi,

hvørnig sem málavextirnir væru; og þessi þánki bleckir og hefir bleckt marga, ad fyrst þeir hafi valdid í hendinni, þá muni þeim flest leyfast, og þeir megi gjøra hvad þeir vilji. Skalt þú nú stjórna ríkinu í Ísrael? sagdi Jessabel vid Achab, þegar henni þótti ecki mikid koma til konúngstignarinnar, ad Naboth mátti halda víngardinum, sem konúngur lagdi følun á. En hvad segja menn nú? skal ecki þessi eda hinn vesælíngur sitja og standa þar, sem eg vil? hvørjum Drottinn vill aptur svara og segja: Sakir eydileggíngar þeirra fátæku vil eg uppstanda; en þegar Drottinn er uppstadinn, þá ætla eg fari af stórmennskan; þá kémur ad því, sem Elihú sagdi vid Job: Hann sundurknosar þá vegsamligu og setur adra í þeirra stad. Rétt svaradi Jesús Pílatusi, sem von var: Þú hefdir enga makt yfir mér, nema hún væri géfin þér hér ad ofan; enga makt hefir þú, ó, madur! yfir ødrum, nema Gud hefdi géfid þér hana; en ef hann, sem húsbóndinn er, setti þig hærra en hinn lægra, og þad af nád sinni, mun hann þá ecki hafa vald til ad umbreyta þér aptur og segja vid hann: þoka þér upp betur, en vid þig: géf þessum rúm. Sérhvørt vald er undir hærra valdi, og hvad sá minni óttast af ydur, med því ógnar ydur annar stærri, sagdi einn af þeim gømlu. Gæt þess þú, sem maktina hefir, ad Gud hefir géfid þér valdid, og af því áttu reikníng ad standa þeim ædsta dómara; einn herra hefir þú á himnum, og hjá hønum er eckért manngreinar álit. Víst máttu virdínguna hafa, því hún er géfin þér ad ofan; Gud hefir sett

tign þinni verndarbréf, þegar hann segir fyrir þjón sinn Pál: Hvørr, sem valdstjórninni mótstendur, sá mótstendur Guds skickun, en þeir, sem móti standa, munu yfir sig leida dóms áfelli, einsog til dæmis: Kóre og hans félagar, sem settu sig upp ámóti Mósi og Aaron, hvørja jørdin svalg lifandi; því má hvørr einn med gódri samvitsku bera þann virdíngar titil, sem Gud hefir uppá hann sett, en vilji nockurr dreyssa eda dramba þaraf, vilji nockurr gjøra sig gyldann af því ad róta í rógsmálum til ad fella þann fátæka, einsog sumir gjøra sér æru af á stundum, þá er hætt vid ad tignar-sætid hallist, því stolt géd er undanfari hrøsunarinnar, og Drottinn hrópar vei yfir þeim, sem tilsetja ránga setnínga og láta skrifa, því þeir láti skrifa mædùna; hvør ord sýnast rétt þeckjanliga eiga heima á þeim óróafullu laga-þvættirum, sem traudliga géta haldid kyrru fyrir. Hér eru og þeir undirgéfnu minntir á sína skyldu; fyrst herrunum og yfirvøldunum er géfin maktin ad ofan, þá eigum vér þess heldur ad virda þá einsog Guds þénara, einsog Pétur kénnir, segjandi: Verid undirgéfnir allri mannligri skickun sakir Drottins; þad er Guds sverd, sem yfirvaldid ber, þessvegna ber ad hafa þad í heidri, því þad er oss til góda og ógnar þeim óràdvøndu en forsvarar þá frómu; þad er mikil nád Drottins, ad hann sendir yfirvøldin, því væri þar eckért yfirvald, yrdi mesta reglulcysi og heimurinn ad Madíaníta herbúdum; en móti þessu skulum vér taka med hlýdni og undirgéfni, því ella fær valdstjórnin ecki komid vid sínu embætti oss til forsvars,

og þaradauki hafa þeir óhlýdnu stórs straffs ad vænta, einsog ádur er sagt. Hugleidid nú, þér, skynlausar bestíur! sem hrósid ydur af því fyrir ydar líkum, ad þér gétid lítid eptir yfirbodurum ydar; sjálfur Guds Sonur stendur hér fyrir dómstóli Pílatusar, eins ránguláts manns, og játar, ad hønum sé í þad sinn géfin makt yfir sér, en, ad ofan; en þér syndugir og einkisverdir hjá hønum, skammist ydar ecki ad forsmá þá, sem yfir ydur eru settir í Guds stad. Heyrid því ord Drottins: Gud veit, segir Pétur postuli, ad vardveita þá ránglátu til dómsdags, ad straffast, en einna mest þá, sem gánga eptir holdinu í saurugleikans girndum og forsmá yfirvøldin, eru bristugir, sérgódir og svífast ecki ad lasta tignarvøldin. Loksins má læra af andsvari Krists, ad ein er synd annari stærri og verskuldar þýngra straff. Sá hefir meiri synd, sem mig seldi þér, segir Drottinn vid Pílatus; hann lýsir því, ad Pílatus hafi synd, þó segir hann Gydínganna synd sé stærri, því þeir syndgudu af hatursfullri forherdíngu, og þeim var til meira trúad enn Pílatusi, hvørs og Jesús gétur: Væri eg, segir hann, ecki kominn og hefdi talad til þeirra, þá hefdu þeir ecki synd — hann meinar: ecki svo stóra; — en nú hafa þeir ecki yfirhylmíngu, hvarmed þeir afsaki synd sína. Athugum þetta! þess meiri, sem gáfurnar eru, þess þýngri er reikníngskapurinn, séu þær misbrúkadur; þess skjærara, sem Guds ord ljómar, þess hrædiligri verdur dómur þeirra, sem þad forakta; því bæriligra mun Sódóma verda á dómsdegi enn Kapernaum. Nú

viljum vér loksins bidja þann mikla dómara veraldarinnar, ad vardveita bædi yfirbodna og undirgéfna, svo yfirvaldid med réttvísi og røksemi straffi og burttaki ránglætid, haldandi líka sjálfum sér med kostgæfni þar frá, en verandi løgum og rétti undirgéfnir, bædi í réttargánginum og framferdinu, en undirsátarnir, eptir skyldu sinni og bodordi Drottins, séu þeim hlýdugir, uppá þad þeirri sønnu trú, sem vér med munninum vidurkénnum, fylgi kristilig regla, sidsemi og frómleiki, í þessu voru fátæka fødurlandi, hønum almáttugum til dýrdar, en oss til velferdar, Amen!

## 27. Hugvekja.

Samtal Pílatusar og Gydínga á dómstólnum.

Þegar Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út og settist á dómstólinn, á þeim stad er kallast hái-fløtur, en á hebresku Gabbatha, en þad var adfángadagur Páska nærri sjøttu stundu. Pílatus sagdi þá vid Gydínga: sjáid! þar er ydar konúngur; en þeir kølludu: burt, burt med hann! krossfestu hann! Pílatus svaradi: skal eg krossfesta konúng ydar? Kénnimannahøfdíngjarnir søgdu: vér høfum engann konúng utan einúngis keysarann.

Ogudligur madur flýr og enginn eltir hann, segir Salómon; þad sannadist hér á Pílatusi, hann setti

allt fyrir sig, nema það, sem hann átti, sem var, að styggja Guð með ránglætinu, en einkum varð hann yfirbugaður og misti alla tilfinníngu réttlætisins, þegar þeir fundu það upp að segja: að hann ekki væri vinur keysarans, ef hann léti Jesúm lausann, því hann vissi að Drottinn hafði ekkért gjört mót keysaraligu valdi, vildi samt ekki eiga það á hættu að sleppa hönum, ef einhvörr kynni að leggja það út til misþánka fyrir keysaranum, að Pílatus hefði dregið yfir hann skugga, sem sér hefði eignað konúngdóm í Gyðíngalandi. En svo fer fyrir fleirum, sem meira meta mennina og sitt eigið gagn, enn Guð og samvitskuna, að þeir eru aldrei í ró og velkjast milli vonar og ótta; það er, sem Drottinn segir: að strái eruð þér óléttir, þér munuð fæða hálm, yðar eiginn andi mun yður fortæra. Pílatus er hræddur, að Gyðíngar muni rægja sig við keysarann, svo hann missi nafnbætur sínar; en hann sat þó ekki lengi í heiðrinum; þeir rægðu hann að lyktum, þó ekki væri það fyrir þetta, svo hann loks firrti sig lífinu í eymd og örvæntíngu. Svona kémur straffið yfir þá óguðligu, sem þeir óttast, því þeir gleymdu ótta Drottins, en óttuðust það, sem ekki var að óttast og flúðu, þótt enginn elti þá. Hvörr, sem nú vill óhultur búa og róliga samvitsku hafa, hann skal varast þetta, að sjá hvað rétt er, en vinna það fyrir sinn eiginn tilgáng, vináttu eða ótta fyrir mönnum, að gjöra þar þvert ámóti; það er mikill ólukka og mikil bölvan, það er að gjöra háðúng Drottni og vanhelga hann fyrir einn mjölknefa; það er Elí sona

misgjørd, sem vanvirdtu offur Drottins, en vildu sjálfir hafa þad feitasta úr fórnar-pottinum. Haf því, kristinn madur! ætíd Guds ótta og réttvísina fyrir augum þér; helgir þú Drottinn, og sé hann þín ógn og ótti, þá máttu vera óhræddur fyrir því ødru, sem þeir ógudligu óttast, og lifa í kyrrd med róligum gédsmunum, því réttlætisins ávøxtur mun fridurinn vera, og réttvísinnar nytsemi mun vera eylíf kyrd og ørugleiki, segir Esajas. Vér skulum nú láta Pílatus og hans líka búa vid sitt hjarta og háttalag, en snúa þaunkum vorum til Jesú, þar hann stendur bundinn fyrir dómstóli þessa samvitskulausa víkings, af hønum í spotti konúngur nefndur, en af Gydíngum afsagdur og heimtur undir kvalirnar; því þegar Pílatus, sem nú var búinn ad sleppa øllum sannleiks ástædum, hafdi ályktad med sjálfum sér, ad láta svo fara, sem Gydíngar vildu, svo hann kæmist ecki í misþánka fyrir of-frekt medhald málsins, leidir hann Jesúm út ad nýu, í sínum spottliga búnadi, kvalinn og ørþjádann, og setur sig á dómstólinn; þá kaldsar hann uppá Gydínga, bædi til vanvirdu vid þá og Jesúm: sjáid! þarna er konúngurinn yckar! og þegar þeir tóku ámóti þessu med sínu venjuligu krossfestíngar-hrópi, segir hann aptur í spotti: skal eg krossfesta konúng ydar? en spurníngunni svara þeir lærdu høfudprestar, med þessum ordum: engann konúng høfum vér, nema keysarann, hvarmed þeir neitudu allri von og huggun Ísraels, og søgdu sig úr sáttmála Drottins, sem hann hafdi gjørt vid fedur þeirra,

einkum Davíðs, hvörs ríki þeir nú afsøgðu með øll-um þeim fyrirheitum, sem þar uppá hlýddu, en játuðu sig undir það vald, sem fjærlægt var borgar-rétti Israels, og reiknast nú ecki lengur synir fyri-heitisins, heldur afbrotnir kvistir, í hvørra stað heið-íngjarnir eru innplantaðir á það góða viðsmjørstré, Krist; þessvegna tøkum vér nú, heiðíngja-børnin, feg-ins hendi móti Israels konúngi, hvørjum hans eig-in afneituðu fyrir Pílatusi, líka sem feður þeirra forðum vildu ecki láta Drottinn ríkja yfir sér, og hann gaf þeim konúng í reiði sinni. Svo veri Jesús oss blessaður og velkominn konúngur! segjum allir fagnandi: Blessaður sé sá, sem kémur í nafni Drott-ins! hósíanna í hæstum hæðum! Hann er sá kon-úngur dýrðarinnar, um hvørn skrifað stendur: Látið portin víð opin og gjørið háar dyrnar í veröldinni, svo konúngur dýrðarinnar megi þar inngánga; hann er konúngur réttlætisins og friðarins; hann er kon-úngur Englanna, hvørn þeir tigna og tilbiðja; hann er konúngur vor mannanna, hvørjum heiðíngjarnir eru til arfleifðar géfnir, og veraldarinnar endimerkur til eigindóms. Komum því og látum oss lofsýngja Drottni og hátt lofa styrk vors hjálpræðis! Látum oss með þackargjørð fyrir hans augliti koma og með sálmum hønum lofsýngja, því Drottinn er voldugur Guð og máttugur konúngur í tign og vegsemd og al-máttugur konúngur yfir alla Guði! Já, vissuliga! er hann hátt upphafinn konúngur í tign og vegsemd og almáttugur konúngur! allt vald er hønum géfið á himni og á jørðu; hann hefir Faðirinn sett sér til

hægri handar á himnum, lángt yfir alla Engla, høfdíngjastéttir og maktarvøld; yfir hans hátign má hvør sképna á himni og á jørdu falla í undran; segjum því med Davíd: Drottinn! konúngur, dýrdliga prýddur! Drottinn er prýddur og hefir ríki stiptad svo vídt, sem verøldin er; en þó er hitt ecki sídur ad undra, ad hann, svo dýrdligur og heilagur, stendur hér bundinn fyrir dómstóli ránglâts manns, hæddur vanvirdtur og affagdur af øllum, sem er einstøk reynsla uppá þá audvirdiligu þjóns mynd Guds Sonar. O, hvørsu mikid hefir þig kostad, minn Jesú! ad gjøra os ad konúngum og kénnimønnum fyrir þínum himneska Fødur, þad er: veraldar konúngum, sem þó eru hold, þyrnir í augum, vilji nockur setja sig upp á móti þeirra konúngs tign; en þú ert hér affagdur, og ecki einúngis affagdur, heldur einsog illvirki fordæmdur. Þessa trúi eg, Drottinn minn! þú munir láta mig njóta, þegar þú kémur í skýum himins med mikilli dýrd til ad halda dóminn, sitjandi á sæti veldis þíns. Þú varst nú, vegna synda minna, afskræmdur og óþeckjanligur, svo þeir, sem þig sáu, litu á þig sumir med hatri, adrir med vanvirdu, en þó mun eg sjá þitt auglit í réttlæti og saddur verda, þegar eg uppvakna eptir þinni mynd. Þú varst nú sakfeldur og til dauda dæmdur, en eg verd þá afleystur og úrskurdadur til lífsins, því þá ertu fullkomliga búinn ad kasta syndum mínum í hafsdjúpid. Þú varst nú kalladur konúngur í spotti og affagdur af Gydíngum, en þá muntu í raun og sannleika géfa mér ríkid, þegar þú þannig talar til þinna

trúaðra: Komið! þér, blessuðu Föður míns! og erfið það ríki, sem yður var ætlað frá veraldar upphafi. Nu hrópuðu Gyðíngar; burt með hann! en þá verð eg kvaddur til að koma í samfélag Englanna og útvaldra, til að vera með Guði alla tíma; og fyrst eg þessa vona, þá skal eg ekki afsegja þig einsog Júðar, heldur með hjarta og munni og öllu mínu framferði játa þig fyrir minn konúng. Eg vil segja með Tómasi: Drottinn minn og Guð minn! og með Davíð: minn konúngur og minn Guð! eg vil, einsog þinni brúður hæfir, gleyma mínu fólki og míns föðurs húsi, svo eg megi þér þóknast, því þú ert minn Drottinn og þig skal eg tilbiðja; en sértu minn Drottinn, þá játa eg mig þinn þræl; já, sannliga, Jesú! eg er þræll þinn, sonur ambáttar þinnar. O, hvörsu mikill heiður og vegsemd er mér, að þú virðist að kalla mig svo, og að eg megi lifa og deya í þinni þjónustu, því vil eg ekki skipta við nockurn herra-titil, sem brúkast í þessum heimi; eg vil heldur vera dyravörður og hinn auðvirðiligasti í þínu húsi, enn búa í tjaldbúðum óguðligra við álit og allskonar fullsælu; og því skyldir þú ekki, mín sála! vilja allt líða með þínum konúngi, hönum þjóna og fyrir hönum auðmýkjast? Þú heyrir hvörnig hann játaði: að sitt ríki væri ekki af þessum heimi, og þar með afsagði veraldarinnar yfirlæti, en tók við þyrni-kórónu í stað gull-kórónu; þeir afsegja hans konúngs tign, og hengja hann skömmu síðar uppá krossinn; mun hann ekki með þessu hafa borgað fyrir dramblæti ens fyrsta manns, sem varð uppbláʃinn móti Guði, og það skað-

liga dramblæti, sem við ockur loðir síðan, líka í hinni mestu vesæld? Hann er líka leiddur til ens háa steinstrætis til að fordæmast þar, af því vér høfum á stundum viljað hreykja oss nógu hátt uppá það hála í heiminum, og áttum því að dæmast niður til falls; en vegna hans forsmánar og fordæmíngar, sem skéði á þessu háa steinstræti, mun vissuliga reiðin sefast, og ockar hrapan ecki svo hraparlig verða, sem steini væri á sjó kastað; því skulum við, sála mín! aptur á mót, lítil-lætast í andanum, falla hønum til fóta og kjósa heldur að tína molana undir hans borði, enn upphefjast með þeim stoltu og skipta herfángi með þeim ógudligu. O, Herra Jesú! hvørn Gyðíngar affsøgðu og afneituðu fyrir Pílatusi, þín børn, sem voru í fjærlægðinni, en nú eru nálæg, ásamt með leifunum af Ísrael, allur þinn søfnuður af Gyðíngum og heiðíngjum, eitt sauðahús undir þér, þú mikli Hyrðir sauðanna! gleður sig þaraf, að þú, Drottinn! ert konúngurinn, viljandi þér þjóna og undir þínum merkjum stríða, haldt svo þessum þínum þegnum við makt, fyrir þinn guddómliga krapt og útréttann armlegg, að hún, sem kølluð er eptir þínu nafni, þín brúður, kristilig kyrkja, megi lokſins, að yfirunnum øllum óvinum, hrósa með þér dýrðligum sigri í himnaríki eylífliga, Amen!

## 28. Hugvekja.

### Um Pílatusar handa-þvott og dóm.

Þegar Pílatus sá, að hann kom engu til

vegar, heldur ad yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn og þvodi hendurnar fyrir fólkinu og sagdi: saklaus er eg af blódi ens réttláta; sjáid þér til! Þá svaradi gjørvallur lýdurinn: hans blód komi yfir oss og yfir børn vor! En Pílatus þenkti fólkinu fullnægju ad gjøra, og dæmdi, ad ské skyldi beidni þeirra.

---

Þetta gjørdir þú, og eg þagdi, þá meinar þú, ad eg muni vera líkur þér, segir Drottinn vid hinn ógudliga. Opt hafa men gjørt sér þær hugmindir, ad fyrst Gud lætur þá sjálfráda, muni hann annadhvørt ecki skeyta um hvad þeir gjøra eda samþyckja þad og vera eins lyndur og þeir; þad kom og hér fram; Pílatus vissi í samvitskunni, ad hann dæmdi rángann dóm, en þad vill hann Gud haldi sér til góda, fyrst hann þvodi hendurnar; Gydíngar þóktust svo vissir um, ad Gud væri búinn ad samþyckja þeirra meiníngar, ad þeir gjørdu sér enga þánka af, ad óska þad blódskuld Jesú skyldi lenda á sér og børnum sínum, og er héraf þrennt athugandi: 1) hvørnig Pílatus dæmdi; 2) hvørnig hann þvodi hendurnar, og 3) hvørnig fólkid formælti sér. Þegar Pílatus sá, ad hann feck ecki adgjørt, hugsadi hann ad fullnægja fólkinu, og dæmdi ad ské skyldi beidni þeirra, segir Textinn. Hvad gjørdir þú, Pílatus! af því valdi, sem þér var í hendur fengid, þegar þú, hræddur fyrir upphlaupi, létst almúgann kúga þig til þess, ad gjøra sinn vilja, er sjálfur áttir ad halda hønum í taumi

frá ad yfirfalla þann saklausa? hvad gjørdir þú af þínu dómara embætti, þá er þú dæmdir, ad ské skyldi beidni þeirra, sem bádu um þad, sem var þvert ámóti réttvísinni? eda hvílíkur dómari er þad, sem dæmir allt eptir því, er adrir vilja, og lætur hann vera dómara í eigin søkum? O, Gud gæfi, ad þessi ógudligu dæmi finndust ecki hjá vorum yfirvøldum! Pílatus var búinn ad ransaka málid; hann frikénndi Jesúm optsinnis bædi fyrir og eptir dóminn, þó, ad svo vøxnu máli, dæmir hann samt Jesúm til krossfestíngar, þvertámóti eigin medvitund; en vegna hvørs? því hann hræddist upphlaup, héldt hann mundi verda rægdur vid keisarann, og í þridja lagi, vildi gjøra almúganum til vilja. Mun nú ecki Pílatus kunna ad eiga sér stallbrædur í þessu, sem þó lætst lasta þessa hans adferd? þad hjálpadi vel prestahøfdíngjunum ad koma fram sínu máli, ad Pílatus var óttablendinn. Þar, sem óttinn situr med í dóminum, þar fara sjaldan høfdíngjarnir ósekir af þínginu. Þegar menn fengu ad vita Jessabelar vilja, mega ljúgvottarnir gánga fram mót Nabotþ; þegar Davíd skrifar Jóab til, ad setja Uríam þar, sem strídid var hardast, vill hann ecki brjóta af sér konúngs hyllina, þó hún stædi ecki mjøg lengi. Almúginn, med sínni heimsku og óframsýni, gjørir líka opt mikid ad verkum; margur skálkur hefir svo sloppid, ad almúginn hefir hylmad yfir hann sjálfum sér til óluckn, einsog til dæmis: Benjamínítar, sem ecki vildu framselja skálkana af Gíbea. Pílatus vildi fullnægja fólksins bón, og dæmdi, ad ské skyldi beidni

þeirrá; en hún var sú: að láta morðíngjann Barrabas lausann, en krossfesta hinn saklausa Jesúm; hann hefir ecki viljað tapa hylli fólksins, þar hann hefir álitið sér það ábata-vón; en þar, sem hætt er við að valdsmadurinn missi annahvort ávinníng sinn, eða vinur hans á í hlut, þá er ecki gott að sækja um mál eða koma upp um illmenni, með því líka aldrei er að ørvænta, að einhvørr kunni að sýna í því kunst sína, að forsvara Barabbás og taka að sér málefni skálksins, svo sem dæmin hafa gefist, þó menn vita megi hvörsu megn ólucká héraf flýtur, þar bædi alast upp í landinu klækir og ódygdir, og líka fylgir á eptir straff og vanblessan í øllum stéttum. Nógu dýrt máttu Ísraelítar borga Achans fóla, sem hann hafdi fólgid í tjaldi sínu; en hvad skal þá verda, þegar Achan stelur, en yfirvaldid felur? Ecki er þess gétid, að Pílatús hafi verid í þetta sinn med mútum ginntur, þó hann liti eptir sínu eigin gagni; en óskandi væri, að menn létu nú ecki bera fé í augu sér, til að sjá ecki hvør svívirdíng, sem æfd er, eda hvørt sá, sem rétt hefir, má ecki stundum líða og liggja undir; þó hefir Gud gjørt ráð fyrir þessu, þar hann segir: Þú skalt ecki álíta nockurs manns persónu, og ecki heldur gjafir þyggja, því gjafirnar blinda augu vísra manna, og umhverfa málum réttferdugra. Hvad kémur til, að svo fer ódum í vøxt lestir og ódygdir, að várla er annad sýniligra, enn úr þessu landi ætli að verda ein Sódóma, svo ef Micheas lifdi á vorum døgum, mundi hann líta í kríngum sig og segja: Avi! mér gengur

einsog þeim manni, sem seinni leit berjauna hefir í víngardinum, þar engin vínþrúga finnst til ad eta, og vildi þó feginn hafa fundid þann besta ávøxt; þad réttvísa fólkid er burt úr þessu landi, og þeir réttlátu eru ecki meir medal fólksins. Hvad, segi eg, mun þessu valda? fyrst er þad umsjónarleysi þeirra, sem yfir eiga ad segja, en hyrda lítid um á hvørju gengur, ef sjálfir þeir einkis ímissa, og því gjørir hvørr þad hønum rétt virdist; þarnæst girnd til eigin hagsmuna, hún smjadrar einsog þjófgéfinn hundur, til ad tína upp allt hvad nidurfellur, og vill hafa einhvørn ávinníng af øllu því, sem vidber, og er þá ecki von ad vel fari, þegar vøkumennirnir eru bædi hljódlausir til ad umvenda og grádugir til ad eta, hvørja sneid ecki ad eins eiga óhlutvandir kénnifedur, heldur og líka þeir veraldligu; í þridju rød er ófrамsýn miskunsemi, hún strýkur sig med hóru-farva, og vill láta segja um sig: sælir eru fridsamir, þó hún eigi þar hvørgi skyldt vid, því þessir hræsnarar eru opt grimmustu dýr í sjálfum sér, einsog Saul, sem miskunadi Agag, en drap þá saklausu kénnimenn í Nóbe, ofsókti Davíd trúann og hollann, og vildi taka lífid af sínum eiginn ærliga syni; seinast allra situr óttinn, sem haltrar á bádar hlidar, og þorir hvørigum fæti rétt nidur ad stíga; því þótt sumir séu ecki lángt frá því sinnislagi ad gjøra rétt, þá þora þeir þó ecki, þegar miklir eiga hlut ad, hvørsvegna løgmálid, sem er frjálst, vogar ecki ad lypta upp høfdinu og verdur þrælkad, fer þá og skørin uppí beckinn, þegar løgin verda ad hlýda ótt-

anum, sem þó átti að koma af lögunum. Þessar eru nú þær helztu orsakir, hvaraf margar ódygðir spretta; íllmenninu leyfist allt, því almúginn hræsnar; þeir mektugu skjóta skjólshúsi yfir skálkana; höfðíngjarnir vilja sigla milli skers og báru, þeir eru stundum hyrðulausir, stundum sjá sinn ávinníng og vilja ekki fráskáka sér, stundum vilja ávinna sér fánýtann lofstýr, stundum hafa báðar hendur bundnar og voga ekki neitt að gjøra; fyrir þetta og þvílíkt má hinn fátæki falla og missa lög og rétt, en vondir menn eta almúga Drottins. Hvað skal hér til segja? Guð! tak þig upp og dæm þú landið, því þú ert erfðar-herra ámeðal heiðíngjanna. — Pílatus þvoði hendur sínar fyrir fólkinu og sagði: **saklaus er eg af blóði þess réttláta, sjáið þér fyrir!** Þetta var mikil hræsni og heimska; hræsni, að vilja láta aðra sjá, einsog væri hann saklaus, þar þó samvitskan sakfeldi hann; heimska, að meina Guð, hvørn hann vissi alvitrann og réttlátann, mundi ekki eins tilreikna sér blóðskuldina, þó hann þvægi hendurnar; og sannliga var þvottur þessi vitni um óróliga samvisku, því hefði hann ekki fundið þá sök í samvitsku sinni, hefði hann ekki hendurnar þvegið, eða hvørt þvær nockurr það, sem hreint er? hvaða hrósun hafðir þú, ó Pílatus! af handaþvottinum, þegar þitt eigið hjarta fordæmdi þig? vitnisburður góðrar samvitsku er sú rétta hrósan, hvar hann finnst ekki, er allur útvortis þvottur ónýtur, einsog allt heilagleika skin; það er Phariseara þvottur, er héldu bikurum og diskum útvortis hreinum,

en hið innra var fullt af ráni og óhæfu. Varastu þessvegna, kristinn maður! heimsku Pílatusar, því þó þú fáir dulist fyrir mönnum, þá blindar þú aldrei augu Drottins, sem ransakar hjörtun og nýrun; hann gétur sagt við hvörn einn: eg veit þín verk; hann hrópar því vei yfir öllum þeim er hulðir vilja vera fyrir Drottni. Viljir þú þvo þig, þá þvo þig ekki einsog Pílatus og Pharisæarnir, heldur hreinsa það innra; hreinsa þú hjartað, af hvörju framkoma þau óhreinu holdsins verk, sem allann manninn saurga; í hjarta þínu vill Guð byggja, en hann á ekki samfæti við Belíal; ekkért óhreint vill hann hafa í þeim stað, hvar hann inni byggir; þvo þú hjartað best, því hreinhjartaður mun Guð sjá; en það á að ské með heitum ydrunar-tárum, sem framfljóta af sundurknosuðum anda, hvar við tengjast skal ádreifíng blóðsins Krists í trúnni, fyrir hvörja Guð hreinsaði heiðíngjanna hjörtu; þá er hjartað rétt þvegið, því ef hafranna og kálfanna blóð og askan kvígunnar ádreifð, gjörði forðum þá saurugu hreina til holdsins eður útvortis hreinsunar, hvörsu miklu framar mun þá Krists blóð, sem sig hefir fyrir eylífann anda Guði offrað, hreinsa samvitskur vorar af dauðum verkum, til að þjóna Guði lifandi; sjáum svo vér af þessari grein, að þar, sem Krists blóð er ádreift fyrir trúna til réttlætíngar, þvæst og sori syndanna burt af hjartanu til endurnýúngar lífdaganna, og það er það, sem Jakob segir: Hreinsið hendurnar, þér, syndarar! og gjörið hjörtun skírlíf, þér, efablöndnu! Þetta er sú þvottar

regla, sem Gud sjálfur kénnir oss: Þvoid ydur, hreinsid ydur, takid á burtu ydar illu breytni frá augum mínum; látid af illu og lærid gott ad gjøra; og á þenna hátt skulum vér þvo oss betur enn Pílatus, þegar hann létst teikna þad med handaþvottinum, ad hann væri saklaus af blódi þess réttláta. Þá svaradi allur lýdur: hans blód komi yfir oss og yfir børn vor! Lítid mundu þessir eptir Abels blódi, lítid eptir Jóabs dæmum, lítid eptir Jesú ordum, ad yfir þá mundi koma allt réttlátt blód. Var þá þetta ecki nóg, þó ecki hefdi Guds Sonar blód bættst þar ofaná? dugdi þad ecki, ad syndin hrópadi, þótt ecki hrópudu þeir líka? máttu þeir ecki vera ánægdir med blódskuldina yfir sínum eigin hofdum, þó ecki hefdu þeir viljad leggja hana á nidja sína í ytstu kynkvísl? En þeim verdur ad þessu enn í dag, þar þeir, híngad og þángad sundurdreifdir, eru vottar øllum heiminum þarum, ad þeir séu svikarar og mordíngjar þess réttláta. En hvad kom þeim til þessa ædis? mest þad, ad fólskan og ákéfdin blindadi þá svo, ad þeir gættu ecki hvad þeir toludu eda gjørdu. O! hve satt er þad, sem Jakob segir: Mannsins reidi verkar ecki Guds réttlæti; hvørr er sá, sem rétt metur í reidi sinni, hvad rétt sé fyrir Gudi eda ecki? Verum því tregir til reidi, og hendi oss þad, ad oss renni í skap, þá berum oss ad sjá til vér syndgum ecki, og høfum svo mikid, sem møguligt er, framferdi vort í taumi, og ecki sízt túnguna, med hvørri margur óttaliga syndgar, þá svo ber vid, og gætir ecki ad því, ad óþolinmædi

og formælíng ens offsafulla lendir tídast á hans eigin høfdi, einsog sýnir dæmi Símeí og Israels fólks, sem Drottinn dæmdi eptir þeirra eigin óþolinmædis-ordum í Kades-Barnea. O, Herra Jesú! sem ráng-liga varst dæmdur, en munt aptur koma til ad dæma lifendur og dauda, vertu med dómendunum, svo þeir vandi dóma sína, einsog þeir, sem eiga þér eittsinn reikníng ad standa, þú, ædsti dómari! hreinsa og þvo vor hjørtu af syndunum med þínu blódi; hreinsa og hendurnar af øllum vondum verkum; þvo svo bædi høfud og hendur, ad vér varđveitum leyndar-dóm trúarinnar í hreinni samvitsku, og lát þitt sak-lausa blód koma yfir oss og børn vor til fyrirgéfníngar og eylífrar sáluhjálpar, Amen!

## 29. Hugvekja.

### Um Barabbasar frelsi.

Pílatus gaf Gydíngum Barabbas lausann, sá er fyrir upphlaup og manndráp var í myrkvastofu settur, um hvørn þeir bádu; en Jesúm húdstrýktann framseldi hann þeim, ad hann krossfestur yrdi.

Allir þeir, sem nockud hafa numid af heilagri Ritn-íngu, vita, ad Gud skipadi ástundum spámønnunum ad gjøra eitt og annad fáheyrt, fólkinu til teikns, einsog þá, er Esajas átti ad gánga berfættur; Jere-mías bera járnokid; Ezechíel afraka hár sitt og skégg,

og margt fleira þessháttar; því ecki áttu spámenn-irnir einúngis að prédika með orðum, heldur á stund-um, einsog skuggsjá og málverki, leiða fólkinu, með sínu eigin framferði, fyrir sjónir þá hluti, sem voru því alkunnir, svo bæði orð og athafnir þeirra voru spádómar. Jesús er sá mikli spámaður, takmark, máti og miðill allra spámanna. Allt hans líferni var að sönnu háleitt og guðdómligt, en þó einkum hans pína, með hværri hann til lykta leiddi það mikla verk vorrar endurlausnar, og fullkomnaði allt hvað af hønum var skrifað. Þessi hans pína hafði ecki að eins krapt fullkomins og almenniligs lausnar-gjalds, heldur koma fram í henni ýmsir atburðir, sem útløgðu hennar dýrðligann ávøxt og voru mønn-unum einsog teikn eða tabla uppá það, sem hún hefði að merkja. Eitt af þessu var það: að þegar Jesús var til dauða dæmdur, var morðínginn í hans stað laus látinn, og þessi hét Barabbas. Barabbas segja lærðir menn merki svo mikið, sem Føður-son, eða sonur Føðursins. Adam var Guðs sonur fyrir sköpunina, en gjørðist Satans barn fyrir yfirtroðsl-una, þá er hann setti sig upp ámóti Guði einsog upphlaups-maður, og einsog manndrápari leiddi dauð-ann yfir sig og allt mannkynið, þarmeð komst hann í fángelsi og varð á vilja og tilhnegíngum bundinn og bugaður frá øllu góðu, bundinn og útilokaður frá himnaríki, bundinn til eylífs dauða og fordæm-íngar; en einsog hann var rót alls mannkynsins og allir syndguðu í hønum, svo áttu allir hans niðjar sama kost, því frá hønum þreingdi sér dauðinn til

allra manna; en þegar Jesús var til dauda dæmdur, vard Barabbas laus, það er: Adam og hans nidjar, sem Jesúm medtaka nádu, eptir sínum fyrirheitum og sonarleyfdinni; því, einsog fyrir eins manns óhlýdni eru margir syndugir vordnir, svo verda og fyrir þess eina hlýdni margir réttlátir. Pared allir eiga nú kyn sitt ad rekja til Adams, svo má hvørr einn þetta dæmi uppá sjálfan sig heimfæra og segja: eg er Barabbas, sem Adam gat eptir sinni mind, einsog upphlaups-mann, mordíngja, ófrægann og fángadann, en þú, Jesús! ert genginn í minn stad og undir mitt straff, þarmed hefi eg ødlast frelsi og heidur. Barabbas var upphlaups-madur; en hvørsu opt setjum vér oss upp ámóti Drottni, þegar vér viljum ecki láta hans Anda vid oss ráda, heldur føllum í sid med Djøflinum holdinu og heiminum? Pá er þar ad komid, sem Drottinn segir: Eg er Fadirinn, hvar er þá minn heidur? eg er Herrann, hvar er þá minn ótti? Barabbas var manndrápari; opt hendir margann óréttvís og óframsýn reidi, opt leynist í hjartanu kali og óvild hjá þeim, sem þó annars vita mættu, ad hvørr sinn bródur hatar, sá er manndrápari; hvad er manndráp ad skadligra, enn ad deyda sína eigin sálu, hvad þó svo opt skédur, sem vér útsløckvum hræríngar ens andliga lífsins, svo fólgid med Gudi í Kristi, med háskasamligum yfirrádum syndarinnar í vorum daudliga líkama, og hyrduleysi í því, ad krossfesta holdid med þess girndum og tilhneigíngum; ecki ad tala um vond eptirdæmi og hneixlanir, sem marga afvega-

leidir, bædi þegar forsómad er ad vandlæta í Guds stad, og líka ødrum géfin orsøk til ásteytíngar med framferdinu, sem heitir ad láta þann blinda villast á veginum. Barabbas var ófrægur; af því vér fórum illa med Guds gáfur, brestur oss ecki heldur áklagendur, heldur enn rángláta rádsmanninn. Hvørju fær syndarinn svarad? med hvørju forsvarad sig? þar, sem Gud sjálfur sér og veit, samvitskan vitnar, løgmálid hótar, sképnurnar andvarpa, Djøfullinn klagar, hvad vill héraf fylgja? eckért annad enn þad, ad einsog Barabbas var innkastad í fángelsí, svo séum vér allir rétt-tækir undir fángelsí daudans; þar sjélfir løgmálid, þar plágar endurminníng syndanna, þar stendur fyrir dyrum skélfilig eptirvænting dómsins og kvídi fyrir straffinu, sem ecki veit nær þá og þegar á dettur. Þetta er nú vor rétti fødurarfur, því allar þessar og adrar vidlíkar syndir, liggja í þeirri spilltu náttúru, fylla samvitskuna fyrst med kaldsinni og tilfinníngarleysi, sídan med kvída og órósemi, og leida svo loksins eptir sig daudann. En eylífar þackir séu Gudi! ad bædi eg og adrir Barabbasar líkar, høfum heyrt glediligann bodskap í vort fángelsís-hús, því einsog fordum Evilmeródach upphafdi Jójachins høfud af fángelsinu, og lét hann eta braud vid bord sitt, svo hefir Jesús umbreytt fángelsi voru, og sett oss til bords med Abraham, Isaak og Jakob í ríki himnanna, þar sá lífslátsdómur, sem oss yfir høfdi héck, er fallinn yfir sjálfan hann, hvad hann lætur úthrópa um allann heiminn, bodandi ydrun og syndafyrirgéfníngu medal allra þjóda.

Þessi dýrmæta syndafyrirgéfníng, er réttkølluð lausn af fjøtrunum og útleiðsla af myrkrastofunni; þegar fánginn er leystur og settur á fríann fót, þá veit hann að hann hefir fundið náð, svo ecki þarf hann lífláti að kvíða, og undireins er dauðans skélfíng og ótti horfinn. Þegar mér í Evangelió boðast synd-anna fyrirgéfníng, þá hægist samvitsku minni og kémur friður, því eg veit að Guð ætlar sér ecki að láta mig tapast, með því hann sjálfur var í Kristi og friðþægði heiminn við sjálfan sig, tilreiknandi þeim ecki syndir þeirra, og hefir uppreist meðal vor embætti forlíkunarinnar; í þetta forlíkunar-embætti hefir minn Jesús lagt krøptuga sannfæríngu um, að hann vilji láta mig lausann, og géfa mér upp alla skuldina, því svo segir hann við Pétur: Hvað þú leysir á jørðu, skal á himnum leyst vera, hvað hann og ítrekaði við alla postulana, bæði fyrir og eptir sína upprisu. Þegar eg þá, í krapti þessara orða heyri mér boðaða heilaga aflausn af hans þénara, þá er einsog hann gángi að mér og leysi fjøtur mín, einsog hann lét Engilinn gjøra við Pétur, því þá finn eg í mínu hjarta krapt af því orði, sem um hann er ritað hjá Esajasi í 61 kap.: Andi Drottins er yfir mér, því smurði hann mig til að prédika, þeim fátæku sendi hann mig, að boða þeim herteknu lausn og enum faungudu frelsi. O! hvørsu greiðist þá minn gángur og lifnar minn andi, einsog væri eg af fángelsi sloppinn, þá eg nú, réttlættur af trúnni, hefi fengið frið við Guð, fyrir Jesúm Krist, og í stað þrælsóttans er kominn sonarligur útvalníngar

andi, reidubúinn ad þjóna Drottni í heilögum skrúda, réttlætinu, gudhrædslunni, trúnni, kjærleikanum, þolinmædinni, hógværdinni, þá óttast eg ecki daudann né dóminn; ecki daudann, því eg veit, ad þó mitt jardneska tjaldbúdar-hreysi nidurbrjótist, hefi eg þó bygginga af Gudi, hús eylíft á himnum; ecki dóminn, því Gud hefir hladid á minn Lausnara öllum mínum syndum, svo hann er til dauda dæmdur fyrir þær allar; en sé hann til dauda dæmdur fyri þær allar, þá er engin tilbaka, sem kunni ad fordæma mig, því þar er engin fordæmíng á þeim, sem eru í Kristi Jesú. En fyrst vér nú vitum ad vér stöndum í þessu frelsi Jesú Krists, ad hvört vér lifum eda deyum, þá séum vér hans, þá skulum vér med þacklæti vidurkénna þá heilsugjöf, og med hjarta og munni og öllu voru framferdi láta ásannast, ad vér erum frelsadir fyrir hann af fángelsi daudans; fyrst hann frelsadi oss út af vorri ángist og leiddi oss út af myrkrunum og skugganum og sundursleit vora fjötra, þá skulum vér Drottni þackir gjöra fyrir hans miskunsemi og dásemdir þær, er hann veitir mannanna börnum, ad hann sundurslær eyrhlidin og sundurbrýtur járngrindurnar. Og þared vér nú um þetta dýrmæta frelsi höfum svo mikinn hóp vottanna í kríngum oss, þá látum oss afleggja syndina, sem vid oss lodir, en hlaupa med þolinmædi í þá orustu, sem oss er fyrisett, til þess, ad vér lausir frá vorum sálar óvinum, kunnum svo ad umgángast í þessum heimi med vorum Gudi, ad vér séum hreinir og án hindrunar allt til dagsins Jesú Krists, á hvörjum

vér munum frelsadir verda, einsog Barabbas slapp undir pásskana, því þá er dagur endurnæríngarinnar og endursskickunar allra hluta; brúdkaupsdagur Lambsins, þá hans brúdur verdur innleidd, og loksins sá mikli Sabbatsdagur, sem eylífliga mun vara; þá mædir ecki Guds børn fángelsi þessa daudliga líkama, þegar þad forgengiliga er íklædt óforgengiligleikanum; ecki syndin, sem þar inni byggir, ecki harmkvælinn og daudinn, sem syndinni fylgja og þad nidurbrjóta, heldur verdur þad fullkomin frelsan á sálu og líkama, med ævarandi gledi og føgnudi, þegar þad fullkomnast, sem skrifad stendur: Þeir endurkeyptu Drottins munu aptur snúa til Zíon, med hróssun, eylífur føgnudur mun á þeirra høfdum vera, gledi og unadsemd munu þeir høndla, en sorg og andvarpan mun burt frá þeim flýa. Þessi er nú ávøxtur Jesú daudadóms; hann er fordæmdur, Barabbas laus gefinn og adrir aumir Adams nidjar, hvørsvegna vér allir, sem trúum oss fyrir hans dauda lífid ødlast hafa, segjum lof og dýrd þessum vorum borgunar-manni, hér í tímanum og sídar í eylífdinni, Amen!

## 30. Hugvekja.

### Um Krists krossburd.

Þá tóku þeir Jesúm, eptir ad þeir høfdu spottad hann, færdu hann úr purpura kápunni og klæddu hann í hans eigin klædi,

leiddu hann sídan út ad hann krossfestur yrdi, og hann bar sinn kross. En í því þeir gengu og leiddu hann út, hittu þeir mann nockurn, sem fram hjá géck, frá Syríneu, ad nafni Símon, fadir þeirra Alexanders og Rúffí, sem kominn var af akri, hann tóku þeir, og þreingdu hønum til ad bera krossinn, og løgdu hann uppá hann, ad hann bæri hann eptir Jesú.

---

Hvørra dýra-blód, sem innborid var af þeim ædsta kénnimanni í helgidóminn fyrir syndirnar, þeirra sømu hræ voru einnig uppbrend utan herbúdanna; fyrir þad hefir einnig Jesús, uppá þad hann helgadi fólkid fyrir sitt eigid blód, utan borgarhlids lidid, þá látum oss útgánga til hans, út fyrir herbúdirnar og bera hans vanvirdíngu, segir postulinn, Ebr. 13. Tvennt kénnir oss Guds Andi hér; fyrst þad: ad Jesús sé eitt almenniligt forlíkunar offur, fyriminndadur med syndafórna-hafrinum, hvørs blód sá ædsti prestur átti á forlíkunar-hátídinni ad innbera í þad allrahelgasta, en brenna kroppinn utan herbúda, og því hafi Jesús pínst utan borgar, og inngengid svo, fyrir sitt blód, í þad allrahelgasta, nefnil. himininn, ad útvegadri eylífri endurlausn; þar næst: ad vér látum oss gánga svo til hjarta þessa dýru fórn, ad ecki vilum vér fyrir oss ad afneita heiminum og sjálfum oss, en bera krossinn eptir Jesú, og þessvegna, þar vér nú heyrum hvørnig þeir vægdarlausu bødlar, ad uppleснum blóddóminum, leidir ordnir sjálfum sér ad spotta Lausnarann,

færa hann med nýum sársauka og benja uppýfíngu úr purpura kápunni og í sín eigin klædi, leida hann sídan út af Jerúsalem til aftøkustadarins med því þúnga krosstré á sínum blessudu alsærdu herdum, undir hvørt þeir naudgudu lokssins framandi manni, þá látum oss hugleida þenna merkiliga atburd, og af hønum draga eptirfylgjandi gudrækiligar hugleidíngar:

Sárin á Lausnara vorum voru uppýfd bædi oss til vidvørunar og huggunar. Þeir, sem án alls Guds ótta liggja synd á synd, þeir rýfa upp aptur Krists benjar; því Guds Andi vitnar ljósliga, ad þeir krossfesta hann á ný, sem er hardla vidbjódsligt og leidir eptir sig óttaligt straff; þetta gétur og komid fram vid hann á limum hans, þegar vondir menn auka sorgfullu hjarta frekari sorg, elligar bríxla Guds børnum um bættar og fyrirgéfnar syndir. Fordumst því, í Guds nafni! sídi þeirra, sem þannig breyta. Ef vér høfum syndgad, sem ecki er ad efa, þá vitum, ad þad er nóg, ad hafa þá umlidnu æfi gjørt vilja þeirra vantrúudu; séu oss syndirnar fyrirgéfnar, þá athugum, ad vor sídari kjør, verdi ecki verri hinum fyrri. Dýrmæta huggun fáum vér og dregid oss af þeim nýa pínslar-auka Drottins: ó, hvørsu opt ýfast hin gømlu meinin fyrir syndaranum, þegar hans fyrri syndir hvarfla hønum í huga, og finnur líka, ad vanmáttur hans er svo megn, ad annadhvørt henda hann aptur þær sømu elligar adrar jafnvægar, og þótt aldrei væri þad, þá veit hann samt, ad dagliga syndgar hann og verd-

skuldar ecki annad enn straff; þá kémur þad fram, sem Davíd segir: Mín sár lukta illa, þar er fullt af roda · sakir heimsku minnar. Þessvegna eru nú Jesú benjar uppýsdar, ad sérhvørr kristinn madur, sem dagliga vefst í ódóa þessum, en leitast þó vid ad deyda, fyrir andann, holdsins girndir, vanti aldrei huggun, þegar hans synda-sár svída upp aptur og aptur, því vér erum læknadir fyrir hans benjar, og hans hlýdni er sú nádar-gáfa, sem hjálpar af mørgu falli til réttlætis. Þess optar, sem eg nú finn til minna andligra meina, þess optar skal eg hugsa til sáranna míns Jesú, og leggja þarvid mín harmkvæli, segjandi med Davíd: Miskuna þú mér, Drottinn! því eg er veikur; lækna þú mig, því mín bein eru skélfd og mín sála er nærsta mjøg hreld; ó, Drottinn! hvørsu lengi? Enginn skal telja sig undan ad létta undir mótlæti trúadra, eptir því, sem hann hefir rád til. Vor Lausnari, sem bera átti krossinn, hefir ad vísu vanmegnast undir þeirri þúngu byrdi, því ecki mundu þeir hafa fengid annann hønum til léttirs, hefdu þeir gétad séd, ad hann mundi áfram komast med kross-tréd; nú situr hann til hægri handar Gudi, og ber alla hluti med ordi síns kraptar; en vér skyldum minnast þess, sem hann segir: Fátæka hafid þér jafnan hjá ydur, en mig hafid þér ecki ætíd, og finnast þessvegna viljugir ad styrkja þær veiku hendur og skjálfandi kné. Mikid var óþacklæti fólksins í Gydíngalandi, svo sem annars plagar almenniliga ad vera í heiminum; Jesús hafdi mørgum hjálpad af sjúkdómum þeirra, og eng-

ann látid sinjandi fara; en nú, þegar hønum lá á hjálp, skammast sín allir ad brúka heila og hrausta limi hønum til hægdar og létta med hønum undir krossbyrdina; en sama er ad segja um oss: hafi Gud géfid einhvørjum þær gáfur, sem annar má þarfnast, þá er þad mesta óþacklæti vid gjafarann, ad brúka þær ecki til hjálpar sínum naudstøddum bródur, þad er einsog ad sinja Jesú um þad, sem sjálfur hefir hann géfid, því hann vill segja: Hvad þér ecki gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér ecki; hafi nú einhvørr af oss ødlast einhvørja nádargáfu, svo þjóni hvørr ødrum þarmed, einsog trúir rádsmenn yfir Guds ýmisligu nád; þad mun ecki ávaxtarlaust, þar Jesús vill ecki láta vatnsdryck ólaunadann í lærisveins nafni géfinn. Gudspjalls-sagan nefnir hér med nafni, bædi þenna Símon, sem krossinn bar eptir Jesú, og líka syni hans Alexander og Rúffus; hvørt þad hefir verid sá Alexander, sem umgétur í Postulanna Gb. 19 kap., ad Gydíngar hafi dregid fram af skaranum, þegar upphlaupid vard í Ephesusborg, eda sá Rúffus, sem Páll bidur ad heilsa til Rómaborgar, og kallar útvalinn í Drottni, vita menn ecki med vissu, þó mun Gudspjallamadurinn Markus því ad eins nefna þá, ad þeir hafi verid kunnugir og nafnfrægir ámedal safnadanna, þegar hann skrifadi sitt Evangélíum. En hvørnig sem þessu er varid, þá er hitt víst, ad einsog heilagur Andi gétur hér bædi Símónar og sona hans, svo verdur minníng ens réttláta í blessun, og þar er minnisbók

uppteiknuð fyrir Drottni uppá alla þá, sem óttast hans nafn; þeim, sem miskunsemina fremur, vill hann miskuna og ecki einúngis þeim, heldur þeirra sæði eptir þá, því hans miskunsemi varir frá einni kynslóð til annarar, yfir þeim, sem hann óttast. Hvørr, sem þessvegna er svo skapi farinn, að vilja draga saman til handa børnum sínum, hønum er besta ráð að ydka miskunarverkin, það er hinn óhættasti fjársjóður, því sæði ens réttláta og góðgjørðasama mun voldugt verða á jørðunni, og ætt þeirra góðu mun blessuð verða, segir Davíð, Ps. 112. — Símon þessi merkir og køllun heidíngjanna. Gyðíngar, innfæddir í Jerúsalem, vildu ecki bera Jesú kross, því verður þartil framandi maður, þó hann sé í fyrstu nauðugur. Þegar Gyðíngum varð sá krossfesti Jesús að hneixlun, þá erum vér, sem framandi vorum frá Israels borgar-rétti, tilknúðir af krapti andans, sem hefir téð sig krøptugann í Evangelíó, til að gánga undir krossinn, það er: leiddir til trúarinnar á þann krossfesta Jesúm, einsog hann segir í eptirlíkíngunni: Naudgið þeim hér inn að gánga, svo að hús mitt verði fullt; móti hvørri náð vér ættum að taka með auðmýkt og athuga, einsog Páll rádleggur: því ef Guð þyrmdi ecki þeim náttúrligu kvistum, má vera hann þyrmi oss ecki heldur, og því skyldum vér ecki gledja oss af orðinu út af krossinum, þar vér trúum. Jesús, ásamt sínum krossi, hefir borið vorar syndir, hvað fyrirmindað er forðum, með því, að Abraham lagði fórnar-viðinn uppá son sinn Isaak. Guð lagði á Jesúm vorar

syndir og bølvun løgmálsins; hefdi ecki svo verid, hefdi hann aldrei krossinn borid eda uppá hann fest-ur verid, en því bar hann vidinn, á hvørjum hann átti ad steikjast í reidi-eldi Guds, ad hann audsýndi sig ad vera þad Guds Lamb, sem ber heimsins syndir; þegar Gud skipadi Abrahami ad offra Ísaak, þá vildi hann ecki ad eins reyna trú hans, hlýdni og elsku, heldur teikna þetta blessada lausnargjald, sem hann hafdi ádur fyrirhugad, hvørsvegna hann ecki vildi láta deyda Ísaak, því hann hafdi tilætlad sinn eiginn son, hvad Abraham og fyrisá í trúnni, þar hann sagdi: Gud mun sjá sér fyrir fórnarlambinu, svo sem Jesús og sannliga er Lamb frá heimsins upphafi slátrad. En hafi nú Jesús, ásamt sínum krossi, borid vorar syndir, þá er þeirri byrdi létt bædi af mér og ødrum syndurum; sé hann burtskúf-adur af landi þeirra lifendu, þá þarf eg ecki ad hrekjast med sóla synda minna á baki frá augliti Guds í þad fúla eldsdýki, sem kallast sá annar daudi; og þar vér þessu trúum, skulum vér þess viljugri vera ad taka uppá oss Jesú sæta ok og léttu byrdi, ecki ad eins í hlýdninni, heldur þolinmædinni, med því þessi krossgángan Jesú hefir helgad, blessad og innvígt allt vort mótlæti; ecki einúngis hefir hann borid krossinn oss til forlíkunar, sem ádur er sagt, heldur til eptirdæmis, þar hann segir: ad hvørr sinn lærisveinn vilji vera, skuli hann uppá sig taka, og þarf enginn ad skammast sín þarfyrir. Um Krist er spád: ad hans høfdíngjadómur sé á hans herd-um; þad kalla eg, medal annars, hafi fullkomnast,

þegar hann bar krossinn, því fyrir hann hefir hann afklædt höfdíngjadæmin og leidt oss af þeirri grysju, sem ecki var vatn inni; skyldi eg þá skammast mín fyrir svo háleitt sigurmerki? einkum þar vér heyrum, ad hörmúngar Guds barna nefnast kross einúngis í Nýa-testamentisins bókum, í þá minníng, ad Jesús bar krossinn, svo þetta nafn er nú svo vegsamligt, sem þad var ádur smánarligt; því er þad heidur ad líkjast Kristi, einkum þar hann er svo miskunsamur, ad í því hann leid, kann hann ad hjálpa þeim, sem freistadur er. Ad þessu skyldu þeir gæta, sem naudgast undir krossinn einsog Símon; eg tala ecki um þá ógudligu, sem okid í sundurbrjóta, og vilja öldúngis ecki offækjast med krossinum, heldur þá, sem vilja ad sönnu med þolinmædi hlaupa í þá orrustu, sem þeim er fyrisett, en kvída þó fyri sér, sakir veikleika holdsins, sem er óþolinmódt og vill ógjarnan missa sitt eptirlæti; þeim er einsætt og óhætt ad bidja Jesúm ad hjálpa uppá vanmátt sinn, hann vill þad vissuliga gjöra, því Drottinn leggur oss ad sönnu byrdi á herdar, en hann hjálpar líka til ad bera hana. Ef sá, sem þurfti med þriggja brauda handa gésti sínum, gat med brekun sinni komid vini sínum á fætur um nótt, þá mun miklu fremur vor trúfasti vinur Jesús, þegar sjálfur hann sendir oss krossinn, láta oss eptir af sínum nádar-féssjódum, þær vistir, sem vér eigum þessum blessada gésti med ad fagna, sem er kjærleikurinn, trúin, og þolinmædin, þegar vér þess ydugliga og alvarliga á leit förum; aldrei þarftu, kristinn madur! þarum ad efast;

þótt enginn vilji við þig kannast, gétur Jesús ecki gleymt þér, því hann þeckir sína; þótt enginn aðstoði þig, veitir hann þér lið, því hann freistar einkis yfir megn fram; þótt allir forsmái þig og burtskúfi þínu nafni, þá er þitt nafn skrifað á himnum; þótt enginn hyrði um hvað þér líður, þá telur Drottinn þinn flótta og samansafnar þínum tárum; sértu þarfyrir kallaður undir krossinn, þá hlýð ecki fortølum holds og blóðs, sem er nauðunarsamt, heldur festu augun á þeim uppbyrjara og fullkomnara trúarinnar, Jesú, hvørr í stað þess fagnaðar, sem hann mátti hafa, leið krossinn, því hann aktaði ecki það spott og situr til Guðs hægri handar; hann hefir borið á undan, þú átt að gánga á eptir; hann bar þýngri partinn, þér er ætlaður sá léttari; krossgángan leiddi hann til dýrðarinnar, þig í sama máta, því fyrir margar hørmúngar byrjar oss inn að gánga í himnaríki; en þú átt að gæta þess, að það sé Jesú kross, en ecki ræníngjans, sem þú ber; það er: þú átt að varast að draka ok með ógudligum, svo þú þurfir ecki að verða með þeim hluttakari í straffinu, hvað ecki er rétt kallaður Jesú kross; hvarfyrir Pétur postuli gjørir greinarmun á því, að líða einsog þjófur og illvirki eða hlutsamur, og líða einsog kristinn. O, þú mikli krossberari, Jesú! sem sagt hefir: Þeim, sem yfirvinnur, vil eg géfa að skrýðast með hvítum klæðum, og hans nafn vil eg ecki útslétta af lífs-bókinni, og hefir til ævarandi minníngar uppteikna látið nafn Símonar og sona hans, sem eptir þér bar krossinn; minnstu mín í miskunsemi þinni

og gleym øllum mínum syndum; minnstu líka barna minna, og géf ad þau gángi í sannleikanum; lát þau hvíla undir skugga vængja þinna, og mitt og þeirra nafn vera skrifad hjá þér í lífsbókinni. Géf oss øllum, sem á þitt nafn trúum og sem nú eru umplantadir í þínu húsi, ad blómgast í þínum forgardi eylífliga, Amen!

## 31. Hugvekja.

Prédikun Krists fyrir kvinnunum.

En Jesú fylgdi eptir mikill fjøldi fólks og svo kvenna, sem grétu hann og aumkudu; en Jesús snéri sér til þeirra og sagdi: Þér, Jerúsalems dætur! grátid ecki yfir mér, heldur yfir sjálfum ydur; því sjáid! þeir dagar munu koma, á hvørjum segjast mun: sælar eru óbyrjur og þeir kvidir, sem ecki hafa fædt, og brjóst þau, er ecki hafa sogin verid; þá mun verda sagt til fjallanna: hrynjid yfir oss, og til hálsanna: hyljid oss!

Med tvennu móti er harmurinn, annadhvørt hjálpsamligur eptir Gudi, eda skadligur eptir heiminum; á hvørttveggja minnist Páll: Hrygd eptir Gudi verkar ydrun til sáluhjálpar, hvørrar madur mun ecki ydrast, en heimsins hrygd verkar dauda. Þessháttar heims-hrygd kann ad ské med mørgu móti: nockrir hryggjast, þegar þeir ecki fá svalad girnd sinni svo

sem Ammon og Achab; nockrir, þegar þeir eru orðnir til skammar með sína fyrirætlun, eins Achítophel; nockrir, ef þeir mega fara á mis við eigur sínar, einsog hinn ríki únglíngur; nockrir mæða sig í mørgu og velkjast í sorgum þessa lífs, hvað eg ætla sé allur fjøldinn. En yfirhøfuð að segja: kémur hrygð heimsins af því, að menn meta mikils þá hluti, sem heimurinn er fullur af, sem er: fýsn holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni, elska þá, og það eptir því, sem hvørr er lyndur til, svo einn berst við þennann hégómann, annar við hinn, þriðji hefir margt fyrir stafni í einu. Nú géta þeir, sem svo eru lyndir, aldrei farið á mis við sorg og óróa, því bæði vill þar svo margt til að ødlast þá hluti, sem heimurinn hefir mætur á, og þartil eru þeir svo sleppifengir og óstødugir í sjálfum sér; því er það heilla ráð fyrir alla þá, sem ecki vilja hryggjast eptir heiminum til dauða, að temja sér það hugarfar, að forsmá hann, hvað ecki sízt kann að ské með því móti, að vér setjum oss fyrir sjónir, hvørsu allt stundligt sé hverfullt, sem menn þó plaga að gángast fyrir, hvað vér kunnum að sjá á høgum hans, meðal annars, sem settur var erfíngi allra hluta, en hafði þó ecki, hvar hann kynni að halla høfði að, nefnil. Jesú Kristi, þegar hann bæði bætti fyrir ofmetnað vorn, og líka undireins kénndi oss, hvørs þeir mættu vænta í heiminum, sem stunda eptir því óhræranliga ríki, hvørt hann með sinni fyrirlitníngu afrekaði. Vér heyrðum nú strax, að þegar hann, með mikilli vesæld, forsmán og harmkvælum, ber

krossinn út af Jerúsalem, þá fylgdu hønum vinir hans grátandi til aftøkustadarins, sem skømmu ádur høfdu súngid sitt fagnadarríka hósíanna, út af øll-um þeim dýrdarverkum, sem þeir høfdu heyrt og séd, þegar hann reid inn til Jerúsalem; ó, hvørsu snøgg umskipti urdu hér! þá fylgdu vinir hans hønum inn sýngjandi, nú gánga þeir út med hønum grátandi; þá reid hann á øsnu, nú liggur krosstré á baki hans; þá voru breidd undir hann klædi, nú er hann af-klæddur sínum eigin klædum; þá dreifdu þeir kvist-um á veginn, nú ber hann þyrni-kórónu; þá var hrópad: Blessadur veri sá, sem kémur í nafni Drott-ins! nú var kallad: burt med hann! þá géck fólkid ámóti hønum, nú reka þeir hann, sem óbóta-mann á undan sér; þá þjónudu hønum lærisveinarnir, nú leida hann stríds-þrælarnir. Hafi nú Herra himins og jardar mátt reyna þetta brygdlyndi, þá er fávitska fyrir oss þrælana og aumíngjana ad ætlast til betri kosta, einkum eptir þad, vér erum gengnir í hans þjónustu, hvørs ríki ecki var af þessum heimi; og hvad skyldu menn ætla uppá stadfast gengi í þessari verøld? hún er þá allra følskust, þegar hún lætur all-ra blídast. Saul vill láta Davíd gángast upp vid þad, ad heita mágur konúngsins, svo hann falli í hendur Philistæanna; þegar Ammon er gladur í Ab-salons géstabodi, er hann sleginn í hel; þegar Ham-an er bodinn í veitslu drottníngarinnar, er hønum ólucken hugud; Uría fylgir konúngligur skeinkur og undireins banabréfid; hvad skal eg þá mæda mig med því ad elska þad, sem ecki sýnir mér stødugri

rækt enn svo? og hvað meira er að segja: það gétur svo fallið, að hlutir þeir, sem allra ágætastir og yndælastir eru, verði að mesta sorgar-auka. Jesús segir hér: að þeir dagar muni koma yfir Jerúsalem, á hvørjum menn mundu kalla óbyrjurnar heppnar. Hvørsu mikils metið var á þeim døgum að fæða børn, og hvílík fyrilitníng þókti að óbyrjuskapnum, er kunnugra enn frá þurfi að segja; en þar kom, að frjóssemin og barngétnaðurinn varð Jerúsalems mæðrum að mesta harmi, þegar þær sáu børn sín kveljast af hungri, falla fyrir sverði, seljast í þrældóm, og líða allskyns ófarir, hvørsvegna ríkis-kona nockur neyddist til að eta lífs-ávøxt sinn. Svona kann nú að fara fyri fleirum, að það, sem þeim þókti vænst um, verði þeim til mestu hugraunar; því virðist mér ecki heimurinn, né heldur neitt, er í augunum glansar, þess verðt, að eg þreyti mikið huga minn með því, þar eg sé, að á þvílíkri óróssemi verður enginn endir, hvørt heldur eg hreppi, þar kémur ætíð annað og annað, ætíð nýtt og nýtt, svo sá hefir nóg að gjøra, sem mæðir sig með elsku fallvaltra hluta, og — hvað yfirtekur — hann tapar þeirri unaðsemd, sem hann hafa skyldi í Guði sínum, gjørðist svo hans óvinur, missir leiðsøgn Andans, en hrapar í skaðligar girndir, og þannig verkar hrygð heimsins dauðann. En hvílík er þá sú hrygð eptir Guði, hvørrar ecki þarf að ydrast? hún kann og að vera með mørgu móti, svo sem: þegar menn hryggjast af sínum viðloðandi brestum og ófullkomligleika, einsog Páll; af illu athæsi, sem framfer, Guði til styggðar,

einsog Loth; af eptirlaungun Guds adstodar, einkum þá madur heyrir brixli annara, einsog Davíd; en þó einkum og allrahelzt, þegar menn hryggjast af því, ad þeir módgad hafi þann góda Gud og fá hjartanliga laungun til hans nádar, og því segir postulinn, ad hrygd eptir Gudi verki ydrun. Hvílíka hrygd hafdi Davíd, sú bersynduga, tollheimtumadurinn, Pétur og fleiri adrir, af hvørjum dæmum sumumhvørjum má og sjá, ad hún pressar opt tárin af augum Guds barna, og til hennar rædur oss Guds Andi mjøg þrásamliga; en til þessarar hrygdar er eckért krøptugra medal, enn ad virda gaumgæfiliga fyrir sér pínu vors Jesú. Lofverdt er ad vísu dæmi þessara kvenna, sem Herranum eptirfylgdu grátandi, því þarmed sýndu þær elsku þá, sem þær høfdu á hønum; en þó á ecki vor harmur af hans pínu ad vera fólginn í því, ad vér aumkum hann, einsog þær, því ad því sann hann; hann er nú líka frá ángist og øllum harmkvælum upphafinn til eylífrar vegsemdar, og er hønum því marklítil þjónusta í medaumkun vorri; þarfyrir segi eg ecki ad Drottinn áliti þad ecki nádarsamliga, þegar kristinn madur í einfeldni hjarta síns fellir medaumkunar tár, þegar hann heyrir talad, eda sjálfur hugsar um Jesú pínu, þad kann og ad innræta hønum margann gódan þánka; hitt segi eg, ad vor harmur af Jesú pínu, á ecki ad vera einúngis medaumkun, einsog þegar vér sjáum eda ímindum oss eitthvad aumt, því vér megum ecki meta pínu vors Jesú í hjarta voru, einsog einbera kvøl og þjáníngu góds og réttláts manns, heldur

sem lausnargjald vort og borgun fyrir syndirnar, og því á þad ad vera helzta ástæda harma vorra, sem hann segir hér: ad vér grátum yfir sjálfum oss, grátum yfir syndum vorum, sem deydt hafa Høfdíngja lífsins. Guds løgmál afmálar ad sønnu vidbjód syndarinnar og hennar straff, en svo þú, syndugur madur! sjáir þad sé meira enn í ordi kvednu, þá virdtu fyrir þér, hvørnig Jesús var útleikinn, þá á hann hlódst straff synda þinna og bølvan løgmálsins, og gæt þess undireins, ad hann var Guds náttúrligur Sonur; en ef svo géck hardt ad hønum útvortis, ad hann var líkari madki enn manni, svo jafnvel týranninn aumkadi hann, og innvortis svo, ad hann kvadst af Gudi yfirgéfinn, hvad heldur þú þá hefdi ordid um þig, sem ert hey og gufa, hefdir þú átt ad mæta Guds reidi eylífliga? því ecki var þess von, ad hún mundi hafa kunnad á þér ad sefast. O! skyldi oss þá ecki til hugar koma ad gráta þaraf, ad Guds Sonur ørþjádur, afskræmdur, spottadur og hørmuliga kvalinn er einsog hann kalli til vor og segi: þú hefir látid mig erfida í þínum yfirtrodslum? Ætti oss ecki ad gánga þad nærri hjarta, sem gjørdi hans sálu hrygga allt í daudann? megum vér ecki skammast vor fyrir þeim hærsta dómara, ad vér høfum deydt Son hans? er þad ecki nóg, ad vér høfum krossfest hann einusinni, þó ecki gjørum vér þad á ný, med þverúdarsamligri ydkun glæpanna? en þad er þó sem yfirtekur, ad Guds Sonar blódugur sveiti, húdstroka, krossfesting, forsmán og beiskur daudi, hefir þó ecki svo deydt í oss hinn gamla

manninn, ad vér tækjum oss abl af hans dauda og upprisu, til ad deya frá syndinni, en lifa réttlætinu. Þegar eg, aumur madur! hugsa til þess, hvørsu óþacklátur eg er fyrir Jesú pínu, dofinn, kaldur, andvaralaus og óstødugur í mínu ydrunarverki, mætti eg þá ecki setja þad fyrir mig, ad einsog Jesús fyrisagdi hér Jerúsalems borgurum þad straff, sem þeir ecki gættu ad, en Gud hafdi ályktad, svo mun Drottinn hafa hugsad sér, ad leida yfir mig ólucku og vitja synda minna, þegar hans tími kémur? má þá ecki umþenkíng þessi vekja mig til ad gráta mínar syndir og leita í tíma lags vid, ad flýa fyrir tilkomandi reidi? En þegar svo er komid, þá mun Jesús ecki draga lengur í hlé sín pínslar-sár, heldur sýna mér í Evangélió ávøxt sinnar pínu, sem er syndanna fyrirgéfníng; þar kémur þad fram, ad hrygdarinnar eptir Gudi muni enginn ydrast; því þegar ydrandi madur af umhugsan Jesú pínu, grætur sønuum ydrunar-tárum eptir Guds nád, þá fær hann undir eins ad smacka hve sætur Drottinn er, og blandast svo ydrunar- og eptirleitar-tárin saman vid fagnadar-tár, þegar hann í andanum og trúnni finnur sinn Frelsara, einsog þá Jóseph og Benjamín grétu af feginleika, og fullkomnast þá, þad skrifad stendur: Þeir, sem med tárunum nidursá, munu med føgnudi uppskéra, því Guds ríki er réttlæti, fridur og føgnudur í heiløgum Anda. O, Jesú! sem fyrisagdir Jerúsalems innbúum þad straff, sem koma mundi yfir þá og nidja þeirra, af því þeir þecktu ecki sinn vitjunar-tíma, lát mínar syndir fyrir þína

dýru fórn, einsog ský afmádar verda, svo hvørki komi þeirra gjøld fram vid mig né nockurn annann eptir mig! Bænheyr þad, Drottinn minn! fyrir þitt háleita nafn, Amen!

## 32. Hugvekja.

### Um græna og visna tréd.

Ef þeir gjøra þetta vid þad blómgada tréd, hvad mun þá ské vid hid þurra?

Jesús hafdi í fyrifarandi ordum fyrisagt þad straff, sem koma mundi yfir Jerúsalem, hvar inni allir ydrunarlausir eiga óskilid mál, því þeir munu segja til fjallanna: fallid yfir oss, og til hálsanna: hyljid oss. En í þessari grein, hvarmed hann ályktadi sína kvedjuprédikun til kvennanna, færir hann røk til þess, af samlíkíngu þess græna og visnada trésins, þeirrar meiníngar: ef menn høggva upp og brenna frjóssamt tré, þá er ecki líkligt þeir láti þad standa, sem fúid og ónýtt er; ef Guds reidi fellur yfir mig, heilagann og réttlátann, hvad mun þá ské vid óvini Guds og umbótarlausa syndara? og samhljódar þetta því, sem Jóhannes segir: Øxin er sett til rótar trjánna, því mun hvørt þad tré, sem ecki færir gódann ávøxt, upphøggvast og í eld kastast. Hér skulum vér læra: ad Jesús, Guds og Maríu Sonur, er þad græna og ávaxtarsama tré; hann er sá réttláti kvistur, sem Drottinn hét ad uppvekja Davíd, og sú ávaxtarsama

grein af rót Jessæ; hvað kunni blómligra að vera enn Guð í mannligri náttúru? en í Kristi býr øll fylling Guðdómsins líkamliga, hvør eð verkaði allrahanda ávøxtu, sem sjálfkrafa spruttu af þessu lífsins tré, einsog þá Arons vøndur blómgaðist af sjálfum sér; Guð hafði smurt hann með viðsmjøri fagnaðarins, og meddeilt hans manndómi óendanligar gáfur, hvørjar útstrjáluðu sínum ávøxtum til mannanna sona, hvaraf og þekkjast mátti, að hann væri sendur heiminum til lífgjafar; það sagði hann við lærisveina Jóhannesar Skírara: Kunngjørið Jóhannesi, sagði hann, hvað þér heyrið og sjáið: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, dauðir upprísa og fátækum boðast Evangélíum; og sømu røk brúkaði Pétur í Kornelíusar húsi, til að sanna, að hann væri heimsins Lausnari, þá hann segir: Jesúm af Nazareth smurði Guð með heiløgum Anda og krapti, hvørr eð um kríng gékk, gjørði gott og græddi alla þá, sem af Djøflinum voru undirþryktir. Sætt smøkkuðu þessir ávextir mønnunum, einkum þeim, er fundu hunáng á hvørjum kvisti; því einsog øll hans verk voru heiløg, heilnæm og huggunarrík, svo voru og øll hans orð og umgengni; hann sagðist vilja endurnæra alla þá, sem erviðuðu; hann meðtók þá bersyndugu og át með þeim; hann fann krapt út af sér gánga, þegar þeir veiku snertu hann; hann kallaði á þá, sem beiddu hann að hjálpa sér, þegar aðrir skipuðu þeim að þegja, og engann rak hann frá sér allt fram í andlátið; hans rykti gékk ekki einúngis út um allt Gyðíngaland, heldur allt Sýrland og um-

kríngliggjandi lønd, og nú eptir hans upprisu um allann heiminn, hvar hans brúdur skémtir sér vid þessa ávexti og segir: þínar ylmanir eru gódrar lukt-ar, þitt nafn er einsog útsljótandi vidsmjør. Sæt-ann ylm luktadi líka sjálfur Gud af þeim ávøxtum, og hafdi staka velþóknun á þessu græna tré, einsog þad auglýsti sig vid ána Jórdan; þegar hann fædd-ist, dansadi himininn, og Englar súngu dýrd Gudi í upphædum; þá fagnadi jørdin yfir fridnum og Guds velþóknun á mannkyninu; hyrdararnir, sem heyrt høfdu til Englanna og fundid barnid, lofudu glad-værir Gud fyrir allt, sem þeir høfdu heyrt og séd; ad eg ecki tali um Maríu, Elízabeth, Zacharías, Sí-meon, Önnu og ønnur gudhrædd hjørtu. Þar nú þetta góda tré þóknadist Gudi og mønnum, var lík-ligt ad hefdi mátt standa ángurlaust, en því var ecki svo varid, heldur var Jesús plágadur, hæddur, hat-adur, hrjádur og hrakinn, og þad, þegar í frá barn-dómi, en þó einkum í pínunni, þegar reidistormur Guds geysadi yfir hann, svo hann skókst, skalf og titradi, sem ljóst er af hans lífs- og pínslar-søgu. En hvad olli þessu? hvørnig er Gud hønum reidur, í hvørjum hann hefir alla velþóknun? hvørsvegna straffast hann, sem ecki vissi af synd? því er hann hrjádur af heiminum, sem heiminum gaf líf? Þad kénnir Jesús hér, þegar hann nefnir visna tréd; þvíad allt mannkynid í heiminum var þornad tré; ef rótin er heiløg, þá eru kvistirnir heilagir, segir Páll, eins má og segja: ef rótin er eitrud, þá eru kvistirnir eitradir. Adam var ad sønnu heilagur og réttlátur

skapadur, en hann eitradist og spilltist allur í fallinu; en einsog hann vard, svo urdu limirnir, þad er mannkynid, svo þar er enginn, sem gott gjørir, ávertirnir eru ecki ad eins engir, heldur eitradir ránglætis ávertir, Sódóma vínber, fjandskapur ígégn Gudi, því géck oss einsog trénu, sem gétur um hjá Lúkasi í 13 kap., sem Herrann skipadi upp ad høggva, svo þad hindradi ecki gardlendid; en þegar svo var komid, aumkadi oss Guds Sonur og bad oss vægdar, einsog gardvørdurinn, sem bad ad lofa trénu ad standa eitt árid enn; en þad leid ecki Guds réttlæti, nema med því móti, hann sjálfur tæki ad sér ad rækta hid þurra tré, og tæki ecki ad eins uppá sig syndanna gjøld, heldur kæmi því lagi á, ad þad kynni framvegis ad verda frjóssamt; þarfyrir hefir hann vorri náttúru íklædst, og í henni géfid frá sér vøkvann, bædi til ad fridstilla Gud og líka ad koma vetskja í þær þurru greinir, þad er hans blód, sem hreinsar samvitskurnar af daudum verkum til ad þjóna Gudi lifanda; því er hann svo hørmuliga útleikinn, ad hans sorg og hádúng yrdi fridþægíng syndugu mannkyni, hann er ad synd gjørdur, svo vér yrdum Guds réttlæti; hann hristist ecki ad eins, sem tré fyrir stormi, heldur pressadi reidi-eldur Guds hans vøkva svo út, ad hann sveittist blódinu, hvarmed límdir eru vid hann þurru kvistirnir, svo þeir blómligir yrdu í trúnni og kjærleikanum og gódum verkum, því hvørr í hønum blífur, ber mikinn ávøxt; og þetta skédur nú í skírninni, þá vér, fyrir nád endurfædíngarinnar, fáum krapt af hans dauda og

15

uppriſu, til deydíngar þeſs gamla og upplífgunar ens nýa manns: ſvo er hann þá kvalinn bædi til ad ſætta oſs vid Gud og innplanta ſjálfum ſér; en med því hann hafdi þetta ad ſér tekid, leid ecki Guds ſannleiki og réttlæti, ad hans hold upphefdiſt á Guds tignarſtól, fyrr enn þad var útrétt fyrir hans kvöl og dauda, einsog hann ſjálfur ſegir: Byrjadi ecki Kriſti þetta ad líða, og inngánga ſídan í dýrd ſína. Af þeſſu er merkjandi: ad fyrſt Gud vildi endiliga ſtraffa ſinn Son fyrir annarligar ſyndir, þá lídur hann ecki ránglætid ſtrafflauſt á þeim ydrunarlauſu, og þetta er ſú helzta áſtæda og meiníng þeſſara Jeſú orda. O! hvörſu villt og blind er ſú mannſképna, ſem dag eptir dag liggur vísvitandi í ſyndum og glæpum, í þeim fávitſku þánka, ad fyrſt Gud ecki ſtrax ſtraffar, þá muni hann leida hjá ſér vondſkuna framvegis, og því ſé öllu óhætt, Gud hafi því gleymt, hann hafi byrgt ſitt andlit og ſjái ecki framar, og þeſsir eru þánkar enna ógudliga, einsog Davíd kénnir: Varid ydur á þeſſu, ó, þér fávíſu börnin! vitid, ad Drottinn þegir ecki æfinliga, heldur vaknar hann umſídir; eg þegi um ſtund og er hljódur og aptra mér, en nú vil eg ſvo hátt hrópa, einsog ſú er barn fædir, og eg vil eyda þeim og uppſvelgja þá, ſegir hann ſjálfur. Þad græna tréd var ecki ſparad, ſkyldi þá ecki miklu framar þad tré, ſem ecki gjörir gódan ávöxt, upphöggvaſt og í eld kaſtaſt? ef dómurinn byrjaſt á Guds húſi, hvad mun þá ſké vid þá, ſem ecki trúa Evangélíó? og ef ſá réttláti verdur naumaſt hólpinn, hvar mun þá ſynd-

arinn byrtast? Þessvegna, ó madur! ef Drottins þolinmædi lídur þig og dregur undan straffid, þá haldtu hans seinlæti þitt hjálprædis medal. Jésús bidur ecki, ad þú skulir standa æfinliga, heldur eitt árid enn, eda svo lengi, sem hans miskunsemi sýnist fullreynt vera til vid þig; brúka þann tíma til ad leita Drottins, en ecki til ad uppfylla mælir syndanna. O Gud! vertu mér syndugum líknsamur! eg hefi lengi stadid ávaxtarlaus og visinn fauskur, en upprættu mig þó ecki í þinni reidi; hyl mig, ó þú græna tré, Jesú! á tíma reidinnar, því eg forlæt mig uppá þitt vængja-skjól, þartil ólucfan er framhjá farin. **Loksins** eigum vér héraf ad læra, ad oss byrjar mótlæti ad lída; því hafi þad græna tréd mætt hrakníngi, þá er ecki ad undra þó oss hendi þad sama. Guds Sonur géck inn í sína dyrd gégnum pínsl og dauda, svo byrjar oss fyrir margar hörmúngar inn ad gánga í Guds ríki; hann slapp ecki undan, sem hvörki mótgáng né dauda hafdi verdskuldad, hvad þá vér, sem berum vonda ávexti, þar verdlaun syndarinnar er daudinn. En þó þessu sé svo varid, megum vér samt í öllu andstreymi hugsa til Jesú, og svala oss í hans nádarvökva. Jónathans augu opnudust fordum, þá hann drap sínum stafsenda á húnángid, svo hann hresstist og lifnadi vid, en miklu framar upplýsast augu vor, sem trúum, í öllu mótlæti, þegar trúin smackar þá sætu ávexti, sem framfljóta af velgjörníngum Jesú, hvörr ad er lífsins braud, sem af himnum er ofankomid og heiminum géfur líf, því þá sannfærast þeir um, ad enginn fær

þá af hans hendi slitid, verda því máttugir midt í vanmætti sínum, fyrir krapt hans, sem í þeim byggir. O Herra Jesú! þú græna tré, sem pressadur ert mér til lækníngar og vøkva! snú þér til mín í øllu mínu mótlæti, svo vokvi gædsku þinnar endurnæri mitt hjarta, og verdi í mér sú uppspretta, sem framflýtur til eylífs lífs, Amen!

## 33. Hugvekja.

### Um Krists krossfestíngu.

En tveir spillvirkjar voru einnig útleiddir med Jesú, ad þeir ásamt hønum væru líflátnir. Þeir leiddu hann út á þann stad, sem á hebresku hét Golgatha, sem þýdir á norrænu høfudskelja-stad. Þeir gáfu hønum edik ad drecka, samblandad víni, myrru og galli; en þegar Jesús smackadi þad, vildi hann ecki drecka. Þeir krossfestu hann á þessum stad Golgatha og þá tvo spillvirkja med hønum, einn til hægri og hinn til vinstri handar, en Jesúm í midid. Þá uppfylltist ritníngin, sem segir: ámedal spilvirkja er hann reiknadur.

Vér lesum í Opinb. b. Jóhannesar 5 kap. ad hann sá midt ámilli stóls øldúnganna og þeirra fjøgra dýra, standa lamb, einsog því væri slátrad. Þad, sem þeir útvøldu sigrihrósandi una sér vid frammi fyrir Guds stóli á himnum, þad sér sú strídandi

kyrkja í trúnni hér á jørdunni, Lambid Guds, Jesúm Krist, slátradann og fórnfærdann til sætleiks ylms Gudi; því hann er oss í ordinu afmáladur og medal vor krossfestur, og nú erum vér komnir ad hans fimta pínslar-stad, sem er fjallid Golgatha, hvar þetta blessada Lamb var fullkomliga slátrad; híngad til hefir hann verid búinn undir fórnfæringuna, en hér er fórnin upptendrud; lyptum því upp hug-skotsins augum og horfum á, því hér fáum vér ad sjá, ecki ad eins fullkomnun lausnargjaldsins, heldur hid skærasta kjærleikans og þolinmædinnar eptirdæmi og fullkomna reglu til ad deya sáluhjálpliga á burt úr heimi þessum. Vér heyrum nú fyrst af pínslar-søgunni, ad þegar strídsmennirnir eru komnir med hann í aftøkustadinn og farnir ad framreida pínslar-færin, þá gèfa þeir hønum ad drecka myrrublandid vín med galli meingad, hvad Jesús ad sønnu smack-adi, svo spádómarnir uppfylltust, en vildi þó ecki drecka, uppá þad, hann ecki stytti fyrir sér kvølina, heldur til lykta leiddi allt hvad um hann var ritad. En vér skulum þad hérаf læra, ad einsog hann hafn-adi hér gallblandinu, svo burtskúfar hann frá sér allri hálfvelgju og hræsni, í hvørn helzt máta, sem hún framkémur vid hann eda limi hans. Gallbland má kallast fyrst og fremst allt undirferli og falls, sem forblómad er med føgrum ordum, en þad fram-bera allir þeir, sem gjøra munn sinn klóckvari enn vidsmjør, en hafa þó stríd í sinni; þad má líka heita allt þad gudrækniss-skin, sem ecki hefir art sannrar gudhrædslu, heldur nálægist Gud ad eins med vør-

unum; líka øll sú vinátta, sem ecki er af hreinu þeli, og lokíins sú ydrun, sem er án sannrar trúar, án hvørrar ómøguligt er Gudi ad þóknast, eda hafa nockra sonarliga vidleitni til ad gjøra hans vilja; engin þesshattar óheilindi vill Gud hafa, því hann er trúfastur og sannleiksfullur, og hatar alla hræsni og ódygd. En líka sem þetta er oss til vidvørunar, svo er og hitt til huggunar, ad þó vér med Jesú megum smacka á súru í heimi þessum, og fá fleytifullann mælir tára, þá er þad øllu gott fyrir oss, því fyrst hann smackadi sjálfur þad beiska, þá bædi vill hann og kann ad hjálpa þeim, sem freistadur er; hann sjálfur drack þad bølvada og banvæna, svo þad yrdi blessad og heilnæmt, sem oss er ætlad, og vér megum trúgódir bidja og segja med spámanninum: Straffa þú mig, Drottinn! þó med réttlæti, ecki í reidi þinni, svo þú gjørir mig ecki ad engu, og þetta skédi nú, þegar hann gjørdist bølvan fyrir oss, og var hengdur uppá tréd, einsog Gudspjallssagan segir: Þegar þeir komu á þann stad, sem kalladist hausaskéljastadur, þar krossfestu þeir hann. Þetta var hid forsmánarligasta lífs-straff, sem brúkad var vid verstu glæpa-menn og illþýdi, engu álitligri enn hengíngin nú á døgum, en þó miklu kvalrædisfyllra, þar bædi var líkaminn teygdur lid frá lid, til ad hegda hønum eptir trénu, og svo líka rekinn járnfleinn ígégnum lófana og risturnar, á hvørjum fjórum járngøddum hánga mátti allur líkamans þúngi, med enni mestu forsmán og kvalrædi, yfrid lángann tíma, uns þeir krossfestu sloknudu lokíins útaf med láng-

varanligri kvøl. Þetta kvalafulla straff mátti nú sjálfur Guds Sonur líða, þegar hann galdt vorra synda skuld, hvørsvegna vid, mín sála: hvørjum sá krossfesti Jesús er Guds kraptur og vísdómur, skulum þess heldur láta þessa hans krossfestíngu gánga ockur til hjarta, og virda hana fyrir ockur í trúnni. Eva formódir vor, rétti fyrst høndina til eplisins, sem Gud hafdi bannad, og sídan ad munninum; nú eru Jesú hendur teygdar út fram med trénu, og ad hans munni borid edik og gall. Eptir fallid stódu þau Adam og Eva nakinn milli trjánni; nú hángir Jesús nakinn á trénu. Þar sem Adam og Eva stódu, kvaldi þau samvitskan og hrædiligur ótti fyri Guds reidi, og vildu því fela sig fyrir Gudi, hvørs rødd þau hræddust; þar, sem Jesús héck, fann hann ad sønnu til Guds reidi og helvítis ángistar, þó var hann sér engra synda medvitandi, heldur var þá ad útrétta Guds vilja, og því skammadist hann sín ecki, né vildi fela sig, heldur sýndi sig opinberliga Gudi og mønnum, einsog lýtalaust fórnar-lamb; en þared allir menn fengu af Adams óhlýdni alla ólucku, syndina, daudann og fordæmínguna, svo vard og þetta Jesú fridþægíngar offur øllum mønnum orsøk til allrar blessunar, og innleiddi réttlætid, lífid og sáluhjálpina, einsog postulinn kénnir, segjandi: Líka sem fyrir eins manns óhlýdni eru margir syndugir ordnir, svo verda margir réttlátir fyrir þess eina hlýdni; og enn framar: Þó hann væri Guds Sonur, hefir hann þó, í því hann leid, hlýdni lært, og þá hann fullkomnadur var, er hann ordinn øllum þeim, sem

hlýðugir eru, orſøk eylífrar sáluhjálpar. O, hvørſu mikil ſekt mátti það þá vera, ſem útkrafði þvílíka borgun! O, þú eylífi æðſti kénnimaður, minn Herra Jesú! hvørnig ertu útleikinn, þegar þú ert að borga fyrir ſyndir mínar? Þú hefir ecki blóðugar hendur af kvikinda blóði, einsog ſá æðſti kénnimaður forðum, þegar hann var að forlíka fyrir fólkið, heldur af þínu eigin blóði, Guðs blóði, ſem fullkomna kvittun ſyndanna kann að afreka betur enn fénaðarblóðið forðum, ſem var árlig minníng ſyndanna, en gat ecki burt-tekið þær. En hvaða ſár eru þar í høndum þínum? minn elſkuligi! það eru markteikn minna blóðugu illgjørða; yðar ſyndir byrgja Guðs andlit frá yður, ſvo hann heyrir yður ecki, því yðar hendur eru af blóði ſaurgaðar, ſegir ritníngin; þeſsvegna eru ſárin í høndum Lauſnara míns, að blóðið, ſem dundi af þeim, þvær blóðið af mínum høndum, það er: hreinſaði og afmáði ſaurugleika minna vondu verka; mitt réttlæti er einsog ſaurugt klæði blóðfallsſjúkrar konu; en ef ſvo er réttlætið, hvað mun þá ránglætið? Þeſsi ſaurgun fæſt ecki afþvegin, nema í þeim opna uppſprettu-brunni, ſem Drottinn hefir ſett í Zíon, til að afþvo Jerúſalems ſaurindi; hann ſé eg nú opnaðann, þegar eg horfi á þau bleſſuðu naglaſør í høndum Lauſnara míns; þarí ſkal eg ſtínga fíngri trúar minnar og ſegja: Drottinn minn og Guð minn! af þeſſu ſkal eg dæma, að eg ſé teiknaður í báðar Jeſú hendur, og úr þeim fái mig enginn ſlitið. Enn framar: þá eg hugleiði kroſsfeſtíngu míns Drottins, ſé eg fæturna eins útleikna og

höndurnar; svo var líka á mér; einsog höndurnar voru líka fæturnir blóðugir; á vegum mínum hefir verið ógæfa og hjartasorg, og friðarins veg þeckta eg ecki; því bar mér að bindast á höndum og fótum og kastast í hin ytstu myrkur; því eru nú fæturnir, sem gengu um kríng til að gjöra gott: þeir fætur, hvörra skör jörðin er, og eru sem glóandi látún: þeir fætur, sem litaðir eru blóði ormanna, svo fastir, að þeir géta hvörgi hrærst, og í sínu eigin blóði litaðir, uppá það, að gángrúm gjörðist fyrir fætur mína og þeir greiddust fram á veg friðarins; því skal eg að þessum blessuðu fótum lúta, þá kyssa og á þeim þreifa í andanum og trúnni, og einsetja mér að feta í fótspor hans, er svo mikið hefir fyri mig liðið, bæði mér til forlíkunar og eptirdæmis. En hvað skal eg segja? eg finn mig vera hneigðann til alls íls; o, að mitt óstýriláta hold mætti krossfestast með þér, Lausnari minn! svo eg fái sagt með postulanum: Eg er með Kristi krossfestur. O, að eg mætti frá allri synd svo bundinn og hindraður vera, einsog þú varst negldur við krossinn, uppá það minn andi þjóni þér hindrunarlaust! Þetta veitstu, Drottinn minn! eg af hjarta girnist, þarum skal eg og dagliga biðja, og bera svo þína kross-minníngu í hjarta mínu, að eg leiti lags við á hvörjum degi að krossfesta holdið með þess girndum og tilhnegíngum, og aldrei ljá mína límu til ránglætis verkfæra syndinni, heldur til réttlætis verkfæra Guði, því þá loksins fæ eg sagt með góðri samvitsku: gjöri mér hér eptir enginn ónæði, því eg ber benja-merki míns Jesú

á mínum líkama. Því skyldi eg nú þetta ástunda, þar þú, heilagur, hreinn og fráskilinn syndunum, hvørn Fadirinn helgadi og í heiminn sendi, ert í þinni krossfestíngu med spillvirkjum reiknadur, eins og sagt hafdi Esajas spámadur. Þetta er án efa skéd til þess, minn Herra! ad einsog þú gékkst í minn stad, og tókst vid mínum illverkum, svo skyldi eg fá barnaréttinn og verda í útvaldra tølu reiknadur fyrir þessa hlýdni þína; og þar eg hefi þessa von til þín, þá ætti mér ad vera umhugad ad hreinsa sjálfan mig, einsog þú ert hreinn, og útsløckva ecki med vísvitandi syndum, þann góda sonarleifdarinnar anda, fyrir hvørn eg kann ad segja: Abba Fadir! En þó mér kunni margt á ad verda, og holdid fái á stundum yfirhønd, þá muntu samt ecki øldúngis burtskúfa mér, þú, sem bedid hefir fyrir yfirtrodslu-mønnunum, undireins og þú varst reiknadur med spillvirkjum. Hvad er þá eptir? og hvørnig skal eg framar nýta mér þína krossfestíngu? eg vil hugsa um hana svo lengi, sem eg lifi, eg vil hrósa mér undir sigurmerki krossins, hvad, sem ágengur, þad skal vera minn vísdómur, mín audæfi, mín vegsemd ad una mér vid þig, minn krossfesti Jesú! Eg hélдt mig eckért vita, nema Jesúm Krist, og hann krossfestann. Uppá þetta forlíkunar-altari skal eg offra øllum mínum andvørpunum, hvad, sem mér áliggur, og þarvid hvíla huga minn í allri sorg og andligu volædi, ad fyrir þitt krossblód, hefir Gud fridgjørt og forlíkad fyrir þig alla hluti vid sjálfan sig; svo er eg þá líka forlíktur og skal þessvegna segja, þegar

sála mín verdur órólig, og mér stendur ógn og kvídi af Guds reidi: sú dýra kvøl Jesú Krists, sem skédi á krossinum mér til forlíkunar, sé og veri medtekin af Gudi fullkomin borgun fyrir allar mínar syndir, og ein eylíf óbrygdanlig sáttargjørd. Þessu hefir þú, himneski Fadir! lofad, sem sendir þinn Son, svo ad heimurinn frelsadist fyrir hann; þessu hefir þú, Jesús! lofad, sem mig elskadir og gafst þig sjálfan út fyrir mig; þessu hefir þú, heilagur Andi! lofad, sem stadfest hefir í mér vitnisburdinn Jesú; hér uppá er eg inntekinn í þinn nádar-sáttmála og skírdur í þínu nafni, ó þú blessada þrenníng! svo reidi eg mig þá hér uppá, í nafni Fødurs og Sonar og heilags Anda, Amen!

---

## 34. Hugvekja.

### Fyrsta ord Krists á krossinum.

Jesús sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim þad, því þeir vita ecki hvad þeir gjøra.

---

Þad er nærsta huggunarríkur sannleiki, sem skrifadur stendur í sendibréfinu til Hebr. 9 kap.: Kristur er einusinni offradur til ad burttaka margra syndir. Tvennt kénnir os hér heilagur Andi: fyrst ad Kristur sé offradur, þad er: píndur og dáinn, og þad einusinni, því hans fórn var fullkomid lausnargjald, og þurfti ecki optar ad ítrekast; þar næst: til hvørs hann sé fórnfærdur, sem er: ad burttaka

margra syndir; hvørttveggja audsýndi Jesús í krossfestíngunni; því þegar þeir negldu hann blessadann ofan á tréd, snéri hann augunum og breiddi fadminn móti sínum himnesska Fødur, svo sem hlýdnasta og elskuríkasta barn, flaut þar í blódi og tárum, skjálfandi, nakinn og vanmáttugur af ofbodi kvalanna; þar med audsýndi hann sig einsog opinbert forlíkunar offur; en einsog þá var af kvølurunum framid þad skammarligasta illvirki, sem nockurntíma hefir fyrir Guds augu komid, til ad svívyrda med hans guddómligu hátign og upphvetja hans reidi, svo féck nú þessi ædsti Biskup, sjálfur kénnimadurinn, sjálf fórnin, hid hentugasta tækifæri til ad sýna, til hvørs hann væri krossfestur, sem er: ad burttaka margar syndir; þarfyrir bidur hann med upplyptum augum og útbreiddum ørmum sinn himneska Fødur líknar sínum kvølurum, og vill þeir njóti líka ávaxtarins af sinni pínu og segir: Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvad þeir gjøra, svo hann framkvæmdi hér báda parta síns embættis, þess kénnimannliga: bædi ad fórnfæra og bidja fyrir syndurunum. Fadir! fyrirgéf þeim! segir brunnur gædskunnar: hann vill segja: eg veit, Fadir! hve heitt þín reidi brennur yfir þessu ógudliga verki, en far þó ecki áfram med hana, heldur lít á mig, sem nú er ad útleggja þá fórn, sem ályktud er frá eylífd ad gylda skuli fyrir alls heimsins syndir, hún er og útløgd fyrir þessa synd; líttu því ecki svo á tilverknad kvalaranna, heldur lausnargjaldid, sem eg er nú ad útleggja fyrir þá.

Fadir! fyrirgéf þeim, þeir eru blindadir; þeir vita ecki hvad þeir gjøra; en þú, sem veitst þad, þú veitst líka til hvørs þad skédur; lát því meira gylda fyrir þínu augliti verdskuldun og tilgáng minnar þínu, heldur enn vondsku þeirra, sem hana nú á leggja. Þessi grunnlausa gædska vors Lausnara ætti nú svo ad gánga oss til hjarta, ad vér lærum af hans dæmi, ad fyrirgéfa þeim, sem oss á móti brjóta, á hvørju mjøg svo rídur øllum þeim, sem vilja fá fyrirgéfníngu eigin synda; því ef þér ecki fyrirgéfid mønnunum þeirra brot, mun minn himnesski Fadir ecki fyrirgéfa ydur ydar syndir, segir Jesus. Einsog Lausnarinn kénndi oss ad læra af sér hógværdina, svo kénndi hann hana best, þá hønum var mest á móti gjørt. Kvalararnir spørudu hér enga grimdar adferd, en hann var miskunsamastur, þegar enginn miskunadi hønum; og fyrst nú minn Lausnari ecki hallmælti þá hønum var hallmælt, og ecki ógnadi þegar hann leid, skyldi eg þá ecki minnast á, ad þegar hann leid og hønum var hallmælt, var hann ad borga mig út undan helvítis pínslum, og læra þad af hønum, ad elska óvini mína, einsog hann hefir bodid? skal eg nockud halda þeim þyki mikid koma til Jesú pínu, sem gjøra hér þvert á móti og leitast vid á allar lundir ad fá hefnd yfir hvørju afbroti, og fái þeir ecki skeytt skapi sínu, bølva þeir, ragna, sverja og særa, einsog gætu þeir séd, ad mótpartur þeirra færi kvikur til helvítis, ef þeir mættu ráda. Dáfalliga breyta þessir eptir Jesú! hann sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim!

þeir segja: Drottinn hefni á þeim! Þú villt kannské segja: eg er saklaus vid þenna eda hinn, sem mér illa tilgjørir, er þá ecki von mér gremjist? eg hefi gjørt hønum til góda, skyldi mér ecki svída? Var þá ecki Jesús saklaus? hafdi hann ecki gjørt øllum gott? þú kannt ad vera saklaus vid manninn, en Jesús var saklaus bædi fyrir Gudi og mønnum, og þad skilur ycкur, því þú mátt bera søk fyri Gudi alla þína daga; en hann er á stundum svo lyndur, ad hann lætur órétt vondra manna koma fram á þeim, sem hann vill straffa, einsog sýnir dæmi Davíds, og því eru þeir opt þad hrís, sem hann brúkar á ránglæti mannanna, einsog hann kallar kongínginn af Assyria vønd sinnar reidi; og fyrst þessu er svo varid, hvad viltu þá segja, þó einhvørr gjøri þér órétt óverdskuldad, nema þad, sem Davíd sagdi, þegar Símeí bølvadi hønum: Láttu hann bølva! fyrst Drottinn hefir sagt vid hann: Þú skalt formæla Davíd. Þad er ecki barnsins ad brenna vøndinn, heldur føđursins; straffi Gud mig med annara illsku, þá er hans réttur ad hefnast á þeim, eg vil þegja á medan og uppláta ecki munn minn, því Drottinn gjørir þad. Eg hefi engann rétt til ad hefna á mínum haturs-manni, því Guds er hefndin; ef eg þá hefni mín á hønum, þá er eg ecki hønum betri, því einsog hann gjørdi mér órétt, svo gjøri eg hønum órétt í því, ad taka ad mér þá hefnd yfir hønum, sem mér ecki tilheyrdi, fæ ecki heldur óréttinn med ødrum órétti burttekinn, því ecki fæ eg augad aptur, þó eg slái

út auga þess er blindadi mig; þá gét eg heldur ecki bedid Gud ad dæma mitt málefni, þegar sjálfur eg er búinn ad leggja á smidshøggid og taka hefndina fram yfir hendur á hønum, og því vil eg heldur hafa Salómons rád, svo látandi: seg þú: ecki vil eg endurgjalda íllt, bíd þú eptir Drottni, og mun han frelsa þig; og hvad skyldi eg þá heldur formæla eda óska ílls þeim, sem brýtur vid mig? skal hann batna vid þad? nei, lángt frá! heldur kann med því móti lítil átylla ad verda orsøk mikillrar ólucku, og lítill neisti ad miklu báli, og því segir Jakob: ad hatursfull túnga sé lítill eldur, sem uppbrenni mikinn efni-vid; hún flecki alla umgengni mannsins, og hvar, sem hatur sé og þráttan, þar sé vansklickan og allt íllt framferdi. O! hvørsu betra er þá, ad halda gédsmunum sínum í taumi og yfirvinna hid vonda med gódu! med því móti kann sá ad ávinnast, sem rángt gjørdi, svo vér fáum kjærleiksfullann bródur í stad fjandmanns, sem er miklu meiri ábati. Eg vil nú ecki tala um, hvada heimska þad sé, ad skeyta skapi sínu á ødrum, en taka í stadinn órósemi samvitskunnar og sturlun og vandrædi og þad, sem yfirtekur, óblídu Guds og apturhald sínna eigin synda, hvar þó er ecki vid ad dyljast, því hvør sjálfur sín hefnir, skal finna hefnd af Drottni og hann mun gæta ad hans syndum. O minn Jesú! sem badst fyrir þínum hatursmønnum, upplýs hjarta mitt, svo eg fylgi þessu þínu blessada dæmi! fyrirgéf mínum óvinum, og lát þá snúast frá øllu vondu, svo þeir vegsami þig med

sinni yfirbót og ødlist náð! Þetta orð vors Lausnara géfur oss í annann máta ørugga fullvissu um hans meðalgaungu embætti, því hann biður hér fyrir óvinum sínum miðt í pínunni, svo hann auðsýni, að hann í krapti sinnar fullnustu, biðji ætíð sinn Føður fyrir oss, einsog heiløg ritníng allvíða kénnir, talandi undireins og í sømu grein um forlíkunina og meðalgaunguna Jesú Krists, og meðal annars, þar svo stendur, 1 Jóh. 2: Vér høfum talsmann hjá Føðurnum, Jesúm Krist þann réttláta, sá, sem er forlíkan fyrir vorar syndir. Faðir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvað þeir gjøra, segir hann, blessaður! hér í pínunni, sama veit eg hann segir nú í dýrðinni, þegar mér verður á: fyrirgéf hønum, hann veit ecki hvað hann gjørir; því hafi hann viljað láta gylda stríðsmønnunum til málsbóta þeirra fávitsku og Gyðíngum þeirra blindni, sem þeir høfðu sjálfir bakað sér, þá veit eg hann mun ecki síður affaka mig, þó Djøfullinn, heimurinn og holdið kunni svo að bleckja mig, að eg syndgi af fávitsku eða óframsýni, hvarvið eg skal mig hugga, þegar eg óttast að Guð setji í ljós fyrir augliti sínu mínar heimugligu syndir, og þessvegna óaflátanliga biðja og segja: Drottinn! hvørr fær skilið, hvørsu opt hann fellur? fyrirgéf mér mínar heimugligar syndir, og lát enga þvermótsku drottna yfir þræli þínum. Jesús bað fyrir þeim, sem hann krossfestu; allir høfum vér krossfest hann með syndum vorum, því hefir hann líka í það sinn beðið fyrir øllum oss; hann bað fyrir kvølurunum, þótt þeir krossfestu

hann; hann biður og fyrir oss, þegar vér brjótum og það er dagliga og ýdugliga, því hann hefir eylífann kénnimannskap, og gétur gjört þá hólpna, sem til Guðs koma fyrir hann, því hann lifir ætíð að biðja fyri þeim. Hann bað fyri þeim, sem hönum gjörðu þá mestu kvöl og háðúng og skapraunir og hvörjir um enga náð báðu; skyldi hann þá ecki biðja fyrir þeim, hvörjum hann hefir géfið makt Guðs börnum að verða, hvörja hann skammast sín ecki bræður að kalla, og sem að hans krossi hænast í trúnni og elskunni, og vænta, fyrir hann, með auðmjúkum anda syndanna fyrirgéfníngar? Hann elskaði þá, sem hann hötuðu; hvað þá hina, sem hann elska? Hann, sem er fullur náðar og sannleika, vildi láta strauma sinnar náðar útfljóta til sinna blygðunarlausu kvalara; hvörr fær þá efast um, að hann géfi þeim að drecka af brunni lifandi vatns fyrir eckért, sem húngra og þyrsta eptir réttlætinu, þar hann sjálfur sagt hefir: Hvörr, sem þyrstur er, komi hann að drecki? Hann bað fyrir sínum óvinum undir sinn dauða, því veit eg hann dregur ecki í hlé sína fyribón, þegar eg ligg fyrir dauðanum, þar hann veit mér liggur þá mest á, einsog pínslarvotturinn Stephán reyndi, hvörn hann huggaði og áminnti á dauðastundunni með þessu sínu orði, svo hann fór sinn veg fagnandi í friði. O, Herra Guð, himneski Faðir! þú, sem elskaði svo heiminn, að þú gafst í dauða þinn eingétinn Son, til þess, að allir þeir, sem trúa á hann, skyldu ecki tapast, heldur öðlast eylífa sælu, lát mig í andláti mínu, þegar eg allraseinast mæni augum

mínum til þinnar miskunar, njóta þess, ad þinn eingétinn Sonur mændi til þín augum sínum í krossfestíngunni og sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim! Lít þú til þeirrar dýru fórnar og miskuna mér hans vegna, í hværjum þér einúngis velþóknast, Amen!

## 35. Hugvekja.

### Um yfirskriftina yfir krossinum.

Pílatus skrifadi þá yfirskrift og setti hana á krossinn yfir Jesú høfdi; hún innihéldt hans daudasøk og var ritud á hebresku, grikksku og látínsku túngu, þannig: þessi er Jesús af Nazareth, konúngur Gydínga. Yfirskrift þessa lásu margir af Gydíngum, því þessi stadur var nálægt borginni. Þá søgdu ædstu prestar Gydínga vid Pílatus: skrifa þú ecki: konúngur Gydínga, heldur ad hann hafi sagt: eg er konúngur Gydínga. Pílatus svaradi: hvad eg skrifadi, þad hefi eg skrifad.

Mínar hugsanir eru ecki einsog ydar, og mínir vegir ecki einsog ydar vegir, segir Drottinn. Á mørgum hlutum, bædi á mansali Jósephs og ødru, hefir Drottinn sýnt, ad hann sundurdreifdi dramblátum í þeirra hjartans hugsun, en léti rád sitt standa stødugt, og alla hluti samverka þeim til góda, sem hann elska; þó sýndi hann þad hvad best á sínum ein-

gétna Syni, hvørr sjálfur kallast undarligur; eckért forsmánarligra kvala kyn gátu óvinir hans upphugsad hønum, enn krossfestínguna; med eckért gátu þeir eins vel komid fram fyrir Pílatusí, sem þad, ad hann hefdi gjørt síg ad konúngi, og því skrifadi Pílatus konúngs nafnid uppyfir krossinum; en fyrir krossinn er Jesús frægastur og hans ríki máttugast, þarmed hefir hann afmád handskriftina, þá er móti oss var, afklædt høfdíngjadæmin og gjørt hreinsun synda vorra, og drottnar nú, fyrir ordid af krossinum, medal sínna óvina, hvørju Pétur sídan kastadi Gydíngum í nasir, med þessum ordum: Vorra fedra Gud uppvakti Jesúm, hvørn þér slóud í hel og hengdud uppá tréd, þennann hefir Gud uppvakid til høfdíngja og Frelsara fyrir sína hægri hønd, til ad géfa Ísrael ydrun og syndafyrirgéfníngu. Þetta vitnadi sjálfur Pílatus, þó óvitandi, þegar hann lét yfir hønum krossfestum í allra manna augsýn standa þessi ord: Jesús af Nazareth, konúngur Gydínga, og þad í þremur túngumálum, svo ad sem fleirstir gæti lesid og skilid. Lesum vid þá líka, sála mín! þessi ord, og hugleidum nockud hvad þau hafa ad merkja:

Þegar eg virdi fyri mér krossfestíngu Krists, þá sýnist mér, sem eg sjái blódrísa, ad dauda kominn og afmyndadann mann, hángandi nakinn á þremur eda fjórum járngøddum, en yfir høfdinu sé eg nockurskonar letur, þar stendur fyrst: Jesús; lofadur sé Gud! þar merki eg, ad á krossinum hángir Frelsari, því svo merkir þetta nafn, svo var hann kall-

adur af Englinum, ádur enn þad hann var gétinn í módurkvidi, því hann kom ad frelsa sitt fólk af þess syndum. Héraf álykta eg nú svo: ad sá, sem fyri-heitinn var í Paradís eptir fallid, sá, sem Abrahami var lofadur, í hvörjum allar þjódir skyldu blessast, og sá, sem allir spámenn vitna um, ad allir þeir, sem á hann trúi, skuli fyrir hans nafn fá syndanna fyrirgéfníngu; sá sami er hér krossfestur og enginn annar, því sá eini heimsins frelsunar-madur, eptir hvörjum fedurnir væntu, á hvörn þeir trúdu, og eru svo, fyrir trúna, hólpnir ordnir, var þecktur og vidur-kénndur med þessu nafni, hvad svo opt vitnast, sem gétid er í gamla Testamentisins bókum um frelsun eda hjálprædi Drottins, einsog lesa má í Psálm. 14, 1 Mos. b. 49, Esaj. 49, og vída annarstadar. Þetta er þarfyrir ecki víst, kynni einhvörr ad segja, þar margir í Gydíngalandi báru þetta nafn; en þar finnast þá fleiri ástædur, hvörra høfud-inntak er: ad allt þad, sem framkoma átti á Lausnara heimsins, er framkomid á þessum Jesú og hlýdir uppá hann, en engann annann. Af þessu nafni, Jesús, má eg ráda, ad hann, sem hér er krossfestur, er sannur Guds Sonur, því enginn annar kunni syndugt mann-kyn ad endurleysa; svo var Djøfullinn máttugur, ad Guds Son þurfti til ad nidurbrjóta hans verk; svo var Guds réttlæti háleitt, ad því kunni af engri sképnu fullnægt ad verda; svo var eymdin mikil, ad einn bródir féck ecki ødrum hjálpad. En einsog þetta sýnir hans guddóm, svo sýnir og hitt hans mann-dóm, ad hann hángir blódugur á krossinum, og gaf

þar loksins upp andann, svo í þessu nafni er innifalinn sá mikli guðhrædslunar leyndardómur, að Guð er opinberaður í holdinu. Héraf skal eg, í þriðja máta, athuga og jafnframt álykta, að Jesús er til þess krossfestur, að hann með sínu dýrmæta blóði og saklausa dauða og pínu, leysti mig aumann, glatadann mann, frá syndinni, dauðanum og Djøfulsins valdi, því er skrifað yfir hans krossi: Jesús, hvað eg tek svo upp, sem sagt væri: komið híngað, syndarar! sjáið yðar friðþægíngu! þér herteknu! sjáið yðar lausnar-gjald! þér ørþjáðu! sjáið yðar endurnæríngu! Fyrir framan bækur, og uppyfir þeim hlutum, hvørra inntak ecki verður í fyrsta áliti skilið, er venja að skrifa titil til auðkénníngar; pínuna og krossfestínguna Krists, má eg kalla bók Evangélíí, hvørrar høfuð-inntak það er: að Guð sendi Son sinn heiminum til endurlausnar; en þetta var ecki svo auðséð, allra sízt vantrúuðum, þar sem horft var á krossinn á høfuðskelja-staðnum, miklu framar var sá krossfesti Jesús Gyðíngum hneixlan en Grickjum heimska, því þócknaðist Guði, að láta það orð: Jesús, standa uppyfir krossinum, svo auðsýniligra væri hvað krossfestíngin hefði að merkja, svo sem er: frelsi frá syndunum, og gjøf eylífs lífs; þarfyrir vil eg lesa það orð, einsog skrifað væri: sá fyrirheitni heimsins Frelsari, sannur Guð og sannur maður, er hér krossfestur, til að frelsa frá fordæmíngunni og géfa eylíft líf. Þessu nærst kémur oss fyrir sjónir þetta orð: af Nazareth, eða Nazaræus. Nazaræi voru þeir, sem fráskildir voru øðrum, og sér-

deilis ætladir Gudi til þjónustu, hvørjir sig áttu ad halda frá øllu óhreinu; í þeirra tølu var Samson, þar átti og skyldt vid Samúel, og á nýa Testamentisins døgum Jóhannes skírari. Þenna titil fékk nú Jesús med øllum rétti og einstøkum yfirburdum, því hann var medal margra þúsunda útvalinn, helgadur og fráskilinn Gudi, til ens mikla verks, ad endurleysa heiminn og syndugt mannkyn, en opinbera oss Guds leyndar-rád um sáluhjálp vora, hvørja Messías sjálfur lýsir, þegar hann segir: Drottinn kalladi mig frá móburkvidi, hann minntist míns nafns, þegar eg var enn í módurkvidi; hann gjørdi minn munn, einsog hvasst sverd og huldi mig med hendi sinni og faldi mig í pílnakoffri sínu; hann sagdi til mín: þú ert minn þjón, Israel! því eg prísast í þér. Þessu til merkis, var hann vid Nazareth kénndur og í Nazareth uppalinn, einsog Matthæus þad útleggur kap. 2. En einsog Nazaræi áttu ad halda sér frá øllu óhreinu, høfdu þeir og sitt nafn af blóma, svo er Jesús ekki ad eins sá madur Zemach, sem blómgan géfa skyldi, og uppbyggja musteri Drottins, miklu framar enn Jósúa Jósedeksson, heldur er hann hreinn, heilagur og fráskilinn syndurunum, var hlýdinn allt til dauda, já, til dauda á krossi, og heitir því framar øllum ødrum, sá útvaldi þjón Drottins, í hvørjum hans sála hefir þóknun, hvørju hann sjálfur lýsti undir sína pínu, þegar hann sagdi: Eg hefi, Fadir! fullkomnad þad verk, sem þú fékkst mér ad gjøra. Þetta lýtur nú ad því, sem ádur er sagt, ad Jesús sé krossfestur og píndur oss til sáluhjálpar, því sá, sem þad skyldi

útrétta, varð sjálfur að vera heilagur, og þurfa ekki að offra fyrir eigin syndir. En — að Jesús sé þess-háttar æðsti biskup, má sjá af hans krossi, þareð stendur þetta orð: Nazaræus, hvørt eg þannig les: hér er krossfestur hinn heilagi Guðs þjón. Konúngur Gyðínga stendur hér seinast. Sjá hér, þú, blóðgýruga Jerúsalem! sem aflífaðir þinn eiginn kónung og neitaðir hønum fyrir Pílatusi, hvar hann hángandi á krossinum, þrátt fyri þína þøkk, ber þetta nafn: Konúngur Gyðínga. Já, vissu-liga! er Jesús konúngur Gyðínga, og ekki einúngis Gyðínga, heldur og heidíngja, sem fyrir trúna eru Abrahams børn, og eptir fyrirheitinu erfíngjar; um hann segir Drottinn: það er allt oflítið, að þú sért minn þjón til að uppvekja Jakobs kynkvíslir, og um-venda því geymda af Ísrael, heldur hefi eg sett þig til ljóss heiðinna þjóða, svo þú sért mitt hjálpræði til jarðarinnar endimarka, og því nefnir Símon hann ljós heidíngjanna og dýrð Ísraels. Af øllu þessu sé eg, að Jesús bæði kann og vill viðhalda þeim gáfum oss til nota, sem hann með kvøl sinni hefir afrekað, því hann varðveitir volduglíga ríki sitt mót allri makt helvítanna, og því standa þessi orð yfir krossinum: Konúngur Gyðínga; þau hljóma svo í mínum eyrum einsog sagt væri: sá, sem hér er krossfestur, er það Davíðs sæði, sem kristnina eykur, verndar og viðheldur. Þetta vildu Gyðíngar ekki þannig hafa, og beiddu því Pílatus að umbreyta þessu, og má af því sjá, hvørsu sannleikurinn var kroptugur, þegar hønum var tradkað, sem mest; að

þetta, sem Pílatus mun hafa skrifad, einsog til afsøkunar sér, sló óvini krossins í samvitsku, einsog þeir skømmudust sín fyrir Gydínga konúnginum, þar hann héck í vanmættinum, og mátti hér segja: ad hann drottnadi á trénu; en þótt þeir bædi af øfund og líka af skammfeilni vildu hafa þad ødruvísi, þá var þeim þad ecki eptirlátid; konúngstitillinn Jesú mátti standa hønum til heidurs, en þeim til skammar, og trúudum til huggunar, hann blífur og eylífliga, hvad sem þeir segja. Vér sjáum nú hér, ad Gud setur enum vondu viss takmørk, yfir hvør þeir ecki fá komist, hann, sem setti krókinn í Zenachéribs nasir, og lét hann fara sneiptann heim, hefir líka sjónum víst takmark sett, yfir hvørt hann fær ecki komist, og því skyldi hinn gudhræddi hrædast mennina? en ecki miklu framar segja med Davíd: uppá Gud reidi eg mig og vil ecki óttast, hvad skyldi holdid gjøra mér? Þess er og ad gæta, ad yfirskriftin var ritud í þremur túngumálum, sem fleirstir nærverandi gátu skilid, sem annadhvørt voru hebreskir, grikskir eda rómverskir, en þau eru líka, hvad enn er undarligra, fyrir staka Guds forsjón, svo vidhaldin, ad þau verda nú greiniliga lesin og skilin í fleirstum kristnum løndum, og eru þó hvørgi brúkud fyrir módurmál. Hvad mun þetta merkja annad enn Evangélíum krossins ætti allstadar prédikad ad verda, og hvørt túngumál ad vidurkénna, ad Jesús sé Drottinn til dýrdar Guds Fødurs, hvarum vér vitni berum, sem búum hér á hala veraldarinnar, og høfum heilaga ritníng útlagda úr þeim túngumálum, sem

yfir krossinum stódu, á vort módurmál. O! ad Jesús vildi nú þannig blessa módurmálid vort, ad í því útbreidt og kénnt verdi ávaxtarsamliga hans dýrmæta ord, villu- og hræsnis-laust, svo þetta vort fátæka fødurland, verdi verksmidja Andans og brúdarhús Lausnarans, allt svo lengi þad byggist, hønum til dýrdar og því til blessunar. Þetta virdstu ad veita, ó Jesú! sem oss hefir leyst med þínu blódi af øllum kynkvíslum, túngum, fólki, og heidíngjum, og hefir látid þína dauda-søk standa yfir høfdi þínu, svo þú tækir dauda-søkina frá høfdi voru, og afmádir þá handskriftina, sem móti oss var í setníngunum hulin, og festir hana med þér á krossinn, hvad þú færir oss í nyt med stjórnun þíns nádar-ríkis fyrir ordid og sakramentin hér í heimi, þángad til. þad fullkomnast í þínu dýrdar-ríki, hvar Gud verdur allt í øllum. Þér sé heidur og eylíft vald, Jesús af Nazareth, konúngur Gydínga! Amen!

## 36. Hugvekja.

### Um skiptin á Krists klædum.

Þegar strídsmennirnir høfdu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klædnad, og gjørdu fjøgra hluta skipti, sérhvørjum strídsmanni einn hlut, og þar med kyrtilinn; en hann var ecki saumadur, heldur frá ofanverdu allur prjónadur. Þeir søgdu þá sín á milli: skérum hann ecki í sundur, hlutumst heldur um, hvørs hann

skal vera. Þá uppfylltist ritníngin, sem seg-
ir: Þeir skiptu með sér klæðum mínum og á
kyrtil minn løgðu þeir hlutkésti. Þetta gjørðu
stríðsmennirnir, en fólkið stóð og horfði á.

---

Einsog af fórnum gamla Testamentisins var flegin
húðin, áður enn þær voru lagðar uppá altarið, svo
hefir sú fullkomnasta fórn, Lambið Guðs, Jesús,
sem bar heimsins syndir, ecki að eins verið húðstrýkt-
ur undir krossfestínguna, heldur afklæddur og látinn
hánga nakinn í allra nærverandi augsýn, því klæð-
um hans skiptu þeir ámeðan hann héck á krossinum,
einsog strax var umgétið. Þannig hefir kvøl Guðs
Sonar skinið opinberliga fyrir allra augum, og eng-
in benin verið hulin á hans signaða líkama; svona
hefir hans forsmán orðið forsmánarligri enn ann-
arra óbótamanna, sem optast mega straffið líða í
klíkum sínum; þannig hefir lokksins fullkomnast fá-
tækt vors Lausnara, fyrir hvørja vér verðum auð-
ugir; en þar þetta er allt skéð opinberliga og yfir-
hylmíngarlaust, svo mega líka allir, án hindrunar
hafa hér til aðgáng, og njóta ávaxtanna þaraf;
komið því allir þér, sem þyrstir eruð, híngað til
vatnsins, og sjáið hvar yðar borgunar-maður, Jesús,
hángir nakinn ámilli himins og jarðar, auðsýnandi
sig réttann meðalgaungu-mann milli Guðs og yðar.
Hann hángir uppi í loptinu í augsýn himinsins, svo
Guð horfði fyrr á hann, enn hann fer að straffa
rángléti mannsins; hann hángir upp frá jørðunni í
augsýn jarðarinnar, svo syndarinn flýi undir hans

skugga, áður enn hann vogar sér fram fyrir Guð, sem er forzærandi eldur; hann hángir í loptinu einsog regnboginn, trúfastur vottur, að ecki vilji Guð straffa oss eptir syndum vorum, eptir því, sem skrifað er: Eg hefi sett hann til vitnis fyrir fólkinu; hann hángir hér loksins einsog réttur himinstígi, gégnum hvørn vér kunnum með eptirlángan og andvarpanir vorar að stíga upp í himininn, þángað til vér loksins með sálu og líkama verðum uppryktir í loptið á móts við Drottinn, til að vera hjá hønum eylífliga. O, minn Jesú! hvørsu réttiliga hefir þú sagt: Þegar eg verð upphafinn frá jørðu, skal eg alla til mín draga; því hafi Guð luktað hvíldar-ylm af altari Nóa eptir flóðið, og lofað, ecki framar að bølva jørðunni, þá mun hann miklu framar hafa blíðkast og látið sína reiði falla, þegar hann sá þig á krossinum fórnfærðann sér til sætleiks ylms, hvað hið sama styrkir mitt trúnaðartraust, géfur mér djørfúngu og dregur sálu mína fram að krossi þínum, svo hún horfi á þessa fórn með fagnuði; hvaraf hún álýktar, að Drottinn muni láta sína miskunsemi svo háa yfir mér vera, sem himininn er yfir jørðunni hár, og mínar syndir mér svo fjærlægar, sem austrið er vestrinu; þar, sem þú hángir nakinn, þar hefir hún fundið sitt brúðarskart; þaraf hrósar hún sér; í því dyrfist hún fram að koma fyri Guð og segja með uppréttu høfði: sjáðu nú, Faðir! hvørt þetta er ecki kyrtill Sonar þíns? þá mun hann þeckja á mér það, sem þitt er, og tilreikna ecki það, sem mitt er; fyrir hvørja náð þitt heilaga nafn sé veg-

samad bædi nú og ad eylífu! Pessunærst skul-um vér athuga, hvørnig farid var ad skipta Jesú klædum: þeir gjørdu fjøgra hluta skipti á þeim, ad undanteknum kyrtlinum, sem þeir ecki vildu skéra í sundur, heldur ad þeir hlutudust um hann. Fyrir klædin Krist má skiljast kristnin, hvar inni hann hefir bústad og umgengni, svosem madur ber á sér klæd-in; en kyrtilinn Jesú má merkja Guds ord, inní hvørt hann er vafinn, því allir spámenn bera hønum vitni; svosem þeir nú gjørdu fjøgra hluta skipti á klædin, eins er kristnin útbreidd um 4 áttir heimsins, því Jesús segir, þeir muni koma af austri og vestri, nordri og sudri og sitja til bords í Guds ríki; en svosem þeir gátu eigi skipt svo kyrtlinum, ad hann væri óskémd-ur, nema hann héldi sér, svo notast eigi ordid, ef madur vill leggja þad út eptir sínum sérþótta, sund-urlidast á þad ad sønnu, en þó eigi eptir holdligri skynsemi, heldur eiga spádómarnir, þad er: kénníng-arnar, ad vera eptir réttum máta trúarinnar, og þeir andligu hlutir andliga ad dæmast; en hvør sem ødruvísi vill ad fara, kémst ecki til sannleiksins vidur-kénníngar, þó hann heyri margt og læri. Ecki má heldur skéra svo ordid sundur, ad madur velji sér af því þad, er hønum lítst, en sleppi ødru, einsog And-skotinn fór ad á eydimørkunni; svosem ef einn vildi taka upp þær greinir, sem tala um trúna, en sleppti gódverkanna lærdómi, og kostgjæfdi ad ransaka í sjálfum sér háttalag trúarinnar, huggadi sig heldur eda hræsnadi fyrir sér med einni daudri trú; annar þarámóti leitadi sér athvarf í verkunum, af hvørjum

þó enginn kann ad réttlætast fyrir Gudi. Eins kann ad vera háttad um lífernid; einn kann ad fordast óhófsemi, en halda af nídíngskap; annar varast ágirni, en leggjast í leti og dofinskap; þridji lasta bakmælgi, en halda af reidi og offstopa, og sama er ad segja um fleira annad. Þeir, sem svo vilja sundurskéra Guds ord, þeim verdur þad ónýtt, því þad á allt ad halda sér; sá kallast óvidlindandi þénari, sem gjörir þad eitt sem hann ætlar sér, hugsa því eigi, madur! ad Gud muni sæma þad á þér, því hvør sem uppleysir eitt af þessum bodordum, skal kallast minstur í himnaríki, segir Jesús; yfirvegadu, hve háleitur hlutur ad Guds eylífa ord sé, og einkum þad sæta Evangélíum, sem er kraptur Guds til sáluhjálpar þeim sem trúa; þau stóru og dýrmætu fyrirheit, sem þar eru inni, eru sá rétti klædafaldur Jesú, sem uppfyllir allt musterid, þ. e. kristiliga kyrkju, þegar einn aumur syndari og mæddur krossberari nær þarí, þá stemmist blódlát syndanna og eymdanna, svo hann finnur nýan krapt og endurnæríng, einsog sú blódfallssjúka fordum fann á sínum líkama, hún vard heil, þegar hún nádi í fald þessa klædis, á hvørt ógudligir menn nú lögdu hluk; því Jesú guddómligur kraptur, sem í ordinu býr, hressir og lífgar hjartad, svosem hann segir: Guds ord eru andi og líf. Hafi því sá strídsmadurinn þókst bera bestan hlut úr býtum, sem kyrtilinn fékk, þá er mín sál miklu heppnari, þegar henni hlotnast ad sitja vid Jesú fætur og heyra hans ord; þad er dýrmæt perla og happasælt hlutfall, svosem Davíd segir: Hlutur féll

mér yfir það lystiliga og ein væn arfleifd er mín ordin. O, Jesú! lát mig ætíd hreppa þetta hlutfall og það aldrei missa. Í þridja máta má sjá af þessum atburd, hvørnig stundum plagar ad fara med audinn. Jesús var ecki stórríkur, því lét hann ecki audinn eptir í heiminum, utan føtin, sem hann bar á líkamanum; þó kom nú svo ad stríðsmennirnir slóu sinni eign yfir þau, en módir hans, sem líkliga hafdi tilbúid þau, stód grátandi vid krossinn og sjálfur hann héck nakinn. Speigladu þig á þessu dæmi, þú, sem aldrei gétur sadst af maurnum eda audlegdinni; en ef svo kann vid ad bera þú sjáir góts þitt í annara høndum, og hafir þar eckért af, og þó af því kunni ad bera, þá vill það samt endiliga heita svo ad lokunum: Hvørs verdur það þú hefir tilreidt? margur kann ad verda óskapa arfurinn, og er því rád mitt, ad þú ecki ofþýngir hjarta þitt med Mammon, sem aflar mikinn óróa til ónýtis, svosem Davíd kennir: Láttu þér nægja þinn útskamtadann verd af Drottni, því eigi þarf meira med enn þess vér klædumst á og nærumst af, þarmed meigum vér vel láta oss linda, því eckért berum vér burtu úr heiminum, svosem vér bárum eigi neitt inní hann. En svo ad hvør einn kristinn madur fái þess heldur vidbjód á þeirri bølvudu ágirni, þá má líka hér sjá, hvørsu tilfinningarlausa hún gjørir fépúkana; miskunarlausir voru þessir stríðsmenn, þeir létu Jesúm hánga nakinn, þeir sáu módur hans fátæka standa þar nærri, og létu hana eckért fá, þeir vildu hafa það allt sjálfir. En hvad ber milli þessara og hinna, sem taka frá

þeim fátæka það sem hann á, og skilja hann svo eptir bjargarlausann og grátandi, og verdur því ecki neitad að þessi illmenska hefur látið og lætur sig stundum sjá medal þeirra, sem heita eiga kristnir. Strídsmønnunum hefir víst þókt sér tilheyra føtin Jesú eptir strídsløgunum, og hafa því eigi hyrdt ad gjøra sér þánka af høgum Jesú eda módur hans; nú þótt samvitskan hafi mátt bjóda þeim, ad svo skyldi ødrum gjøra, sem þeir vildu sér væri gjørt, þá voru þeir þó heidnir, þeir heyrdu eigi opt brýnt fyrir sér um miskunsemina, einkum þar það voru strídsmenn; en hvad segja þeir nú, hvørjum eigi ætti ókunnigt ad vera um kjærleikans bodord? hvad segja þeir, þegar þeir eru ad skipta føtum hins fátæka, gjøra sig glada einsog Amalech yfir herfángi sínu, þurka munninn, strjúka høndurnar og þykjast vel hafa sýslad? Eg, segja þeir, tek ecki nema mitt og hefi rétt til þess; en veist þú ecki, ó þú daudans madur! ad Drottinn skipar ad skila aptur klædum hins fátæka fyrir sólsetur, ef hann neidist til ad pantsetja þau, og máttu vita ad sama er ad segja um annad hans bjargrædi, sem hann má ecki án vera; og þó ertu svo djarfur ad setja sjálfan þig upp yfir Drottinn og ljúga í hans augsýn, med því ad kalla það þitt, sem hann skipar þér af hendi ad láta vid annann; gjættu ad hvørnig fór fyrir Achab eda þeim miskunarlausa sampjón, og minnst þess, sem Salómon segir: Undirþryck eigi þá aumu, því Drottinn mun gjæta þeirra málefnis, og hryggja þá sem þá hryggja. En svosem þetta dæmi gjørir kinn-

roda ofríkismønnunum, svo gefur þad sæta huggun auminġjunum, því betra er ad standa undir krossinum med Maríu, enn skipta klædunum med stríds-mønnunum; Jesús þurfti eigi fatanna med eptir krossfestínguna, svo veit ei nær enn nóg er fyrir hans krossbrædur, þegar sálin er borin af Englunum í fadm Abrahams, þá er í burtu øll vesøld; fagni því heimurinn yfir sínu glíngri; keppist hvør vid ad fá þann besta part þaraf, þad varir eigi mjøg leingi; dauf huggun er þad ad hampa gersemunum, þegar sagt verdur: Pú skalt deya og eigi lifa. Parfyrir vil eg heldur eiga mína hlutdeild vid þinn kross, minn Jesú! svo þitt dýra blód dreifist á sálu mína, henni til hugsvølunar og endurnæríngar á þeirri vondu tíd, svo eg viti mér vísa syndanna fyrirgéfníng og eylíft líf. Láttu mig, Drottinn minn! ætíd behalda þessu góda hlutskipti, svo eg reikni alla hluti fyrir skada, ad eg ávinni þig, og hafi í þér þad fullkomna réttlæti, sem kémur af trúnni, og ødlist svo lokfins kórónu réttlætisins í þinni opinberan, Herra Jesú! blessadur ad eylífu, Amen!

## 37. Hugvekja.

### Annad ord Krists á krossinum.

En þar stódu vid krossinn Jesú, módir hans og módursystir hans, María húsfrú Kleóphæ og María Magdalena. Þá Jesús sá nú sína módur, og þann lærisvein, þar nær stand-

andi, er hann elskadi, segir hann til sinnar módur: Kona! sjá þú! þad er þinn sonur; eptir þad segir hann til lærisveinsins: sjá! þad er þín módir. Og uppfrá þeirri stundu tók lærisveinninn hana ad sér.

---

Rétt hefir Jóhannes sagt um vorn Lausnara: Svosem hann elskadi sína, sem í heiminum voru, svo elskadi hann þá allt til enda; í mørgu sýndi hann þad ad sønnu, en medal annars heyrdum vér nú strax eitt stórt eptirdæmi þaruppá, þar hann undir sinn dauda lét sér hugad vera um sína sorgbitnu módur, hvørri hann hafdi alla sína lífdaga sýnt sonarliga rækt, hvarmed hann hefir børnunum eptirdæmi géfid, og þarfyrir utan ágæta huggun og bevísíng uppá sinn kjærleika, fyrst øllum eckjum og munadurlausum, þarnæst allri kristninni, og í þridja lagi hvørjum einum krossþjádum útaf fyrir sig. Svo komid þá fyrst og fremst, þér børn! og lærid af ydar Lausnara ótta Drottins, hvørninn þér eigid ad haga ydur vid ydar foreldra; þad vitid þér ad Gud tilsetti hlýdninnar bodord, og lagdi þarvid fyrirheit sinnar blessunar, svo bædi audsýndi hann hvad mikid sér þætti um þad verdt, og lockadi líka børnin med sínu sæta fyrirheiti til ad breyta þareptir; en þar fyrir utan hefir vor Lausnari stadfest þad med sínu dygdadæmi, þá hann fyrir oss løgmálid uppfyllti, því hann vandlætti ei ad eins fyrir þetta bodord vid þá, sem því høfdu raskad, heldur audsýndi sjálfur sinni módur og fósturfødur hlýdni og þjónustu; og nú loksins

þar hann héck á krossinum, vildi hann, þó annars nóg ráð hefði að hugga og forsorga móður sína, opinberliga ráðstafa henni, svo hann sitt ræktarðæmi eptirléti børnunum í hinni minniligustu testamentisgjøf. Viljir þú þarfyrir, kjæra barn! blessunarinnar njótandi verða, þá heiðra foreldra þína með verki, orði og þolinmæði, svo yfir þig komi blessanir frá þeim, já, frá þínum Guði, sem er trúfastur, og vissuliga endir øll sín fyrirheit; en viljir þú eigi gángast upp við það, þá skaltu þó vita hitt, að ófyrirlátsemi æskunnar leiðir eptir sig slis og ófarir, svosem dagliga má sjá af þeim balstýrugu únglíngum, sem hvørki vilja hlýða Guði né góðum mønnum, eru ástlausir, foreldrunum óhlýðugir, hvørsu þeir eru luckulausir og verða til skammar að lokunum, hvað og sýnir dæmi Kams, Absalons og annara, og kann það eigi øðruvísi að vera, því hvør sem formælir føður og móður skal vissuliga deya, og það auga sem hæðir sinn føður og forsmáir sína móður henni að hlýða, hljóta hrafnar út að kroppa og arnarúngar að eta; það er að skilja: sá þverbrotni skal bæði lifa með skømm og deya með ólucku. Komið líka að krossinum Jesú, þér munaðarlausu eckjur! og sjáið hans elskugéð við yður, því svosem hann hlutaðist hér til móður sinnar, svo hlutast hann til allra frómra eckna, sér þeirra mótlætishagi, reiknar þeirra flótta og telur þeirra tár, hann sem er Faðir føðurlausra og dómari ecknanna; hvørsu ríkt að Drottinn taki að sér málstað ecknanna má meðal annars sjá af þessum orðum: þér skuluð eckért mein

gjøra eckjum og føðurlausum børnum, ef þér gjørið mein, þá munu þær kalla til mín, og eg mun bænheyra þeirra kall, þá mun eg ljósta ydur í hel með sverði, og eg mun láta ydar kvinnur vera eckjur og ydar børn føðurlaus. En eckjurnar verða þá líka að gæta þess að þær standa undir Krists krossi, það er: séu guðhræddar og góð fyrirmindun annara og líði þolinmóðliga sitt mótlæti; séu dygðakonur svosem Rúth, skýrlífar og bænrækuar sem Anna, gestrisnar sem eckjan í Súnem og Sarepta, setjandi svo sína von uppá Guð, staðfastar í bæn og ákalli dag og nótt; þessar eiga hlut í soddan huggun og verndarbréfi Drottins og meiga í fullu trúnaðartrausti eigna sér það. En þær løtu umhleypíngs-lausakonur, sem fallar eru með mælgi og þarfleysu, lifandi í vellystíngum, hafa þann vitnisburð af Guðs Anda, að þær séu lifandi dauðar, hafi brotið hina fyrstu trú, og séu fráhorfnar eptir Andskotanum; hvaraf ljóst er, að þær þurfa eigi framar að eigna sér þessi fyrirheit enn hvør annar ógudligur maður, þó þær þykist eckjur heita. Þetta orð Herrans er ogsvo ein føgur huggun hans strídandi søfnudi, því María ber hér rétta ímind kristninnar, hún var hans líkamlig móðir, þessi andlig, svosem hann sjálfur vottar og hans postuli Páll, sem segist með harmi fæða þá í Galatía, þartil Kristur fann sína mindan í þeim; svosem nú hans holdlig móðir uppfylti með hinni mestu hjartasorg spádóm Símeons, í því hún stóð undir krossinum, sá hann svo hørmugliga útleikinn, en gat þó eigi að því gjørt, svo má hans andlig móðir

standa undir krossinum og horfa þará með hinni stærstu ofraun, að heimsins børn smána hann og krossfesta á ný með ógudligu framferdi, en gétur þó eigi við því gjørt, heldur plágar sína sál þarvfir, svosem Loth yfir verkum þeirra í Sódóma. Allt fyrir þetta lítur þó vor Jesús adgjætnu auga til síns safnadar, svosem hann leit hér til módur sinnar; hann finnur til sinna meina, sem sagdi fordum: Saul! Saul! því ofsækir þú mig? hann vantar aldrei einhvørn Jóhannem og trúlyndann lærisvein, sem kristninni forstødu veiti, hvørnig sem ástendst, og það hefir hann trúliga sýnt frá fyrsta kristindómsins upphafi allt til þessa, svo þessi hans andlig módir hefir stadreynt það satt að vera, sem Páll postuli segir: Hann hefir sett suma til postula, suma til spámanna, suma til gudspjallara, suma til hyrdara og lærifedra, svo hinir heiløgu séu reidubúnir til þjónustugjørdarinnar, hvarmeð Krists líkami uppbyggist; þessari sinni nádarríkri umsjón mun hann víst framhalda, hvørnin sem ránglætið vex á jørdunni, svo hans daudi verdi ætíð kunngjørdur af einhvørjum þángaðtil hann kémur, því hann hefir lofað að vera hjá oss alla daga allt til enda veraldarinnar, hvarfyrir hønum séu eylífar þakkir. Hérvið mega og loksins hugga sig allir krossberarar. Módir Jesú stendur hér undir krossinum grátandi, adrir gánga þar framhjá hlæandi og spottandi; hér stendur og sá lærisveinn, sem Jesús elskadi; svo þjást elskendur Jesú í adskiljanligu mótlæti og mettast á harmabraudi, þar hans hatursmenn lifa við sællífi og góða daga, hvará

mørgum Guds børnum hefir legid vid ad hneixlast, svosem sjá má medal annars af Davíds ordum: Sjá þessir eru ógudligir og hafa luckn í heiminum, svo hefi eg þá forgéfins hreinsad hjarta mitt, og þvegid mínar hendur í sakleysinu; þó er þetta eigi ad undra, ef ad er gjætt, ad Jesús hefir sagt þad fyrir, ad sín børn mundu síta og gráta, en heimurinn fagna, og mega þessir þarvid gledja sig, ad þó þeir undir krossinum standi, er þad þó kross þeirra Herra, sem til þess var krossfestur ad leida yfir oss blessanina, hvørsvegna þeir horfa í andanum móti hans útbreidda blódfadmi, og þeckja hann svosem uppbyrjara og fullkomnara trúarinnar lidid hafa sér til eptirdæmis, eru því reidubúnir ad fylgja hans fótsporum, gledjast í voninni, ydkast í reinslunni, yfirvinna í trúnni; þeim bregdst og aldrei Jesú nádartillit aptur ámóti, því augu Drottins eru yfir þeim sem hann óttast og vona til hans miskunar; eda hvadan mun einum fárádum vesæling koma sá styrkur ad forsmá heiminn, yfirvinna freistíngarnar, gledja sig í mótlætinu og sjá í anda inní dyrdina? nema frá sjálfum Jesú, sem kénnir í brjóst um hann, sem freistadur er, leggur byrdi á og hjálpar ad bera hana; hann, hann alleina úthellir í hjørtu sinna krossmæddra brædra þeim góda kjærleikans og sonarleysdarinnar anda, sem framkvæmir þad, ad þeir hrósa sér af hørmúngunum, og eru vissir um ad þad létta og skamvinna mótlæti veitir þeim eina yfirvættis vigtuga dýrd. Þarfyrir skal eg aldrei fælast krossinn míns Lausnara, heldur horfa beint á þann krossfesta Jesúm,

þegar eg verd kalladur undir kroſsinn, því med ſín-
um kroſsi heſir hann gjørt minn kroſs bleſſadann;
þar er engin ſú ákoma á hans bleſſada líkama, ſem
eigi prédiki þad fyrir mér, ad eg eigi nádugann Gud,
og gjøri ſvo róſemi ſamvitſkunni, því viti eg mér
Gud nádugann, veit eg og ad mótlætid verkar ad
lokunum fridſamann ávøxt réttlætiſins, þótt þúngt
þyki um ſtund undir ad liggja; eda hvarfyrir ertu,
Drottinn minn! ſvo hátt upphafinn á þínum kroſsi,
nema til ad benda mér og øllum þínum børnum ad
horfa á þig í øllu þínu mótlæti og ſegja med Da-
víd: Mín augu eru ætíd til Drottins, því hann mun
greida mínar fætur úr netinu; já, eigi einaſta í mót-
lætinu, heldur hvad ſem vera ſkal vil eg flýa undir
ſigurmerki kroſsins, og hafa þad mér fyrir hugſkots-
augum; þaruppá mænir mín trú ætíd, þá eg vil
koma fram fyrir Gud med mínar andvarpanir, ann-
ars þori eg aumur ſyndari ei eitt ord ad tala, en
þín kvøl á kroſsinum, minn Herra! gjørir mig djarf-
ann, ſvo eg vænti mér nádugrar bænheyrſlu; þín
ſár auglýſa mér ad eg ſé elſkadur af Gudi, og verdi
því ecki rækur, þar ſem þú ert ødrumegin einn eylíf-
ur nádarſtóll, ſem lofad heſir ad vér ſkulum ødlaſt
þad vér í þínu nafni umbidjum. Séſi Gud mér í
þeſſu mínu andſtreymi einhvørja eptirlætisſtund, vil
eg eins horfa á þig, minn kroſsfeſti vinur! ſem borid
heſir Guds reidi, ſvo hann huggadi mig, einsog mód-
irin hugſvalar barni ſínu, ſvo eg undireins ámynni
mína ſálu ad meta enga hluti jafnt vid þig, heldur
vera reidubúinn, góts, frændur, vini, allt ſtundligt

eptirlæti og lífið sjálft að yfirgéfa þinna vegna, ef þér svo þóknast. Í þetta sama hæli vil eg líka flýa, þegar mér ógnar reiði Guðs, og straff syndanna stendur mér fyrir augum, það mun hlífa mér betur enn lundurinn forðum Jónasi fyrir hita sólarinnar, og ecki uppvisna, svosem hann gjørði, því þú ert með þá fórn, sem þú útlagðir á krossinum í himininn inngenginn og hefir fundið eylífa endurlausn. Í einu orði að segja: hvað eg gjöri, hvört eg fer, hvört eg sit eður stend, sef eður vaki, hvört sem gengur með eða mót, vil eg fast halda mér við þetta hæli, og ætíð fyrir augum hafa þína blóðuga krossins kvøl. Géf ogsvo, Drottinn minn! að eg með þessu hugarfari endi mínar lífstundir, svo eg sé viss um að hvörki dauði né líf fái skilið mig við þinn kjærleika, Amen!

## 38. Hugvekja.

Um brixlin, sem Jesús leið á krossinum.

Og þeir, sem gengu þar framhjá, hæddu hann, skóku høfuð sín og søgðu: svei! hvørnig niðurbrýtur þú musterið, og uppbyggir það aptur á þremur døgum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guðs Sonur, og stíg niður af krossinum! Og høfðíngjarnir spottuðu hann með þeim, líka einninn hæddu hann þeir æðstu prestar sín ámeðal með skriftlærðum og øldúngum, og søgðu: øðrum hefir hann hjálpað, sjálfum sér gétur hann eigi

hjálpad; sé hann Kristur og kóngur Israels, þá stígi hann nú nidur af krossinum, ad vér sjáum og megum svo trúa hønum! hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur, hinn útvaldi Guds! hann treysti Gudi, hann frelsi hann nú, ef hann hefir lyst til hans, þvíad hann sagdi: Eg em Guds Son. Ad hønum hæddu og strídsmennirnir, gengu til hans og færdu hønum edik, og søgdu: ef þú ert kóngur Gydinga, þá hjálpa þér sjálfum.

---

Vid vøtnin í Babýlon sátum vér og grétum, þá vér mintumst á Zíon, vorar hørpur heingdum vér upp í vídirinn, þvíad þeir, sem oss hertefnum héldu, skipudu oss ad sýngja, segir Davíd, þá hann spádi fyrir hvørnig Guds fólki mundi gánga í þeirri babýlónisku herleidíngu, og svo ætla eg gángi optar til, ad þar sem sorg og eymdir uppáfalla, vanti ei þá sem skaprauna og hælast um vid þann sorgbitna. En med því vor blessadi Lausnari vissi vel ad svo mundi falla, þá vildi hann eigi undanfella ad lída þetta oss til huggunar og eptirdæmis; þessvegna eru brixli hinna ógudligu spéfugla í hædstu trøppu yfir hann gengin, hvarum Guds Andi hafdi ádur svo grandvarliga spád, ad hann líka lagdi heiløgum Davíd í munn þau sømu ord, sem forbrend samvitska høfudprestanna blygdadist eigi vid ad koma upp med vid krossinn til hugraunar Herranum, þá þeir søgdu: hann treysti Gudi, hjálpi hann hønum nú, ef hann hefir lyst til hans. Allar þær þýngstu skapraunir,

sem einum mótlættum kunna til að falla, komu hér fram við þann, sem mótmælin þoldi af syndurunum, þegar hann þó var að borga fyrir syndarana, því fyrir utan það að þessi hádyrði komu fram við hann í hans mestu kvöl og hjartans ángist og það af allra handa slags fólki, samblöndudum hóp alþýðunnar, höfðíngjunum, höfuðprestunum, stríðsmönnunum og ræníngjunum, og þetta voru óvinir Guðs og hans, hvarfyrir það var þess bitrara að heyra þá hlacka yfir sér og hælast um við sjálfan Guð, hvað sjá má að Davíð hafi gengið mjög nærri hjarta; fyrir utan þetta lagði Djöfullinn þessum blygdunarlausu háðvörgum alla þá skammarligu óhæfu og guðlöstun í munn, sem sjálfur hann gat upphugsað til háðúngar Guði og hans Syni, því blessaða kvinnunnar sæði, sem nú var að mola hans haus. Þeir bríxlaðu Lausnaranum um sína kvöl, yfir hvörri þeir skóku höfuðin svosem viðbjóðsligri svívirðíng; þeir hæddu að hans almætti, báðu hann að hjálpa sjálfum sér, hvað hönum ecki tilheyrði í það sinn, því hann var þá að hjálpa öðrum, og géfa sitt líf út til lausnargjalds fyrir marga; þeir spottuðu hans dýru kraptaverk, sögðust mundu trúa hönum, ef hann stígi af krossinum niður, allt einsog Andskotinn, faðir þeirra, hafði áður sagt: sértu Guðs Sonur, þá fleig þér hér ofan; þeir dárudu hans góðverk og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað; ó, víssuð þér það, hin hreckvísa kynslóð! og þó hötuðuð þér hann; þeir höfðu að athlátri hans guðrækni, þegar þeir sögðu: hann treysti Guði, hans embætti, með hvörju þeir dróu

gis ad Krists og Gydínga konúngs nafninu, hans kénníngar, hvørjar þeir rángfærdu uppá nidurbrot og uppbyggíng musterisins í Jerúsalem, hvarmed þeir og undireins smádu hans dauda og upprisu, og endiliga bríxludu þeir hønum um sinn guddóm, þegar þeir søgdu: hann sagdi: Eg er Guds Sonur. O! hvad mikid mun nú þetta hafa aukid á þá innvortis sálarángist Lausnarans, þá hann sá hve skammarliga var farid med lausnargjaldid, sem hann var ad útleggja, og ecki einasta í þad sinn, heldur hefir hann blessadur víst hurad lengra fram, hvørnig fara mundi á seinni tímunum, svosem og sjá má enn á þessum døgum, ad margir framgánga sem óvinir hans kross; svo lángt eru þeir frá því ad virda hans elsku, rækja hans pínu, sem vera skyldi; en þad eru sérdeilis þeir, sem annadhvørt hrósa sér af sínum gódverkum og heilagleik, edur slá sér útí lausúng og andvaraleysi til ad fremja ýmisligann óhreinleik, og krossfesta ecki holdid, hvaráeptir plagar ad fylgja forherdíng og ørvæntíng ad lokunum. Med hvørutveggju þessu verdur krossinn Krists spottadur, því kæmi réttlætid af verkunum, þá væri hann forgéfins píndur, og mætti madur óhultur syndga, sídan hann er krossfestur til ad ala Djøfulsins verk, syndina, hvørja hann er þó kominn nidur ad brjóta. Vørum ockur því vid þessu, mín sál! vid sem vitum ad Mannsins Sonur er kominn upp ad leita og hólpid ad gjøra þad sem tapad er, og ad vor gamli madur er med hønum krossfestur, ad vér þjónum eigi framar syndinni; komum heldur í andanum ad hans krossi, og

þar vid, sem ádur vorum fjarlæg, erum nú nálæg ordin, þá megum vid med þess meiri djørfúng bidja hann ad géfa ockur sínn góda sannleiksanda, sá ed vísi ockur leidina, svo vid kunnnm ad nýta ockur til sáluhjálpligrar huggunar og uppfrædíngar þad spott, sem hann leid undir andlátid. Hvad mun til hafa komid ad Guds Syni var svo hryggiliga skapraunad? hvad nema þad hann betaladi þad hann rænti ecki, og tók vid þeim brixlunum, sem heima áttu á oss. Sú heilaga þrenníng hafdi vígt hjörtu vor í skírninni sér til kyrkju og bústadar, eptir því sem skrifad stendur: Vitid þér ecki ad þér erud Guds musteri, og þad Guds Andi byggir í ydur? en hvad mørg skadlig synd hefir nidurbrotid þetta dásamliga H. Anda smídi, sídan vér lofudum Gudi hollustu vorri vid skírnarlaugina? Fyrir utan þad, ad holdid girnist dagliga mót andanum og vér drøgumst svosem naudugir af ofurefli syndarinnar, sem í oss býr, þá lætur, því midur, margur margt íllt eptir sér forhurad og med gédþocka, svo musterid hallast eigi ad eins, heldur brotnar nidur øldúngis og Andinn verdur útrekinn, og er þad sjálfsagdur dómurinn, ad hvør sem fordjarfar musteri Guds, hann vill Gud eydileggja. Þó vér nú optliga lofum, þegar minníng syndanna slær samvitskuna, ad þessi helgidómur Guds skuli aptur uppbyggjast fyrir falslausa ydran á þremur døgum, þ. e. án undandráttar, medan þar segist: ennþá í dag, þá nádi Gud hvad seint vill um þad verda fyrir oss; bædi gengur ad efnaleysid, þ. e. vanmátturinn, og dugnadarleysid, þ. e. dofinskapur-

inn og tómlætið; allt um kríng er Djøfullinn, holdið og heimurinn til hindrunar, einsog þeir Samverskir fordum í Jerúsalems byggíngu; þessum vorum undandrætti mætti vor Lausnari, því svørudu þeir hønum, að hann hefði lofað að brjóta musterið, og bæta það á þremur døgum, hvað þeir høfðu eptir falsvottunum, hvørra lýgifullur framburdur hafði meiri áheyrslu hjá alþýðuni enn øll Herrans kraptaverk, svosem opt plagar að ské, þar sem lýgin er hendt manna ámilli, þá tekur hún afl á ferdinni, og má endiliga sannleikur heita, hvør syndategund hér kom líka fram til að pína Jesúm. Þegar allt leikur í lyndi og lítið reynir á trúna, þykjumst vér standa nógu stødugt og segjum í rósemi vorri: eg mun aldrei skeika; en þegar ýmisligar freistíngar koma, þá reynist það opt ødruvísi, svo lítið ber á þolinmæðinni, voninni, trúnaðartraustinu, hógværdinni, þakklætinu, djørfúng í andanum og møglunarlausum kjærleika með ødrum fleirum þesshättar ávøxtum trúarinnar, þá verda ekki allir að Jób, heldur hneixlast margir og falla frá; því mátti Jesús sér til mestu skapraunar heyra þessi orð: hann treysti Gudi, hjálpi hann hønum nú; blessadur sé hann, að hann yfirvann þessa freistíng fyrir alla þá, sem veiklast í trúnni á tíma hørmúngarinnar, hann kann því bædi og vill hjálpa þeim. Vér látumst umvanda við adra, vera leiðtogar þeirra blindu og tugtmeistarar þeirra fáfróðu, en hyllum þó með sjálfum oss vor eigin lýti, og vanvirdum Gud með yfirtroðslu løgmálsins; ó, Herra Gud! nær eg prédika ødrum, en er þó

sjálfur fleckadur annadhvørt af því sama, sem eg straffa á ødrum, edur ødru jafnvægi, en annadhvørt af sjálfselsku eda dofinskap ransaka þad hvørki né dæmi á sjálfum mér, má eg þá eigi med skømm og kinnroda heyra þau ord: Þú hræsnari! drag fyrst bjálkann úr þínu auga; en til ad taka þessa forsmán frá mér, vildir þú, minn Jesú! lída ad vid þig væri sagt: ødrum hefir hann hjálpad, en sjálfum sér gétur hann ecki hjálpad. Þad er sem eg sjái hvørnig tilgánga vill fyrir oss aumum syndurum á banasænginni, þá fyrir framan standur dómurinn og eylífdin, en á bak til þau vondu verkin, sem framin hafa verid alla æfina, tíminn er úti, en Satan, sem veit sig hafa stuttann tíma eptir og klagar nótt og dag, vill gjøra lítid úr nádinni, en mikid úr syndunum, sem hann ádur gjørdi minni enn mýflugu og léttari enn fis í vorum þánka; en svo ad vor mótstandari fái þá eigi ad hlacka yfir oss þínum trúudum, þá vildir þú, minn Jesú! heyra bríxl og hólsyrdi fjandmanna þinna undir andlátid, og munt þessvegna géfa oss, þó óverdugir séum, anda ráds og styrkleika, sem gjøri róliga samvitskuna med þeirri huggun, ad vér fyrir þig høfum frid vid Gud, og séum réttlátir fyrir trúna, hvørja þú munt eigi láta þrotna, þá mest áliggur, og Andskotinn girnist ad sigta oss sem hveiti; því svosem þú hefir af allra handa slags fólki vid hádúngum tekid í þinni kvøl, svo hefir þú borgad fyrir allra syndir, og lætur þínum trúudum, sem á þig vona, þad sama til gagns koma, svo aldrei verdi þeir fyrir eylífri forsmán, heldur fullkomnist á

þeim þad þú segir fyrir munn Davíds: Lát þá eigi til skammar verda á mér, sem vænta þín Drottinn Zebaoth, lát þá ei skamrodna á mér, sem leita þín Gud Israels. Og fyrst eg hefi nú svo huggunarríka von, þá skal eg flýa undir þinn kross og gæta ad þínu dæmi, þó svo falli, ad eg verdi smánadur og lídi ákúrur, hádúngar, lygar og brixli vondra manna, eg skal telja mér fyrir virdíng ad smánast med þér, og ætíd hrósa mér af þínum krossi; eg skal læra af þér, þú þolinmóda Guds Lamb! ad gjalda eigi íllt fyrir íllt, ei skammarord fyrir skammaryrdi, heldur blessa þá, sem mér bölva, og gjöra þeim gott, sem mig hata; eg skal ecki gánga framhjá þínum krossi, heldur stadnæmast þarvid í trúnni, voninni og kjærleikanum og þólinmædinni, svo eg sjái þín harmkvæli mér til huggunar, og þitt eptirdæmi mér til eptirbreytnis. O, Herra Jesú! sem hæddur og spottadur varst, þá makt myrkranna yfir þig gêck, þig vegsamar himin og jörd, þér skal hvört tré beygjast, þig skal hvör túnga vidurkénna, þig lofa Englarnir og maktarvöldin med útvaldra skara á himnum, samt allri skêpnunni, segjandi: Þeim sem situr á stólnum og Lambinu, veri blessun, dýrd, heidur, kraptur og styrkleiki ad eylífu, Amen! Lof seg þú önd mín Drottni, Amen!

## 39. Hugvekja.

### Um ræníngjans ydran.

Líka einnig hæddu hann ræníngjarnir, þeir

með hønum voru krossfestir. En einn af þeim spillvirkjum, sem heingdir voru, lastaði hann og sagði: ef þú ert Kristur, frelsa sjálfan þig og ockur! Þá svaraði hinn annar, straffaði hann og sagði: og þú hræðist ei heldur Guð, sem ert þó í eins fordæmingu, og að sønnu skér ockur þetta réttiliga, þvíað vér meðtøkum hvað ockar gjørðir voru verðar, en þessi hefir eckért óskickanligt gjørt. Og hann sagði til Jesú: Drottinn! minstu mín, þá þú kémur í ríki þitt! Og Jesús sagði til hans: Sannliga segi eg þér; í dag skaltu vera með mér í Paradís!

Svosem trúin er ecki allra, svo er því og varið um réttskickaða ýðran, sem í sér hefir fólgna trúna, og þessvegna hrýn ei lausnargjald Jesú á øllum, þó það annars sé almenniligt, því allir taka ei svo ámóti náðinni, að þeir ýðrist og trúi Evangélió. Jesús hefir lofað að reka þann ei frá sér, sem til hans komi, það hefir og engum brugðist; en vilji menn ei koma til hans, þá kémur þeirra ólucka af sjálfum þeim; héruppá høfum vér stórt eptirdæmi á þeim tveimur illvirkjum, sem með Jesú voru krossfestir, af hvørjum sá eini héldt áfram í sínu ýðrunarleysi, annar ýðraðist og fékk strax fyrirheit um Paradís; og sjáum vér á dæmi hins fyrra, hvað aumliga er varið fyrir þeim, sem komnir eru útí forherðíng synda sínna, og af réttvísum dómi Guðs yfirgéfnir í fráleitt sinni, svo þeir gángi að sínum

rádum; þó þessi ræníngi væri staddur midt í sínu lífsstraffi, og sæi ecki annad fyrir enn daudann, audmýktist hann þó eckért, heldur fór ad fylla þann flockinn, sem Jesúm spottadi, þar hønum hefir þó mátt kunnugt vera, hvad vitnadist um hans sakleysi þenna sama dag; augljóst er og, ad eckért hafdi Jesús hønum til misska gjørt, svo hann þarfyrir þyrfti ad hefnast á hønum; eigi heldur vóru þau medøl hulin fyrir hønum, sem hinn ræníngjann leiddi til ydrunar; en svo er ad merkja, sem hann hafi verid búinn ad gjøra sér handverk af spottinu og hatursfullri foraktan annara, og þad hafi því helzt vaknad upp hjá hønum, þó hann ætti nú annad ad hura; eigi taladi hann heldur neitt um syndir sínar, því hann hefir ecki vanur verid ad gjøra sér af þeim stórann þánka; og kémur allt þetta saman vid hagi þeirra, sem af lángvarandi ydrunarleysi eru samdauna ordnir syndinni, þeim verdur tamt ad taka til tólanna, hvørnin sem ástendst, svosem spámadurinn segir: Kann nockud blámadurinn ad breyta sínni húd, eda Pardus sínum fleckjum, hvørnin gétid þér gott gjørt, sem erud lærdir til ad gjøra íllt? sama er þó Drottinn reffi þeim, þeir snúa sér eigi ad heldur, en fara til ad møgla og hata Gud því meir, svo lángt er frá því þeir leidréttist. Þetta er þad hrædiliga forherdíngarstraff, sem Drottinn hótar þeim þverbrotnu, hvørt framkomid er á Gydíngum, og lætur sig enn í ljósi á þeim, sem gánga í þeirra fótspor, hvad ef vér umflýa viljum, þá gætum þess í Gudsnafni, ad enginn orsmái Guds rád í stríd vid sjálfan sig, því þegar

búid er ad útslöckva andann, þá er eigi víst hann komi svo fljótt aptur, heldur vondur andi í hans stad, og lendi svo þarvid sem Jesús segir: Enginn þeirra manna, sem kalladir voru, skulu smacka mína kvøldmáltíd. O, minn Jesú! géf mér undirgéfnum ad vera ströffunum þíns Anda, og skipast vid þína umvøndun, svo eg ydrist af hjarta, játi þér mínar syndir, og fái þær svo kvittar. Á hinum ræníngjanum má sjá spegil ydrunarinnar, hann þeckti sínar syndir, hann hatadi þær, hann vidurkéndi þær, því samþyckti hann sjálfur sinn daudadóm og sagdi: vid medtøkum hvad ockar gjørdir voru verdar; hann gaf Gudi heidurinn, vidurkéndi Jesúm réttlátann, en sig daudamann, hann straffadi gudleysid á hinum ræníngjanum: og þú óttast eigi heldur Gud, sem ert þó í eins fordæmíngu, segir hann, hvarmed hann meinar Jesúm, til hvørs hælis hann nú leitadi, og gjørdi svo opinbera játníng um hans guddóm, hvørn adrir þá hædu; og má af þessu sjá, hve stakann vidbjód hann hefir haft á sínu undanfarna vonda framferdi, og hve háleita þánka um Jesúm. Þanninn hafa Gudsbørn leitad sér syndanna fyrirgéfníngar: Eg sagdi, eg vil játa Drottni mína synd, sagdi Davíd, eg hefi gjørt þann misgjørning, en hvad hafa þessir saudir gjørt, lát þína hønd vera uppá mér og mínu fødurs húsi, sagdi hann þá Engillinn sló fólkid vegna hans ofmetnadar; hvørsu hann vandlætti Guds vegna, má sjá af því hann segir: Hvad mjøg ángrast eg af því, ad þín bodord ei eru haldin; og kunnum vér þá eigi annad ad segja, enn

þeßi stórbrotamadur hafi í øllum þessum greinum haft rétt Davíðs hjarta; en hér ad auk vidurkénnir hann Jesúm Gud ad vera, sem rád ætti á himnaríki, þó hann sæi hann hánga eigi megnugann eins þorstadryckjar, og þó hann þeckti sjálfan sig stórbrotliga skèpnu, þá hæniſt hann þó engu síður ad hønum med inniligri eptirlángan hans nádar. O, minn Drottinn! ef þú sagdiſt eigi hafa fundid í Ísrael adra eins trú og hundradshøfdíngjans, hvad mættir þú þá ecki segja hérum? Hér hefir þú búid þér til lofid eigi af munni barna eda brjóstmylkínga, heldur látid villudýrid á mørkinni vegsama þig; hér þøgdu hinir skriftlærdu og Pharisæarar, sem trúad var til Guds orda um þinn guddom, já, høfdu hann ad hádi; hér þøgdu allir, sem horft høfdu á þín kraptaverk; hér þøgdu postularnir, sem áttu ad vitna um þig; en þegar allir þeßir þegja, þá uppvekur þú eitt skógdýr, einn stigamann, sem allan sinn aldur hefir alid í fjandskap og ódádum, til ad medkénna þinn guddóm, og vitna um þitt upphafníngarstand. Hér hefir þú, ó, sanna Ljós heimsins! midt í þinni formyrkran verid svo skjær, ad frá þér skein geisli trúarinnar í hjarta þess aumíngja, svo hann ecki vanmegnadiſt í sínum syndum, heldur yrdi hønum trúin reiknud til réttlætis, og var hans trú eigi daud og maktarlaus þecking heldur lét hún sig í ljósi med játníngu munnsins og audmjúkri bæn: Herra! minnstu mín, þá þú kémur í ríki þitt! segir hann; hann bidur eigi ad frelsa sig frá lífsstraffinu, heldur koma til hjálpar sinni aumu sálu, þó þorir hann ecki ad

koma upp með það, að hann megi vera hjá Jesú í hans ríki, heldur biður hann hann að minnast sín, sé hann sér að eins náðugur, hafi hann góðan þokka til sín, þá nægi sér; hvaraf líka er að merkja, að hann trúði Jesús ætti eylíft og himneskt ríki, því eigi kunni hann að meina jarðneskt ríki einsog Gyðíngar velflestir, þar hann vissi sér þá vísan dauðann; hvað er að álíta ei það nálæga, heldur það ókomna, hvað er að lítilæcka sig undir volduga Guðs hønd, hvað er að húngra og þyrsta eptir réttlætinu, hvað er lofsins að láta sér nægja Guðs náð, ef eigi er þetta? Hafi nú Jesús dáðst að trú þeirrar Kanversku kvinnu, hafi hann fundið krapt útaf sér gánga til þeirrar blóðfallssjúku, hvað mun þá hér hafa skéð? þarum gaf raun vitni, því varla hafði þessi syndari úttalað orðin, fyrrenn hann svaraði: Í dag skaltu vera með mér í Paradís; og kom hér fram það fyrirheit: Það skal ské að áðurenn þeir kalla, vil eg svara, og meðan þeir eru að tala, vil eg bænheyra þá. O, hvað góður er Jesús við alla þá, sem hans leita! hann svaraði aungvu til hádúnganna, sem komu fram við sjálfan hann, en þá syndarinn bað um náð, þá gjørir hann aungva fyrirstøðu að svara uppá hans fyrstu orð, hann brúkaði ei lángan formála einsog við konúngsmanninn eða føður þéss túnglsjúka, því hann vissi hvað á lá, og vildi glæða það trúarljós, sem sjálfur hann hafði tendrað svo hann bænheyrði í þægiligann tíma, og er hans miskunsemi enn þá hin sama við alla syndara, því hann er samur í dag og ígær og um eylífar aldir.

Ó, hvad stóra huggun hafa hér allir stórbrotamenn; þessi spillvirki hafdi alid aldur sinn í versta klækjum allt fram í daudann, en Jesús talar ecki ord um þad, heldur lofar hønum strax fortakslaust himnaríki, eins- og hann hefdi aldrei syndgad; hvarfyrir, minn Herra? nema svo þú audsýndir, ad þú vildir ecki eylífliga minnast á þær syndir, sem þú ert búinn ad kasta í sjáfarhaf þinnar forþénustu; svo hvørsu sem einn hefir verid vondur, þursi hann þó aldrei ad setja fyrir sig ad hid minsta beri á hans ránglæti, þegar hann snýr sér frá sínu ógudligu athæfi. En þar þú vissir ad einn fárádur syndari, sem verst vid daudann, mundi kunna ad þenkja ad þetta fyrirheit eigi nái til sín, þar tíminn sé nú úti til ad sýna nockra ydrunar ávexti, þá tókstu vid þessum syndara undir sjálft andlátid, svo þú sýndir ad miskunin væri vís, hvad seint sem menn leita hennar af hjarta, því allan daginn útbreidir þú hendurnar; og hvørnin kunnir þú, Drottinn minn! ad sýna einum daudvona syndara sterkara dæmi þaruppá, ad sáluhjálpin kæmi af nádinni og ecki af verkunum, heldurenn med þessu miskunarverki? Svo sætt og huggunarríkt er nú þetta dæmi, þad þénar til ad burttaka ofmikid ángur og efasemi frá sturludum samvitskum, en ecki til ad ala andvaraleysi upp í ydrunarlausum; þeim kémur þad og eckért vid, því þessi ræníngi var ydrandi og aptursnúin manneskja; en þó hann snérist undir and- látid, þá eru þar þó eigi mørg dæmi til, ad svo hafi farid fyrir mørgum, já, snart eckért í Gudsordi. Hvada fásinna er þad þá ad draga undan ydruninn

allt í daudann; eda veitstu í hvada háttalagi daudinn kann ad hitta þig? en ef þad kynni ad vera midt í þínum syndum, ad skyndíngu, á augabragdi, svosem mørg hafa dæmin géfist, og lát vera ad helsóttin kynni ad géfa þér nockra vísbendíng daudans, ertu þá viss um, þú verdir hentugri til ad ydrast á sóttarsænginni, heldurenn þá þú hafdir heilsuna? hafir þú aldrei nent ad læra, hvad ydran var, eda leggja nockurn tíma hønd á þad vandasama verk, þá sýnist mér minni von á því, þegar allir sálar og líkamans kraptar dofna, og verkirnir plága þig; hvørninn fer, ef ydrunarángrid kynni þá ad snúast uppí ørvænting? eda hefir þú í þínu valdi anda ydrunarinnar? Kóre med sínum féløgum dó ecki strax, þegar jørdin opnadist, ecki heldur Pharaó, þegar hafid luktist saman, en med hvørugum vil eg eiga samfélag. Menn kunna ad hafa stóra orsøk ad efast um hreinleika þeirrar ydrunar, sem eigi skédur fyrri enn madur sér, lífid er á førum, þá kann margur ad segja: Gud miskuni mér; en hvør veit, hvørt hann þá hatar svo ránglæti sitt, og er farinn ad leita Drottins med hræsnislausu apturhvarfi; eda hvad skédur stundum, þá menn eru dregnir undan daudanum? eru þeir þá betri enn adrir? eg meina tíu pørtum verri sumir hvørjir. Nú þó sá ríki madur bidji um miskun í helvíti, þá er þad forgéfins, og því vil eg ráda øllum, sem nockud hyrda um sálu sína, ad draga eigi undan ad ydrast þángad til húsbóndinn kann ad vera uppstadinn og búinn ad láta aptur dyrnar. O, þú réttláti Gud og miskunsami Fadir! eg hefi syndgad

og mínar syndir eru fleiri enn sandur sjáfarins, en vertu mér nádugur fyrir Jesúm Krist; uppvek hjarta mitt til sannrar ydrunar og réttrar trúar, svo eg í tíma vakni upp til réttlætis og láti af ad syndga; og þú, minn Herra! sem gjört hefir hreinsan minna synda fyrir sjálfan þig, minnstu mín til hins góda, þar þú situr í þínu ríki, og lát mig loksins lenda þar hjá þér, og ødlast þá sælu, sem þú lofadir þessum ræníngja, Amen!

## 40. Hugvekja.

### Þridja ord Krists á krossinum.

**Sannliga segi eg þér: Í dag skaltu vera med mér í Paradís.**

Sá hinn ógudligi láti af sínum vegi og illvirkinn af sinni þuxan, og snúi sér til Drottins, svo mun hann miskuna hønum, segir spámadurinn; aldrei hefir nockur gjørt þad skammarverk, ad Gud hafi ei misk-unad hønum, þá hann hefir snúid sér, svosem sýnir dæmi allra stórsyndara, Arons, Davíds, Manasses, tollheimtumannsins, hinnar bersyndugu, Péturs, Páls og annara, medal hvørra þetta ræníngjansdæmi ljómar svosem skær huggunar spegill, uppá hvørs audmjúka bæn Jesús strax svaradi þessu huggunar-ríka ordi: Sannliga segi eg þér: Í dag skaltu vera med mér í Paradís; og megum vér hér fyrst sjá þær ágætu verkanir ydrunarinnar. Vér ættum ad

vita hve strángur vandlætari Guð er, og hvað hræðiligt er í hans hefndarhendur að falla, en þarámót hve indæl sé hans miskunsemi, þá hann er náðugur þeim hann er náðugur; hvað skyldi maður eigi vilja vinna til að kaupa af hans reiði, ef kostur væri? hvað skyldi hann meta við hans miskunsemi? en yðranin er það eina, sem hans reiði sefar og náðina gefur, því hann lofar að sá ógudligi skuli lifa, þegar hann snýr sér frá sinni synd. Það er vitanligt, að maður hefir það ekki í heiminum, hvarmeð hann sál sína endurkaupi; en þó má hér læra, að hann getur með yðraninni frelsað sálina, og þar því er svo varið, þá væri líkligt menn legði síg eptir henni framar øllu øðru, sem er í heiminum. Það er vitanligt að Drottins hendur er ómøguligt að umflýa, hvørt kann maður að fara frá hans anda, eða flúið frá hans augliti? þó þú, segir hann við Edom, vildir fara svo hátt sem ørnin, og byggja þér hreiður milli stjarnanna, þá skyldi eg steypa þér þar niðurfrá; en yðranin einasta getur afvendt ályktuðu straffi, svosem sýnir dæmi Ninivíta og Drottinn klárliga segir: Eg kann snarliga tala móti einu fólki og einu ríki, að eg vilji uppræta og niðurbrjóta það, en ef það sama fólk, móti hvørju eg talaði, snýr sér frá því vonda, þá skal mig yðra allrar þeirrar ólucku, sem eg hugði að gjøra því. Hvað þúngur sé þeirra kostur, sem búa eiga við nagandi samvitsku, vita þeir sem reyna, þeir óttast hvørt þjótandi blað og flýa þó enginn elti þá; þeir eru svosem sjáfarhafið þá það er ólgufullt, og eigi er friður fyrir þeim; en yðranin stillir

til frids samvitskuna, því sá sem ydrast, forlíkast vid Gud og hefir frid vid hann, hann vandar sig líka, svo hann ecki mótþróanliga þenna frid af sér brjóti, heldur finnist óflekkadur fyrir sínum Gudi, til hvørs hann hefir djørfúng, þared hans eigid hjarta ecki fordæmir hann, hann gleymir sjálfum sér, en unir sér í sínum Lausnara, og hvad sem uppá fellur er hann djarfari enn úngt león, því hann býr undir skjóli þess hædsta; daudann óttast hann ecki, heldur hlackar til ad leysast af sínum eymdum og vidlodandi ófullkomligleika, en finna sinn Jesúm, hvørn hann elskar og med hvørjum hann lifir í andligri sameiníngu; já, sjálf ydrunartárin, hvørjum hann úthellir á hans fætur, verda hønum yndælli enn allur hégómi heimsins, og þannin verda húngradir fylltir gjædum og andliga voludum géfid himnaríki; hérmed gledur ydranin þá h. Engla, svosem Jesús klárliga kénnir, því Englarnir eru Guds vilja samþyckir, sem er, at syndarinn leidréttist og lifi; hvareptir og fylgir þeirra þjónusta, því svosem Engill Drottins offækir þá ógudligu, svo eru þeir þjónustusamir andar útsendir til þjónustu þeim, sem erfa skulu sáluhjálpina. Hvad viljum vér segja um bænahaldid, sem er einn sá vigtugasti partur af vorri gudsþjónustu, því med bæninni førum vér á leit Guds miskunar og velgjørnínga, hvørra vér megum ecki án vera, og géfum hønum sjálfum undireins heidurinn; en þeir ydrunarlausu bidja forgéfins, þeirra bæn verdur ad synd, þeir bænheyrast ecki, þó þeir útbreidi hendurnar og séu margmæltir, því þeirra hendur eru fullar af blódi;

þarámót er sú bæn, sem framkémur af ydrandi hjarta, fagur saungur í eyrum Drottins, þá bænheyrir Drottinn, því þeir bidja eptir Guds vilja, sem er ad allir snúist til ydrunar; þá dregur ei Jesús í hlé sína fyrirbæn, sem vill ad syndarinn fái kvittun synda sinna, því hann sem er forlíkun fyrir vorar syndir er og vor talsmadur; aldrei finnast þess dæmi, hann ræki nockurn frá sér, sem ydrandi kom til hans, hann lifir og enn til ad bidja fyrir þeim, sem til Guds koma fyrir hann, og verdur ætíd bænheyrdur. Móses fékk vatn af hellunni í Hóreb, þá hann sló þará eptir Guds bodi; ydrandi bæn er sá Mósis stafur, sem straumum náđarinnar útveitir af hyrníngarsteininum í Zíon, Jesú Krist, svo sá, sem ydran gjörir, uppausi med fagnadi vatnid af þeim brunni hjálpræđisins. Skiljum oss þarfyrir vid syndir vorar, og komum svo fram fyrir náđarstólinn, svo vér hjálp finnum; hvør er sá náđarstóll? þad ert þú, minn Jesú! á þinn kross upphafinn og útþaninn, þar breidir þú fadminn móti oss syndurunum og segir: Komid til mín, þér, sem erfídid og þúnga erud þjádir, eg vil endurnæra ydur; þad vard ad gódu þessum ræníngja, því lagi vil eg og sæta, sem veit ad eg er engu betri á mig kominn í þínu heilaga augliti enn hann, ef þú vildir tilreikna mér mínar syndir; en, sjá! eg skríd svo þreyttur undir byrdi minna synda fram ad þínum krossi, á hvørjum þú ert ad forlíka fyrir þær; eg horfi í anda á þínar heiløgu undir og sár, sem eru hæli sálar minnar, því þitt blód hreinsar mig af øllum mínum syndum; eg veit líka ad þú

frá ángistinni og dóminum upphafinn lifir og ríkir ad eylífu í ómælanligri dýrd og sælu, en eg þinn fátækur limur hrekst og þjáist í sorgum og volædi; minnstu mín þarfyrir, þar þú situr í ríki þínu, sýn mér teikn þinnar gjædsku og frelsa son þinnar ambáttar; Í dag skaltu vera med mér í Paradís, sagdir þú vid þenna spillvirkja; ó, ad mitt hjarta mætti hvørn dag búa hjá þér á himnum, þar sem er minn rétti borgarréttur, þó líkaminn útvortis hrekist í fallvaltri veru heimsins! Lát mig aldrei nockurn dag vid þig skilja, heldur í øllu mínu framferdi leita þess, sem þar uppi er, og stunda eptir þínu ríki! Medtak svo loksins sál mína, þá æfidagurinn er úti, og þá eg í minni sídustu neyd bid þig ad minnast mín og medtaka minn anda, þá lát þinn góda anda svara mér, ad eg skuli vera þann dag med þér í Paradís, svo eg fari burt med fridi, og sé þareptir þar, sem þú ert. Framar þessu má læra af þessu Jesú ordi, ad þó hann píndist í breiskleikanum, þá var hann ecki ad sídur midt í pínunni eylífur alsvaldandi Gud, sem rád átti á himnaríki, og allt vald var géfid á himni og jørdu, þó hann þad ecki brukadi í þad sinn nema til ad géfa stórbrotamanninum eylíft líf. Og loksins er þetta ord blessud huggun øllum daudvona manneskjum, sem í trúnni Guds Sonar deya, hvørjum hann hér kénnir, hvørs þeir megi vænta fyrir sálir sínar, sem er, ad þær vidskildar vid líkamann hverfi til hans sem þær gaf, og hreinsadar af allri fleckun séu í hendi Drottins, hvar þær snerti engin pína. Heidíngjar høfdu ýmsar meiníngar um sál-

irnar, þó héldu hinir vísustu af þeim, að þær mundu mikið vondt og mæðusamt útstanda, áður þær kæmust á sæluvelli (er þeir svo kölludu); hvörju líkt er meiníng Papista og Gydínga á þessum dögum, sem upp hafa diktað svonefndann Hreinsunareld, hvar í sálirnar lengi kveljist, aðurenn þær njóti dýrðarinnar, og má nærri géta með hvaða skapi þesshattar menn deya; en Jesús af sínum krossi rekur nú þesshattar villur til baka, og sýnir fólki sínu fastann grundvöll vonarinnar, þar hann lofar ræníngjanum, að hann skyldi vera með sér í Paradís þann sama dag sem hann dó, hvað eð varð að vera sálin, því líkami hans var beinbrotinn og af krossinum tekinn um kvöldið; Jesú allrahelgasti líkami var og í gröfina lagður, hvört ei kom líkami ræníngjans, þessvegna var það hans sál, sem sama daginn var hjá Jesú sál, hvörja hann fól sínum Föður á hendur, og er oss engin orsök til að innbirla oss lengri undandrátt hreinsunarinnar fyrir annara sálir, sem í Guði eru burtsofnaðir. Svo Guð veri lofaður! eg veit hvað verður af minni sál, þá hún útkallast af sínu tjaldhreysi; hún hvarflar ecki um loptið, jörðina eða undirdjúpin, heldur mun hún eptirfylgja Lambinu og hvílast af sínu erfiði, þángaðtil hún kémur aptur til líkamans á viðréttíngar deginum; þessvegna kvíði eg eigi stórt við dauðanum, heldur álít hann með djörfúng svosem þrösfuldinn fyrir hvörn eigi er nema eitt fet til fagnaðarins, og þó það spor kunni í fljótu áliti að líta út sem nockuð skuggasamt fyrir veikri náttúru, þá vona eg þó minn Jesú muni þá seinast

gjøra mitt myrkur að ljósi, og upplýsa mín augu, svo eg eigi útaf sofni í dauðanum, jafnvel þó eg syndugur sé, því eg heyri hann lofar hérvist hjá sér ecki einum helgum manni, heldur illvirkja sem aptur var snúinn. O, minn Jesú! innræt hjá mér þessa von, og gleð mig í mínu andláti með þessu orði: Í dag skaltu vera með mér í Paradís, Amen!

## 41. Hugvekja.

Fjórða orð Krists á krossinum.

Og það var nær um hina sjøttu stund, að myrkur gjørðist yfir allt landið, allt nær til níundu stundar, og sólin misti sitt skin. Og um níundu stundu kallaði Jesús hárri røddu og sagði: Elí! Elí! lama sabachtaní? hvað eð útlegst: Guð minn! Guð minn! hvarfyrir forlétstu mig? Og nockrir af þeim, er þar stóðu hjá, þá þeir heyrðu það, søgðu þeir: sjá! hann kallar á Elíam.

Zíon segir: Drottinn hefir yfirgéfið mig, Drottinn hefir gleymt mér; kann nockuð, svarar Drottinn þá aptur, móðirinn að gleyma sínu barni, svo hún aumki sig ecki yfir sinn lífsávøxt, og þó hún gleymi því, skal eg þó aldrei gleyma þér, stendur hjá Esajas spámanni 49 kap. þar sem talað er um freistíngar og hugganir kristninnar. Ecki er það að undra þó Drottinn sýni sig stundum þesshátter við

sína ættleidínga, ad þeim virdist sem hann hafi yfirgéfid sig og gleymt sér, þar hann, um hvørn røddin af himni vitnadi vid Jórdan, hrópar med útbreiddum høndum og upplyptum augum móti himninum þessum sorgarhljódum: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir yfirgafstu mig? þá hann var forlátinn ecki af adstod Guds, sem er sól þeirrar himnesku Jerúsalem, heldur líka af því náttúrliga sólarljósi, sem sjálfur hann hafdi skapad. En megi Gudsbørn, fyrir hvørjum hann byrgir sitt andlit, þó hugga sig þarvid, ad hann géti sídur gleymt þeim enn módirin barni sínu, þá mátti Guds Sonur miklu framar, jafnvel þó hann yrdi ad kalla sig módann, þegar hann tók uppá sig syndir vorar, hvad ed Davíd vottar undir hans persónu, segjandi: Þú munt ecki eptirskilja mína øndu í helvíti, og eigi lída þinn heilagi sjái rotnan, þó kom ei þetta hróp upp hjá hønum af neinnri møglun, óþolinmædi eda efasemi; ecki gleymdi hann hlýdninni, því svosem hann var lyndur, þegar hann sagdi í grasgardinum: Fadir! ecki minn, heldur verdi þinn vilji, svo var hann allt til krossins dauda; ecki heldur þolinmædinni og elskuríku trausti til Fødursins, því segir hann: Gud minn! vitnandi þarmed, ad eigi meinti hann slitid þad náttúrunnar samband, sem væri milli sín og síns himneska Føðurs, eigi heldur þá persónuliga sameiníng milli síns manndóms og guddóms, þó eigi findi hann nú til huggunar gud-dómsíns, uppá þad hann píndur og freistadur yrdi, og lidi svo þad, sem vér med vorum syndum høfdum forþénad. Hvad merkja þá þessi ord? þau sýna oss

hvad hrædilig sé Guds reidi ígégn syndunum, og hvad øflug sé syndin til ad plága sál og líkama; vilji menn eigi trúa því, sem Páll segir: ad ángist og harmkvæli komi yfir sálir þeirra, sem illa gjøri, þá gæti þeir ad hvørnin Guds Sonur bar sig, þegar hønum voru tilreiknadar veraldarinnar syndir, og á hann hlóðst þeirra straff tímanligt og eylíft, hvarútaf eigi einasta kvaldist hans líkami útvortis, heldur hans sál innvortis, sem þarfnast mátti gudligrar endurnæríngar, en finna til helvítis ángistar, hvaraf hans pína vard svo yfirvættis stór, ad um hana má framar enn nockra adra segja þad, sem Jeremías sýngur í Harmagrátnum: Þér, sem framhjá gángid á veginum, gætid ad hvørt nockur sorg er svosem mín sorg; og þessu lýsir nú Jesús af sínum krossi þar hann segir: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir yfirgafstu mig? hvør ord tekin eru af 22 Davíds sálmi, hvarí svo greiniliga er talad um Jesú pínu, svosem Davíd hefdi stadid undir krossinum. En fyrst þessi er verkun syndarinnar, þá ætti oss umhugad ad vera ad skilja oss í tíma vid hana fyrir sanna ydrun; hvartil oss líka reka mega þau hrædiligu myrkur, sem hér segist á hafa gengid í heilar þrjár stundir, þegar sú fagra Sól réttlætisins, Ljómi Fødursins dýrdar og hinn frídasti medal mannanna sona formyrkvadist, svoad hann vard madki líkari enn manni, þá blygdast sú náttúrliga sólin ad sýna fegurd sína heiminum; og er þad merkjandi ad hér hefir ecki skéd náttúrlig formyrkvan, svosem lærdir menn hafa fyrir laungu samanborid af ásigkomulagi túngl-

síns, sem ástódst um þann tíma; en var hún eigi náttúrlig, þá var hún yfirnáttúrlig og dásamlig einsog myrkurin í Egyptalandi, svo Dróttinn hefir látid hér sólina undirgánga um middegi og landid myrkt verda, þá dagurinn var bjartur, svosem Amos segir; hafi þá nú sólin svosem skammast sín og byrgt fyrir augu sér, þá hann var kvalinn, sem henni hafdi fegurdina medskapad; hafi hún, sem þó hefir skinid og skín yfir margt ódádaverk, ecki gétad léd þeim sína birtu, sem hæddu Guds Son, þar hann héck nakinn á krossinum, svosem ein bølvan; skyldum vér þá eigi mennirnir, sem einir af øllum Drottins sképnum høfum hønum kvølina orsakad, miklu framar blygdast fyrir hans heilaga augliti, og játa ad hønum heyrir réttlætid til, en oss blygdan vors andlitis. O, hvørsu má eg aumur syndari og ódyggur þræll skammast mín ad líta upp augunum, þá eg heyri ad Guds Sonar ásjóna er, minna illgjørda vegna, ordin afmindadri enn annara manna, og hádúng hefir brotid hans hjarta; skyldi eg ecki draga þraungt andann af harmi og ecka, þar hann stinur upp þessu sorgarhljódi: Gud minn! Gud minn! því yfirgafstu mig? O, minn Jesú! hvad skal eg hér til segja? nema skrída ad þínum fótum og halda mér þar fast vid med tárum minnar ydrunar og kossi minnar trúar, eptirlaungun þinnar nádar og fullkomnu hatri til syndarinnar; þar skal eg stadnæmast, þángadtil þú segir til sálar minnar: Þínar syndir eru þér fyrirgéfnar; og fyrst eg trúi þad verdi mér ad fullu athvarfi, þá skal eg líka hyxa eptir hvada huggun

eg kann að ødlast af myrkrunum, sem yfir þig géngu, og þínu sorgarhrópi þar inni. Kvalastaður fordæmdra kallast ytsta myrkur, hvar inni er óp og tannagnístran, og er það kvalastaður allra trúlausra þjóna; þángað átti eg að kastast, sem illa hefi farið með góts og gáfur míns Herra; en svoað eg komi aldrei í þessa myrkrastofu, eru í pínunni myrkurin gengin yfir minn Lausnara, hann mun þarfyrir útleiða sál mína af helvítis valdi, því hann hefir meðtekið mig; Jesús hrópaði í myrkrinu sorgarhróp, þarmeð kallaði hann á mig inní himnaríkis fegurð, því hans kvøl er mér orsøk eylífrar sáluhjálpar, og þegar eg er þángað kominn, mun eg í staðinn fyrir þetta hans sorgarhróp, taka undir það stóra Halelúja, sem súngið verður eylífliga hønum til heiðurs. Mørg dimmuský setja sig milli Guðs og vor í þessum vorum útlendíngskap, og byrgja svo stundum fyrir oss geisla réttlætis sólarinnar, að hennar huggun fær ecki að ljóma inní hjartað; þar eru myrkur syndanna, myrkur freistínganna, myrkur hørmúnganna, sem optliga koma þeim þaunkum inn og orðum upp: Guð! hvarfyrir ertu svo lángt í burtu, og því hylur þú þig á degi neiðarinnar? hvað lengi viltu gleyma mér? hvað lengi viltu hylja þitt andlit fyrir mér? hvað lengi skal eg hafa ángist í mínu hjarta? Þessvegna hefir Lausnarinn í myrkrunum kvartað um hann væri af Guði yfirgéfinn, svo nær vér, hans aumu børn, hrópum til hans, upprenni oss ljósið í myrkrunum, ljós trúarinnar, vonarinnar, kjærleikans, endurnæríngarinnar og kraptarins, því þartil er hann freistaður,

ad hann hjálpi þeim sem freistadir eru. Jesús segir hér í sínum stærstu freistíngum: Gud minn! Gud minn! hvarmed hann í ljósi lætur sína elsku, sína hlýdni, sína þolinmædi og sitt traust til Guds, jafnvel þó hann í þad sinn væri yfirgéfinn; en hvad sagdi hann þareptir vid Magdalenu? Kunngjör brædrum mínum, eg fer upp til míns Födurs og ydar Födurs, til míns Guds og ydar Guds; þetta dyrfir mig, svo eg voga ad hafa þad eptir hönum ad kalla Gud, minn Gud; já, sannarliga er hans Gud, vor Gud, og hans Fadir, vor Fadir, engu sídur þá hann agar oss, enn þá hann sýnir sig blídann, því í hirtíngunum sýnir hann hvad mest sína födurliga rækt á oss; því skal þetta Jesú ord kénna oss ad kalla ætíd til hans og kyssa án möglunar hans hönd, nær hann typtar oss; þad kénnir oss líka Davíd: Mín raust, segir hann, er til Guds, og eg vil hropa; mín raust er til Guds, og hann mun bænheyra mig. Guds eingétinn Son kvartar hér um, ad hann sé yfirgéfinn; en hvartil er þad skéd? svo vér megum vita ad Gud vill aldrei yfirgéfa sína, Fadirinn elskar þá sem Krist elska; ef hann elskar þá, þá freistar hann ecki þeirra yfir megn; hann leikur sér ad sönnu vid börnin sín, en eigi svo ad hann ætli þeim eigi af, því hann veit hvada verkefni vér erum, hann mun sín ord og sinn sáttmála trúliga halda; hvör eru þau hans ord? þessi medal annara: Eg hefi mitt andlit á augabliki reidinnar um litla stund hulid fyrir þér, en med eylífri miskun vil eg þér miskunsamur vera. Fadirinn heyrdi þetta hróp af Jesú framkoma

støddum í mestu neyd og hjartasorg, því mun hann opna sitt eyra, þegar eins stendst á fyrir oss, þar hann hefir sagt: Akalla þú mig í neydinni, og eg skal bænheyra þig; héruppá skal eg mig reida og segja svo med David: Pad skal mér kjært ad Drottinn heyrir mína raust, hann hneigdi sitt eyra til mín, þarfyrir skal eg ákalla hann alla mína lífdaga. O, minn gódi Gud og himneski Fadir! þú sem vegna minna synda hefir látid þinn Son yfirgéfinn verda og heyrdir hann hrópa í myrkrinu undir sitt andlát, lát mig þess njóta lokfins, þá byrtan himinljósanna hefir mig yfirgéfid, og svo vel málfæri mitt sem adrir náttúrligir kraptar gánga til grunna, medtak þá mína sálu til eylífs ljóss og lífs, fyrir hans forþénustu, Amen!

## 42. Hugvekja.

### Fimta ord Krists á krossinum.

Eptir þad, þá Jesús vissi ad allt var nú fullkomnad, og ad skriftin yrdi uppfyld, þá segir hann: Mig þyrstir! Par stód eitt kér fullt af ediki; jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njardarvott, og fyllti af ediki, og setti hann ofaná einn reirlegg, og gaf hønum ad drecka, og sagdi: lát vera! sjáum hvørt Elías kémur ad taka hann ofan; en adrir søgdu: bídid! látid sjá, hvørt Elías kémur ad hjálpa hønum.

Pér plöntudud lystiliga víngarda, en skulud ecki drecka vín þaraf, sagdi Drottinn fordum vid Gydínga; þad var og rétt, því þeir lögdu þad ofaná adrar syndir, ad þeir undirþryktu þann fátæka og tóku kornsbirdina frá honum. En hitt var furda, ad Jesús, sem heilagur var og öllum gaf allt, skyldi sæta þessum dómi; hann hafdi vínvid af Aegyptalandi burtflutt og gródursett hann í því frjófsama landinu, þad var Israels lýdur; hann var og sú hellan, er þeir afdruckn í eydimörkinni; en þegar hann óskadi dryckjar í þessari stærstu kvöl hjá þessari sinni plantan, þá báru þeir honum edik, og kom hér fram þad sem Drottinn segir: Eg vonadi minn víngardur mundi bera mér gód vínber, en hann ber villiber. Adrir planta ad sönnu víngarda, en Gud verdur ad géfa ávöxtinn, þad gétur hvörki sá, sem plantar, né sá, sem vökvar; en Jesús hafdi sér í hendur lagda alla hluti, hann gétur látid rigna yfir einn stad og eigi yfir annann, hans er jördin, og öll hennar fylling; hann lætur brunnana uppspretta í dalverpunum, svo villidýrin slöckvi sinn þorsta; hann gaf vatninu tíngunarkraft í upphafi til frjófsgunar þeim sképnum, er þar inni sveima; hann gjördi sjóinn, og hans hendur tilbjuggu þurlendid; hann gjördi og fordum vatn ad víni í Kana; þó hafdi hann nú ecki svo mikid af allri sinni eigu og öllum sínum verkum, sem svaradi einum þorstadryk; þegar hann þurfti víns, féck hann þó ecki vatn, sem öllum býdur lifandi vatn, heldur súrt edik, hvaraf hann píndist og mæddist enn meir. O, hvílík furda!

O, þú alleina ríki Gud! ó, þú alleina máttugi Gud! ó, þú alleina gódi Gud! hvad ørbyrgur ertu ordinn? hvørsu ertu þágumadur eins þorstadryckjar, og fær þó ecki, þú sem eigi vilt láta ólaunadann einn vatnsdryck í lærisveins nafni gefinn? Davíd vard feginn ad æskja ser máltídar, þá hann var í sínum hrakníngi, en hér er meiri enn Davíd, Davíds Sonur og þó Davíds Herra, Jesse kvistur og þó Davíds rót. Þú, minn Lausnari! hefir uppá þig tekid þessa ørbyrgd, svo þú borgadir fyrir allt mitt óhóf í mat og dryck, og þaradauk leiddir mig ad ferskum vøtnum nádar=fyrirheita Evangelií hér í heimi, og annars heims til lifandi vatnsbrunna, sem framfljóta af stóli Guds og Lambsins. En hér hefst sú spurníng, hvørt Jesús hefdi þurft nockurs ad þarfnast, þó þeir gæfi hønum edikid, þar hønum var ecki um megn ad umbreyta því í vín, einsog vatninu í Kana? En þartil svarast einfaldliga: ad nú var ecki tími fyrir Herrann ad taka sig undan kvølinni med táknagjørd, heldur lída fyrir vorar syndir og fullkomna allt hvad af hønum var skrifad, og til þess gjørdi hann sína sídustu ferd til Jerúsalem; en á medal annars voru þessi Davíds ord um hann ritud: Þeir gáfu mér edik í mínum þorsta; hefdi nú ecki Jesús smackad edikid ádurenn hann dó, þá hefdi verid orsøk til ad efa, hvørt þetta hefdi framkomid; þarfyrir vildi hann ecki fella þad undan undir sínn dauda, hvad og Gudspjallssagan ávísar, segjandi: þá Jesús vissi ad allt var fullkomnad og ad rítníngin uppfylltist, sagdi hann: Mig þyrstir;

og þá hann hafði edikið til sín tekið, sagði hann: Það er fullkomnað, að hvørju gjørðu hann gaf upp andann. Héraf er auðséð, að Kristur skyldi ecki í þetta sinn auðsýna sitt guðdómsveldi með krapta-verkum, heldur framkvæma sitt forlíkunarembætti, með því að líða í þjóns mind fyrir syndir heimsins, og bíða þartil allt var fullkomnað. Framar skul-um vér athuga, hvørjar verið hafi orsakir þessa þorsta Lausnarans, og var það fyrst náttúrligur þorsti; hann var nú að þjóna ødrum og erviða sig dauða móðann í vorum syndum, því hann lét slátra sér sem ødru fórnarlambi, hans blóð var nú að mestu útrunnið, hans kraptar uppþornaðir sem skurn, og því skyldi þá ecki hans túnga loða við hans góm, þar hann hafði sannarligt manndómseðli; ef Samson þyrsti, þá hann hafði slegið Philisteana; ef sjálfann Herrann þyrsti, þá hann setti sig veg-móður hjá Jacobs brunni, skyldi hann nú ecki miklu framar mega þyrsta, þar hann var að berjast við syndina, dauðann og Djøfulinn, hafði verið hrjáður og kvalinn frá því um kvøldið fyrir, og nú var kom-ið að 9du stundu dags, þá dauðinn tók að þrengja að hjartanu, því segir hann: Mig þyrstir, svo allir skyldu vita að pínan skéði ecki án náttúrligs sárs-auka, veikleika og harmkvæla? en hann féck þó ecki að drecka nema edik, það var sá vøkvi, sem þeir dreiptu á hann með undir andlátið. En hvarfyrir kvartaði hann hátt um þorstann? eg heyri þó ecki, að sú mikla hetja hafi sagt óvinum sínum til meina sinna, en hér segir hann: Mig þyrstir, oss til eptir-

tektar; hann vissi vel ad þessi umkvørtun mundi ecki lina heldur auka kvalrædi sitt, og þarmed uppfyllast spádómarnir; hvarfyrir hann med þessu ordi vildi benda oss til ad álíta í annann stad þenna sinn þorsta sem eptirlanngunar-þorsta eptir vorri sáluhjálp, hefdi ecki svo verid, hefdi hann aldrei þyrst, og aldrei hefdi hann um þorsta kvartad, þad kénna medal annars þessi ord: Minn matur er, ad eg gjøri hans vilja sem mig sendi og fullkomni hans verk; nú var þad Födursins vilji, ad hann med sinni pínu og dauda skyldi forlíka fyrir syndugt mannkyn, hann hafdi svo mikla lyst þar til, sem menn annars plaga ad hafa til matar og dryckjar; hann vissi ad ecki mundi lángt ad bída daudans, þá hann hafdi edikid til sín tekid, því segir hann: Mig þyrstir, svosem vildi hann segja: æ, hvad lángar mig nú ad deya fyrir syndarana. Lærum nú héraf: ad skammast vor fyrir vort tómlæti! Guds Son þyrstir ad deya fyrir oss, oss þyrstir ecki eptir hans nád, svo vér megum lifa, en oss þyrstir eptir øllu illu, sem hann hatar, og sálgar ad lokunum sál og líkama med eylífum þorsta. Hér kémur fram þad Drottinn segir: þér himnar bifist og skélfist héryfir, því mitt fólk gjørdi tvent vondt, þeir yfirgáfu mig þann lifanda brunninn, en grófu sjálfum sér brunna, sem ecki kunna vatni ad halda. Jesúm þyrsti eptir vorri ydran, vorri trú, vorum kjærleika, þar elskan, sem hann hafdi á oss, knúdi hann til ad lída kvølina; þetta heyrum vér svo opt sem oss bodast í hans nafni ydran og syndanna fyrirgéfníng, þá er, sem hann

kalli til vor ofan af krossinum og segi: ó, mín brúdur! sem sært hefir mitt hjarta, þú hefir ad sønnu hóranir drýgt med mørgum elskuga, en kom þú þó aptur til mín, mig þyrstir, mig lángar eptir ad deya fyrir þig, því eg vil þú leidréttist og lifir; sjá! hvørsu dregid er af mínum náttúrligu krøptum, sá seinasti daudans hrellur tekur ad uppþurka túnguna og þrengir sér innad hjartanu, svo eg á ecki annad ad gjora nema ad géfa upp andann; er þad ecki nógur vottur ad eg vil eigi ad þú tapist, heldur hafir eylíft líf. O, þú kristin sál! lát þessa ómæliliga elsku knýa þig til sannrar ydrunar; snú þér til þíns Lausnara af hjarta, og drag þad ecki undan dag frá degi; bjód hønum ecki edik yfirdrepskaparins og hálfvelgjunnar, sem hann vill útskirpa af sínum munni. Þad eru mikilvægir og sannarligir hlutir sem ydranin á ad útrétta, því verdur hún sjálf ad vera hrein, og engin svik mega finnast í þess manns anda, hvørjum Gud skal eigi tilreikna syndina; Jesúm lángar eptir þér, þad sama skal uppvekja hjá þér andligann þorsta eptir Gudi; lát umþeinkíng þinna synda og hans gædsku mýkja svo hjarta þitt, ad þig lángi eptir hans nád einsog þyrstann mann eptir svaladryck, hvørri sinni nád hann samlíkir vid lifandi vatnsstrauma, og býdur þángad øllum sannydrandi, segjandi: Þér allir, sem þyrstir erud, komid til vatnsíns, eg vil þyrstum géfa af brunni lifandi vatns fyrir eckért; heyr hér, mín sála! hvørsu alúdliga hann býdur þér; tak ecki þetta blessada tilbod upp med kaldsinni, heldur svara hønum med

ydrandi og eptirlaungunarsømum anda í trúnni! O, minn Jesú! svosem þig þyrsti eptir minni sáluhjálp, svo þyrstir mig eptir þinni náð; svosem hjørturinn kallar eptir fersku vatni, svo kallar mín sál eptir þér; eg heyri þig þyrstir, en hvað skal eg bjóða þer? þú dreckur ecki hafrablod, en sundurknosadur andi er þitt offur, því muntu ecki forsmá þau tárin, sem þaraf framspretta; eg veit þú álítur trúna, þarfyrir kém eg líka fram med hana, og þó hún sé veik, þá festir hún sig þó á þér, en engum ødrum; ófullkomid er ad sønnu allt ydrunarverkid af minni hálfu, þó muntu ecki forsmá þad, þú sem ecki sundurbrýtur brákadaun reir og ecki sløckur rjúkandi hør. Lofadur sértu, minn Lausnari! sem látid hefir þig þyrsta, svo þú frelsadir mig frá þeim óbæriliga kvalaþorsta í helvíti! lát mig þarfyrir aldrei koma í þann kvalastad, heldur géf eg svo leiti þín, lángi eptir þér og tali um þínar dásemdir hér í nádinni, ad eg eylífliga vegsami þig í dýrdinni, Amen!

## 43. Hugvekja.

Sjøtta ord Krists á krossinum.

**Þá Jesús hafdi nú edikid til sín tekid, sagdi hann: Pad er fullkomnad.**

Nær þitt ord opinberast, þá gledur þad og gjørir vísa þá einføldu, segir Davíd. Tvøfalda verkun eignar hann hér Guds ordi, fyrst, krapt til ad gledja

og hugga þá fáfródu, þarnæst ljómandi byrtu til ad upplýsa þá og gjøra þá vísa, og fylgir þad hvad ødru, því þegar sá himneski sannleiki hefir burttekid myrkur hugskotsins, þá kémur í hjartad vonin af huggun ritnínganna; þetta má játa satt ad vera um øll ordin Jesú, sem eru andi og líf, en þó ei síst um þau ord, er hann taladi undir andlátid, því þó ógudligir menn væri kríngum krossinn med skarkala og spotti, og sjálfur hann kveldist á líkama og sálu, þá hafdi hann samt blessadur sína þánka í kyrd allt fram í daudann, og taladi því af nægd síns hjarta sæt lífsins ord til ad kénna þeim, sem hann þá var ad frelsa frá eylífum dauda, hvørnin þeir ættu í lífi og dauda ad nýta sér hans blessada pínu bædi til lærdóms og huggunar, medal hvørra hans dýru krossorda: Þad er fullkomnad, géfir eina sérdeilis fagra upplýsíng og lifandi huggun, sé þad rétt athugad, því svosem Jesús taladi þad seinast undir andlátid, svo má sá, sem berst vid daudann, festa trú sína vid þad, og gánga svo fyrir vonina, svosem ørugt atkéri sálarinnar, inn fyrir fortjaldid, þar fyrirrennarinn Jesús er undan oss genginn. Hvør er þá grundvøllur þessarar huggunar? Hér skaltu fyrst athuga, sál mín! eptir þad fyrir fallid ad náttúrunnar løgmál var brjálad og formyrkvad ordid, gaf Drottinn mønnunum sitt heilaga løgmál, ecki einasta munnliga kéunt fram eptir øldunum, heldur skrifliga fyrir Mósis; undir þess hlýdni skuldbatt hann allt mannkynid, því ecki átti þad einasta heima á Israels fólki, hvarum medal margs annars má þéna til

vitnis þad, sem Páll skrifar: ad fyrir þad ad tilstoppist allra munur, og allur heimurinn sakfellist fyrir Gudi, hvarum augljóst er, ad þad vard ad eiga heima á øllum. Þetta løgmál útheimtir nú svoddan eina fullkomna hlýdni, ad madurinn átti ad vera øldúngis réttlátur og heilagur útvortis og innvortis eptir réttri mínd Guds heilagleika og réttlætis, eptir því sem Drottinn segir: Vera skulud þér heilagir, því eg er heilagur Drottinn, ydar Gud; þarfyrir fordæmdi løgmálid allar saurugar tilhneigíngar, hvaraf Jesús álýktar, ad sá sem liti eina konu ad girnast hana, hafi allareidu drýgt hór med henni í sínu hjarta; svosem hjartad átti flecklaust ad vera, svo átti ad vera allt ordalagid og látædid útvortis, hvad og audséd er af útleggíngum Krists; þetta má og ljóst vera af elskunnar bodordi, sem er inntak alls løgmálsins, og byrjast á umþeinkíngu gudligrar hátignar og réttlætis, því svo segir Mósis af Gudsálfu: Drottinn, vor Gud, er einn einúngis Drottinn, þú skalt elska Drottinn þinn Gud af øllu þínu hjarta og allri þinni sál og øllum þínum mætti, og þessi ord, sem eg býd þér í dag, skaltu leggja uppá hjartad; hefdi nú nockur gétad þessu fullnægt, hann átti ad lifa, en þarámót kostadi ecki nema eylífa fyrirdæmíng hvad sem uppá vantadi, jafnvel í hinni minstu hugrenníng eda tilhneigíng, því sá átti bølvadur ad vera, sem ecki héldt allt hvad skrifad er í løgmálsbókinni; þó hann hefdi aldrei brotligur ordid nema í einhvørju einu, var hann þó sekur vid allt løgmálid, og eptir Guds réttlæti sekur eylífs dóms.

Nú gat enginn eptir fallið soddan fullnægju gjört þessari algjörðu réttlætisins reglu, sem hún útheimti, því hún gengur svo lángt yfir syndum spilta náttúru mannsins, sem ljósið yfir myrkrið, og því segir Páll: Lögmálið er andligt, en eg er holdligur maður undir syndina seldur; hérútaf veiktist svo lögmálið, að það kunni ekki að ná þeim tilgángi að útvega lífið og sáluhjálpina, en héldt þarámót öllum undir dauðann og fordæmínguna, því dauðans broddur er syndin, en kraptur syndarinnar er lögmálið; Guðs réttlæti kunni ekki að raskast í hinu minsta, því útheimti það, að annaðhvört skyldi lögmálið uppfyllast eða mannkynið fortapast, hvar útaf allir urðu sekir eylífrar fordæmíngar, því enginn var í þeim vændum að gjöra þessu lögmáli fullnægju. Þetta aumkaði nú vor Jesús og vitjaði vor í sínum heitu miskunariðrum, upprunninn af hæðum, géfandi sig, sem er Herra lögmálsins, og einn af öllum Adams sonum fullkomliga réttlátur, undir lögmálsins ok og byrði, svosem Páll segir: Þegar uppfylling tímans var kominn, sendi Guð sinn Son, fæddann af kvinnunni, lögmálinu undirgéfinn, svo hann frelsaði þá, sem undir lögmálinu voru; það gjörði hann fyrst með sinni hlýðni, hvörja hann galt fyrir vora óhlýðni, kominn ekki lögmálið upp að leysa, heldur að uppfylla; hann galt réttlæti fyrir vort ránglæti, fullkomnan fyrir vorn ófullkomligleika, auðmýkt fyrir vorn hofmóð, trú fyrir vort trúleysi, kjærleika fyrir vort kjærleiksleysi og heiður Guði fyrir alla þá vanvirðu, sem hann fær af oss með yfirtroðslu lögmál-

síns. En hann lét ecki þar búid med, ad hann gyldi fyrir oss hlýdnina, heldur med því sekt var á oss fallin, og fellur dagliga, en Guds réttlæti rekur eptir á hina síduna, þá géck hann líka undir sektina og straffid, sem þar eptir fylgdi, leid réttlátur fyrir rángláta, og er ordinn bølvan fyrir oss, svo hann frelsadi oss frá løgmálsins bølvan. Þegar hann nú var búinn bædi ad gjøra þad, sem vér áttum ad gjøra, og lída þad oss bar ad lída, vildi hann lýsa því upphátt og sagdi því rétt undir andlátid: Þad er buid, þad er fullkomnad; svo þegar syndarinn er kominn undir andlátid, og á adra sídu stendur réttlætid, en á hina minníng syndanna, og samvitskan vesst svosem milli vonar og ótta, megi hann óefadur hugga sig vid þessa fullnustu og álykta svo í trúnni: þó eg hafi Guds heilaga løgmál brotid, sé saurugur, ófullkominn og fordæmanligur, þá hefir sjálfur Guds Sonur uppfyllt þad fyrir mig, og þar ofaná lidid straff minna synda, svo þad er nú allt fullkomnad, einsog Guds réttlæti líkar og hans hátign sæmir, hvaruppá eg skal óhræddur lifa og deya. Hér er afl trúarinnar, grundvøllur allrar huggunar; Kristur er oss af Gudi gjørdur réttlæti, vísdómur, helgun og endurlausn; hann er fyrir vorar syndir útgéfinn og oss til réttlætis uppvakinn; hann hefir Gud ad synd fyrir oss gjørt, og vorar syndir á hønum fordæmt, jafnvel þó hann væri án syndar, því er nú engin fordæmíng framar á þeim, sem eru í Kristi Jesú. Nú máttu koma, mín sál! og gánga í rétt vid Gud þinn, því Jesús hrópar til þín af

sínum krossi og segir allt sé fullkomnað, sem heyri þér til endurlausnar og sáluhjálpar; Drottinn hefir sína máltið fyrir þig tilbúið, hans uxar og alið fé er slátrað og allt er reiðubúið, kom þú að eins til brúðkaupsins; fullkomnað er lögmálið í þinn stað, fullkomnað er þitt lausnargjald, þar Höfðíngi þinnar sáluhjálpar er fyrir píslina fullkominn gjørður, og er orðinn orsök til eylífrar sáluhjálpar öllum, sem hönum hlýðnast; það er allt fullkomnað, sem um þinn Lausnara er skrifað í Mósis lögmáli, spámanna-bókum og sálmum, þarfyrir er og náðin fullkomliga afrekuð og Guðs réttlæti fullnægja gjørð; Jesús hefir allt réttlæti uppfyllt, hann er fullur náðar og sannleika, og af hans fyllíngu höfum vér fengið náð fyrir náð, því lögmálið er fyrir Mósis útgéfið, náð og sannleikur fyrir Jesúm Krist. Og hvørnig kunum vér þá að þakka vorum Lausnara svoddan dýrmæta huggun, sem verdugt er? Eg er breiskur, ófullkominn, í mínu holdi býr eckért gott, og nær eg vil gjøra hið góða, loðir hið vonda við mig; en minn Jesús hefir allt fyrir mig fullkomnað, til hans vil eg því flýa og fá mér bót við mínum brestum og styrk í mínum vanmætti, og mun eg þá megna alla hluti fyrir hann, sem mig máttugann gjørir, Jesum Krist; en eg skal svo mikið, sem eg fæ orkað, taka svo til mín þetta hans fullkomnunar orð, að eg vakti mig flecklausann fyrir heiminum og fullkomni heilagleikann í Guðsótta. Þú sagðir, minn Herra! undir andlátið: Það er fullkomnað; ó, að þú vildir halda svo í hönd með mér í þess-

um mínum ófullkomlegleika, ad eg géti líka sagt undir andlátid: lof sé Gudi! þad er fullkomnad, eg hefi gódri baráttu barist, eg hefi skeidid fullkomnad, eg hefi trúna vardveitt, og nú er mér afsídisløgd kórona réttlætisins, sem Drottinn, sá réttláti dómari, mun géfa mér á þeim degi! Lát mig svo deya uppá þetta þitt blessada fullkomnunarord, fullvissann um fyrirgéfníng minna synda, fyrir hvørjar þú hefir fullkomliga borgad med þinni kvøl og krossdauda, Herra Jesú! blessadur um allar aldir alda, Amen!

## 44. Hugvekja.

Sjøunda ord Krists á krossinum.

Og Jesús kalladi hárri røddu í annad sinn og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda.

Hvørra afgángur helzt er merkiligur, þeirra sídustu ord eru og merkilig. Afgángur mikillra manna, sem lifad hafa ødrum til góda, er merkiligur, svo og einnig þeirra sídustu ord; þessháttar menn hafa og viljad láta sem flesta heyra sína sídustu rádstøfun, svosem sýna dæmi Jakobs, Mósis, Josúæ, Davíds og annara, og postulinn segir engin forsmái testamenti eins manns, þegar þad sé stadfest, eda auki þar nockru vid. Enginn hefir þvílíkur lifad í heiminum, sem Jesús, Gud og madur; enginn hefir svo lifad ødrum til góda, sem hann; einskis daudi hefir

verid svo minniligur, sem þegar Ordid líssins, Høfundur líssins, já, sjálft lísid dó á krossinum, því eru einkis sídustu ord svo eptirtekta og endurminníugar verd sem hans. Tvent útrétti Jesús, þegar hann andadist, bædi ad frelsa sálir vorar frá eylífum dauda, og líka kénna oss, hvørnin vér ættum fridsamliga ad deya í trúnni. Pad fyrra útrétti hann med sjálfum daudanum, þad sídara med sínum ordum og atløfnum undir daudann, og ecki sízt med þessu, er hann kalladi med hárri røddu rétt í því hann ætladi ad géfa upp andann: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda. Héraf lærum vér: fyrst, stødugt traust til Guds, hvørnin sem gengur; Jesús var ætíd viss um ad Gud væri hans Fadir; þad fyrsta ord, sem upp er skrifad eptir hønum, er þetta: Vissud þér ecki, ad mér byrjadi ad vera í þeim hlutum, sem míns Fødurs eru; þegar pínan byrjadist, sagdi hann: Fadir! sama ord brúkadi hann þá þeir negldu hann á tréd, sama þá hann gaf þar upp andann, svo hann þeckti og vidurkéndi Gud fyrir Fødur sinn, eins þá yfir hann gengu þær beiskustu píslir, sem endrarnær. Hér hefir hann ként oss hlýdnina, elskuna, þolinmædina, hvad ef vér lærum af hønum, megum vér og fyrir hann og med hønum treysta því, ad Gud er Fadir vor, hvørnin sem gengur og gétum sagt med Davíd: Drottinn er mitt ljós og hjálprædi, fyrir hvørjum skyldi eg óttast? hann er kraptur míns lífs, fyrir hvørjum skyldi eg hrædast? Fadir minn og módir mín yfirgáfu mig, en þú Drottinn annadist mig. Svosem Guds faderni vid Jesúm

umbreittist ecki í kvølinni, svo umbreitist þad ecki heldur vid oss á krossinum, og megum vér því hugga oss vid þad í vorri hørmúng, einsog Jesús í sinni. Þegar nockud gengur ad barninu, lætur sig helzt í ljósi kjærleiki fødursins; þegar vér lídum nockud med Kristi, kénnir sá himneski Fadir helzt í brjóst um oss, því svosem fadirinn er børnunum líknsamur, svo er Drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast; þetta vil Pállként hafa, þegar hann segir: Vér hrósum oss í hørmúngunum, því Guds kjærleiki er úthellur í hjørtu vor fyrir heilagann Anda, sem oss er géfinn; hann meinar þann kjærleika, sem Gud hefir á oss, um hvørn H. Andi gjørir þá trúudu vissa í allri neyd og sjálfum daudanum, hvør fullvissa ad er þeirra afl og yfirvinníng, og því er þetta Fødurnafn, sem Lausnarinn hér brúkar, nærsta glediligt íhugunar. En vér lærum framar af þessu hans ordi: ad þó líkami mannsins deyi og fortærist, þá er sálin ódaudlig. Krists líkami var ad sønnu ecki forrotnan undirorpinn, en þó dó hann sem annar madur, líkaminn var af krossinum ofantekinn og lagdur í grøfina, en sálina, sem vid hann skildi, fól hann Fødurnum á hendur, því dó hún ecki; og er sama ad segja um sálir annara, því sálin var andlig skøpud, og tapadi hún ecki því edli í fallinu, því sjálf náttúran vidhéldst eptir syndafallid, þó hún fordjarfadist; en sé sálin andlig, getur hún ecki dáid, heldur hverfa þær einar tegundir vorar aptur til jardarinnar, sem af henni eru, einsog Salómon kénnir; en ef sálin deyr ecki, þá gétum vér ecki ímindad

ofs hana dofna, tilfinníngar= eda rœnulausa, eptir þad hún er vid líkamann skilin, því þad finnum vér, ad ecki er hún daudur eda skinulaus andi, einsog vindurinn, heldur skynjandi, og þesshátar ad hann getur lidid, og þarfyrir er mesti munur, hvört sálin heldur kvelst eda kœtist, þá líkaminn deyr. En svo ad Guds børn megi vita, hvørs þau hafi ad vænta hérum, þá kénnir Jesús med þessu sínu ordi: í þridja máta, hvør ad sé samastadur allra trúadra sálna eptir daudann, og þenna nefnir hann hendur Fødursíns, síns Føđurs og vors Fødurs, síns Guds og vors Guds, því þángad, sem Jesús skiladi sinni sálu, þángad hefir hann skilad þeirra sálum, sem Fadirinn gaf hønum, hvørjar hann vill ad séu hjá sér, og lagdi því út fyrir þá lífid. Af þessum sama stad vísi Páll, því segir hann fyri sig og alla trúada: Vér girnumst ad vera fjærlœgir frá líkamanum og heima hjá Drottni. Hvørnig gat hann nú verid fjærlœgur frá líkamanum? nema hvad sálunni vidveik, sem annadhvørt tilheyrir ad búa í líkamanum, elligar skilja vid hann; en hins er ad gæta, ad hann telur sig allann þar, sem sinn betri og ædri partur væri, nefniliga: heima hjá Drottni, og þad er samastadurinn, sem Jesús vísar ofs á, Jóh. 14, þar hann segir: Þegar eg er farinn ad tilbúa ydur stad, vil eg taka ydur til mín sjálfs, svo ad þér séud þar, sem eg er; og nú loksins med því ordi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda. Þetta ord vidheldur því øllum trúudum á daudastundunni, því þad vísar þeim inn

í annann heim, og segir þeim greiniliga frá, ad sálir réttlátra séu í Drottins hendi og þær snerti engin pína; en þá er nú lika ad athuga: í fjórda máta: ad medan vér lifum, erum vér undir Drottins hendi, og þad bædi í hlýdninni og þolinmædinni. Guds hønd merkir optast í ritníngunni hans stjórnun og vald, líka hans adgætslu og adhjúkrun; viljir þú ad Guds hønd hjúkri ad sálu þinni eptir lífid, þá far þú ad hans rádum medan þú lifir, svo þú lifir undir hans valdi og í hans ríki, en stjórnist ecki af anda myrkr-anna. Gud hefir ecki lofad øllum eylífu lífi, heldur þeim, sem trúa á nafn hans Sonar; en — med hvílíkri trú? ecki þeirri, sem afneitar Gudi med verk-unum, þó hún látist þeckja hann, einsog Djøflarnir, sem trúa og skélfast, heldur þeirri, sem verkar fyrir kjærleikann, fyrir hvørja Kristur byggir í hjartanu og sameinist svo þeim trúada, ad hann ber mikinn ávøxt og gjørist ný skèpna. Þessa eginligleika trúar-innar áttu ad ránsaka hjá þér, ef þú vilt byggja von þinnar sáluhjálpar uppá fastann grundvøll, því hvar, sem þetta verdur ecki í trúnni samfara, þar er hún daud og ecki lifandi. Þú vilt segja á daudastund-unni: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda! en hvaraf veistu ad þú sért Gudsbarn og megir því svo bidja? Páll segir þér: ad þeir, sem stjórnist af Guds Anda, séu Guds børn, en rádi þar annar andi vid því, þá máttu þeckja kyn þitt og ábyrgjast sjálfur þína heimvon. Viljir þú því ecki heyra þessi ord lokkfins af Jesú: Eg þecki þig ecki, víktu frá mér, þú, illgjørda madur! þá láttu Guds hønd leida þig, þad

er: láttu Guðs Anda ráða við þig, en þá verður þú að taka gaumgæfiliga eptir Guðs orði og láta það vera ljós á þínum vegum og lampa þinna fóta, með alvarligum ásetníngi að breyta þar eptir, biðja Guð um leiðsøgn Andans og segja með Davíð: Drottinn! þinn góður Andi leiði mig á réttum vegi. Hitt er og að athuga, að viljir þú vera undir hendi Drottins í hlýðninni, þá kyss þú hana líka í þolinmæðinni, þegar hún slær þig, en hryndir ekki burtu með offa og óstillíngu, því hlýðnin hefir líka í sér þolinmæðina og þolinmæðin auglýsir hlýðnina; með því það er Guðs vilji og ráðstafan vér líðum, þá gétum vér ekki hlýðnast honum svo framt vér moglum þar á móti; lát þér því nægja með vilja Guðs, vertu rólígur yfir að hann leiðir þig að sínu ráði og meðtekur á síðan til vegsemdar, og seg með Davíð: gjøri Drottinn við mig hvað hann vill, þá hefir þú best úr býtum, því aldrei vill Guð oss nema vel og ekki plágar hann oss af hjarta, heldur hefir lyst til lífsins; horfir þú í hlýðnisfullri þolinmæði uppá hans hønd, einsog þjónar á hendur Herra sinna, þá máttu vænta þér góðs af hans hendi, þá engin mannlig hønd eða holdligur armur gétur hjálpað þér; hans hønd styttist aldrei, svo hún géti ekki hjálpað; hans gæðsku fer aldrei aptur, svo hann vilji það ekki; sami er hann í dag og í gær og um eylífar aldir, sem rétti forðum høndina út, tók á líkþráa manninum og sagði: Eg vil, vertu hreinn! úr hans hendi fær hans sauði enginn slitið, og þó þeir deyi, vill hann samt þeir lifi, hefir og sjálfur lykla helvítanna og

daudans. Þar ed þú dagliga mátt búast vid daud=anum, svo sel þú dagliga þínum Gudi sálu þína, og þad ecki einúngis med því ad segja kvøld og morgna: Fadir! í þínar hendur sel eg minn anda! hvad hinn ydrunarlausi madur kann líka ad fleypra, heldur eink=um med falslausri trú, kjærleiksfullri hlýdni, heil=agri þolinmædi og gaumgæfiligri eptirbreytni Guds heiløgu orda, og svo vill Pétur, ad þeir, sem lída eptir Guds vilja, feli hønum sálir sínar, svosem trú=føstum Skapara, í því ad gjøra hid góda; þá þarftu ecki heldur ad kvída fyrir sálu þinni, þó daudinn hitti þig þann eda hinn daginn, því sú sál, sem er undir hendi Guds í sameiníngu vid sinn Lausnara, medan hún fylgir líkamanum, fær líka gódar vidtektir af þeirri sømu hendi, þá hún er skilin vid hann, hvar hún, hvíld af øllu andstreymi, fær ad eptirfylgja Lambinu, Lausnara sínum, med óaflátanligu þacklæti og lofsaungum. En uppá þad, ad allir þeir, sem svo vilja deya, læri þess heldur ad halda uppá Guds ord í lífinu, þá er hér lofsins merkjandi, ad Drottinn vor tók þessa sína andláts bæn af 31 Davíds sálmi, og megum vér sjá þaraf hvørsu Jesús hafdi ord heilagrar ritníngar í minni og munni, allt fram í andlátid, og endadi svo lofsins med þeim líf sitt; yfir hønum hvíldist þó andi vitskunnar og skilníngs=ins án allrar mælíngar, en þú hefir ad eins frumgróda Andans eptir mælíngu hans gjafar, og hann ecki øbru=vísi géfinn, enn í ordinu og fyrir ordid; hvørsu dár=ligann sjálfbyrgíng gjørir þú þig þá, ef þú vilt sleppa því? Jesús vissi bædi hvørs hann bad og hvørnig

hann átti ad bidja, en þú veist þad ecki, nema Andinn verkandi í ordinu kénni þér þad, já, gángi sjálfur fram fyrir þig med óútsegjanligum andvørpuuum. Eda, hvørnig kanntu ad vera viss um bænheyrsluna, ef þú missir þessa lidveitslu Andans? sjá þú þá, hvad þér rídur á Guds ordi, og ydka þú þad þess betur, því þad géfur þér góda trúarstyrkíngu, svo þú gétur ætíd sagt vid Gud í bænum þínum: mitt hjarta setur sér þín ord fyrir; en hvad lángar, eptirþánkalitlar bæna-þulur útrétta, máttu læra af því, er Jesús kénnir hjá Matth. 6 kap., þad er og væntanligt ad þad lítid gagni, þegar madurinn berst vid øndina. Þú, sem nú lifir eptir Guds ordi, lídur eptir Guds ordi og bidur eptir Guds ordi, þú mátt víst deya óhræddur uppá Guds orda saunleika, því Jesús hefir sagt: Ef sá er nockur, sem geymir mín ord, hann skal ecki daudann sjá ad eilífu; geym þau því svo í lífinu, ad þú í rósemi og djørfúng Andans kunnir ad hugsa til þeirra og hugga þig vid þau í daudastundunni, einsog Jesús hefir þér kénnt. O! þú, Fadir yfir allt Faderni! vertu vor Fadir í Jesú nafni! leidi oss hønd þinnar nádarríku stjórnunar á þann veg, sem þér er þægiligur! sé hún vor hlífdar-skjøldur í allri neyd! straffi hún oss med máta, svo viljum vér kyssa hana! géfi hún oss krapt ad standast í vorri sídustu baráttu, og medtaka svo lokkins sálir vorar til eylífs lífs og fagnadar, svo vér megum fara med gledi og þackargjørd burt úr heiminum, og hafa svo í huga og hjarta ord vors Lausnara, medan vér lifum hér, ad vér med þeim somu endum vort líf, og gét-

um sagt í stødugu trúnadar-trausti: Fadir! í pínar hendur fel eg minn anda! Bænheyr þad, gódi Gud! fyrir Jesúm Krist, Amen!

## 45. Hugvekja.

### Um Krists dauda.

**Og þá hann hafdi þetta sagt, hneigdi hann høfudid og gaf upp andann.**

O, Israels sigur er særdur! hvørnig eru kapparnir fallnir? sagdi fordum Davíd, þá hann heyrdi fall Sauls kóngs. Vel mátti hann svo tala, bædi til ad sýna hugprýdi sína í því ad virda þad háa embætti Sauls, þó hann annars væri fjandmadur hans, og líka rækt sína og elsku vid vin sinn Jónathan. En — hvad mætti þá ecki trúud sál segja um dauda sjálfs Guds Sonar, Jesú Krists, þess eylífa Zíons Kóngs, um hvørn skrifad stendur: ad sigur yfir óvinunum dreifist á hans klædi, hann, sem er sterkur Gud, sá mikli hertogi frá eylífd útgénginn, en í tímans uppfyllíngu fæddur í Betlehem, sá Drottinn, í hvørs nafni vér uppsetjum sigurmerkin, hvørnig er hann þá særdur á þínum hædum? ó þú Golgatha! hvørnig er sá høfdínginn yfir Guds her, fallinn og smánarligum dauda dáinn á krossinum? þad er sú dásemd, sem hold og blód gétur ecki opinberad; sú dásemd, sem kristilig kirkja hvílir sinn huga vid; sú dásemd, sem útvaldir eylífliga hrósa; og loksins sú

dásemd, í hvörri einsog høfudsummu kémur saman elska Føðursins, hlýðni Sonarins, vísdómur Andans og trú syndarans, hvarmeð hann réttlætist fyrir Gudi. Gætum þessvegna, sála mín! sem forlíkud erum vid Gud fyrir dauda hans Sonar, ad þessum mikla leyndardómi, og er þá fyrst ad athuga orsøk daudans, sem engin ønnur er enn syndin, því Drottinn sagdi vid manninn: á hvørjum degi, sem þú etur þar af — nefnil: Skilníngs-trénu — skaltu dauda deya; en madurinn át og innleiddi svo syndina, og fyrir syndina daudann, því verdlaun syndarinnar er daudinn, og eru þau réttvís í allann máta; því, ef madurinn átti ad lifa hefdi hann stadid í hlýdninni, hvør þó var ádur skyldug, skyldi hann þá ecki verda dauda sekur, med því ad brjóta og gjøra mót skyldu sinni? Nú, þar orsøk daudans er syndin, þá er undarligt ad Jesús skyldi deya, hjá hvørjum engin synd átti heima, var gétinn af heiløgum Anda án fleckunar í módurlífi, og er ljómi Føðursins dýrdar og ímind hans veru, gétur því ecki synd framar í sér lidid enn ljósid myrkur, því Gud er ljós og eckért myrkur er í hønum. Hvørsvegna er hann þá píndur og dáinn, sem hvørki vann til straffs né dauda? eda réttlætir Gud nockud þann ógudliga, eda fordæmir hann þann réttláta? Lángt er frá því! heldur skér Guds Andi hér úr á þann hátt, ad hann kénnir oss, ad Jesús hafi uppá sig tekid gjøld vorra synda, og hønum hafi þær tilreiknadar verid, hvørs vegna hann vard bædi ad pínast og deya. Svo segir Esajas: Hann er særdur fyrir vorar syndur og lemstradur

fyrir vorar misgjørdir; straffid liggur á hønum, svo vér hefdum fridinn og fyrir hans benjar erum vér heilbrygdir ordnir; vér fórum allir villt, sem saudir, og vorum fráſnúnir hvørr uppá sinn veg, en Drottinn lét allar vorar syndir mæta hønum. Sjá nú hér, vegna hvørs Jesús er bædi píndur og dáinn! þú, mín sála! syndgadir, hann straffadist einsog þad Guds Lamb, sem ber heimsins syndir; þú vannst til daudans med syndinni, hann dó syndinni, þad er: fyrir syndina, svo fékkst þú lífid andlegt í nádinni og eylíft í dýrdinni, því þessi er vitnisburdurinn, ad Gud hefir géfid oss eylíft líf, og þetta líf er í hans Syni. O, hvørsu hørmuliga mundi þar hafa átadid fyrir oss, hefdi ecki Jesús dáid í vorn stad? Løgmálid var brotid, brotinu fylgdi bølvanin, samvitskan bar med sér dauda-dóminn, og var þó ecki svo ad kvída. þeim náttúrliga dauda einsog hinum eylífa, sem á eptir fylgdi; allir máttu segja: bønd daudans spenntu mig! Belíals lækir skélfdu mig! Løgmálid, sem brotid var, innleiddi sektina, sektin daudann, daudinn átti ad færa fyrir dóminn, dómurinn úrskurdadi straffid, straffid ad vara eylífliga. Hrædiligt var ad hugsa til løgmálsins fyrir þann, sem fann, ad syndin tók sér orsøk af bodordinu og verkadi alla girnd í sér; til sektarinnar, fyrir þann, sem eckért hafdi til ad borga med; til daudans, fyri þann, sem vissi þá væri komid ad skuldadøgunum, því eptir daudann kemur dómurinn; til dómsins, fyri þann, sem ecki gat svarad Gudi einu ordi á móti þúsund, og þó hrædiligast ad hugsa til þess,

sem seinast reid á eptir, sem er eylíf útskúfan frá Gudi, í pad dýki, sem vellur af eldi og brennusteini, par ormurinn ecki deyr, og eldurinn slocknar ecki. En — packir séu eylífum Gudi! allt er umbreytt ordid fyrir Jesú blessadann dauda; pví hvad vidvíkur løgmálinu, pá lét Gud pad sjálft bera med sér dóminn, sem linadi pess álögur, svo peim skyldi ecki ofmjøg ofbjóda pess bølvan, sem vissu sig til hennar unnid hafa, hvørjum hann hafdi betra medal ætlad til réttlætisins; pví svo stendur í løgmálinu: hvørr, sem hengdur verdur uppá tré, er Guds bølvan; nú er Jesús Guds Sonur hengdur uppá tré og dó par á, pví ecki hefdi daudinn kunnad ad hafa makt yfir hønum, svo ad segja, par undir. Fyrst pá løgmálid felldi daudadóminn yfir Jesúm, í pví ad lýsa hann Guds bølvan, pad er: rétt=tækann undir Guds straff, pá eru peir sloppnir frá bølvuninni, sem hana hefdu verdskuldad, í hvørra stad hann géck, svo sem postulinn pad greiniliga útleggur, Gal. 3. Kristur frelsadi oss frá bølvun løgmálsins, ordinn bølvan fyrir oss, pví skrifad er: bølvadur er sá, sem á tré hángir; hér af flýtur pá, ad sektin, sem løgmálid sagdi oss á hendur, er klár og kvitt, svo løgmálid hefir ecki framar makt til ad fordæma neinn trúadann, pví par er engin fordæmíng á peim, sem eru í Kristi Jesú; en par, sem borgud er sektin, par er daudinn, sem henni eptirfylgir, máttláus, pví par, sem syndin ecki tilreiknast, par er daudans broddur brotinn, en daudans broddur er syndin; en par, sem daudans broddur er

brotinn, þar brýtur hann ecki, og þetta skédi nú, þegar dauðinn beitti sínum broddi mót þeim sanna hyrníngar=steini í Zíon, Jesú Kristi, þá sluppum vér, aumir syndarar! bædi frá løgmálinu og dauð=anum, sem er einsog bødull løgmálsins, til að gánga eptir þess sektum. Hvad þá? eigum vér ecki allir að deya? að vísu! en það er máttlaus dauði, því frá hønum er tekið það, sem hann gjørdi skadlig=ann, sem er straffið eylífs dauða, og það fyrir Jesú blessaðann dauða, sem lofað hefir að sá, er á síg trúi, skuli aldrei deya; því er sá tímanligi dauði ecki að eins skadlaus, heldur er dauði þeirra heiløgu dýrmætur í augum Drottins; þeir mega í trausti Jesú sigurs, hælast um við dauðann og segja: dauði! hvar er broddur þinn? hann er þeim ábati og inn=gángur til betra lífs, því þá loksins fá þeir full=komliga að meðtaka þá óflekkuðu, óforgengiligu og óumskiptiligu arfleifð, sem þeim er geymd á himn=um í Kristi, svo þeir einir mega loksins sælir heita, sem í Drottni eru burtsofnaðir. Hvad høfum vér nú framar að óttast í dauðanum? eða í hvørju er falin makt hans? hann fær skilið sálina frá líkam=anum, svo hann fúni í dupt; en hvad skaðar það? hann hvílist samt í sínu svefnhúsi og finnur til engra meina; sálina gétur dauðinn ecki snert, heldur verð=ur hún borin af Englum í Abrahams skaut, og er svo fyrir Guðs stóli, dýrkandi hann nótt og dag í hans musteri. Fyrst vér høfum nú þvílíka sælu=von fengið fyrir Jesú dauða, fyri hvørn hann hefir frelsað þá, sem af dauðans ótta sekir vóru þræl=

dóms alla sína lífdaga, en lét aptur í ljós lífið og ódauðligleikann fyrir Evangelíum, þá látum oss kunngjöra dauða Drottins þángað til hann kémur, og það ekki í orði kveðnu að eins, heldur í raun og sannleika, svo að hans dauða kraptur sjáist í öllu voru framferði, til að deya frá syndunum, og gétum sagt með postulanum: Eg er með Kristi krossfestur, en eg lifi, þó ekki eg framar, heldur lifir Kristur í mér, en það eg í holdinu lifi, það lifi eg í trúnni Guðs Sonar, sem elskaði mig og gaf sig sjálfann út fyrir mig. Seg mér, Guðs barn! hvør er prófan trúarinnar í kristnum manni, ef ekki þessi, sem Páll segir: að þekkja Krist og hans upprisu krapt og pínu samkvæmi, til að verða líkt skickaður eptir hans dauða? en hvørninn það komist heim, leggur hann sjálfur út: Vér erum — segir hann — jarðaðir með Kristi fyrir skírnina til dauðans, uppá það, að einsog Kristur er uppvakinn frá dauðum fyrir dýrð Föðursins, svo eigum vér að gánga í nýu líferni, og enn framar segir hann: Það hann — nefnil: Kristur — dó, það dó hann einusinni syndinni, en það hann lifir, lifir hann Guði, líka svo ályktað, að þér séuð dauðir frá syndinni, en lifið Guði í Drottni vorum Jesú Kristi. Hugsið nú eptir þessu, allir þér, sem viljið eigna yður lífið fyrir dauða Guðs Sonar. Deyið sjálfum yður, deyið heiminum, deyið syndinni, svo þér lifið í Kristi og Kristur í yður, og vitið, hann gaf sig sjálfan út fyrir vorar syndir, svo hann frelsaði oss frá þessum nærverandi vonda heimi, eptir vilja Guðs og vors Föðurs; þessvegna deyðið nú

ydar limu, sem á jørdu erud, hóranir, óhreinleika, skamarligann bruna, vonda lystíngu og ágirni, sem er afgudadýrkan. Jesús hneigdi høfudid, þá hann dó; þad var ad sønnu náttúrligt, ad høfudid hnígi nidur í daudanum, þó megum vér taka þad upp einsog bendíngu, hvarmed vor blídasti brúdgumi hafi viljad vekja upp hjá oss sífelda minníngu síns dauda, ad einsog elska hans til vor var hønum sterkari enn daudinn, svo eigi elska vor til hans oss ætíd sterkari enn vorar eiginligar girndir, álit eda ávinníngur, og hún drepi í oss þann gamla manninn, en sá nýi dagliga framkomi, mindadur eptir Gudi í heilagleika og réttlæti, fyrir krapt hans upprisu, og ef vér þad ástundum, þá megum vér líka benda hønum, þegar vér ecki annad gétum í vorum dauda, þad er: mæna til hans augum trúarinnar í stødugri von hans miskunar. O! Herra Jesú! sem fyrir mig hefir lidid þann harda dauda á krossinum, géf mér ad deya réttlátra manna dauda, svo líkaminn hvílist í fridi, en sálin medtakist til eylífs fagnadar hvar enginn daudi verdur framar, Amen!

## 46. Hugvekja.

### Um teiknin, sem skédu vid Krists dauda.

Og sjá! ad musteris tjaldid rifnadi í sundur í tvo parta frá ofanverdu allt nidur í gégn; jørdin skalf, bjørgin klofnudu, grafir framlidinna lukust upp og margir líkamir heilagra

risu upp, þeirra, er sváfu, og gengu, eptir Jesú upprisu, úr grøfunum, komu í þá heilögu borg og birtust þar mørgum. En høfudsmádurinn, sem þar stód hjá og þeir, sem med hønum vóru ad vardveita Jesúm, þegar þeir heyrdu ad hann kalladi svo, þá er hann létst, sáu jardskjálftann, og þad, sem skédi, prísudu þeir Gud, urdu ótta slegnir og søgdu: sannarliga hefir þetta réttlátur madur verid og Guds Sonur. En allt fólk, er þar var hjá og horfdi á þad er skédi, bardi sér á brjóst og snéri heim aptur.

---

Ef þessir þegdu, þá mundu steinarnir hrópa; sagdi Jesús vid Gydínga, Lúk. 19: þetta virdist mér framkomid hafa í hans dauda; þegar enginn hrósadi tign hans og vegsemd, þá skédu furdanligar dásemdir bædi á Jerúsalems helgidómi og náttúru hlutanna, til ad vitna um hans guddómligu háligu, og klaga yfir blindni og vanþakklæti mannanna, sem ecki þeckiu sinn vitjunar-tíma, heldur aflífudu hertoga lífsins og krossfestu Drottinn dýrdarinnar. Hérvid eiga skyldt þeir, sem nú á døgum lítils virda hans pínu, og því eru þessi undur uppteiknud, bædi þvílíkum mønnum til vidvørunar og líka trúudum til huggunarríkari endurminníngar um réttann ávøxt Jesú dauda: Fyrst: Og sjá! Musteris tjaldid rifnadi í sundur, segir Gudspjalls-sagan; þessi var fyrsti atburdurinn, sem skédi í sjálfu musterinu, því tjald þetta, sem var af gagnsterkum og dýrmætum vefn-

adi, héck milli helgidómsins, hvar inni kennimennirnir dagliga þjónudu, og þess allrahelgasta, hvört ecki mátti koma nema sá ædsti kennimadur einusinni á ári, þegar hann gjørdi forlíkun fyrir fólksins syndir, og var þetta því tilsett, ad enginn mátti koma nærri því allrahelgasta, já, ecki horfa þángad inn, nema ædsti presturinn á vissum tíma; þetta útleggur postulinn, Ebr. 9, á þenna hátt: ad vegurinn til helgidómsins hafi ecki verid opinberadur, á medan fyrri tjaldbúdin stód, þad er ad skilja: medan offrid var eptir mósaiskum lagasetníngum; en — nú rifnar þetta fortjald í Jesú dauda til teikns, ad aftakast skyldi allur levítiskur kyrkjulaga skuggi og Arons sona kennimannskapur, med øllum sínum fórnum og tídasidum, þar sá ædsti biskup, Jesús, væri búinn ad útleggja fórn fyrir syndina; og ættu því allir lidugann adgáng til Guds fyrir hann, og þessu til stadfestu átti skømmu sídar eptir ad fylgja afskaffan veraldligrar stjórnunar Gydínga og eydilegging sjálfs helgidómsins, svo aldrei yrdu fórnirnar aptur ítrekadar, þar stadurinn, sem þær vóru vidbundnar væri í eydi, einsog sjá má af Mós. 19 og Dan. 9, og nú er ljóst ordid af skrifum postulanna og Kristinndóms søgunum. Svo veri nú Gud lofadur! fortjaldid er rifid; Jesús hefir med sínum dauda fundid eylífa endurlausn; greinarmunurinn er í burtu og sundurslitin girdíng midveggjarins; hér er enginn óadgengiligur nádarstóll, heldur sá, fyrir hvørn allir mega framkoma og finna nád og hjálp, sjálfur Jesús í sínu eigin blódi, med hvørju

hann hefir þvegid oss af syndunum og gjört oss ad konúngum og kénnimønnum fyrir Gudi sínum Fødur, svo vér megum, einsog andligir kénnimenn, umgángast med Drottni í helgidóminum, þad er: kristninni, og medtaka hindrunarlaust þau miklu gædi, sem þar inni veitast, Guds nád, syndanna fyrirgéfníng, rósemi samvitskunnar, fullvissu barnaréttarins í heiløgum Anda, og fleira, sem hér ad hnígur, þar vér erum nú ecki lengur géstir og framandi, heldur Guds heimamenn og medborgarar heilagra; já! sjálfur Drottinn vill byggja sér helgidóm í hjørtum vorum, eptir því, sem skrifad stendur 2 Cor. 6: Eg mun búa í þeim og umgángast med þeim; hvar af fylgir, ad einsog vor ædsti Biskup og árnadarmadur Jesús, er nú inngenginn, ecki í nockurn med høndum gjørdann helgidóm — sem nú er afmádur fyrir hans dauda, og var ad eins fyrimind þess sannarliga — heldur í sjálfan himininn, svo trúum vér oss, fyrir hans dauda, hafa adgáng til Guds dýrdar-ríkis, sem er eylíf, sælufull og vegsamlig umgengni med sjálfum hønum þar, sem halfverkid hefir enda tekid. Fyrst þessu er nú svo varid, þá minnumst orda postulans, er svo hljóda, Ebr. 10: fyrst vér nú høfum, kjærir brædur! djørfúngina til inngángs í þad heilaga, fyrir blódid Jesú, hvørn hann vígdi oss nýann og lifandi veg fyrir fortjaldid, þad er fyrir sitt hold, og vér høfum mikinn Prest fyrir Guds húsi, þá látum oss þar fram ad gánga med sannarligu hjarta í algjørdri trú, ysirdreifdir í vorum hjørtum, og vidskila vid vonda samvitsku, og þvegnir á líkamanum med hreinu

vatni og látum oss halda vidurkénníngu vonarinnar og vera ecki óstadfasta, því hann er tryggur, sem því hefir fyriheitid. Framar segir sagan: ad jørdin hafi skolfid og bjørgin klofnad. Pad er líkligt ad sprúngur klettanna hafi orsakast af jardskjálftanum, samt var þetta allt dásamligt og eptirtektaverdt. Bjørgin eru hørd af náttúrunni, þó verda þau ad bila, þegar hyrníngarsteinninn í Zíon er burtkastadur af byggíngar-mønnunum. Steinninn, sem afbrotinn var án handa, sundurmoladi alla líknesskju Nabógódónósors, hvarmed teiknadist, ad Kristur skyldi stipta eylíft ríki, grundvallad á sjálfum sér, en þad hefir hann gjørt fyrir daudann á sínum krossi; því brotnudu í hans dauda steinarnir, sem grundvalla konúnga-hallirnar, til merkis, ad um skamt mundi sagt verda medal heidinna þjóda, þad Drottinn er konúngurinn og hafi sitt ríki tilbúid, svo vídt, sem verøldin er, ad þad skuli blífa. O! hvørsu vegsamligur mun hann verda, þegar hann kémur í dýrdinni, þar jørdin bifast og bjørgin klofna, þegar hann dó í forsmáninni! hvørsu lítid mun þá hjálpa þeim ógudligu ad segja til fjallanna: fallid yfir oss! og til hálsanna: hyljid oss! hugsa um þetta, syndugur madur! og gjør ydrun, medan himnaríki er nálægt. Víst má hjarta mannsíns vera hardara enn steinn; jørdin skélfur og klettarnir brotna þegar Jesús deyr; þessar sképnur voru þó ecki søk í Jesú dauda, hafa heldur ecki not af hønum, en syndarinn, fyrir hvørn Jesús er kvalinn, sem einnig lætst vænta sér syndanna fyrirgéfníngar og eylífs lífs fyrir hans dauda,

hræriſt ecki neitt þar af, heldur lifir í ſínu tilfinn-íngarleyſi og gjálífi, einsog þetta komi ecki neitt vid ſig; ſvo þó Guds orda þjónar ſlíti kroptum ſínum til ad ámálga rétta brúkun Jeſú dauda í ydrunarverkinu, þá er óvída annad ad merkja, enn þad ſé einsog vendi ſé barid á klett. Gud nádi oſs, auma menn! og taki ſteinhjartad á burt úr voru holdi, ſvo vér mættum umſkéra hjørtu vor og vera ecki lengur hardhnackadir. Jördin bifaſt vid Jeſú dauda; hana hefir Gud ſtadfaſtliga grundvallad, ſvo hún kann ecki úr ſtad ad hræraſt; hjartad í brjóſti voru er lítid hjá allri verøldinni, og ſvo tilbúid, ad þad hræriſt til og frá, einkum þegar mædir manninn; hvørnig er þad þá ſvo óhræranligt, ad því bregdur eckért vid þann mikla atburd, ad ſjálfur Gud deyr fyrir ſyndir mannſins, þar þad er þó vant ad fá ſløkur af þeirri minnſtu vofeifligri nýung; en ſú þúnga jørd leikur á reidiſkjálfi; jørdin er fótſkør Drottins, hún gétur ecki haldid kyrru fyrir, þá hennar Herra lídur, en ſyndugi ormurinn, ſem ſkrídur þar á, lætur einsog hann ſjái ecki ad Guds Sonur er ſtraffadur í ſinn ſtad, og nennir ecki einuſinni ad lypta høfdinu upp úr leirveltunni ſynda ſinna, til ad hugleida hvad verda muni um hid þurra tréd, þar þetta ſkédur vid hid græna. O, vor Gud! ſnú þú oſs, þá verdur oſs ſnúid, og þegar oſs verdur ſnúid, gjørum vér ydrun. Grafirnar lukuſt upp, og margir líkamir heilagra riſu upp. Þó menn kynnu ſegja: ad þad hafi ecki verid ſvo undarligt, þó grafirnar, ſem voru í Gydíngalandi margar úr ſteini,

og ecki ødruvísi huldar enn tilluft hús, hafi opnast í jardskjálftanum, þegar klettarnir sprúngu, þá gat þó hvørki jardskjálftinn né kletta-hrunid orsakad upprisu þeirra heiløgu, sem þar inní hvíldu; því var þetta verkan Jesú dauda, og sterk røksemd fyrir því ad hann hefdi daudann yfirunnid. O, einn dásamligann dauda! ó, einn lífgandi dauda! Lífid dó á krossinum, samt misti þad ecki lífgunar-kraptinn, því guddómurinn skildi ecki vid manndóminn, þarfyrir hefir vor Jesús sína sálu aptur tekid, og uppreis fyrstur allra, og sídan hafa þessir hans dýrdlíngar haldid selskap med hønum. O, hans fagra sigurhrós, sem sýndi herfángid, þad hann hafdi tekid frá daudanum, undir einsog hann lauk orustunni! hér sé eg, ad einsog vor Jesús hefir med sínum dauda borgad oss út af fángelsi daudans, svo hefir hann med sinni upprisu áunnid, ad vorar grafir opnist, og vér þadan framleidumst til eylífs lifs, ordinn frumgródi þeirra, sem sofnadir eru, því fyrir einn mann kom daudinn, og fyrir einn mann kom upprisa framlidinna. En, hér má líka sjá, ad Jesú daudi er kroptugur til ad uppvekja frá þeim andliga syndanna dauda, því hér skédi nú strax mikid apturhvarf syndaranna, þar bædi sá heidni strídshøfdíngi og hans flockur, sem vardveitti krossinn, medkénndi hann saklausann og Guds Son verid hafa, og þartil féck fólkid — sem líkligt er margt hafi Gydíngar verid, og óskad Jesú med ødrum krossfestíngar um daginn — mikla samvitskunøgun vid þessi teikn, svo þad bardi sér á brjóst og snéri heim aptur, og hefdi þessu góda fólki verid betra

ad gæta ádur gaumgæfiligar ad Jesú allrahelgasta framferdi, hans kénníngum og ritníngunum, svo ecki hefdu þeir dansad blindt eptir høfudprestanna pípu; en svo fer optar, ad þar verdur skamma stund hønd høggi fegin, sem menn dæma um einn hlut eptir meiníng og myndugleika annara eda og sínu eigin brádrædi, hvaraf sídan opt orsakast sneipa og hjartasorg, og er því rád ad hugsa sig um hvad tala skal, einsog Salómon rádleggur; en hvad um þetta er, þá sýnir dæmi høfudmannsins og fólks þessa, þann dýrmæta ávøxt Jesú dauda, sem er vidrétting syndaranna úr standi reidinnar; fyrir hann hefir Drottinn hrært, ecki einúngis jørdina, heldur himininn, og snúid á réttann veg ótal mørgum, bædi Gydíngum og heidíngjum, hvarfyrir hønum séu eylífar þackir! O, Drottinn Jesú! hvørs dauda-kraptur umsnéri þessu fólki, lát hann líka hræra hjarta mitt til falslausrar ydrunar og apturhvarfs frá syndunum, svo eg megi trúa á þig og lifa svo fyrir þitt nafn, Amen!

## 47. Hugvekja.

### Um Krists kunníngja.

Allir Jesú kunníngjar stódu langt frá, og margar konur, þær hønum eptirfylgt høfdu úr Galíleu og horfdu á allt þetta, á medal hvørra var María Magdalena, María hins minna Jakobs og Jóses módir, og Salóme, módir þeirra Zebedeusar sona, hvørjar hønum høfdu eptir-

fylgt og þjónað, þá hann var í Galíleu, samt margar aðrar, er með hønum voru uppgengnar úr Galíleu til Jerúsalem.

---

Martha! Martha! þú ert svo áhyggjusøm og mæðist í mørgu, eitt er nauðsýnligt, María hefir útvalið það góða hlutskiptið, sem ecki skal af henni takast, sagði Jesús forðum, þá Martha géckst fyrir að þjóna hønum, en María sat við hans fætur og hlýddi hans orðum, Lúk. 10. Margir gjøra sér mikil umbrot fyri þeim hlutum, sem þeir eru géfnir fyrir í heiminum, stundum til verra eins, opt til einkis, ætíð til lítils; aðrir brúka heiminn eptir þørfum, en una sér helzt í sínum Guði, og hafa lítið við sig í øðru, og þeir hafa best úr býtum; því allra hluta hefi eg séð enda, en þitt orð stendur støðugt, segir Davíð. Nockuð viðlíkt má hér sjá á kunníngjum Herrans; þeir høfðu stakt yndi af hans líkamligri umgengni; þeir vóru og fleirstir, ef ecki allir, af þeim þánka, að hún mundi ecki svo fljótt endast, heldur mundi hann uppbyrja mektugt og prýðiligt konúngs-ríki; en nú fór svo, að þeir stóðu og horfðu grátandi á þá hann píndist og dó; þó, með því þetta voru guðhrædd hjørtu, og høfðu valið sér það hlutskipti að elska hann og heyra hans orð, þá tøpuðu þeir því ecki að heldur, þó þeir mistu hans líkamligu nærveru, heldur staðfestust enn framar í hans kjærleika þar eptir. Komum við nú, sála mín! í þeirra félag, og horfum líka álengdar á ockar Lausnara, að vér sjáum af þessari Guðspjalls søgu: Fyrst: Hvørsu allt sé

fallvalt í heiminum, bædi adstod vinanna og annad. Eg vil ecki tala mikid um, hvad ágætislitlir séu þeir hlutir í sjálfum sér, sem mönnum þykir vænt um og hvad þeir séu sleppufengir; raunin ber ljósast vitni þarum, ef menn hefdu þar eptir vit eda menníng til ad gæta þess; hitt má med sanni segja, ad varla er nockur hlutur yndælli, enn kjærleiksfullur vinur og náúngi, einsog von er á, því kjærleikurinn má kallast med öllum rétti vidurhald heimsins; elska brædranna er sú náttdögg, sem allt vökvar, og þad balsam, sem allt mýkir; þó er valt ad ætla uppá vinfengid einsog allt annad; opt verda vinirnir einsog fúin tönn, og bregdast þegar mest á ad hófa; opt snýst vinskapurinn í mesta fjandskap; eda, segir ecki spámadurinn, ad sú muni tídin koma, ad hvorr megi vakta sig fyrir vini sínum? og þurfum vér ecki lengra dæmanna ad leita, enn hjá sjálfum Herranum, Jesú Kristi, hvörs vinur og mötunautur lypti sínum hæli upp á móti hönum. En — lát vera, sem vinirnir séu dyggir, þeir géta þó ecki opt bætt böl vort, af því þeir eru menn, og ad vísu verda þeir allir frá ad víkja i daudanum; þeir kunna ad horfa grátandi á þann daudvona, einsog hér skédi, en hvada huggan er þad? þeir kunna ad leita oss hæginda á sóttarsænginni, en þad ber vid á stundum, ad þeirra vidleitni verdur til þýngri þrauta og enn meiri amasemi; daudanum géta þeir öldúngis ecki frá hrundid; þó Davíd konúngur fasti og beri sig illa, má hans barn þó samt deya; af sálunni géta þeir ecki hinn minna straum stadid; ad endurleysa sálirnar,

er sú þjónusta, sem enginn bródir fær ødrum veitt, hvørr einn verdur sína byrdi ad bera. O, hvørsu aumliga er þeim farid á þeirri vondu tíd, sem lagt hafa lag sitt vid ógudliga í syndsamligu framferdi? ef frómir og gudhræddir vinir géta þá ecki hjálpad, hvad þá hinir, hvørra saurug umgengni og skadlig syndamøk verka sálu þess daudvona skadliga og skélfiliga endurminníngu? Vara þig þessvegna, sála mín! ad ecki sértu vinur heimsins, svo þú gjørist óvinur Guds; því sé Gud óvinur þinn, hvørt ætlar þú þá ad leita hælis, þá øll verøldin hefir þig yfirgéfid? hvarfyrir vér enn framar, af dæmi þessara Herrans vina, sem hér um gétur, skulum áminntir vera: Framar: Ad kappkosta umfram alla hluti, ad halda fasta vináttu vid Jesúm; en hvørnig gétur þad skéd? þad skédur: ef vér trúum svo á hann, ad hans kjærleiki undir eins þvíngi oss til, ad afneita øllu ógudligu athæsi og veraldligum girndum, og flýa þá fleckun, sem í heiminum er útaf girndinni. Jesús elskadi oss ad fyrra bragdi, en hann krefur af oss aptur elskuna til sín, sem ladi oss og locki til ad halda hans bodord; hvørr, sem mín bodord vardveitir, hann er sá, sem elskar mig; ef þér haldid mín bodord, þá erud þér í minni ástsemd, segir hann sjálfur; nú er þetta ómøguligt á medan madurinn elskar sínar eigin girndir og veraldarinnar svikafullt athæsi; ef vér segjum, vér høfum samkvæmi med hønum, og umgaungumst í myrkrinu, ljúgum vér og tølum ecki sannleikann, segir Jóhannes, og hvørr vill þá efa, ad vinfengi veraldarinnar

komist ecki saman vid vinfengi Jesú, eda segir hann ecki sjálfur, ad ómøguligt sé ad þjóna Gudi og Mammon? Láttu því allt annad fara á backastockinn, enn þú sleppir því hlutskipti ad elska Jesúm, og reikna þú alla hluti skada hjá því ad elska hann, því hann yfirgéfur aldrei sína, og best mun hann þér reynast, þá mest áliggur og allur heimurinn hefir þig yfirgéfid, því hann vill géfa saudum sínum eylíft líf. Þeir, sem hann elska, finna þad allt hjá hønum, sem hjørtu þeirra eptirlángar, og eru sannar og ósleppanligar gáfur, hann er sjálfur þeirra réttlæti og vísdómur, helgan og endurlausn, þeirra ríkdómur og heidur, líf og unadsemd. Víst mega þeir bera krossinn og syrgja, þegar heimurinn fagnar, einsog hér géck til, ad hans vinir og naudar-menn stódu lengst eptir vid krossinn, þegar adrir voru burt gengnir; en þeir megu þad vita, ad þad er þeirra hlutdeild, ad líkjast Jesú í þjáníngunni, ef þeir vilja líkjast hønum í vegsemdinni, og er þad enginn réttur Jesú vinur, sem ecki lætur sér þetta hlutskipti lynda, med því vér erum þar til kalladir, en þar hjá mega allir mótlættir Guds vinir gánga úr skugga um þad, ad Jesús elskar þá undir krossinum, stendur hjá þeim, endurnærir þá og medtekur sídan til vegsemdar. Eg — segir Drottinn — er hjá hønum í neydinni, eg vil hønum þadan útryckja og hann vegsamligann gjøra, hvar af þad kémur, ad Guds børn stadreyna þad satt ad vera, sem Páll skrifar, 2 Cor. 4: allavega lídum vér harma, en hryggjumst þó ecki; oss veitir torveldt, en vér ørvæntum þó

ecki; vér lídum offókn, og verdum þó ecki yfirgéfnir; vér verdum nidurþryćktir, en eydileggjumst þó ecki; og fyrst þessu er svo varid, skyldu allir, sem Gudi vilja áhánga, einkum læra af þessum ástvinum Herrans: Í þridja máta: Ad horfa beint í trúnni á þann krossfesta Jesúm. Víst stódu þessir lángt frá, þó rendu allir sama auga þángad, sem hann héck, eins eru hans børn hønum ad sønnu skærlæg ad líkamans vistum hér í heimi, þó meina þau øll eitt og hafa þá sømu trúar-sjón á hans blódbenjum, því þar er ein trú og ein skírn. Komi því hvørr einn, hvørs helzt standsog kynferdis hann er, og smacki vid krossinu Jesú, hvørsu Drottinn er sætur; þeir, sem velkjast í eymdum og margføldu andstreymi, skodi og álíti hvørnig Jesús hángir á krossinum ørkumslum hladinn, því hvad kann betur ad stilla hjarta þitt, kristin sála! midt í harmkvæl-uuum, enn ad hugsa um hvørsu miklar hørmúngar Guds Sonur leid, svo hann forlíkadi þig vid Gud, og kénndi þér undir eins, ad þér byrjar fyrir marg-ar hørmúngar inn ad gánga í Guds ríki. Kom þú hér, aumur stórsyndari! í hvørs beinum enginn fridur er fyrir Guds reidi; þú þarft ecki ad fara lengra enn ad krossinum Jesú, og hugsa um, hvørnig hann uppoffradi vorum syndum á sjálfs síns líkama uppá tréd, hvaraf þú mátt fullkomliga dæma, ad Gud vilji fyrirgéfa þér allar þínar syndir; einsog allir þeir, sem horfdu á eyrormiun, sem Móses uppfesti, eptir Guds bodi, læknudust af høggorma-bitinu, hvørsu banvænliga, sem þeir voru stúngnir, svo

hefir Djøfullinn aldrei svo eitrad þig og komid þér nær eylífum dauda, ad þú fáir ecki líf, og aldrei hefir þú svo stóra synd drýgt, ad hún sé ecki klár og kvitt, ef þú ydrandi í trúnni álítur þann, sem eyrormurinn fyrimindadi, Jesum Krist; því einsog Móses uppfesti eyrorminn á eydimorkunni, svo byrjar Mannsins Syni upp ad festast, svo ad allir þeir, sem á hann trúa, tapist ecki, heldur ad þeir ødlist eylíft líf. O minn Jesú! eg sé þig ad sønnu, en þó einsog álengdar fyrir spegil og í rádgátu; eg trúi á þig, en þad er í veikleika. Æ, Drottinn! hjálpa þú vantrú minni! mín sár eru rotin og fúl, þegar eg sé þau, ofbýdur mér; þín sár ljóma af elsku, þegar eg sé þau, hægist mér fyrir hjartanu, því þú hefir mínum ørkumslum á þig hladid. Lát engann hlut villa svo um mig, eda gjøra þér fjærlægann ad mín trú ecki álíti og umfadmi þá dýru lækníng, sem eg hefi í þínum benjum; þú hefir sagt: þegar eg verd upphafinn frá jørdu, þá vil eg alla til mín draga; drag mig því eptir þér, svo hvørnig sem veltur í heiminum, þá finnist eg í samfélagi vina þinna, hafandi í þér mína unadsemd fyrir trúna, uppá þad, ad eg lifi svo í sannri sameiníngu vid þig, ad minn andi, sál og likami vardveitist óstraffanlig á degi þinnar opinberunar. Bænheyr þad, gódi Jesú! med Fødurnum og Heiløgum Anda, háttlofadur um aldir alda, Amen!

# 48. Hugvekja.

## Um Krists sídu-sár.

En Gydíngarnir, af því þad var adfánga-dagurinn, svo ad líkamarnir væru ecki á krossinum um sabbatsdaginn, því sá sami var mikill, bádu Pílatus um, ad bein þeirra yrdu brotin og ofantekin. Þá komu strídsmennirnir og brutu sundur bein ens fyrsta og svo hins annars, sem med Jesú voru krossfestir, en þegar þeir komu til hans, sáu þeir ad hann var andadur, því brutu þeir ecki hans bein, heldur opnadi einn af strídsmønnunum hans sídu med spjóti, og strax rann þar út blód og vatn. Sá, er þetta hefir séd, ber þar vitni um og hans vitnisburdur er sannur, og sá hinn sami veit þad, ad hann segir satt, svo ad þér líka trúid; því þetta er skéd, svo ritníngin uppfylltist: þér skulud eckért hans bein sundurbrjóta; og enn aptur segir ønnur ritníng: þeir munu sjá þann, í hvørn þeir hafa stúngid.

---

Oss er øllum kunnugt, ad Lausnari vor er í pínu sinni med spillvirkjum reiknadur, og er hørmuligt til þess ad hugsa, ad Guds Sonur skyldi svo gjalda vorra synda; en þad eina má aptur gledja oss, ad strax eptir daudann vard greinarmunur á hønum og spillvirkjunum, hvad ecki einúngis sýnir, ad hann var þá búinn ad ljúka vora skuld, og því var hans daudi

dýrmætur fyrir Drottni, heldur gefur oss þá huggun, að þó vér megum margt líða, er þó ætíð að hlakka til sællrar endalyktar. Vér heyrdum nú strax, að þó stríðsmennirnir brytu bein ræníngjanna, brutu þeir ekki bein Herrans, sem þá var allareiðu látinn, svo fyrst audsýndist, að hann væri það sanna Páskalamb, hvörs bein ekki mátti brjóta; þarhjá ávísaðist, að ekki mundi lángt líða, þar til hann stædi upp aptur, og í þriðja lagi, gæfist trúuðum sú huggan, á hvörja Davíð minnist, Psalm. 34: Sá réttláti má margt líða, en Drottinn hjálpar hönum af því öllu, hann varðveitir öll hans bein, svo ekki brotnar eitt af þeim. En svo vér þess heldur vitum, að ekki var úti um Jesú elsku við oss, þótt hann dæi á krossinum, þá gétur Jóhannes um annann merkilígann atburð, sem framkom við hans líkama, um leið brotin voru bein ræníngjanna, því einn af stríðsmönnunum opnaði hans síðu með spjóti, og strax rann þar út blóð og vatn; þessi Guðs maður sá þar eptir í sýn nockurri, Guðs musteri opnast á himnum, og hans sáttmáls-örk sást í hans musteri; viðlíka sjáum vér í anda, þá vér horfum á síðu-sárið Jesú; þar opnast musteri hans líkama, í hvörju býr öll guðdómsins fylling; þar auglýsir sig sáttmáli náðarinnar, og vér fáum að sjá inní sjálfann helgidóm þessa musteris, sem er hans eigið hjarta, opnað og upplátið til. auðsjáanligrar sannfæríngar um hans elsku, trúfesti, miskun og sannleika, hvaðan útrunnið er blóð og vatn til ályktunar og uppfyllíngar allra hreinsana gamla testamentisins, sem ann-

adhvørt skédi med blódi eda vatni; þarfyrir álítum vér þetta sídu-sár: Fyrst: Einsog uppbyggíngarmedal kristninnar. Drottinn lét fordum svefnhøfga falla á manninn og skóp svo konuna af hans rifbeini, hvad madurinn þeckti, þegar hann vaknadi, og nefndi hana því karlinnu eptir sér. Sá annar madur, Drottinn af himni, Jesús Kristur, sofnadi á krossinum, þá opnadist hans sída, af henni útrann blód og vatn, hvarmed hønum mindadist ein brúdur, sem kallast Kristni eptir hønum, hvørt tignar-nafn hún ødladist eptir þad hann var vaknadur, þad er: upprisinn og uppstíginn til himna, einsog sjá má af Post. Gb. 11 kap., og má hér af sjá, hvadan kémur kraptur skírnarinnar til uppbyggíngar Krists søfnudi. Af Krists sídu útrann blód og vatn; þetta hvørttveggja er samverkandi í skírninni; vatnid sjáum vér med augum vorum, en Jesú blódskraptur er þar hjá til hreinsunar syndanna, og því segir Pétur, ad vér séum kalladir til hlýdni og ádreifíngar blódsins, hvørju og Páll samsinnir, þegar hann gétur þess, ad vér séum skírdir í Jesú dauda, svo allur kraptur skírnarinnar hefir sinn myndugleika af Jesú blódugum dauda, hvar um og má framar lesa Eph. 5, þar svo stendur: Kristur elskadi søfnudinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann, uppá þad hann helgadi hann og hreinsadi fyrir vatnsbadid í ordinu; þarfyrir þegar eg sé hann, sem skírist, ádreifdann eda ídýfdann vatninu, þá er, sem eg í anda sjái ádreifínguna blódsins Jesú Krists, sem afþvær sekt syndanna og linar svo abl þeirra, ad hinn skírdi verdur hæfiligur gjørdur

fyrir krapt Heilags Anda í ordinu, ad afklædast þeim gamla, en íklædast þeim nýa manni, þjónandi Gudi í heilögum skrúda alla sína lífdaga. Hér til hefir víst heilagur Jóhannes lítid, þegar hann talar um endurfædíngar krapt Guds barna og þeirra sáluhjálpar fullvissu í trúnni Guds Sonar, því svo skrifar hann: Hvörr er sá, sem veröldina yfirvinnur, nema sá, sem trúir, ad Jesús sé Guds Sonur; þessi er Jesús Kristur kominn med vatni og blódi. Hvört Jóhannes talar hér nú einúngis um skírnina, eda skírnina og Herrans kvöldmáltíd, lendir allt í sama stad, því þad, sem skírnin verkar, þad innsiglar nautn Krists líkama og blóds, sem er: ad blódid Jesú Krists, Guds Sonar, hreinsar oss af öllum vorum syndum; og þessvegna álítum vér sídu-sár Lausnara vors: Framar: Einsog vort trúarstyrkíngar medal. Thómás vildi ecki trúa, ad Jesús væri upprisinn, fyrr enn hann fékk ad leggja hönd sína á sídu hans; en strax, sem þad var skéd, tókst frá hönum allur efi, svo hann sagdi í trúnni: Drottinn minn og Gud minn! sæll var sá Thómás, ad hann mátti þreifa á þessu stórmerki, og fann svo strax krapt trúarinnar; en þessa kostur er fleirum, því Jesús felur ecki benjar sínar fyrir neinum, heldur býdur öllum ad koma til sín, og lýsir því, ad þeir, sem ecki sjái og trúi þó, séu sælir, og missi einkis í, heldur enn Thómás; en eckért er kröptugra medal til styrkíngar veikri trú, enn endurminníng sáranna, og einkum sídusárs Jesú, því þad er ljós vottur þar um, ad hann gjördi þad ecki um grun, ad láta sig

særa fyrir oss, heldur lagdi hann út lífid; og hvørninn kann sá ad hata mig, helfør mína sem bætti, og gaf í daudann sjálfan sig, svo ad eg lifa mætti? hvarfyrir eg álít þetta hans sídusár: Í þridja máta: Einsog spegil elskunnar. Rétt hefir Salómon sagt í loskvædinu, 8 kap.: Elskan er sterk einsog daudinn; þad sannadist víst á Jesú; elskan til vor syndaranna knúdi hann til ad lída kvølina; hún gjørdi þad ad verkum, ad hans sál hrygdist allt í daudann, hún skildi hana og loksins vid líkamann, hans ædar voru opnadar í pínunni, hans líkami allur blódrisa og sundurkrassadur, enginn limurinn var óskérdtur, nema túngan og hjartad; túnguna geymdi hann til ad tala med lífsins ord allt fram í daudann; hjartad, svo hann dæi ecki fyrr, enn allt var fullkomnad; en strax, sem þad var skéd, sjá! þá lætur hann þad opid, svo allir mættu sjá hans hjartgróinn kjærleika, og hugga sig vid nægd lausnargjaldsins, þar hann lét ecki nægja þá blódstraumana, sem út voru flotnir af líkamanum, nema hann legdi hjartablódid til, svo vér vitum, ad ecki er einúngis lausnargjaldid yfirvættis nóg útilátid, heldur og af yfirvættis elsku, og hvørr vill þá efa, ad Gud vilji syndarinn leidréttist og lifi, og hans hjarta sundurspríngi, svo hann hljóti oss miskunsamur ad vera; hvarfyrir vér metum sídusár vors Herra: Í fjórda máta: Einsog gridastad og tilflugt fyrir hans reidi. Gud skipadi fordum Nóa, ad gjøra dyr á sídu arkarinnar, gégnum hvørjar hann gæti tekid mót øllum þeim kvikindum, sem af áttu ad komast í vatnsflód-

inu. Hér setur Jesús sína síðu opna, svo allir, sem óttast fyrir Guðs reiði, hafi þar liðugann inngang; því segir hann við sína brúður: mín dúfa í bjargskorunum! hann er sjálfur hella hjálpræðisins, því mega sár hans með réttu bjargskorur kallast. O! að eg hefði vængi, einsog dúfa, þá vildi eg fljúga lángt burt fyrir stormi og óveðri, segir Davíð, Psálm. 55; en hvört þá? til þinna blóðunda, minn Herra! þar er óhætt fyrir ránshætti Djöfulsins, fyrir stormi reiðinnar, fyrir vatnsflóði freistínganna; vængirnir, sem mig skulu þángað flytja, eru minnar trúar hjartanlig eptirleit og alvarlig andvarpan; þegar þángað er komið, kann hvörki synd, dauði, Djöfull né helvíti að skaða mig, því þú hefir sjálfur sagt: Eg er dyrnar, ef nockurr gengur inn fyri mig, hann skal frelsast. Hér er eg fyrst inngenginn í skírninni, hvörja Nóa örk tilmindaði; hér meðtek eg dagliga kvittun syndanna, hvar fyrir, þegar kémur flóð mikilla vatna, þá nær það ecki til mín; héðan fæ eg að horfa upp til himins, engu síður enn Nói um glugga á þilfari arkarinnar; hafi hann glaðst í raunum sínum af fegurð sólarinnar, einkum þá hann merkti að flóðið tók að þverra, og hún fór aptur að uppljóma og verma þá nýu jörð, þá gleðst eg miklu framar, þegar eg í mínum útlendíngskap gégnum síðubenina Jesú, sé friðþægíngu synda minna og Guðs elskuríkt hjartalag til mín, hvaraf eg fullkomliga dæmi, að hann vilji loksins leiða mig úr eymdunum inní þann nýa himin og nýu jörð, hvar inni réttlætið byggir, hvaðan

mín vidlodandi saurindi og vanmáttur fá mig ecki útilokad, þegar eg held mig fast vid gridastad hjartasárfins míns Jesú, því þadan útrann blód og vatn; hvarfyrir eg lokfins álít þad: Í fimta lagi: Einsog opinn brunn til svølunar þyrstum og hreinsunar saurugum. Gud sýndi makt sína og gædsku, þá hann baud Móse ad slá bjargid í Hóreb, og veitti þadan út vatni til hresíngar øllum fjølda Ísraels í øllum þeirra herbúdum; en þó skédi hér hærra almættis- og miskunar-verk; Drottinn skipar sverdi sínnar reidi ad falla yfir sinn Hyrdir, og þann mann, sem hønum var nærstur, ljóstandi þar med hjarta síns elskuliga Sonar, þess sanna hyrníngar-steins í Zíon; þar med spratt upp brunnur sá, sem Zacharías umspáir á þenna hátt: á þeim tíma skal Davíds hús og borgarmenn Jerúsalems hafa fríann og opinn brunn móti syndum og óhreinleika; en ecki einúngis þvær þessi brunnur óhreinindi, heldur lífgar og frjófgar þad, sem vid hann stadnæmist, einsog vøtnin, sem Ezechíel sá renna út af helgidóminum, því hvørr er helgidómurinn háleitari enn Guds Sonar hjarta, og hvad kann ad vera ávaxtarsamara enn hans blód, sem úthellt er til fyrirgéfníngar syndanna og hreinsar samvitskurnar af daudum verkum? Þessi andligi brunnur var nú fyrirmindadur med vatninu, sem Móses utleiddi af hellunni, og af hønum dreckur allur Guds Ísrael, uppausandi med fagnadi vatnid af brunni hjálpræðisins, þad er: tileinkandi sér í trúnni dyrmæta blódsúthellíngu Guds Sonar, hvaraf sídan kémur réttlætid, fridur og føgnudur

í Heilögum Anda. Hér skaltu staðnæmast, sála mín! og héðan vænta þér andligrar endurlífgunar, og mun þá á þér fullkomnast það, sem Guðs Andi segir: Þeir, sem vona uppá Drottinn, fá nýjann krapt, svo þeir uppskjúgi með arnar-vængjum, svo þeir hlaupi, og verði ecki lúnir, svo þeir gángi og mæðist ecki; í þessum bjargskorum máttu óhætt búa hvað sem ágengur, og í þessari trú, sem svo þreifar á Jesú benjum, reikna þig sæla að vera, væntandi efalaust sáluhjálparinnar, svo sem endalyktar þeirrar sömu. O, Herra Jesú! af hvörs síðu útflóði blóð og vatn, frelsa þú mig frá blóðskuldinni! lát þitt dýra blóð, sem er einsog sápa þvotta-kvenna, hreinsa mitt sauruga hjarta, svo eg elski, lofi og aðhyllist þig með styrkum og reiðubúnum anda sonar-leifðarinnar, og ætíð gleðjist í þínu hjálpræði, uns eg gagnhreinsaður af allri saurgun og fullhress af öllum meinsemdum, fæ að sjá þig og skoða, prísa og vegsama eylífliga, Amen!

## 49. Hugvekja.

### Um Krists greftrun.

Þareptir, þegar kvöld var komið, af því það var aðfángadagur, hvörr að er fyrir Sabbatsdaginn, kom maður nockur ríkur af borg Gyðínga Arimathía, Jóseph að nafni, heiðarligur ráðherra, góður maður og réttvís, hvörr ecki hafði verið samþyckur þeirra ráðagjörð og breytni, hvörr líka var einn af Jesú lærisvein-

um, þó heimugligur, sakir ótta við Gydínga, sá er og vonaði eptir Guðs ríki. Hann dyrfdist að gánga inn til Pílatusar og bað um að hann mætti taka niður líkama Jesú. Pílatus undraðist, að hann væri þegar látinn, og kallaði Hundraðshøfðíngjann, og spurði hann að, hvørt hann væri fyrir laungu andaður? og er hann var þess vís orðinn af Hundraðshøfðíngjanum, leyfði Pílatus og skipaði að Jósep skyldi afhendast líkaminn og gaf hønum hann. Jósep tók þá niður Jesú líkama, keypti líndúk, tók við líkamanum og sveipaði hann í hreinu lérepti; þar kom og Nikódemus, sá er fyrri kom til Jesú um nótt, og færði samblandað myrru alóe nær hundrað punda. Þá tóku þeir Jesú líkama og sveipuðu hann í líni með dýrmætu salve, einsog Gydínga siður er til að greftra. En þar í þeim stað, sem hann var krossfestur, var grasgarður og í hønum ný grøf, í hvørja enginn hafði enn verið lagður; og Jósep lagði hann í þessa sína eigin nýu grøf, hvørja hann hafði úthøggva látið í steini, velti stórum steini að grafardyrunum og gékk á burt; en það var aðfángadagur og Sabbatsdagurinn tók til; þángað løgðu þeir Jesúm sakir aðfángadagsins Gydínga, því sú grøf var nærri. En þar var María Magdalena og ønnur María Jósepsˈ, og þær konur, sem komnar voru með hønum af Galilæu, fylgdu eptir

og sátu gégnt grøfinni og skoðuðu hana, sáu til hvar og hvernig hans líkami var lagður. Þær snéru heim til sín og tilreiddu dýrmætar jurtir og salve, en um Sabbatsdaginn voru þær kyrrar eptir løgmálinu.

---

Að halda líkfylgd ástvina sinna og annara merkismanna, er gamall siðvani, einsog sjá má af dæmum Jósephs, Davíðs, eckjunnar af Naín og ótal fleiri. Vér heyrum og hér, að kvinnurnar, sem eptirfylgðu Jesú og þjónuðu hønum í Galíleu, sátu beint yfirfrá hans grøf, og hugðu vandliga að, hvar og hvørninn lagður var líkami hans; þar leið ecki heldur lángt um, uns þær fengu að sjá hann aptur lifandi. Við høfum nú híngaðtil, sála mín! staðnæmst með þánka ockar við banasæng vors Jesu; en gætum nú líka lokssins að hans greftrun, þar við vonum hann fagni ockur best og við hønum í uppprisunni á síðan, og er þá að athuga: Fyrst: Hvaða persónur það voru, sem jørðuðu Herrann. Guðspjallssagan nefnir tvø gøfugmenni: Joseph, vandaðann og guðhræddann ráðherra, og Nikódemus, af røð Pharísæanna, sem líka hefir verið limur ens mikla ráðs í Jerúsalem, einsog sjá má Jóh. 7; samt voru þessir góðu menn fyrst mjøg trúarveikir. Jóseph þorði ecki að láta bera á, að hann væri lærisveinn Jesú, af ótta við Gyðínga, svo hann útilokaðist ecki frá samkundunni. Nikódemus stalst að því um nótt, að heyra af hønum sannleikann. Nú, þó trúar og kjærleiks-neisti þeirra væri nockuð dapur með fyrsta,

þá glæddist hann þó smámsamann. Nikódemus verdur fyrst svo djarfur, ad hann tekur forsvari Jesú í rádinu, þá þeir vildu ráda hann af døgum; Jóseph í sama máta, skrifar heldur aldrei undir hans dauðadóm, hvad og sama má halda um Nikódemus, þó ecki hafi í þad sinn borid mikid á þessum gódu mønnum, einsog opt plagar ad ské, þar, sem myndugleiki og samtok maktar-manna gánga yfir góda meiníngu þeirra, sem leita Guds dýrdar og safnadarins velferdar; en seinast, þegar enginn þordi ad medkénna Krist, eda gjøra hønum nockud til þjónustu, ljómadi skjært trúar-ljós þessara Guds vina, svo allir máttu sjá, ad þeir voru hønum áhángandi. Þeir horfa ecki í, þó þeir komist í misþánka hjá stallbrædrum sínum, Gydíngahøfdíngjum; ecki, ad þad muni koma bletti á tign þeirra, ad grafa þann mann, er fleirstir héldu einsog illvirkja til dauda dæmdann; ecki í mikilhæfi og strángleika ens rómverska réttar, sem um þær mundir var svo hardur, ad ecki mátti grafa nockurn óbótamann, allra sízt þann, sem eitthvad hafdi brotid á móti keysaranum, hvad þó var eignad Kristi; því kvedur svo ad í søgunni: ad Jóseph hafi vogad ad gánga inn til Pílatusar, og bidja um Jesú líkama, hvaraf audrádid er, ad þad hefir ecki verid med øllu hættulaust. Svo auglýsist trúin í mótlætinu og glædist vid þad, einsog eldurinn vid vindinn, því þó hún sé veik í fyrstu, sé hún annars hrein, þá nærir Jesús hana med sínum góda Anda, því sjálfur er hann uppbyrjari og fullkomnari trúarinnar, og einkis freistar hann, nema til þess hann

ødlist lífsins kórónu, sem Drottinn hefir fyribúið þeim, sem hann elska, og finnist svo reynsla hans trúar dýrmætari gulli, sem reynt er í eldi, til heiðurs og lofs Guði, en ødrum til lifandi eptirdæmis. Hvørjir, sem þarfyrir óttast, þeir géti ecki haldið út með trúna, og álíta hana ecki ødruvísi enn hálfslocknað skar, þeir mega sig þarvið hugga; beri þeir fram fyri Jesúm þenna dýrgrip, sem sjálfur hefir hann géfið, og biðji hann að auka sér trúna, stundi þar með Guðs orð, hvørt að er fyrsta meðal til trúarinnar og síðan hennar viðhald þá frammí sækir, hvarfyrir Pétur ræður oss, að girnast þá skynsamligu og ósviknu mjólk, að vér vøxum í henni, það er: kunnum fyrir krapt Guðs heiløgu orða, að aukast og haldast við í ástgjøfum Andans, einsog náttúrlig fæða er viðurhald þess náttúrliga lífs. O, Jesú! géf mín trú dagliga aukist og fæði af sér meiri og meiri kjærleika til þín, sem láti sig í ljósi í øllu mínu framferði, og þá helzt þegar mest áreynir. Framar má sjá af þessari Jesú greftrunar-søgu: að það er kristiligt, að jarða sómasamliga þá framliðnu. Þó Jesús væri hið smánarligasta útleikinn í kvølinni, þá var hann heiðarliga greftraður. Hann taldi það og líka fyrir gott verk, þegar konan, í húsi Símónar, smurði hann fyrifram til greftrunar, en það, sem hann reiknar fyrir gott verk á sér, það sama reiknar hann líka á bræðrum sínum, hvarfyrir hønum víst þóknast, að hans heilagir séu sæmiliga jarðaðir. Guðs børn hafa og ætíð haldið uppá það skick, einsog sýnir dæmi Abrahams, Jakobs, Jósephs,

lærisveina Jóhannesar, þeirra trúndu á fyrstu døgum kristninnar, sem grófu og hørmudu Stephán, já, Drottinn lét sér sjálfum um hugad vera um greftrun Mósis, og ecki vildi hann láta Satan fremja spott eda apaskap vid hans líkama. Eda því vildi Guds Andi klaga yfir týrannahætti hinna ógudligu, ad þeir hefdu gésid hrædýrum líkama heilagra, ef Gud vildi láta þad svo vera; en hefir líka á stundum sýnt reidi sína á þeim vondu, med því, ad svipta þá ærligri greftrun, ødrum til eptirdæmis, svosem sjá má á Jessabel og Achabs húsi, Jóram, Jóachim og fleirum mýmørgum, sem ritníngin umgétur? Þessvegna virdum vér ecki andsvars þá sjálfklóku sérvitrínga, sem plaga ad segja, ad þad sé lítill skadi ad missa grøfina, sálin finni sinn samastad hvørt sem sé. Veit eg ad sønnu, ad ecki frelsast sá ríki madur úr helvíti fyrir sína heidarligu líkfylgd, ecki heldur hrekst Lazarus úr Abrahams skauti, þó hann hafi líkmennina færri, samt vil eg minn líkami njóti þeirrar æru, sem annara Guds barna líkamir hafa notid, og fái legstad, einsog minn Lausnari var jardadur; hvørki ad sálunni né líkamanum, hvørki fyrir eda eptir daudann vil eg teiknast med þeim ógudligu, heldur med þeim réttlátu; hyrdi adrir ecki um ad greftrast, hvad kémur þad vid mig? sjái þeir fyrir af hvørjum anda þvílíkt leidist; eg vil bædi greftrast og greftra adra, sem undan mér gánga veg alls holds, einsog Sýrach rádleggur og Tóbías gjørdi. Þetta má og sjálf náttúran kénna oss, því hafi Guds Andi, sem víst er, búid ásamt sálunni í líkhømum trúadra, medan

þeir lifdu, er það þá ecki réttvíst, að sæmiliga sé farið með það herbergi, sem hvílíkur húsbóndi hafði umgengni í, og sýndi merki sinnar íbúðar, með aðskiljanligum prýðiligum gáfum, og þarflegum verkum. Þó er ecki hérmeð meint, að vér skulum apa eptir heidíngjum, sem ecki að eins gjørdu stór-veitslur með margføldu óskicki, heldur frømdu ýmisligann gicks-hátt og kátleg læti, þá er þeir jørdudu sína; þess-um eigum vér ecki að líkjast, heldur láta alla hluti sidsamliga framfara vor á medal; vér høfum ædri von enn svo, að vér þurfum að sorga, einsog þeir, sem enga von hafa; vér høfum dýrari borgarrétt á himnum enn svo, að oss þurfi að finnast stórum til hégómlegs mikilhæfis heimsins, í hvørjum engin dvøl er, og úr hvørjum vér eckért burtu berum; hugsi þeir, sem svo eru sinnadir, uppá sitt fáfengiliga skran; taki þeir það með sér, ef þeim líkar, í grøfina; veri það svo gyld huggan vandamønnunum, að mikið hafi verið haft við útførina, sem hún er; en vér skulum ætíð uppvekja sjálfa oss af dauða annara, að hugsa til vors dauða, og þegar vér sjáum annara líkami í vansemd niðursáða mætti oss koma til hugar að daprast af umþenkíngu syndarinnar, sem lagt hefir oss undir þennann líma, og í þeirri veru mun Jesús hafa táraſt við grøf Lazarusar. Vér ættum líka að áminna sjálfa oss, að varast þessheldur andvaraleysið, því það má kalla, að sá, sem grafinn er, segi við oss, sem eptir lifum: minnstu á minn dóm, því svo mun þinn vera! mér í gær, þér í dag. En einkum høfum vér orsøk að þacka Guði fyrir Jesúm Krist,

sem hefir gésid oss von vidréttíngarinnar og lífid og ódauðligleikann í ljós leidt fyrir Evangelíum, og med þessum þaunkum skulum vér gánga hvørja lík-før. O! minn Jesú! sem vildir láta þinn líkama heidarliga jarda, blessa mér minn greftrunardag, svo líkaminn leggist í fridi nidur til hvíldarinnar, en sálin gledjist hjá þér í dýrdinni. Í þridja máta skal greftrunar-saga vors Herra uppvekja hjá oss þá huggan: ad nú, sídan Jesús var grafinn, þarf engann ad bjóda vid grøfinni. Einsog hann er geng-inn undan oss til dýrdarinnar gégnum daudann, svo er hann líka þángad genginn gégnum grøfina, því er oss gott ad feta á eptir, sem trúum: ad fyrst vér erum daudir med hønum, munum vér og lifa med hønum; og hvad skyldi eg setja þad á mig, þó eg viti minn líkami fúni í dupt í grøfinni, því þaraf veit eg, ad minn Endurlausnari lifir, og þegar madk-arnir, brædur mínir, hafa gégnumstúngid mitt hold, mun eg í því sama sjá Gud. Þessi minn Lausnari hefir látid sig grafa, til ad vígja handa mér jørd-ina, svo eg álít ecki jardhúsid ødruvísi, enn sem síd-asta bústad míns líkama í heiminum, og eins sem afskéckta svefn-stofu, hvar inni mín bein verda til-búin óforgéngiligleikanum. Nema hveiti-kornid falli í jørdina og deyi, blífur þad einsamallt, en ef þad deyr, ber þad mikinn ávøxt, sagdi fordum Jesús, þá lærisveinarnir søgdu hønum, ad nockrir grikskir vildu sjá hann; hann hefir án efa meint, ad eptir sinn dauda, sem þá var í vændum, mundi ecki lángt lída, uns bædi þeir og adrir fengi ad heyra Evan-

gelíum med ávexti. Þetta gefur mér þá hugleidíngu, ad einsog eptir daudann og greftrun Jesú, er hans ríki útbreidt um alla heimsbygdina og hann sjálfur medtekinn í dýrdinni, svo mun eg fyrir hans dauda og upprisu, hafa þann ábata af minni rotnun, ad minn líkami framkomi blómligur á vori eylífdarinnar, einsog grøsin, sem med sumrinu spretta upp undan rotnun og kulda, og følni þá aldrei né fortærist framarmeir. Hold og blód veitir ecki Guds ríki, ecki heldur þad forgéngiligleika; skyldi eg þá ecki vilja leggja af í grøfinni þetta forgengiliga, svo þad íklæddist óforgengiligleikanum einsog vera byrjar, ádur enn eg stadreyni, ad daudinn sé uppsvelgdur í sigur? Hjálpa mér, Sigrari daudans! þú, Frumgródi framlidinna! Herra Jesú Kristi! ad eg lifi svo í þessum heimi, ad eg fari á burt í fridi, fari svo í fridi, ad mig snerti engin pína, verdi svo ósnertur af allri pínu, ad eg komist í samfélag þinna trúlyndra barna, og njóti líka med þeim ærligrar útfarar. Bænheyr þad, Herra Jesú! fyrir þinn dauda, greftrun og upprisu, Amen!

## 50. Hugvekja.

### Um vardhalds-mennina.

Og annann dag, þann, sem eptir adfángadaginn er, søfnudust saman þeir yppurstu prestar og Phariseær ásamt til Pílatusar og søgdu: herra! vér minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi þá er hann lifdi: Eptir þrjá daga

mun eg upprísa; af því skipa þú ad vakta grøfina allt til ens þridja dags, svo ecki komi lærisveinar hans á nóttu og steli hønum á burt, og segi svo fólkinu ad hann sé upprisinn frá daudum, og verdi svo hin seinni villan argari þeirri fyrri. Pilatus svaradi: þar hafid þér vardmennina! farid! vaktid, einsog þér hafid vit á. En þeir gengu á burt med vardmønnunum, vøktudu grøfina og innsigludu steininn.

---

Menn létu þá ógudligu og þann ríka ráda fyrir hans grøf, þegar hann var svo hørmuliga dáinn, þá hann hafdi ecki órétt gjørt, segir spámadurinn Esajas í 53 kap. og er þad tveunt, sem þessi ord ljósliga kénna: fyrst: ad ógudligir menn mundu vilja eigna sér vald yfir legstadnum Herrans; annad: ad hann vissuliga átti ad greftrast eptir sinn saklausa dauda. Hvørttveggja sjáum vér af þessari Gudspjalls-føgugrein, sem er einsog annar partur Krists greftrunarføgu, því fyrst heimtudu þeir ógudligu høfudprestar af þeim heidna landstjórnara vaktina, sem sjálf var ógudlig, einsog raun gaf sídar vitni; og þartil í annann stad, sátu þeir yfir grøfinni, sem Jesús lá í, og innsigludu steininn fyrir dyrunum, hvad ad er ljós vottur þar um, ad Drottinn hvíldi þar þá inni, því ecki vøktudu þeir þá grøfina tóma, og stadfestir þad, sem ádur er sagt um framferdi Jósephs, og Nikódemusar. Af því fyrra sjáum vér: Fyrst: Hatursfulla forstockun Gydínga, sem ecki lét af ad

lasta Jesúm, þótt þeir væru búnir ad skeyta skapi sínu med því ad koma uppá hann kvøl og dauda. Þeir létust daginn fyrir ecki vilja gánga inn til Pílatusar, svo þeir mættu neyta Páskanna ósaurgadir, en nú, á sjálfri stórhátídinni, þegar mest átti vid ad hafa, eru þessir andligu herrar búnir ad tapa miklu af þessu tærilæti; hatrid til Jesú gaf þeim ecki stundir til ad hugsa úti þad, med því líka samvitskan tók til ad slá þá í upprisu hans, hvørri þeir vildu aldrei ádur trúa. Svo er sannleikurinn kroptugur til ad sannfæra, líka þá, sem hann forakta, og eptir forøktun sannleikans, fylgir óróssemi samvitskunnar og framferdi til ens verra, hvad og sést á dæmi Gydínga; þegar þeir voru eittsinn búnir ad inntaka hatur til Jesúm og kénnínga hans, vildu þeir endiliga láta hann heita falsara, sem réttiliga hefdi verid til dauda dæmdur, og alltsaman svik og lýgi, sem sagdist um hans upprisu, réru því øllum árum ad því, ad aldrei skyldi sá rómur á lopt komast, ad hann upprisinn væri, sem þá vissu ad allt mundi komast upp um sig; þeir fyribudu vottum hans ad vitna um þenna ómótmælanliga sannleika fyrir ødrum, auk heldur þeir medtæktu hann sjálfir, gátu ecki heldur setid á sér, ad láta merkjast, hvaraf þetta helzt kjæmi; eda hvad søgdu þeir vid postulana? Þér hafid uppfyllt Jerúsalem med ydar kénníngu, og viljid svo leida yfir oss þessa manns blód. Þetta tók nú snemma ad byrjast, einsog sjá má bædi af þessari bón um vaktina, og kaupunum, sem þeir áttu vid vardmennina, þegar þeir sáu sig ecki géta varist sannleikanum; í þessari þrá-

kélkni heldu þeir síðan áfram, og það allt til þessa dags, hvarfyrir réttvís dómur Guðs er yfir þá fallinn, að frá þeim er tekið Guðs ríki, en sjálfir þeir nú komnir útí heimskuliga og hlæiliga hjátru, þvertámóti ritníngunum, sem þeir fara með. Svo fer nú fyrir þeim, sem af þrálæti og forstockaðri blygðun samvitskunnar, vilja ecki gefa sannleikanum rúm, og er ecki síst hætt við þessari ólucku þeim kappgjørnu og dramblátu, sem einir þykjast hafa lykil vitskunnar, og þykir skømm að láta sannfæra sig, einkum þegar forakt og hatur til einhvørrar persónu situr á aðra síðu, og því skyldu allir forðast það eina sem annað. Mikið gjørði líka að verkum hjá Júðum, hatrið til Jesú allrahelgustu persónu; það sýndu þeir með því, að ecki einúngis ofsóktu þeir hann lifandi, heldur skammyrdtu þeir hann dauðann, sem er þó fárra ærligra manna siður, að leggja mikið íllt til óvina sinna, þegar þeir eru búnir að fyrikoma þeim; en hatur Gyðínga hafði engin takmørk, þeir héldu sømu grimd æfinliga einsog bræður þeirra Edómítar, og væri óskandi að ókostir þessir bryti sig ecki ennþá út sumstaðar, að menn seilðust inní aðra verøld með sína eitruðu túngu, til að grafa upp þá dauðu, þeim — eða réttara að segja — þeirra minníngu til óvirðíngar. Næmi hrósaði forðum sonarkonunum fyrir það, að þær hefðu sýnt miskun þeim framliðnu, hún hefir meint menn þeirra, sem dauðir voru; en eg ætla þessu megi nú umbreyta sumstaðar, þar, sem fólskan og hatrið lætur sig í ljósi við þá framliðnu, og er þó þvílíkt fávíslig íllmennska, því annaðhvørt er sá

daudi kominn til Guds hvíldar, elligar í kvalastad fordæmdra; ef þad fyrra: þá sómir þér lítt, sem syndugur ert, ad látast rifta upp brestum þeim, sem Gud er búinn ad afmá; en ef þad sídara: þá kémur lítid vid þig, ad dæma annarligann þjón, því hann stendur og fellur sínum Herra; hvad koma þeir vid mig, sem þar eru fyrir utan, ad eg skyldi þá dæma, er ecki svo, ad þér dæmid þá, sem fyrir innan eru? en Gud mun dæma þá, sem fyrir utan eru; takid sjálfir burt frá ydur þann, sem vondur er, segir Páll. Ef hønum nú þókti þad hlutsemi ad fella dóm yfir heidíngjana, en hitt væri naudsýnligra, ad varast þá, sem hneixlanliga gengju í kristinndóminum, svo madur sjálfur yrdi ecki leiddur í freistni, er þad þá ecki heimskuligri hlutsemi, ad leggja út í fánýtum dómum ávirdíngar þeirra, sem komnir eru á burt úr þessum heimi, en forsóma ad vara sig vid því vonda, sem madur dagliga sér og heyrir, sem eg ætla þó optast fylgi þeim, sem adgætnastir eru um annara ávirdíngar daudra og lifandi. Framar má hér merkja: dásamliga rádstøfun Guds, sem bædi vill og kann ad høndla þá vísu í þeirra slægsmunum; þessir hálærdu herrar sønnudu framkomid á sjálfum sér, þad, sem þeir lásu og Esajas skrifar í 8 kap. ályktid nockra rádagjørd, en þar verdi þó eckért af; hafid samtøk, en þad hafi þó engann stad, því hér er Emanúel. Gydíngar ætludu med vaktinni ad gyrda fyrir bodskap Jesú upprisu, en vaktin vard fyrst til ad vitna um þetta, þángad til þeir høfdu ecki annad rád, enn gjøra lýgina sér ad athvarfi, en urdu þó naudugir

viljugir ad láta Hyrníngar-steininn í Zíon standa; því öllum er kunnugt, hvornig þeir keyptu af vardmönnunum, ad ljúga þá ótrúligu lýgi ad lærisveinarnir hefdu stolid líkamanum á burt og brotid innsiglid, ad sofandi allri vaktinni, einsog þeim hefdi ecki verid þad hægra, hefdi gröfin aldrei voktud verid; en þeir hafa ecki gétad og géta aldrei til eylífdar komist fram med þessa lýgi, heldur reka, hafa rekid og munu reka nasir í þann ómótmælanliga mikla leyndardóm gudhrædslunnar, ad Gud er opinberadur í holdinu, réttlátur í andanum, sédur af Englunum, prédikadur heidíngjum, trúdur af heiminum og medtekinn í dýrdinni. Þannig ónýtir Gud allt rádabrugg ógudligra manna, þegar hönum þóknast, einsog Elíphas sagdi; þeir mega búa Guds börnum svo klókliga gyldru, sem þeir vilja, þeir falla samt á sínu eigin bragdi, þeirra skeyti gánga í þeirra hjarta, móti Drottni dugir eckert rád. Hann, sem tvístradi þeim vid Babel, sló Syros med blindni, setti krók í Zenacheríbs nasir, gjördi Achitóphels rád ad heimsku, hann lifir enn, ja, Drottinn lifir, og blessadur sé styrkur minn; brjóti þeir heilann, snúi þeir sér í ýmsar áttir, já, líka ef þeir vilja eda géta í ýmsar myndir, þad er mér nóg ad Drottinn er hinn sami og umbreytist ecki; eg vil á medan hlæa ad þeim og segja med Guds fólki: vér hrósum oss, ad Drottinn hjálpar oss, og í nafni Guds vors, setjum vér upp strídsmerkin. Hvad því sídara vidvíkur, þá segir sagan: ad vaktin sat yfir Krists gröf, og steininn, sem þeir Jóseph og Nikódemus veltu þar ad, var innsigladur, annadhvört med landsins innsigli, sem Pílatus hefir haft undir höndum, elligar med innsigli rádsins.

Hér vid legstad Jesú skulum vér nú, sála mín! seinast stadar nema med ockar íhuganir, því hann er ecki grafinn til ónýtis, heldur oss til huggunar, sem á hann trúum. Greftran hans var ljós vottur, ad hann hefdi vissuliga dáid; en — hann dó fyrir syndir vorar, því hefir hann og grafid þær med sér, þad er: stadfest med sinni greftrun, ad hann væri fyrir þær útgéfinn, og lagdi hann svo þessa sína greftrun, einsog ályktun og innsigli ofan á allt þad, sem hann leid í vorri þjónsmind; þarfyrir skal mín trú festa sig vid þad teikn, ad

þú, Mannsins Sonur! hefir verid þrjá daga og þrjár nætur í fylsuum jardar; syndir mínar fylgdu þér ad sonnu ofaní grøfina, en þær bilndu þar, og gátu ecki haldid þér, þegar þú, einsog øblugur Samson, ad upp: leystum daudans hørnnum, tókst aptur sálu þína, því er øll mín sekt ordin eptir í grøf þinni, þar skildist þú vid hana, Drottinn minn! í allann máta skilaliga og mér hügguuarsamliga; um þig finn eg skrifad, ad þú sért úrgéfinn fyrir mínar syndir og uppristinn mér til réttlætis, þaraf sé eg, ad einsog þú tókst vid syndum mínum og ert fyrir þær dáinn og grafinn, svo hefir þú géfid mér þitt réttlæti, í hvørju þú ert uppristinn, þú, mitt réttlæti, vísdómur, helgan og endurlausn! Lofad: ur sé Gud! syndin er grafin, þad er: eylífliga gleymd, eptir því, sem hann sjálfur segir hjá Jer. 31: Eg vil fyrirgéfa þeirra syndir, og aldrei framar í minni leggja þeirra misgjørdir; en þar, sem syndin er úr minni fallin, þar tilreiknast og réttlætid. Þetta er nú sú mikla huggan, sem vér, kristnir menn, høfum af þeirri stuttu dvøl vors Drottins í grøfinni, hvarum til merkis þeir innsigludu steininn, því þeir gjørdu þad í því tilliti, ad sídur skyldi verda raskad um grøfina; þá skal vor trú taka sér þá huggun af Krists innsiglduum legstad, ad hann hefir ad fullu og øllu til lykta leidt sitt forlíkun: ar embætti, svo nú er syndin innsiglud — henni verd: ur ecki rystad — misgjørdin forlíkud — hún tilreiknast ecki — innfært eylíft réttlæti — sem tilreiknast trúud: um — og innsigladar sjónirnar og spádomarnir, svo allt er fullkomnad og til lykta leidt, sem ádur var spád og ritad af vorum Medalgángara, og í hønum eru nú øll Guds fyrirheit já og Amen! Drottinn rífur þau aldrei upp, því hann er trúr og gétur ecki afneitad sjálfum sér, og þessa fullvissu setur Heilagur Andi einsog innsigli í allra þeirra hjørtu, sem hann ber vitni um sannann Guds barna rétt. Uppá þessi sannindi, uppá þessa stadfestu vil eg í Guds nafni óhræddur lifa og deya, því eg veit ad Drottins ord stendur stødugt eylíf: liga, og forgengur ecki, þó himin og jord forgángi. Nú skulum vér loksins kappkosta, ad færa oss þetta allt svo í nyt, ad vér óaflátanliga bidjum og ydugliga ástundum, ad dauda:krapturinn Jesú, í oss út af deydi

allar vondar girndir, og þá megum vér oss þess vænta ad syndir vorar verdi huldar, svo hvorki beri á þeim oss til fordæmíngar, né skadligra yfirráda, heldur munum vér ødlast krapt af hans upprisu til endurnýungar lífdagauna. Verum oss líka ad greftra hann andliga, þótt ecki gétum vér þad líkamliga, einsog Jósepħ og Nikódemus, þeir løgdu hann í nýa grøf, úthøggna í steini; hjarta vort er ad sønnu af náttúrunni steinhjarta, þó hefir Heilagur Andi búid þad svo til í endurfædíngunni, ad þad gétur herbergjad Jesúm; medtøkum hann því í þad hjarta, sem er hreinsad fyrir trúna, og verdur einsog nýr smídis-gripur Heilags Anda, dagliga hreinsad af allri fleckun holdsins og andans, útilokandi alla óvini krossins Krists, einsog rambyggiligt steinhús. Jesús var hreinu líni vafinn; trúin vor skal umfadma hann med øllum hans velgjørníngum, hvør vera skal hrein og gallalaus, verkandi fyrir kjærleikann. Jesús var smurdur dýrmætum smyrslum; vér skulum sitja med vorum ydrunar-tárum vid hans fætur, hlýdandi hans ordum, og kunngjørandi med ordi og verki hans dauda, þángad til hann kémur. O, minn Jesú! sem hvíldist í þinni grøf, ad afloknu endurlausnar-verkinu! tak þér hvíld og bústad í sálu minni, svo hún einnig hafi sína andliga rosemi í þér; þín grøf hefir verid innsiglud, lát mig einnig halda þínum Anda, med hvørjum eg hefi verid innsigladur uppá dag minnar endurlausnar; innsigli hann alla ávexti þinnar pínu í mínu hjarta og fæli burt Djøfulinn og allt þad, sem hindra kann ockar sambúd og innbyrdis sameiníng, þángad til vid samtengjumst ad fullu og øllu í eylífu lífi, og eg fæ þar ad sjá þá dýrd, sem þinn Fadir hefir þér géfid. Þér, Herra Jesú! þú Lambid Guds! sem borid hefir veraldarinnar syndir sé lof, heidur, prís og vald, frá eylífd til eylífdar, Amen!

Dýrd sé Fødur og Syni og Heiløgum Anda, svo sem hún var ad upphafi, er enn nú og vera mun, um allar aldir alda, Amen!